## FORMÁLI AÐ FYRSTU ÚTGÁFUNNI+

Frá því að "Kommúnistaávarp" þeirra Marx og Engels var gefið út 1848 og til þessa dags hefur baráttan milli hins byltingarsinnaða marxisma og hentistefnunnar - bæði á sviði pólitíkur og hugmyndafræði - snúist fyrst og fremst um eina spurningu: Er byltingin nauðsynleg til þess að gera grundvöll þjóðfélagsins sósíalískan eða ekki; eru þær aðstæður fyrir hendi, að hægt sé að gera byltinguna; getur hún farið fram með friðsamlegum hætti eða er byltingarsinnuð valdbeiting óhjákvæmileg?

Með kenningum sínum, sem skipta tugum ef ekki hundruðum hafa borgarastéttin og hentistefnumennirnir alltaf reynt að afneita þeirri ómótmælanlegu staðreynd, að grundvallar-móthverfa auðvaldsþjóðfélagsins sé móthverfan milli arðræningjanna og hinna arðrændu. Þeir hafa reynt að afneita stöðu og hlutverki verkalýðsstéttarinnar í sögunni og stéttabaráttunni sjálfri sem hinum ráðandi þætti í þróun og framsókn mannlegs samfélags. Markmið þeirra hafa alltaf verið að afvegaleiða öreigalýðinn hugmyndafræðilega, að hindra byltinguna, að viðhalda arðráni auðvaldsins og að tortíma marxismanum-lenínismanum, hinum sigursælu vísindum byltingarinnar og sósíalskrar uppbyggingar.

Allir þessir andstæðingar og féndur öreiga-

---

+ Á albönsku.

lýðsins og byltingarinnar hafa reynt að lýsa marxismann-lenínismann úreltan og að skapa ýmsar "kenningar", sem að sögn eru aðlagðar hinum nýju sögulegu aðstæðum, þeim breytingum, sem auðvaldið og heimsvaldastefnan hafa tekið og þróun mannlegs samfélags almennt séð.

Þannig lýsti Bernstein Marx úreltan og Kautsky - sem vísvitandi mistúlkaði umbreytingu kapítalismans í heimsvaldastefnu - afneitaði byltingunni. Fordæmi þeirra og aðferðum hafa allir nútíma endurskoðunarsinnar fylgt, allt frá Browder og Tító, Krúséff og "evrópukommúnistunum" til hinna kínversku "fræðimanna" "heimanna þriggja".

Undir því yfirskini, að þeir beiti marxismanum-lenínismanum og séu að þróa hann á "skapandi hátt" og aðlaga hann því nýja ástandi, sem ríki í heiminum um þessar mundir, reyna allir þessir andmarxistar að afneita hinni vísindalegu hugmyndafræði verkalýðsstéttarinnar og setja í hennar stað borgaralega hentistefnu.

Öreigalýðurinn, byltingarsinnarnir hinir raunverulegu marxísku-lenínísku flokkar þeirra hafa ætíð háð staðfasta og miskunnarlausa baráttu gegn nútíma endurskoðunarstefnu og hinum ýmsu straumum hennar og þessari baráttu mun aldrei linna.

Endurskoðunarsinnarnir,afturhaldssama borgarastéttin og flokkar þeirra halda því fram, að fræðikenning okkar, marxisminn-lenínisminn, sé kredda, jarðfastur steingervingur, og geti ekki lagað sig að aðstæðum nútímans, sem eru gegnsýrðar af lífi og hreyfingu. Marxisminn-lenínisminn er í raun eina fræðikenningin, sem býr yfir lífi og hreyfanleika. Það er vegna þess, að hann er fræðikenning verkalýðsstéttarinnar, framsæknustu stéttar þjóðfélagsins og þeirrar byltingarsinnuðustu, sem hugsar á réttan hátt, framleiðir hin efnislegu gæði og er sístarfandi.

Borgarastéttin og hugmyndafræðingar hennar reyna að sannfæra mannkynið um að marxisminn sé úreltur og úr takt við "nútímann". Markmiðið með

þessu er að berjast gegn hinni vísindalegu hugmyndafræði öreigalýðsins og að setja í hennar stað fræðikenningar, sem predika úrkynjað líf, þjóðfélag hömlulausrar úrkynjunar, hið svokallaða neysluþjóðfélag. Kenningarnar, sem halda því fram, að umgerð hins nýja þjóðfélags stöðugrar hreyfingar og framfara sé nú fundin, eru einnig til þess gerðar að berjast gegn hinni framsæknu, byltingarsinnuðu hugsun öreigalýðsins, á hugmyndafræðinni sem leiðir hann, og til þess að viðhalda kúgun og arðráni auðvaldsins.

Eins og Lenín hefur kennt okkur, þá er fræðikenning okkar þannig gerð, að hún dæmir og skilgreinir á réttan hátt aðferðir og leiðir stéttabaráttunnar. Hún er ætíð nátengd þeim starfrænu vandamálum, sem lífið fæðir af sér á hverju tímaskeiði. Þetta vopn hjálpar okkur að greina og skilja á réttan hátt þróunarbraut mannlegs samfélags á hverjum tíma, að greina og skilja á réttan hátt sérhver söguleg tímamót þjóðfélagsins og að hrinda í framkvæmd hinni byltingarsinnuðu umbreytingu á þjóðfélaginu.

Á 7.þingi sínu afhjúpaði flokkur okkar alla hina mismunandi endurskoðunarsinnuðu strauma, þar með talda kínversku kenninguna um "heimana þrjá". Þingið lagði áherslu á lífsnauðsyn marxismans-lenínisman fyrir sigur byltigarinnar, sósíalismans og frelsunar alþýðunnar og hafnaði ákveðið hinum borgaralegu-hentistefnusinnuðu kenningum og afstöðu til yfirstandandi tímabils í sögu heimsins. Þessar kenningar afneita byltingunni og verja arðrán auðvaldsins. Þingið lagði mikla áherslu á að engar þær breytingar hefðu átt sér stað í þróun auðvalds og heimsvaldastefnu, sem réttlættu "uppfinningar" og uppspuna endurskoðunarsinnanna. Staðföst gagnrýni og linnulaus afhjúpun á andbyltingarsinnuðum og andkommúnískum kenningum eru lífsnauðsyn til að verja marxismann-lenínismann, til að sýna fram á, að kenningar þeirra Marx, Engels, Leníns og Stalíns eru síungar og ætíð hin óskeik-

ula leiðsögn til framtíðarsigra.

Apríl, 1978.

## ATHUGASEMD VIÐ AÐRA ÚTGÁFU

Bókin "Heimsvaldastefnan og byltingin" var fyrst gefin út (á albönsku) í apríl 1978 til dreifinar innan flokksins.

Vegna óska þeirra kommúnista, sem lesið hafa bókina, er hún nú gefin út fyrir almenning. Ýmsir atburðir, sem átt hafa sér stað á tímabilinu frá fyrstu útgáfunni, hafa einnig verið teknir með.

Desember, 1978.

# Fyrri hluti

# I

## STJÓRNLIST HEIMSVALDASTEFNUNNAR OG NÚTÍMA ENDURSKOÐUNARSTEFNU:

Þegar 7.þing flokks Vinnunnar í Albaníu gerði greiningu á alþjóðaástandinu og stöðu byltingarhreyfingarinnar í heiminum, benti það á þá hættu sem byltingunni og frelsun alþýðunnar stafar af heimsvaldastefnunni og nútíma endurskoðunarstefnu. Þingið lagði áherslu á nauðsyn þess að heyja miskunnarlausa baráttu gegn þessum öflum og einnig lagði það áherslu á þann virka stuðning, sem nauðsynlegt er að veita marxískum-lenínískum hreyfingum í heiminum.

Þessi atriði eru afar mikilvæg vegna þess, að uppbygging sósíalismans, baráttan fyrir að efla alræði öreiganna og varnir föðurlandsins, er óaðskiljanleg frá alþjóðaástandinu og grundvallarstraumum í þróun heimsmála.

I dag stríða gegn marxismanum-lenínismanum voldug öfl, fulltrúar myrkursins, fulltrúar þrælkunar og arðráns á öreigunum og alþýðunni. Stór-

borgarastéttin og afturhaldið risu gegn og berjast við marxismann-lenínismann. Enn fremur bandarísk heimsvaldastefna og erindrekar hennar, sovéska sósíalheimsvaldastefnan og kínverska sósíalheimsvaldastefnan. Gegn hinni byltingasinnuðu hugmyndafræði okkar hafa einnig risið margs konar andbyltingarsinnaðir hugmyndafræðistraumar, svo sem sósíaldemókratíið og nútíma endurskoðunarstefnan.

I baráttu okkar gegn öllum þessum óvinum verðum við að byggja vandlega á marxísku-lenínísku fræðikenningunni og öreigalýð heimsins. Barátta okkar á fræðilega sviðinu mun verða sigursæl, þegar við gerum raunsanna, díalektíska greiningu á alþjóðaástandinu, á atburðum líðandi stundar og á markmiðum og tilgangi allra hinna virku þjóðfélagsafla, sem eru í andstöðu og baráttu hvert við annað. Vísindaleg greining á alþjóðaástandinu og glöggvun á stjórnlist byltingarbaráttunnar auðvelda okkur að finna rétta baráttuaðferð við breytilegar aðstæður, með það fyrir augum að vinna hverja orrustuna á fætur annarri. Þannig hefur flokkur okkar alltaf starfað.

Sósíalisminn á í baráttu við kapítalismann, öreigar heimsins eiga óumflýjanlega og án afláts í miskunnarlausri baráttu við hina kapítalísku borgarastétt. Alþýða heimsins berst við erlenda og innlenda kúgara. I baráttu sinni hefur öreigalýður heimsins að leiðarljósi marxísku-lenínísku hugmyndafræðina, þá hugmyndafræði sem útskýrir nauðsyn þessarar baráttu og virkjar öflin til orrustu. Þetta er orsök þess, að kapítalisminn og heimsvaldastefnan hafa ætíð háð hatramma baráttu gegn fræðikenningu þeirra Marx, Engels, Leníns og Stalíns.

Karl Marx uppgötvaði lögmál þjóðfélagsþróunarinnar, lögmál byltingarsinnuðu umbreytinganna, og þróun þjóðfélagsins frá lægri til æðri skipanar. Hann gerði vísindalega greiningu á einkaeigninni á framleiðslutækjum, á hinum kapítalísku dreifingar-

háttum og gildisaukanum, sem kapítalistinn slær eign sinni á. Hann skóp hina vísindalegu fræðikenningu um stéttir og stéttabaráttu og hann skilgreindi baráttuleiðir öreigalýðsins til að yfirbuga borgarastéttina; að mola auðvaldskerfið, að reisa alræði öreiganna og byggja sósíalískt þjóðfélag.

Ýmsir afturhaldssamir fræðimenn um víða veröld hafa leitast við á allan hátt að afneita fræðikenningu Marx, að henda skít í hana, að afskræma hana og hamast gegn henni. En þessari fræðikenningu, sem sannarlega er vísindaleg,hefur tekist að vera í fararbroddi framsækinnar, mannlegrar hugsunar. Hún hefur orðið sterkt vopn í höndum öreigalýðsins og alþýðunnar í baráttu þeirra við óvini sína.

Með því að nota marxísku fræðikenninguna og þróa hana fram á við, lét Lenín öreigalýðnum og framverði hans, marxíska-leníníska flokknum, í té vísindalega fræðikenningu um ástand heimsvaldastefnunnar og byltingu öreigalýðsins. Lenín þróaði marxismann, ekki einungis fræðilega, heldur einnig í verki. Með því að hagnýta kenningu Karls Marx var hann leiðtogi bolsévísku byltingarinnar og leiddi hana til sigurs. Verk Leníns voru þróuð fram á við af Stalín.

Sigur hinnar miklu, sósíalísku Októberbyltingar var fyrsta alvarlega kjaftshöggið fyrir heimsvaldastefnuna, kerfi heimsauðvaldsins. Hann markaði upphaf þeirrar almennu kreppu auðvaldsins, sem hefur sífellt dýpkað.

Sköpun og efling hins sovéska ríkis var geysilegur sigur, sem sýndi öreigalýðnum og alþýðunni, að óvin þann er þau horfðust í augu við, auðvald og heimsvaldastefnu, var hægt að sigra og eyða. Sovétríkin voru lifandi sönnun þess.

Októberbyltingin í Rússlandi olli heimsbandalagi auðvalds og heimsvaldastefnu miklu tjóni. I bræði sinni efldi þetta bandalag pólitísk, efnahagslega og hernaðarleg baráttutæki sín gegn hinu nýja ríki öreiganna og útbreiðslu marxísku-lenínísku hugmyndafræðinnar um víða veröld.

Heimsvaldasinnarnir, afturhaldssama borgarastéttin og sósíaldemókratí Evrópu og alls heimsins - í samvinnu við aðra flokka auðvaldsins - komu til leiðar stríðinu gegn Sovétríkjunum. Í samvinnu við Hitlerssinnana og ítölsku og japönsku fasistana áttu þessir aðilar einnig upptökin að seinni heimsstyrjöldinni.

En lífskraftur sósíalismans og marxismans-lenínismans, sem fóru með sigur af hólmi í styrjöldinni, varð enn augljósari.

Eftir sigurinn yfir fasismanum áttu sér stað miklar breytingar í heiminum, sósíalismanum í hag. Nýjum sósíalískum ríkjum var komið á fót í Evrópu og Asíu. Sósíalísku herbúðirnar, með Sovétríkin í broddi fylkingar, voru skapaðar. Þetta var nýr stórsigur fyrir sósíalismann og marxismann-lenínismann og enn einn meiri háttar ósigurinn fyrir auðvald og heimsvaldastefnu.

Auðvaldskerfið kom út úr seinni heimsstyrjöldinni skekið á grunni sínum og algerlega úr jafnvægi. Þýskaland, Japan og Italía komu út úr styrjöldinni sem sigruð veldi og með hruninn efnahag. Þau misstu sína fyrri pólitísku og hernaðarlegu stöðu. Önnur heimsvaldaríki, svo sem Stóra Bretland og Frakkland, höfðu veikst svo mjög, þrátt fyrir að þau væru sigurvegarar styrjaldarinnar, að stöðu þeirra sem stórvelda hafði hrakað gífurlega.

Hin almenna kreppa kapítalismans dýpkaði enn frekar með hruni nýlendukerfisins. I kjölfar þessa hruns spratt upp fjöldi nýrra þjóðríkja og frelsishreyfingunni gegn heimsvaldaokinu óx fiskur um hrygg í þeim löndum, sem enn voru nýlendur og hálf-nýlendur.

Þessar breytingar sköpuðu mjög hliðhollar aðstæður fyrir sigur sósíalismans á heimsmælikvarða. Vegna hinnar dýpkandi efnahagslegu og pólitísku kreppu og vaxandi óánægju fjöldans var fjöldi auðvaldsríkja á barmi byltingaruppreisnar. Við þessar stóralvarlegu og ótryggu aðstæður kom bandaríska heimsvaldastefnan þeim til hjálpar.

Gagnstætt hinum heimsvaldaríkjunum komu Bandaríki Ameríku tvíefld úr styrjöldinni. Þau höfðu ekki aðeins sloppið við allan skaða, heldur einnig rakað saman geysilegum auðæfum og stórlega aukið efnahagslegt og hernaðarlegt veldi sitt og tæknilega-vísindalega undirstöðu sína. Alið á blóði alþýðunnar varð þetta heimsveldi óskorað leadership+ (forystuafl, aths. þýðanda) alls auðvaldsheimsins. Bandaríska heimsvaldastefnan virkjaði öll afturhaldsöfl auðvaldsheimsins til bjargar hinu gamla, kapítalíska skipulagi og til að brjóta niður allar byltingar- og þjóðfrelsishreyfingar, sem ógnuðu því. Enn fremur til að útrýma sósíalísku herbúðunum og endurreisa kapítalismann í Sovétríkjunum og löndum alþýðulýðræðisins og til að koma á fót forræði sínu um allan heim.

Til að ná fram markmiðum sínum setti bandaríska heimsvaldastefnan – ásamt heimsauðvaldinu – í gang hina risavöxnu skrifræðis-hernaðarlegu ríkisvél sína, hið mikla efnahags-, tækni- og fjármálaveldi sitt og alla sína mannlegu krafta. Bandaríska heimsvaldastefnan studdi pólitíska, efnahagslega og hernaðarlega endurreisn hins hrjáða kapítalisma Evrópu og Japans. Og hún kom á fót – í stað hins hrunda nýlenduveldis – nýju kerfi til að arðræna og mergsjúga: ný-nýlendustefnunni.

Nú upphófst ofsafengin barátta gegn marxismanum-lenínismanum, gegn kommúnismanum og gegn Sovétríkjunum og öðrum sósíalískum löndum Evrópu og Asíu. I þessari baráttu virkjaði bandaríska heimsvaldastefnan hin fjölmörgu áróðurstæki sín, heimspekinga, hagfræðinga, félagsfræðinga, rithöfunda o.s.frv.

Á sama tíma fullkomnaði bandaríska heimsvaldastefnan opinskáa, árásargjarna stefnu sína. Á öllum sviðum samfélagsins í Bandaríkjum Ameríku – efnahaginum, stjórnmálunum, hugmyndafræðinni, hernum og vísindunum – geisaði stríðsæsing, hervæð-

+ Enska í frumtextanum.

ing og andkommúnismi.

Til að sigra sósíalismann og ráða niðurlögum byltingarsinnuðu frelsishreyfinganna, til að berjast gegn hinum sterku áhrifum marxísku-lenínisku fræðikenningarinnar og koma á laggirnar forræði sínu í heiminum, reyndi ameríska heimsvaldastefnan tvær leiðir.

Sú fyrri var leið árásar og hernaðarlegrar íhlutunar. Bandarísku heimsvaldasinnarnir komu á fót árásargjörnum hernaðarbandalögum á borð við NATO, SEATO o.s.frv. Þeir settu upp fjölda vopnaðra sveita á yfirráðasvæðum ýmissa erlendra ríkja, komu upp herstöðvum í öllum heimsálfum og byggðu upp öflugan herflota, sem þeir dreifðu um öll höf. Með það fyrir augum, að brjóta byltinguna á bak aftur, framkvæmdu þeir hernaðaríhlutun í Grikklandi, Kóreu, Víetnam og víðar.

Síðari leiðin var leið hugmyndafræðilegra árása og moldvörpustarfsemi gegn sósíalísku ríkjunum og flokkum kommúnista og verkalýðs og tilraunir til að koma í kring borgaralegri úrkynjun í þessum ríkjum og flokkum. Í þessum tilgangi beitti bandaríska heimsvaldastefnan og heimsauðvaldið allt mikilvirkum tækjum áróðurs og hugmyndafræðilegrar afvegaleiðslu.

En bandaríska heimsvaldastefnan og heimsauðvaldið, sem var að ná sér á strik aftur eftir stríðið, stóðu nú frammi fyrir öflugum andstæðingi. Það voru herbúðir sósíalismans, með Sovétríkin í fylkingarbrjósti, öreigalýður heimsins og frelsiselskandi alþýðan. Þau urðu því að gæta ítrustu varkárni gagnvart þessu jötunafli, sem hafði að leiðarljósi rétta og klára pólitík og sigursæla hugmyndafræði, sem hafði unnið og var enn að vinna hug og hjörtu verkamanna, byltingarsinna og annarra framfarasinnaðra afla.

Byltingarhreyfing öreiganna og frelsishreyfing alþýðunnar voru í sókn og efldust að styrk, þrátt fyrir tilraunir bandarísku heimsvaldastefnunnar og heimsafturhaldsins til að brjóta niður þessar

hreyfingar og útrýma þeim. Undir leiðsögn Stalíns tókst Sovétríkjunum á skömmum tíma að græða sár styrjaldarinnar og voru þau í skjótri framför á öllum sviðum; efnahagi, vísindum, tækni o.s.frv. Í löndum alþýðulýðræðisins styrktist staða sósíalismans. Kommúnistaflokkarnir og andheimsvaldasinnaða lýðræðishreyfingun juku áhrif sín meðal fjöldans.

Við þessar aðstæður beitti heimsvaldastefnan og heimsauðvaldið fyrir sig nútíma endurskoðunarsinnunum - og þeim júgóslavnesku meðal hinna fyrstu - í baráttu sinni gegn sósíalismanum og frelsishreyfingum alþýðunnar.

Það var hvalreki á fjörur heimsauðvaldsins þegar Júgóslavía, land kennt við alþýðulýðræði, lenti í andstöðu við Sovétríkin og átti í opinberum pólitískum og hugmyndafræðilegum átökum við þau, því þar með hafði eitt landanna innan hinna sósíalísku berbúða gert uppreisn. Heimsauðvaldið hampaði mjög þessum atburði, sem var því stuðningur í baráttu þess gegn sósíalisma og byltingu.

En þrátt fyrir að svik títóismans yllu málstað byltingar og sósíalisma miklum skaða, tókst títóistunum ekki að kljúfa herbúðir sósíalismans og hreyfingu kommúnista, eins og borgarastéttin og afturhaldið vonaði. Kommúnistar og byltingarsinnar um allan heim fordæmdu harðlega svikin og bentu á þá hættu, er stafaði af títóismanum, þessum erindreka heimsvaldastefnunnar gegn kommúnismanum.

Það voru Krúséff-endurskoðunarsinnarnir - þeir er hrifsuðu völdin í Sovétríkjunum eftir dauða Stalíns - sem unnu heimsauðvaldinu mest gagn í baráttu þess gegn sósíalismanum, byltingunni og marxismanum-lenínismanum. Uppkoma endurskoðunarklíku Krúséffs var stærsti pólitíski og hugmyndafræðilegi sigurinn fyrir stjórnlist heimsvaldastefnunnar eftir seinni heimsstyrjöldina. Í kjölfar gagnbyltingarsinnaða valdaránsins í Sovétríkunum komu geysileg fagnaðarlæti bandarísku heimsvalda-

sinnanna og allra annarra auðvaldsafla. Öflugasta sósíalíska ríkið, framvörður byltingarinnar og frelsunar alþýðunnar, var að yfirgefa leið sósíalismans og marxismann-lenínismann. Ljóst var, að Sovétríkin myndu, í fræðikenningu og verki, snúast yfir í grundvöll gagnbyltingar og kapítalisma.

Umskipti þau, er áttu sér stað í Sovétríkjunum, höfðu í för með sér klofning í herbúðum sósíalismans og heimshreyfingu kommúnista. Þau voru ein af aðalorsökunum fyrir útbeiðslu nútíma endurskoðunarstefnu í mörgum kommúnistaflokkum og undirbjuggu jarðveginn fyrir hana. Hin endurskoðunarsinnaða Krúséff-stefna skaðaði alvarlega málstað byltingarinnar og sósíalismans um víða veröld.

Nú hófst hatrömm barátta milli hinna raunverulegu marxista-lenínista og byltingaraflanna annars vegar og endurskoðunarstefnu Krúséffs hins vegar. Allt frá upphafi hélt Flokkur Vinnunnar í Albaníu hátt á lofti merki ósættanlegrar og stefnufastrar baráttu gegn sovésku endurskoðunarstefnunni og fylgismönnum hennar og varði af hugrekki marxismann-lenínismann, málstað sósíalismans og frelsunar alþýðunar, á sama hátt og hann hafði ætíð barist af einbeitni gegn júgóslavnesku endurskoðunarstefnunni. Um allan heim risu einnig hinir raunverulegu marxistar-lenínistar og byltingarsinnar gegn svikum krúséffsinna. Úr röðum hins byltingarsinnaða öreigalýðs ýmissa landa uxu fram nýir marxískir-lenínískir flokkar, sem öxluðu þá þungu byrði, sem var leiðsögn í baráttu verkalýðsins og alþýðunnar gegn borgarastéttinni, heimsvaldastefnunni og nútíma endurskoðunarstefnu.

Sú von heimsvaldastefnunnar og endurskoðunarstefnunnar, að geta endanlega útrýmt sósíalismanum bælt niður hina raunverulegu heimshreyfingu kommúnista og brotið á bak aftur baráttu alþýðunnar, varð að engu. Krúséffsku endurskoðunarsinnarnir afhjúpuðu fljótlega and-marxískt og gagnbyltingarsinnað eðli sitt. Alþýðan sá að Sovétríkjunum hafði verið umbreytt í heimsvaldasinnað stórveldi,

sem barðist við Bandaríki Ameríku um heimsyfirráð. Stórveldi sem ásamt bandarísku heimsvaldastefnunni, var orðið annar meiri háttar andstæðingur byltingar, sósíalisma og alþýðu heimsins.

Á hinn bóginn sýndi hin alvarlega efnahagslega, fjármálalega, hugmyndafræðilega og pólitíska kreppa, sem geisaði um allan hinn kapítalíska og endurskoðunarsinnaða heim, ekki aðeins hina áframhaldandi rotnun auðvaldskerfisins og óumbreytanlegt kúgunar- og arðránseðli þess, heldur afhjúpaði hún einnig lýðskrum og hræsni allra nútíma endurskoðunarsinna, sem fegruðu auðvaldsskipulagið.

En þegar hin byltingarsinnaða hreyfing var í vexti og að styrkjast um allan heim, þegar auðvaldið varð sífellt aðkrepptara í greipum kreppunnar og þegar krúséff-endurskoðunarstefnan og aðrar greinar nútíma endurskoðunarstefnu voru að afhjúpast í augum öreigalýðsins og alþýðunnar, þá steig kínverska endurskoðunarstefnan opinskátt fram á sjónarsvið heimsmálanna. Hún varð náinn bandamaður bandarísku heimsvaldastefnunnar og alþjóðlegu borgarastéttarinnar í því að kæfa byltingarbaráttu öreiganna og alþýðunnar og vinna skemmdarverk gegn henni.

Um þessar mundir hefur skapast mjög flókið ástand í heiminum. Á alþjóðasviðinu eru í dag að verki ýmis heimsvalda- og sósíalheimsvaldaöfl, sem annars vegar berjast sameiginlega gegn byltingunni og frelsun alþýðunnar og hins vegar keppa og kljást innbyrðis um markaði, áhrifasvæði og yfirráð. Í viðbót við sovésk-amerísku deilurnar er nú um að ræða útþenslukröfur kínversku sósíalheimsvaldastefnunnar, rángjarnar ætlanir japanskrar hernaðarstefnu, sókn vesturþýsku heimsvaldastefnunnar í lífsrými og hatramma baráttu Efnahagsbandalags Evrópu sem hefur snúið augliti sínu að hinum gömlu nýlendum.

Allir þessir þættir hafa enn kynt undir hinum fjölmörgu móthverfum í heimi auðvalds og endurskoðunarstefnu. Á sama tíma hefur títóísku end-

urskoðunarstefnunni, þeirri sovésku kínversku og annarri endurskoðunarstefnu ekki tekist að útrýma líkum á byltingu og frelsun alþýðunnar, heldur er byltingin um það bil að taka nýtt stökk fram á við eftir tímabundinn afturkipp. Hún mun sannarlega brjótast áfram á þeirri braut, sem sagan hefur ætlað henni, og sigra um víða veröld.

Ekkert getur bjargað heimsvaldastefnu, auðvaldi og endurskoðunarstefnu frá miskunnarlausri hefnd öreigalýðsins og alþýðunnar, ekkert getur forðað þeim frá djúpstæðum, óleysanlegum móthverfum, endalausum kreppum og byltingum; hinum óumflýjanlegu endalokum þeirra.

Það er einmitt þetta ástand, sem knýr heimsvaldastefnuna til að leita nýrra leiða, til að skapa nýja stjórnlist og baráttuaðferðir með það fyrir augum að forðast hörmungarnar, sem bíða hennar.

## STJÓRNLIST HEIMSVALDASTEFNUNNAR

Bandaríska heimsvaldastefnan og önnur auðvaldsríki hafa barist og berjast enn fyrir að viðhalda heimsyfirráðum sínum. Þau berjast til að verja auðvaldskerfið og ný-nýlenduskipulagið og til að komast út úr þeirri miklu kreppu, sem heldur þeim í greipum sér, með minnsta mögulegu tapi. Þau hafa leitast við og leitast enn við að koma í veg fyrir að alþýðan og öreigalýðurinn fullnægi sinni byltingarsinnuðu frelsisþrá. Bandaríska heimsvaldastefnan, sem drottnar yfir bandamönnum sínum pólitískt, efnahagslega og hernaðarlega, hefur með höndum aðalhlutverkið í baráttunni fyrir að ná þessum markmiðum.

Fjandmenn byltingarinnar og alþýðunnar vilja láta líta svo út, að vegna breytinga, sem hafa átt sér stað í heiminum og þeirra ósigra, sem sósíalisminn hefur beðið, hafi nú skapast aðstæður algjörlega frábrugðnar þeim, sem þekkst hafi fyrr. Þrátt fyrir hatrammar innbyrðis móthverfur leitast þess vegna bandaríska heimsvaldastefnan,

auðvaldsborgarastétt heimsins, sovéska sósíalheimsvaldastefnan og kínverska sósíalheimsvaldastefnan, nútíma endurskoðunarstefna og sósíaldemókratíið við að skapa sér modus vivendi (lífsform, aths. þýðanda), úrkynjað "nýtt þjóðfélag", í þeim tilgangi að halda borgaralega auðvaldskerfinu gangandi, afstýra byltingum og til að halda áfram kúgun sinni og arðráni á alþýðunni í nýju formi og með nýjum aðferðum.

Heimsvaldastefnan og auðvaldið eru farin að skilja, að þau geta ekki lengur notað fyrri aðferðir til að arðræna alþýðu heimsins. Þess vegna verða þau - að því tilskildu að kerfi þeirra sé ekki ógnað - að gefa eftir eitthvað, sem ekki skaðar þau, en heldur fjöldanum í fjötrum. Þetta er það sem heimsvaldastefnan og auðvaldið vilja gera með þeim fjárfestingum og lánum, sem þau dreifa til þeirra ríkja þar sem áhrif þeirra hafa skotið rótum, eða með hernaði, þ.e.a.s. staðbundnu stríði, annað hvort með beinni þátttöku eða með því að etja einu ríki gegn öðru. Staðbundnar styrjaldir gera þau lönd, sem falla í gildru þeirra, enn undirorpnari yfirráðum heimsauðvaldsins.

Allir "fræðimenn" í þjónustu heimsauðvaldsins, í austri og vestri, leitast við að finna formúluna fyrir þessu "nýja þjóðfélagi". Um þessar mundir hafa þeir þessa "nýju" gerð í hinu auðvaldsendurskoðunarsinnaða þjóðfélagi Sovétríkjanna, sem er ekkert annað en úrkynjað þjóðfélag, þeir hafa fundið hana í auðvaldskerfi júgóslavneskrar "sjálfsstjórnunar" og í sumum hinna svokölluðu sósíalískt sinnuðu ríkisstjórna "þriðja heimsins". Þeir reyna einnig að finna kapítalískt "nýtt þjóðfélag" í kínverska afbrigðinu, sem nú er að krystallast.

Í stefnuyfirlýsingu Carters forseta frá 22. maí 1977 - þar sem hann kynnti aðalatriðin í svonefndri nýrri stefnu Bandaríkja Ameríku - er það ljóst, að almenn grundvallarleg einkenni þessarar "nýju stefnu" við núverandi aðstæður er barátta

þessa stórveldis í viðureign við öreigabyltinguna og þjóðfrelsisstríð alþýðunnar. Alþýðunnar, sem vill frelsa sig undan oki hins mikla heimsauðvalds sérstaklega undan bandarísku heimsvaldastefnunni og sovésku heimsvaldastefnunni.

Eins og við höfum áður bent á, leitar auðvaldsheimurinn að leið út úr völundarhúsinu, jafnvel þótt einungis væri um tímabilsbundna lausn að ræða. Auðvitað reynir bandaríska heimsvaldastefnan að finna þess leið út og jafnvel að hafa samvinnu við sovésku sósíalheimsvaldastefnuna, við NATO-bandamenn sína, við Kína sem og við önnur iðnvædd auðvaldsríki. Carter ákallaði Austurlönd, Vesturlönd og OPEC-löndin og fór fram á að þau ynnu saman og "hjálpuðu á virkan hátt fátæku löndunum." Bandaríska heimsvaldastefnan reynir að láta þessa samvinnu líta út sem eina andsvarið við styrjöld, eina möguleikann til að stöðva styrjaldir.

Nú, sagði Bandaríkjaforsetinn í ræðu sinni, "höfum við losnað undan hinni stöðugu kommúnistahræðslu, sem einu sinni fékk okkur til að umfaðma hvern þann einræðisherra, sem haldinn var sömu hræðslu".

Þegar Carter, þessi tryggi fulltrúi blóðugustu heimsvaldastefnu okkar tíma, talar um að "losna undan kommúnistahræðslunni" þá á hann auðvitað við kommúnisma að hætti Júgóslavíu, að hætti Krúséffs og að hætti Kína, sem einungis bera kommúníska grímu. En borgarastéttin hefur ekki og mun ekki losna undan hræðslunni við raunverulegan kommúnisma. Þvert á móti, heimsvaldastefnunni hefur alltaf staðið ógn af raunverulegum kommúnisma og hann mun jafnvel verða þeim enn meiri ógnvaldur. Það er þessi ótti og áhyggjur, sem knýja heimsvaldasinna og endurskoðunarsinna hvora í annars faðm, til að samræma áætlanir sínar og finna bestu leiðirnar til að framlengja líf kúgunar- og arðránsaðstöðu sinnar. Á þessum tímum djúprar efnahagslegrar, pólitískrar og hernaðarlegrar kreppu reyna heimsvaldasinn-

ar Bandaríkjanna að treysta þá sigra heimsvaldastefnunnar, sem leiddu af svikum nútíma endurskoðunarsinnanna í Sovétríkjunum, í þeim löndum, sem áður bjuggu við alþýðulýðræði og í Kína. Þeir reyna líka að nota þá sem víggirðingu gegn byltingu og byltingarsinnaðri frelsisbaráttu öreiganna og alþýðunnar.

Forseti Bandaríkjanna viðurkennir einnig, að vegna kommúnistahræðslunnar hafi auðvaldið og heimsvaldastefnan tekið upp á sína arma einræðisherra á borð við Mussolini, Hitler, Franco o.fl. Fasíska einræðið í löndum þeirra var síðasta vopn auðvaldsins og heimsvaldastefnunnar gegn Sovétríkjunum á tímum Leníns og Stalíns og gegn heimsbyltingu öreiganna.

Forseti Bandaríkjanna lýsir því hofmóðugur yfir, að kommúnistaríkin (les: endurskoðunarsinnaríkin) hafi breytt afstöðu sinni og það er rétt hjá honum. Hann segir, að "þetta kerfi gæti ekki varað að eilífu óbreytt." Auðvitað ruglar hann svikum endurskoðunarsinna saman við kommúnismann. Bandaríska heimsvaldastefnan lítur á krúséffska sovétkerfið sem sigur fyrir heimsauðvaldið og dregur af þessu þá ályktun, að hættan á árekstri við Sovétríkin hafi minnkað, þótt hún afneiti ekki móthverfunum og baráttunni um yfirráð við þau.

Samkvæmt Carter ætlar Bandaríkjastjórn að gera allt til að viðhalda status quo. Með öðrum orðum þýðir þetta, að bandaríska heimsvaldastefnan og hin heimsvaldaríkin muni leitast við að viðhalda og styrkja stöðu sína í heiminum. Um leið vona þau að þau geti - innan þessa status quo - leyst í sameiningu þann ágreining, sem gæti átt sér stað og sem í raun á sér stað gagnvart vinsamlegum ríkjum og bandamönnum þeirra.

Af þessu dregur Carter þá ályktun, að "stefna Bandaríkjanna verður að grundvallast á nýrri og breiðari samtvinnun alheims-, svæðisbundinna og tvíhliða millilanda-hagsmuna." Eftir að hafa skilgreint þetta nánar endurtekur hann, að

"Bandaríkin munu leggja allt sitt af mörkum til NATO, sem verða að vera sterk samtök. Það verða þau að vera vegna þess, að bandalag Bandaríkjanna við hin miklu, iðnvæddu lýðræðisríki er óumflýjanlegt, þar sem það ver hin sömu verðmæti og þess vegna ættum við öll að berjast fyrir betra lífi."

Eins og sjá má eru Bandaríkin einnig að sameinast sovésku nútíma endurskoðunarsinnum, kínversku endurskoðunarsinnunum og hinum "miklu iðnvæddu lýðræðisríkjum" í tilraunum þeirra til að skapa "nýjan raunveruleika", "nýja veröld". Með öðrum orðum, Bandaríkin eru með lýðskrumi að reyna að aðlaga stefnu sína hinum nýju aðstæðum. Með það fyrir augum að viðhalda status quo, að stöðva framrás sovéskra yfirráða, að veikja sovésku sósíalheimsvaldastefnuna og að vinna Kína á sitt band svo að það verði sífellt bundnara herbúðum heimsvaldastefnunnar, með það fyrir augum að bæla niður byltingarbaráttu öreiganna og alþýðunnar, verða Bandaríkin að gera ýmsar yfirborðslegar pólitískar tilslakanir. En þau gera engar tilslakanir á þeirri stefnu að nota þjóðarauðæfi annarra landa í eigin þágu og iðnríkjanna.

Þetta er hin "nýja stefna" Bandaríkjanna.Okkur er það ljóst, að þetta er ekki á nokkurn hátt ný stefna, heldur gömul, rángjörn, ný-nýlendusinnuð þrælkunarstefna, sem hefur það markmið að arðræna þjóðirnar og auðæfi þeirra, að bæla niður byltingar og þjóðfrelsisstríð. Bandaríska heimsvaldastefnan ætlar nú að gefa þessari gömlu,stöðnuðu stefnu nýtt og ferskt yfirbragð, til að hervæða andbyltingaröfl - hvort sem þau eru við völd eða ekki - til baráttu gegn kommúnismanum, sem leiðir alþýðuna og öreigana fram til þjóðfrelsisstríða og byltingar.

Gagnstætt kínversku kenningunni um "heimana þrjá", sem er sviksamleg auðvalds- og endurskoðunarkenning, er bandaríska heimsvaldastefnan enn í sókn. Hún leitast við að viðhalda sínum gömlu bandalögum og að skapa ný í eigin þágu og gegn

sovésku sósíalheimsvaldastefnunni eða hverjum þeim, sem ógnað gæti völdum hennar. Sérstaklega reynir hún að styrkja NATO, sem verið hafa og eru enn árásargjörn pólitísk og hernaðarleg samtök.

Í öllum sínum stjórnlistarlegu tilfæringum grafa Bandaríkin ekki undan tengslum sínum við Sovétríkin nema að vissu marki og þau halda áfram SALT-viðræðunum við þau, þrátt fyrir að Carter lýsti því yfir, að Bandaríkin ætluðu að halda áfram smíði nifteindasprengja. Þrátt fyrir þetta má sjá augljósa tilhneigingu hjá Bandaríkjunum og Sovétríkjunum til að viðhalda status quo.

Meðan Bandaríkin leitast við að viðhalda þessu status quo með Sovétríkjunum, eru þau auðvitað um leið i andstöðu við þau. Þessar móthverfur hafa þó ekki enn náð því markmiði að réttlæta kínverska viðkvæðið um að stríð sé á næsta leiti í Evrópu.

Um þessar mundir styður bandaríska heimsvaldastefnan Kína til aukins styrks hernaðarlega og efnahagslega. Bandarískt auðmagn streymir inn í Kína og ekki aðeins helstu bankar Ameríku, heldur einnig bandaríska ríkið, fjárfesta í stórum stíl með lánum.

Bandaríkin leggja mikið undir í Kínaspilinu, en hafa þó vaðið fyrir neðan sig. Á sama tíma halda þau áfram að spila Japansspilið. Bandaríkin vilja halda vinskapinn við Japan, vilja að um gagnkvæma aðstoð sé að ræða, þannig að Japan - með tilliti til fyrirætlana Bandaríkjanna - styrkist og verði sem annað Israel í Austurlöndum fjær, á Kyrrahafssvæðinu, Suðaustur-Asíu og jafnvel, ef þess er þörf og þegar sá tími kemur, í árekstrum sínum við Kína e.t.v.

Þannig var ástand mála þegar Kína undirritaði vináttu- og samstarfssamninginn við Japan. En þessi samningur er á ýmsan hátt farinn að taka á sig hættulegar og óhugnanlegar myndir fyrir framtíð heimsins. Hann mun gera það í framtíðinni, vegna þess að náinni efnahags- og hernaðarsamvinnu verður komið á fót milli Kína og Japans, með það fyrir augum að skapa aðskilin og sam-

eiginleg áhrifasvæði sérstaklega í Asíu, Ástralíu og á öllu Kyrrahafssvæðinu. Að sjálfssögu verður þessi samvinna í fyrstu byggð upp í skugga bandalagsins við Bandaríkin og stríðsáróðursins gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni. Höfuðmarkmið þessa kínversk-japanska bandalags er að halda aftur af og veikja Sovétríkin, hrekja þau frá Síberíu, Mongólíu og fleiri stöðum og að útrýma áhrifum þeirra í allri Asíu og Eyjaálfu og öllum aðildarríkjum ASEAN.

Þetta eru stjórnlistarleg markmið bandarísku heimsvaldastefnunnar, en einnig um leið kínversku heimsvaldastefnunnar og japönsku hernaðarstefnunnar. Bandaríkin munu reyna að aðstoða Kína og Japan og hafa stjórn á þeim, að styrkja bandalagið við þau og etja þeim gegn Sovétríkjunum. En sá möguleiki er einnig fyrir hendi, að sá dagur komi að hin djöfullega, hræsnisfulla,heimsveldabyggjandi, staðfestulausa stefna í heimsvaldahernaðaranda, sem Kína og Japan reka, snúist gegn stórveldinu, sem hjálpaði þeim á legg, rétt eins og gerðist með Þýskaland áður, þegar það varð hræðilegt fasistaríki, réðist gegn bandamönnum Bandaríkjanna og fór jafnvel í stríð við þá sjálfa á tímum Hitlers.

Bandaríkin munu reyna að halda jafnvægi milli Kínaveldis og hins rísandi japanska veldis. En einn góðan veðurdag munu þau missa tökin á þessu jafnvægi og kínverska-japanska heimsvalda-hernaðarbandalagið verður ógnun, ekki aðeins fyrir Sovétríkin, heldur einnig Bandaríkin sjálf. Það er vegna þess, að hagsmunir þessara tveggja stóru heimsvaldalanda Asíu, Japans og Kína, rekast á í áformum þeirra um yfirdrottnun í Asíu og víðar og um veikingu bandarísku heimsvaldastefnunnar og sovésku sósíalheimsvaldastefnunnar.

Í NATO hafa Bandaríkin drottnunaraðstöðu og stórkostleg hernaðarleg, pólitísk og efnahagsleg áhrif. Samt sem áður, og þrátt fyrir samstöðuna, hefur komið upp misræmi innan NATO á grundvelli áhrifa hinna ýmsu aðildarlanda og þess hvernig

eitt ríki hefur skotið öðru ref fyrir rass.

Þýska sambandslýðveldið styrkist ár frá ári innan þessara samtaka. Efnahagsleg og pólitísk völd þess og vopnaverslun þess ná út fyrir mörk Efnahagsbandalags Evrópu. Nú getum við sagt, að stefna V-Þýskalands sé að taka á sig mynd alræðislegrar, fasískrar hefndarstefnu, í þeirri viðleitni að skapa sér eigin áhrifasvæði. Auðvitað passar þetta hvorki Bretlandi né Frakklandi, hinum tveimur upprunalegu félögum Bandaríkjanna í NATO.

Vestur-Þýskaland leitar eftir endursameiningu hinna tveggja þýsku ríkja með það fyrir augum að skapa valdamikið ríki með miklum hernaðarmætti, sem sé ógnun við sovésku sósíalheimsvaldastefnuna og sem geti í bandalagi við Kína og Japan - komi til stórátaka - orðið hættulegt öllum heiminum. Það er að mynda mjög náin tengsl við Kína, sérstaklega. Af Evrópuríkjum er það fremst í flokki varðandi verslunarviðskipti við Kína. Vestur-Þýskaland er stærsti og voldugasti aðilinn í Evrópu hvað varðar útvegun lána, tækni og nútíma hergagna til Kína.

Bretland og Frakkland hafa einnig mikinn áhuga á Kína og þessvegna þróa þau tengsl sín við það. Samt sem áður hefur Kína meiri áhuga á Bonn. Bretland og Frakkland hafa áhyggjur af þessu, vegna þess að með auknum styrk gæti þýska sambandslýðveldið orðið enn meira drottnandi yfir öðrum aðilum NATO og Efnahagsbandalags Evrópu. Af þessu sjáum við, að bæði breska og franska stjórnin tala um vináttu og tengsl við Kína, en þau gleyma ekki að taka fram, að þau vilja þróa áfram efnahagsleg og vinsamleg samskipti við Sovétríkin einnig. Þetta segir Bonn líka en þróar af ákafa tengsl við Kína, sem gefur sig út fyrir að vera helsti óvinur Sovétríkjanna. Fasistahópur í kringum Strauss, hitlerísku höfðingjarnir, hinir öflugu raunverulegu hefndarsinnar í Bonn, kynna sig opinskátt sem nánustu bandamenn Kína. Þessvegna lítur Kína

Sambands-Þýskaland öðrum augum en það lítur Frakkland og Bretland.

## STJÓRNLIST SOVESKU SÓSÍALHEIMSVALDASTEFNUNNAR

Eftir að hafa náð ríkisvaldinu í Sovétríkjunum í sínar hendur settu krúséffsinnarnir sér það höfuðmarkmið að brjóta niður alræði öreiganna, endurreia auðvaldið og að umbreyta Sovétríkjunum í heimsvaldasinnað stórveldi.

Eftir að Krúséff og hópurinn í kringum hann höfðu treyst sig í sessi að Stalín látnum byrjuðu þeir á því að ráðast gegn hugmyndafræði marxismans-lenínismans. Þeir hófu baráttuna fyrir því að velta lenínismanum úr sessi með því að ráðast gegn Stalín og beina gegn honum öllum þeim rógi og viðbjóðslega áróðri, sem borgarastétt heimsins hafði lengi framleitt. Þannig urðu krúséffsinnarnir talsmenn og framkvæmendur óska auðvaldsins gegn marxísku-lenínisku hugmyndafræðinni og byltingunni í Sovétríkjunum. Þeir hófu að vinna skipulega að útrýmingu gervalls hins sósíalíska skipulags í Sovétríkjunum. Þeir börðust fyrir breytingum í frjálsræðisátt á sovétkerfinu, fyrir að breyta ríki alræðis öreiganna í borgaralegt ríki og fyrir að breyta hinum sósíalíska efnahag og menningu í kapítalískan efnahag og menningu.

Sovétríkin, sem höfðu breyst í endurskoðunarsinna-land, í sósíalheimsvaldaríki, byggðu upp eigin stjórnlist og baráttuaðferðir. Krúséffsinnarnir sköpuðu stefnu, sem gerði þeim kleift að dulbúa starfsemi sína með lenínískum orðaforða. Þeir framreiddu hina endurskoðunarsinnuðu hugmyndafræði sína á þennan hátt til að svíkja hana inn á öreigana og alþýðuna sem "marxisma-lenínisma hins nýja tímabils", til að geta sagt kommúnistum innan og utan landisins, að "byltingin héldi áfram í Sovétríkjunum við hinar nýju aðstæður í pólistískri, hugmyndafræðilegri og efnahagslegri þróun heimsins". Og ekki aðeins að þessi bylting

héldi áfram, heldur einnig að landið væri að komast á skeið uppbyggingar hins stéttlausa, kommúníska þjóðfélags, þar sem flokkurinn og ríkið væru að deyja út.

Flokkurinn var sviptur því aðalsmerki að vera framvörður verkalýðsstéttarinnar, að vera hið eina leiðandi pólitíska afl ríkisins og þjóðfélagsins, og var breytt í flokk, þar sem flokksbroddarnir og KGB voru alls ráðandi. Sovésku endurskoðunarsinnarnir kölluðu flokk sinn "flokk allrar þjóðarinnar" og breyttu honum þannig, að hann gat ekki lengur verið flokkur verkalýðsstéttarinnar, heldur flokkur hinnar nýju, sovésku borgarastéttar.

Á hinn bóginn predikuðu sovésku endurskoðunarsinnarnir krúséffska, friðsamlega sambúð sem almenna línu alþjóðlegu kommúnistahreyfingarinnar og lýstu yfir "friðsamlegri samkeppni við bandarísku heimsvaldastefnuna" sem leiðinni til sigurs sósíalismans í Sovétríkjunum og öðrum löndum. Þeir lýstu því yfir, að öreigabyltingin hefði komist á nýtt stig; að hún gæti einnig sigrað eftir öðrum leiðum en þeirri, að öreigarnir tækju ríkisvaldið með ofbeldi. Samkvæmt þeim var hægt að yfirtaka ríkisvaldið með friðsamlegum, þingræðislegum og lýðræðislegum aðferðum, fyrir tilstilli umbóta.

Með því að beita fyrir sig nafni Leníns og Bolsévíkaflokksins gerðu krúséffsku endurskoðunarsinnarnir allt, sem í þeirra valdi stóð til að þröngva þessari andmarxísku línu sinni, þessari endurskoðun á marxísku-lenínísku fræðikenningunni á öllum sviðum, upp á alla kommúnistaflokka heims. Þeir vildu, að kommúnista- og verkalýðsflokkar heimsins tækju upp þessa endurskoðunarsinnuðu línu og umbreyttu sér í andbyltingarsinnaða flokka, í viljalaus verkfæri alræðis borgaranna, til að þjóna auðvaldinu.

En þessu markmiði tókst þeim ekki fyllilega að ná, fyrst og fremst vegna þess að Flokkur Vinnunnar í Albaníu var óhagganlegur í staðfastri beitingu marxismans-lenínismans og vörnum gegn flekkun hans.

Á sama tíma var Kommúnistaflokkur Kína einnig í andstöðu við krúséffsinnana, en það var, eins og staðreyndir málsins sýna, ávöxtur allt annarra markmiða og tilgangs en þeirra, sem hvöttu Flokk Vinnunnar í Albaníu til að kasta sér út í baráttuna gegn krúséffsku endurskoðunarstefnunni.

Með valdatöku sinni lögðu krúséffsinnarnir einnig grunninn að alþjóðapólitík sinni. Rétt eins og bandaríska heimsvaldastefnan grundvallaði sovéska sósíalheimsvaldastefnan alþjóðapólitík sína á útþenslu og yfirdrottnun með tilstyrk vígbúnaðarkapphlaupsins, þvingana, fjárkúgunar og hernaðarlegri, efnahagslegri og hugmyndafræðilegri árásarstefnu. Markmið þessarar stefnu var að koma á fót drottnun sósíalheimsvaldasinna um víða veröld.

Í Comecon-löndunum styðjast Sovétríkin við dæmigerða ný-nýlendustefnu. Efnahag þessara landa hefur verið umbreytt í útibú frá sovéskum efnahag. Varsjárbandalagið hjálpar Sovétríkjunum að undiroka þessi lönd og gerir þeim kleift að hafa þar öflugan herstyrk, sem er í engu frábrugðinn hernámsliði. Varsjárbandalagið er árásargjarnt hernaðarbandalag, sem þjónar þeirri stefnu þvingana, fjárkúgunar og hernaðaríhlutunar, sem sovéska sósíalheimsvaldastefnan stendur fyrir. Hinar endurskoðunar-heimsvaldasinnuðu "kenningar" um "sósíalískt sambýli", "sósíalíska verkaskiptingu", "takmarkað sjálfræði", "sósíalíska efnahagslega innlimun" o.s.frv. þjóna einnig þessari ný-nýlendustefnu.

En sovéska sósíalheimsvaldastefnan lætur sér ekki nægja drottnun sína yfir fylgiríkjum sínum. Eins og hin heimsvaldaríkin berjast Sovétríkin fyrir nýjum mörkuðum, fyrir áhrifasvæðum, til að fjárfesta auðmagn sitt í ýmsum löndum, til að einoka hráefnalindir, til að útvíkka ný-nýlendustefnu sína í Afríku, Asíu, Rómönsku Ameríku og víðar.

Sovéska sósíalheimsvaldastefnan á sér heila stjórnlistarlega áætlun, sem inniheldur röð efnahagslegra, pólitískra, hugmyndafræðilegra og hernaðarlegra aðgerða í þeim tilgangi að auka útþenslu sína og yfirdrottnun.

Á sama tíma vinna sovésku endurskoðunarsinnarnir að því að grafa undan byltingu og frelsisstríði alþýðunnar með nákvæmlega sömu aðferðum og meðulum og þeim, sem bandaríska heimsvaldastefnan notar.

Vanalega starfa sósíalheimsvaldasinnarnir í gegnum verkfæri sín, endurskoðunarsinnuðu flokkana. Með tilliti til tækifæra og kringumstæðna reyna þeir þó einnig að kaupa upp og múta valdaklíkum í vanþróuðum löndum, bjóða efnahagslega "aðstoð", sem leiðir til þrælkunar, með það fyrir augum að ná fótfestu í þessum löndum. Þeir æsa til vopnaðra árekstra milli mismunandi klíkna, takandi afstöðu með einni eða annarri þeirra, skipuleggja samsæri og uppreisnir til að koma sovétsinnuðum stjórnum til valda, og grípa jafnvel til beinnar hernaðaríhlutunar eins og þeir gerðu með Kúbönum í Angóla, Eþíópíu og víðar.

Sovésku sósíalheimsvaldasinnarnir framkvæma íhlutun sína, drottnunar- og ný-nýlendusinnaðar aðgerðir sínar, undir yfirskini hjálpar og stuðnings við byltingaröflin, byltinguna og uppbyggingu sósíalismans. Í rauninni styðja þeir gagnbyltinguna.

Hin endurskoðunasinnuðu Sovétríki reyna að ryðja veginn fyrir útþenslu- og ný-nýlendusinnaðar áætlanir sínar með því að gefa sig út fyrir að vera land, sem fylgi lenínískri og alþjóðasinnaðri stefnu, sem bandamaður, vinur og verjandi hinna nýju þjóðríkja, vanþróaðra ríkja o.s.frv. Sovésku endurskoðunarsinnarnir predika, að með því að bindast Sovétríkjunum og hinu svokallaða sósíalíska sambýli -, sem þeir halda fram að sé "helsta virka aflið í þróun heimsins um þessar mundir" - geti þessi lönd þróast farsællega í átt til frelsis og sjálfstæðis og jafnvel sósíalisma. Þetta er orsök þess að þeir hafa einnig soðið saman kenningarnar um hina "ókapítalísku þróunarbraut", "sósíalískt sinnuð ríki" o.s.frv.

Þrátt fyrir látalæti sovésku sósíalheimsvaldasinnanna á stjórnlist þeirra ekkert skylt við sósíalisma og lenínisma. Hún er stjórnlist rán-

gjarns heimsvaldaríkis, sem vill útvíkka yfirráð sín og drottnun til allra landa í öllum heimsálfum.

Þessi yfirráðasinnaða og ný-nýlendusinnaða stefna hinna endurskoðunarsinnuðu Sovétríkja kemst ekki hjá því að fara í bága við stefnu Bandaríkjanna og þá stefnu, sem Kína hefur tekið. Þetta er hagsmunaárekstur milli heimsvaldasinna, í baráttu þeirra fyrir enduruppskiptingu heimsins. Það eru einmitt þessir hagsmunir og þessi barátta, sem etja einu stórveldi gegn öðru, sem örva hvert þeirra til að nota öll tiltæk öfl og aðferðir til að veikja andstæðing sinn eða andstæðinga, þótt árekstrarnir hafi enn ekki orðið það alvarlegir að þau hafi kastað sér út í hernaðarátök.

STJÓRNLIST KÍNVERSKU SÓSÍALHEIMSVALDASTEFNUNNAR

Atburðir og staðreyndir sýna það æ ljósar, að Kína sekkur sífellt dýpra í fen endurskoðunarstefnu, auðvalds og heimsvaldastefnu. Á þessari braut vinnur það að því að ná röð stjórnlistarlegra markmiða á þjóðlegum og alþjóðlegum vettvangi.

Á þjóðlegum vettvangi hefur kínverska sósíalheimsvaldastefnan sett sér það markmið að uppræta allan vott af sósíalískum einkennum, sem upp hafa komið eftir frelsunina og að byggja upp auðvaldskerfi í grunni og yfirbyggingu landsins. Ennfremur að gera Kína að kapítalísku stórveldi fyrir lok þessarar aldar með framkvæmd hinna svokölluðu "fjögurra nýjunga" í iðnaði, landbúnaði, hernum og vísindum.

Hún leitast við að skapa þá innbyrðis skipulagningu landsins, sem tryggi drottnun hinnar gömlu og nýju borgarastéttar Kína yfir kínversku þjóðinni. Kínverska endurskoðunarstefnan reynir að koma þessu skipulagi og þessari drottun á fót eftir leiðum fasismans, með ofbeldi og kúgun. Hún vinnur að því að skapa einingu milli hersins og óbreyttra þegna með það fyrir augum að hinir síðarnefndu

þjóni þessum kúgunarher.

Þær aðferðir og leiðir, sem helst hafa vakið alhygli kínversku leiðtoganna og sem e.t.v. verða notaðar í Kína, eru þær, sem títóistarnir hafa iðkað, sérstaklega hið júgóslavneska kerfi "sjálfs-stjórnunar". Fjöldi kínverskra nefnda og sendi - nefnda af ýmsum gerðum og uppruna hafa fengið það verkefni að rannsaka þetta kerfi og reynslu hins júgóslavneska, kapítalíska "sósíalisma" almennt, á staðnum.

Nú þegar hefur verið hafist handa um að starf-rækja þetta kerfi og þessa reynslu í Kína. Á hinn bóginn er það samt sem áður ómögulegt fyrir kín-versku leiðtogana að láta sér yfirsjást mistök títóísku "sjálfs-stjórnunarinnar", að hafa ekki í huga aðstæðurnar í eigin landi, sem eru algjörlega frábrugðnar þeim júgóslavnesku. Auk þessa álíta þeir einnig nauðsynlegt að fá að láni ýmsar aðferðir og form, sem þeir telja að hafi sannað "ágæti" sitt í Bandaríkjunum, Vestur-Þýskalandi, Japan og öðrum borgaralegum löndum. Auðvaldskerfið, sem verið er að byggja upp og þróa í Kína, verður augljóslega samsuða ýmissa endurskoðunarsinnaðra, kapítalískra og hefðundinna kínverskra forma og aðferða.

Til að geta orðið kapítalískt stórveldi þarf-nast kínverska endurskoðunarstefnan tímabils friðar. Slagorðið um hina "miklu reglu", sem gef-ið var út af 11. þingi kínverska flokksins, er tengt þessari nauðsyn. Til að tryggja slíka "reglu" þarf annars vegar auðvaldsskipulag af fasískri alræðisgerð og hins vegar þarf skilyrð-islaust að viðhalda friði og málamiðlun milli þeirra deiluaðila, sem alltaf hafa verið til staðar í kínverska flokknum og ríkinu. Tíminn mun leiða í ljós að hve miklu leyti þetta skipu-lag og þessi friður verði tryggð.

Sú stefna kínversku leiðtoganna að gera Kína að stórveldi miðar að því að hagnast efnahagslega og hernaðarlega á bandarísku heimsvaldastefnunni

sem og hinum þróuðu auðvaldslöndum, sem eru bandamenn Bandaríkjanna.

Þessi stefna Kína hefur vakið ákafan áhuga í auðvaldsheiminum, sérstaklega hjá bandarísku heimsvaldastefnunni, sem sér í þessari stefnu Kína stórkostlegan stuðning við þau stjórnlistarlegu markmið sín að viðhalda auðvaldi og heimsvaldastefnu, styrkja ný-nýlendustefnuna, bæla niður byltingar og kæfa sósíalismann, jafnframt því að veikja andstæðing sinn, Sovétríkin.

Eins og Carter hefur lýst yfir vill bandaríska heimsvaldastefnan hafa "nána samvinnu við Kínverjana." Hann hefur lagt áherslu á: "Við lítum á bandarísku-kínversku tengslin sem aðalatriði í alþjóðapólitík okkar og við lítum á Kína sem lykilafl friðarins." Kína hefur á stefnuskrá sinni friðsamlega sambúð við Bandaríkin, eins nána og mögulegt er.

Með þessari afstöðu tekur Kína sér stöðu við hlið þeirra borgaralegu ríkja, sem grundvalla tilveru sína sem ríki á bandarísku heimsvaldastefnunni. Þessi vending Kína í átt til heimsvaldastefnu, eins og sú sem Sovétríkin og aðrir á undan þeim framkvæmdu, verður æ meira að raunveruleika með hverjum deginum sem líður. Þetta sjá jafnvel heimsvaldasinnarnir sjálfir, sem fagna þessum "nýja raunveruleika" og lýsa því yfir, að "hinir hugmyndafræðilegu árekstrar, sem sundruðu Bandaríkjunum, Sovétríkjunum og Kína á 6. áratugnum, eru minna áberandi nú og þörfin fyrir samvinnu milli risaveldanna eykst stöðugt..."

Bandarísku heimsvaldasinnarnir, ásamt Carter, eru að sjálfsögðu reiðubúnir að útvega Kína aðstoð við að efla efnahag sinn og her að því marki sem það þjónar þeirra hagsmunum. Þeir klappa kínversku endurskoðunarsinnuðu leiðtogunum á bakið vegna þess að stjórnlist Kína felur í sér mikilvæga aðstoð við yfirráðastefnu bandarísku heimsvaldastefnunnar.

Kína fagnar afstöðu og aðgerðum Bandaríkjanna gegn hinum endurskoðunarsinnuðu Sovétríkjum vegna

þess, að það vill sýna fram á að þær þjóni byltingunni og veikingu hættulegasta stórveldis veraldar, sovésku sósíalheimsvaldastefnunnar. Bandaríska heimsvaldastefnan fagnar af sinni hálfu kínversku viðhorfunum og aðgerðunum gegn hinum endurskoðunarsinnuðu Sovétríkjum. Það er vegna þess, eins og einn af nánustu samstarfsmönnum Carters orðaði það, að "kínversk-sovéski ágreiningurinn skapar fjölþættari stöðu í ástandi heimsmála". Þetta líkar bandarísku heimsvaldastefnunni og álítur í samræmi við skoðun sína á því, "hvernig veröldin skuli skipulögð." Með öðrum orðum, hvernig hinir skuli æstir upp hver gegn öðru með það fyrir augum að auðvelda Bandaríkjunum að drottna yfir heiminum.

Hin óheiðarlega hentistefna Kína hefur gert það að bandamanni bandarísku heimsvaldastefnunnar og fengið það til að skilgreina sovésku sósíalheimsvaldastefnuna sem helsta óvininn og hættuna. Á morgun, þegar Kína sér að það hefur náð því markmiði að veikja sovésku sósíalheimsvaldastefnuna, þegar það, með sinni röksemdarfærslu, sér að bandaríska heimsvaldastefnan er að styrkjast, mun það ef til vill - þar sem það hallar sér að einni heimsvaldastefnunni til að berjast gegn annarri - halda áfram baráttunni á hinum kantinum. Í því tilfelli gæti bandaríska heimsvaldastefnan orðið hættulegri og þá verður Kína sjálfkrafa að snúa við afstöðu sinni.

Þetta er raunverulegur möguleiki. Á 8. þingi sínu 1956 skilgreindu kínversku endurskoðunarsinnarnir bandarísku heimsvaldastefnuna sem höfuðhættuna. Síðar, á 9.þinginu, í apríl 1969, lýstu þeir yfir að risaveldin tvö, bandaríska heimsvaldastefnan og sovéska sósíalheimsvaldastefnan, fælu í sér aðalhættuna. Enn síðar, í kjölfar 10.þingsins, sem haldið var í ágúst 1973, og á 11. þinginu, skilgreindu þeir sovésku sósíalheimsvaldastefnuna eina sem höfuðóvininn. Með slíkum tvístígandahætti, með slíkri hentistefnu, er það ekki ómögulegt, að

12. eða 13. þingið gæti stutt sovésku sósíalheimsvaldastefnuna og skilgreint bandarísku heimsvaldastefnuna sem höfuðóvininn og þetta mun halda áfram þar til Kína hefur einnig náð því markmiði sínu að verða kapítalískt stórveldi á heimsmælikvarða. Hvert verður hlutverk Kína á sviði alþjóðamála í þessu tilfelli? Hlutverk þess verður aldrei byltingarsinnað heldur afturhaldssamt og gagnbyltingarsinnað.

Mikilvægur þáttur í kínversku utanríkispólitíkinni er bandalagið við Japan. Eins og við bentum á áður er þessu kynþáttabandalagi milli ríkjanna tveggja - sem nýlega komst í höfn með kínversk-japanska samkomulaginu - ætlað að gera að raunveruleika stjórnlistarlegar áætlanir Kína og Japans um sameiginlega drottnun þeirra yfir Asíu, ASEAN-löndunum og Eyjaálfu. Kínversku endurskoðunarsinnarnir þarfnast þessa samkomulags og vináttunnar við Japan til að geta, í samvinnu við japönsku hernaðarsinnana, ógnað sovésku sósíalheimsvaldastefnunni og mögulega upprætt hana og áhrif hennar í Asíu.

En Kína ætlar einnig að hagnast á tengslum sínum við Japan, að fá lán, að flytja inn tæki, tækni og hergögn frá Japan til að gera stórveldadrauma sína að veruleika. Hið alhliða efnahagssamstarf við Japan er Kína svo mikilvægt, að meira en helmingurinn af utanríkisverslun þess er við það land.

I þeim tilgangi að framkvæma útþenslustefnu sína vinnur hið sósíalheimsvaldasinnaða Kína að því að auka áhrif sín í Asíu eins og mögulegt er. Eins og er hefur það alls engin áhrif í Indlandi, þar sem bæði Bandaríkin og Sovétríkin hafa sameiginlegra og aðskildra hagsmuna að gæta, háð þeim breytingum og bandalögum, sem framtíðin ber í skauti sér. Kína vill nú koma á betri diplómatískum tengslum við Indland. En Indland gerir miklar kröfur til Tíbets. Indland mun reyna að uppræta jafnvel þau litlu áhrif, sem Kína hefur e.t.v. í Pakistan, því að Pakistan hefur mikilvæga staðsetningu,

liggjandi bæði að Iran og Afganistan: Deilurnar um hinar miklu olíulindir Mið-Austurlanda, þar sem Bandaríkin drottna, hefjast þar. Það er mjög erfitt fyrir Kína að þrengja sér þar inn. Kína mun fylgja stefnu, sem er andstæð hagsmunum arabísku þjóðanna, og styðja bandaríska hagsmuni þar til það verður sterkt. Á sama tíma mun Kína aðstoða Bandaríkin við að koma upp - í samvinnu við lönd eins og Iran, Saudi-Arabíu o.s.frv. - voldugri víggirðingu gegn pólitískri, efnahagslegri og hernaðarlegri sókn Sovétríkjanna inn á þetta svæði, sem er lífsnauðsynlegt fyrir bandaríska og evrópska heimsvaldastefnu.

Til að ná markmiðum sínum veita kínversku sósíalheimsvaldasinnarnir Vestur-Evrópu sérstaka athygli. Markmið þeirra er að etja henni gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni. Það er þess vegna, sem þeir styðja NATO og bandalag ríkja Evrópu við Bandaríkin, Efnahagsbandalag Evrópu og "bandaríki Evrópu" á allan hátt.

I stjórnlistarlegri áætlun sinni miðar hið sósíal-heimsvaldasinnaða Kína að því að auka yfirráð sín í löndum þess, sem það kallar "þriðja heiminn". Kenningin um "heimana þrjá" er afar mikilvæg fyrir Kína. Mao Zedong setti þessa "kenningu" ekki fram af óskhyggju heldur vegna ákveðinnar yfirráðastefnu; að Kína ætti að drottna yfir heiminum. Eftirmenn hans fylgja þessari sömu stjórnlist Mao Zedongs og Chou Enlais.

Stjórnlistarlegar fyrirætlanir Kína þenja sig einnig út yfir það, sem kallað er "óháði heimurinn", og títóisminn er fulltrúi fyrir. Það er enginn munur á þessum heimum; þeir skarast hvor af öðrum. Það er erfitt að ákveða hvaða ríki tilheyra "þriðja heiminum" og hvað skilur þau frá "hlutlausu ríkjunum", hvaða ríki tiheyra hinum "hlutlausu" og hvað skilur þau frá ríkjum "þriðja heimsins". Þannig eru þetta sömu ríki, hvað svo sem þau eru kölluð.

Þetta er ein af ástæðum þess, að kínversku leiðtogarnir leggja svo mikla áherslu á að viðhalda mjög vinsamlegum ríkis- og flokkstengslum við Tító

og Júgóslavíu á öllum sviðum; hugmyndafræðilegu, pólitísku, efnahagslegu og hernaðarlegu.

Sameiginleg viðhorf kínversku endurskoðunarsinnanna og þeirra júgóslavnesku kemur ekki í veg fyrir að hvorir um sig noti þessa innilegu vináttu í eigin þágu

Tító reynir að notfæra sér yfirlýsingar Hua Kuo-fengs um tryggð sína og júgóslavneska flokksins við marxismann-lenínismann, um sósíalísk einkenni "sjálfs-stjórnunarinnar" og þá marxísku-lenínísku pólitík, sem títóistarnir reki inn á við og út á við. Tító reynir að notfæra sér þessar yfirlýsingar til að sýna fram á, að það sé aðeins rógur stalínista þegar hann er afhjúpaður fyrir andmarxískt frávik, þjóðernislega, afturhaldssama og heimsvaldavinsamlega stefnu og fyrir endurskoðunarstefnu sína. Á grundvelli þessa leitast hann við að byggja upp orðstíl sinn á alþjóðamælikvarða.

Af sinni hálfu notar Hua Kuo-feng tengslin við Júgóslavíu til þess, sem kallað er dyr Kína að Evrópu. Kínversku endurskoðunarsinnarnir reyna einnig að nota vináttu sína við títóistana - sem gefa sig út fyrir að vera meistarar "hlutleysisins" - sem mikilvæga leið til að þröngva sér inn í "óháðu löndin" og koma á fót drottnun sinni þar. Það var ekki að ástæðulausu, að á meðan á heimsókn Hua Kuo-fengs til Júgóslavíu stóð hóf hann "óháðu" hreyfinguna til skýjanna sem hið "mikilvæga afl í baráttu alþýðu heimsins gegn heimsvaldastefnu, nýlendustefnu og drottnunarstefnu". Hann lofsöng þessa hreyfingu og Tító vegna þess, að hann dreymir um að ná valdi yfir hreyfingunni og að gera Peking að miðstöð hennar.

Stefna kínversku sósíalheimsvaldasinnanna er á öllum sviðum stefna heimsvaldasinnaðs stórveldis, stefna gagnbyltingar og hernaðarbrölts, og þess vegna mun alþýðan hata hana, snúast gegn henni og berjast gegn henni af æ meiri hörku.

*

*     *

Heimsvaldasinnuðu stórveldin, sem við höfum rætt um, munu halda áfram heimsvaldastefnu og hernaðarbrölti og ef það gerist ekki í dag, þá mun það verða á morgun að þau þröngva heiminum út í stórkostlegt kjarnorkustríð.

Bandaríska heimsvaldastefnan leitast við að koma færum sínum æ dýpra í efnahagslíf annarra þjóða, á meðan sovéska sósíalheimsvaldastefnan, sem er rétt að byrja að sýna klærnar, reynir að sökkva þeim í hin ýmsu lönd heimsins með það fyrir augum að skapa og styrkja sína eigin ný-nýlendu- og heimsvaldaaðstöðu. Svo er einnig um að ræða "bandaríki Evrópu", hlekkjuð Bandaríkjunum gegnum NATO, sem hafa sínar eigin tilhneigingar, ekki einvörðungu heimsvaldasinnaðar. Á hinn bóginn er Kína farið að taka þátt í þessum dansi í tilraunum sínum til að verða stórveldi, á sama hátt og japanska hernaðarstefnan, sem er að rísa upp. Þessi tvö heimsvaldaöfl bindast böndum í þeim tilgangi að mynda stórveldi í andstöðu við hin. Við þessar aðstæður eykst hin mikla hætta á heimsstyrjöld. Núverandi bandalög eru enn við lýði, en munu leitast við að breyta sér, í þeim skilningi, að þau munu breyta um stefnu en ekki innihald.

Hin fögru orð, sem úthellt er hjá Sameinuðu þjóðunum og á ýmsum alþjóðlegum ráðstefnum, skipulögðum af heimsvaldasinnunum, eru lýðskrum. Þeir hafa skapað og standa á verði um einokun sína á kjarnorkuvopnum og stunda vopnaverslun af miklum móði, ekki til að tryggja frið og öryggi þjóða heldur til að sjúga út aukagróða og til að undiroka byltinguna og alþýðuna; til að leysa úr læðingi árásarstríð. Stalín sagði:

> "Borgaralegu ríkin vopnast og endurvopnast af ofurkappi. Til hvers? Að sjálfsögðu ekki til að semja heldur til hernaðar. Og heimsvaldasinnarnir þarfnast stríðs, vegna þess að það er eina leiðin til enduruppskiptingar heimsins, til enduruppskiptingar markaðanna,

hráefnalindanna og svæða fyrir fjárfestingu auðmagns."+

I deilum sínum, sem knýja þau til stríðs, munu stórveldin örugglega valda mörgum staðbundnum styrjöldum. Þau munu koma þeim af stað milli ýmissa ríkja "þriðja heimsins", "óháðu ríkjanna" eða "þróunarlandanna".

Carter forseti hefur látið í ljós þá skoðun, að stríð geti aðeins orðið á tveim stöðum á jarðkringlunni; í Mið-Austurlöndum og í Afríku. Ástæðan er augljós: Það er einmitt í þessum tveim heimshlutum, sem Bandaríkin eiga mestra hagsmuna að gæta um þessar mundir. I Mið-Austurlöndum er það olían og í hinni auðugu Afríku er um að ræða árekstur efnahagslegra og hernaðarlegra ný-nýlenduhagsmuna vegna skiptingar markaða og áhrifasvæða milli stórveldanna, sem reyna að viðhalda og styrkja stöðu sína og útvíkka hana.

Samt sem áður eru til önnur svæði, þar sem hagsmunir stórveldanna rekast á, eins og til dæmis í Suðaustur-Asíu. Bandaríkin og Sovétríkin, að Kína viðbættu, leitast við að koma á fót áhrifasvæðum sínum og skipta mörkuðunum. Þetta ýtir einnig undir árekstra, sem öðru hverju verða að staðbundnum stríðum. Þeim er á engan hátt ætlað að frelsa alþýðuna, heldur að koma á legg eða endurreisa valdaklíkur, sem stundum eru hallar undir annað stórveldið og stundum undir hitt. Sovéska sósíalheimsvaldastefnan og bandaríska heimsvaldastefnan eru ófreskjur, sem alþýðan treystir ekki. Á sama hátt treystir alþýðan ekki Kína heldur.

Þegar stórveldin geta ekki fullnægt rángjörnum hagsmunum sínum með efnahagslegum, hugmyndafræðilegum og dipómatískum aðferðum, þegar móthverfurnar skerpast til hins ýtrasta, þegar samkomulag og "umbætur"reynast ónógar til að leysa þessar móthverfur, þá hefst stríðið milli þeirra. Þess vegna verður alþýðan - hverrar blóði verður úthellt í

---

+ J.V.Stalin,Works,bindi 12,bls.242-243(Alb.útb.)

þessu stríði - að leitast við af öllum mætti að láta ekki koma sér að óvörum, að vinna gegn ránsstríðinu milli heimsvaldasinnanna til að það nái ekki að breiðast út um allan heim og - ef hún getur það ekki - að breyta því í frelsisstríð og sigra.

HLUTVERK TITÓISMANS OG ANNARRA ENDURSKOÐUNARSINNAÐRA STEFNA I ALHEIMSSTJÓRNLIST HEIMSVALDASTEFNUNNAR OG SÓSIALHEIMSVALDASTEFNUNNAR

I þeirri villimannlegu baráttu, sem heimsvaldastefnan og sósíalheimsvaldastefan, heimsauðvaldið og afturhaldið heyja nú gegn byltingunni, sósíalismanum og alþýðunni, eru þessi öfl studd af nútíma endurskoðunarsinnum allra tegunda. Þessir liðhlaupar og svikarar styðja heimsvaldastefnuna við að framkvæma alheimsstjórnlist sína með því að grafa undan innan frá, kljúfa og vinna skemmdarverk gegn viðleitni öreiganna og baráttu alþýðunnar fyrir því að losna úr þjóðfélagslegum og þjóðernislegum fjötrum. Nútíma endurskoðunarsinnarnir hafa tekið það að sér að smána og afbaka marxismann-lenínismann, að rugla hugi fólks og snúa því frá byltingarbaráttunni, að aðstoða auðvaldið og lengja lífdaga kúgunar- og arðránskerfis þess.

Ásamt sovésku og kínversku endurskoðunarsinnunum, sem við nefndum áður, hafa júgóslavnesku, títóísku endurskoðunarsinnarnir með höndum geysimikilvægt hlutverk í þessum stórkostlega og hættulega andbyltingarleik.

Títóisminn er gamall erindreki auðvaldsins, uppáhaldsvopn heimsvaldaborgarastéttarinnar í baráttu hennar gegn sósíalismanum og frelsishreyfingunum.

Þjóðir Júgóslavíu börðust af mikilli fórnfýsi gegn nasi-fasíska innrásarliðinu fyrir frelsi, lýðræði og sósíalisma. Þeim tókst að frelsa land sitt, en fengu ekki að halda áfram byltingunni til

sósíalismans. Júgóslavneska, endurskoðunarsinnaða forystan með Tító í fylkingarbrjósti, sem breska leyniþjónustan hafði lengi með leynd beitt áhrifum sínum á og sem hafði í stríðinu gefið sig út fyrir að vera flokkur í Þriðja Alþjóðasambandinu, hafði í raun önnur markmið. Þau voru í andstöðu við marxismann-lenínismann og þann vilja júgóslavnesku þjóðanna að byggja upp raunverulegt sósíalískt þjóðfélag í Júgóslavíu.

Kommúnistaflokkur Júgóslavíu, sem komst til valda, hafði tekið í arf ýmis mistök í formi frávika. Eftir seinni heimsstyrjöldina bar hann ýmis yfirlýst þjóðernissinnuð einkenni, sem höfðu komið fram strax á tímum stríðsins. Þessi einkenni voru augljós í fráhvarfi hans frá marxísku-lenínísku hugmyndafræðinni, í viðhorfi hans til Sovétríkjanna og Stalíns, í eiginhagsmunasinnaðri afstöðu og aðgerðum gagnvart Albaníu o.s.frv.

Alþýðulýðræðiskerfið, sem komið var á fót í Júgóslavíu, var tímabundið. Það hentaði ekki valdaklíkunni, þótt þessi klíka héldi áfram að kalla sig "marxíska". Títóistarnir voru ekki fylgjandi uppbyggingu sósíalismans, né heldur því að Kommúnistaflokkur Júgóslavíu skyldi hafa marxísku-lenínísku fræðikenninguna að leiðarljósi og þeir vildu ekki samþykkja alræði öreiganna. Þetta var orsök deilnanna, sem brutust út milli Upplýsingaskrifstofu Kommúnista- og verkalýðsflokkanna og Kommúnistaflokks Júgóslavíu. Þetta var hugmyndafræðileg deila milli marxismans-lenínismans og endurskoðunarstefnunnar og ekki persónulegar deilur um yfirráð eins og endurskoðunarsinnarnir vilja vera láta. Stalín varði hreinleika marxísku-lenínísku fræðikenningarinnar, Tító varði frávik og endurskoðunarsinnaða andmarxíska tilhneigingu nútíma endurskoðunarstefnu. Hann fylgdi í fótspor Browders og annarra hentistefnumanna, sem komu fram í lok seinni heimsstyrjaldarinnar og meðan á henni stóð.

Á fyrstu árunum eftir frelsunina lét júgóslavneska forystan sem hún hefði að leiðarljósi

uppbyggingu sósíalismans í Sovétríkjunum og lýsti því yfir að hún væri að byggja upp sósíalismann í Júgóslavíu. Þetta var gert til að blekkja alþýðu Júgóslavíu, sem hafði úthellt blóði sínu og vildi raunverulegan sósíalisma.

I raun og veru voru Títóistarnir ekki og gátu ekki verið hlynntir hinu sósíalíska þjóðskipulagi eða skipulagsformi Sovétríkjanna, vegna þess að Tító var fylgjandi auðvaldskerfinu og hlynntur ríki sem væri grundvallað á borgaralegu lýðræði, þar sem klíka hans myndi halda völdum. þetta ríki átti að skapa þá hugmynd að verið væri að byggja sósíalisma í Júgóslavíu; "sérstakan sósíalisma" af "mannlegri gerð",þ.e.a.s. einmitt þá tegund "sósíalisma", sem myndi þjóna sem fimmta herdeild meðal sósíalísku ríkjanna. Allt var nákvæmlega útreiknað og samhæft af ensk-amerísku heimsvaldasinnunum og hópnum í kringum Tító. Þannig, með því að taka þátt í leik heimsvaldastefnu og heimsauðvalds og koma til móts við þau, settu júgóslavnesku endurskoðunarsinnarnir sig í andstöðu við Sovétríkin.

Frá tímum andfasíska þjóðfrelsisstríðsins, í framhaldi af sínum gömlu áætlunum, hjálpaði breska og síðan bandaríska heimsvaldastefnan Tító. Ekki aðeins við að brjóta sig frá Sovétríkjunum heldur einnig við að vinna skemmdarverk gegn þeim og sérstaklega við að vinna að því að kljúfa önnur ríki alþýðulýðræðisins frá sósíalísku herbúðunum til þess að einangra Sovétríkin frá öllum þessum löndum og sameina þau Vestrinu. Þetta var stefna heimsauðvaldsins og erindreka þess, Títóismans.

Hinn ofsafengni andkommúnisti Churchill tók beinan og persónulegan þátt í að tryggja það, að Tító og hópi hans yrði komið í þjónustu auðvaldsins. I stríðinu sendi hann "sína traustustu vini", eins og þessi breski leiðtogi orðaði það, og síðan sinn eigin son í þjónustu Títós. Að síðustu hitti hann Tító sjálfur í Napólí á Italíu í maí 1944 til að fullvissa sig um, að Tító myndi ekki beita brögðum. I minningum sínum skrifaði Churchill, að

í viðræðum sínum við Tító hafi sá síðarnefndi látið í ljós að hann væri reiðubúinn að gefa síðar út opinbera yfirlýsingu þess efnis, að "kommúnisma yrði ekki komið á í Júgóslavíu eftir stríðið."

Tító vann að því af ofurkappi að þjóna húsbændum sínum, að Churchill sagði honum, hrósandi hinni stórkostlegu þjónustu hans: "Nú skil ég að þú hafðir rétt fyrir þér, þess vegna stend ég með þér; mér líkar jafnvel betur við þig en áður." Elskhugi gæti ekki gert heitari ástarjátningu.

Rétt áður en Júgóslavía hafði slitið öll tengsl við Sovétríkin og lönd alþýðulýðræðisins sendu heimsvaldasinnarnir - sérstaklega þeir amerísku - henni stórfellda efnahagslega, pólitíska, hugmyndafræðilega og hernaðarlega aðstoð, sem varð algengari og stöðugri síðar.

Þessi aðstoð var látin í té með þeim einu skilmálum að landið myndi þróast á braut kapítalismans. Heimsvaldaborgarastéttin var ekki andstæð því, að Júgóslavía héldi sósíalísku útliti sínu á yfirborðinu. Þvert á móti var það mjög í þágu hennar, að Júgóslavia héldi sósíalíska litnum út á við, því þannig myndi hún gegna betur því hlutverki að vera vopn í baráttunni gegn sósíalismanum og frelsishreyfingunum. Þessi tegund "sósíalisma," yrði ekki aðeins stórlega frábrugðin þeim sósíalisma, sem Lenín og Stalín boðuðu og framkvæmdu, heldur myndi hún einnig vera í andstöðu við hann.

Eftir tiltölulega stuttan tíma varð Júgóslavía hin"sósíalíska" málpípa bandarísku heimsvaldastefnunnar, erindreki afvegaleiðslu til stuðnings heimsauðvaldinu. Frá 1948 til þessa dags hefur Títóisminn einkennst af sjúklegum aðgerðum gegn marxismanum-lenínismanum. Títóistarnir hafa skipulagt áróðursherferð um víða veröld í því augnamiði að kynna júgóslavneska kerfið sem form hins "raunverulega sósíalíska" skipulags, "nýtt þjóðfélag", "óháðan sósíalisma". Þetta líkist ekki lengur þeim sósíalisma, sem Lenín og Stalín byggðu upp í Sovétríkjunum heldur er það sósíalískt skipulag "með manneskjulegu yfirbragði", sem verið er að reyna í

fyrsta skipti í heiminum og skilar "glæsilegum árangri". Markmið þessa áróðurs hefur alltaf verið að leiða á villigötur alþýðuna og þau framsæknu öfl, sem berjast fyrir frelsi og sjálfstæði um allan heim.

Það skipulag, sem júgóslavnesku endurskoðunarsinnarnir tóku upp í stjórnun lands síns, var sama skipulagið og það sem trotskýistarnir og önnur stjórnleysisöfl - með stuðningi auðvaldsborgarastéttarinnar - reyndu að taka upp í Sovétríkjunum á tímum Lenins í þeim tilgangi að vinna skemmdarverk gegn uppbyggingu sósíalismans þar. Um leið og Tító talaði um að byggja upp sósíalisma með því að taka upp þetta skipulag, afbakaði hann algerlega marxísku-lenínísku grundvallarreglurnar um byggingu iðnaðar, landbúnaðar o.s.frv.

Júgóslavnesku lýðveldin tóku upp slík atriði í stjórnun og skipulagslegri pólitískri leiðsögn, að lýðræðislega miðstjórnarvaldinu var útrýmt og hlutverk Kommúnistaflokks Júgóslavíu varð óverulegt. Kommúnistaflokkur Júgóslavíu skipti um nafn. Því var breytt í Samtök kommúnista í Júgóslavíu, sem lítur út fyrir að vera marxískt nafn, en er að innihaldi, hugmyndafræði, gæðum og markmiðum andmarxískt. Samtökin urðu valdalaust afl, voru rúin einkennum marxísks-lenínísks flokks. Þau viðhéldu gamla skipulaginu, en höfðu ekki lengur það hlutverk að vera framvörður verkalýðsstéttarinnar, voru ekki lengur það pólitíska afl, sem leiddi Sambandslýðveldið Júgóslavíu, heldur stóðu þau aðeins fyrir almennri "menntunar"-starfsemi að sögn títóísku endurskoðunarsinnanna.

Títóíska forystan setti flokkinn undir eftirlit UDB, sem var yfirboðari hans, breytti honum í fasísk samtök og ríkinu í fasískt alræði. Við þekkjum fullvel hættuna af þessari starfsemi, því Koçi Xoxe, launaður erindreki títóistanna, reyndi að koma fram sömu hlutum í Albaníu.

Tító, Rankovich og erindrekar þeirra upprættu algerlega allt það, sem kynni að hafa hinn sanna, sósíalíska lit. Títóisminn háði hatramma baráttu

gegn tilraunum þeirra afla innanlands, sem reyndu að brjóta niður þessa leyniþjónustu og þessi auðvalds-endurskoðunarsinnuðu samtök. Enn fremur gegn öllum þeim marxíska-leniníska áróðri, sem rekinn var erlendis til að afhjúpa þessa stjórn, sem þóttist vera sósíalísk.

Títóíska forystan hætti fljótlega við að gera landbúnaðinn að samyrkjubúskap, sem hafist hafði verið handa um á fyrstu árunum. Hún setti upp kapitalísk ríkisbú, ýtti undir þróun einkaeignar í sveitunum, leyfði frjálsa verslun með land, endurreisti kúlakkana, leyfði einkamarkaði óáreittum að blómstra í bæjum og sveitum og framkvæmdi fyrstu umbæturnar, sem styrktu hina kapítalísku stefnu efnahagslífsins.

Um leið leitaði títóíska borgarastéttin að "nýrri" tegund dularklæða fyrir júgóslavneska auðvaldsskipulagið og þessi tegund fannst. Þeir kölluðu hana júgóslavneska "sjálf-stjórnun". Þeir sveipuðu hana "marxískri-lenínískri" skikkju og héldu því fram, að þetta skipulag væri hinn sannasti sósíalismi.

Í fyrstu kom "sjálfs-stjórnunin" fram sem efnahagsskipulag, en var síðan færð út á svið ríkisskipulagningar og á öll önnur svið lífsins í landinu.

Fræðikenning og starf júgóslavneskrar "sjálfsstjórnunar" eru opinská afneitun á kenningum marxismans-lenínismans og almennum lögmálum um uppbyggingu sósíalismans. Hið efnahagslega og pólitiska skipulag "sjálfs-stjórnunar" er anarkó-syndikalískt form á því borgaralega alræði, sem ríkir í Júgóslavíu, háð alþjóðlegu auðmagni.

"Sjálfs-stjórnunar" - kerfið með öllum sínum dæmigerðu einkennum - svo sem afnámi lýðræðislega miðstjórnarvaldsins, hlutverki samhæfðrar stjórnunar ríkisins, stjórnleysislegri sambandsstefnu, ríkisfjandsamlegu hugmyndafræðinni almennt séð - hefur haft í för með sér stöðuga efnahagslega, pólitíska og hugmyndafræðilega upplausn og ringulreið í Júgóslavíu. Enn fremur veika og ójafna

þróun lýðvelda hennar og landsvæða, mikinn mun þjóðfélagsstétta, þjóðlega ánauð og kúgun og úrkynjun hins andlega lífs. "Sjálfs-stjórnunar"-kerfið hefur leitt af sér mikla sundrun verkalýðsstéttarinnar, með því að etja einum hóp innan hennar til samkeppni við annan. Um leið hefur verið alið á borgaralegum anda aðgreiningar, hreppapólitík og einstaklingshyggju. Ekki nóg með það, að verkalýðsstéttin í Júgóslavíu sé ekki í ráðandi stöðu í ríki og þjóðfélagi, heldur setur "sjálfs-stjórnunar"-kerfið hana í þá aðstöðu að hún er ófær um að verja eigin, sameiginlega hagsmuni og koma fram sem sameinuð og heilsteypt stétt.

Háar upphæðir auðmagns hafa flætt yfir Júgóslavíu frá auðvaldsheiminum, aðallega frá bandarísku heimsvaldastefnunni, í formi fjárfestinga, úttektarheimilda og lána. Það er einmitt þetta auðmagn, sem er hinn efnahagslegi grundvöllur fyrir "þróun" hins júgóslavneska kapítalíska "sjálfs-stjórnunarsósíalisma". Skuldirnar einar nema meiru en 11 milljörðum dollara. Júgóslavía hefur þegið meira en 7 milljarða dollara í lán frá Bandaríkjunum.

Þrátt fyrir þann fjölda lána, sem títóíska forystan þiggur erlendis frá, hefur alþýða Júgóslavíu ekki enn orðið aðnjótandi hins "glæsilega árangurs" þessa sérstaka "sósíalisma". Þvert á móti er um að ræða pólitíska og hugmyndafræðilega upplausn í Júgóslavíu. Skipulag, sem orsakar stórfellt atvinnuleysi heima fyrir og býr við fjöldaútflutning vinnuafls, og þetta gerir Júgóslavíu algjörlega háða heimsvaldaöflunum. Júgóslavneska alþýðan er rúin inn að skinni í þágu ríkjandi stéttar og allra þeirra heimsvaldaafla, sem hafa fjárfest í landinu.

Það snertir ekki júgóslavneska ríkið, að verðlag hækkar daglega, að fátækt hins vinnandi fjölda magnast stöðugt og að ríkið er ekki aðeins sokkið upp að hálsi í skuldafen heldur er það alvarlega flækt í hina miklu kreppu auðvaldsheimsins. Júgó-

slavía hefur aðeins takmarkað sjálfstæði og sjálfræði vegna þess að hún býr ekki yfir neinu efnahagslegu afli, fyrir utan allt annað. Mestur hluti þess er í eign ýmissa auðvaldsfyrirtækja og -ríkja; þess vegna hlýtur landið að verða fyrir barðinu á niðurrifsáhrifum kreppunnar og erlends arðráns.

En það er ekki tilviljun að heimsauðvaldið veitir júgóslavnesku "sjálfs-stjórnuninni" svo stórkostlegan stuðning pólitískt og fjárhagslega og samsinnir títóíska áróðrinum, sem auglýsir þetta kerfi sem "nýja, prófaða aðferð til uppbyggingar sósíalisma" fyrir öll lönd.

Heimsauðvaldið gerir þetta vegna þess, að aðferð júgóslavnesku "sjálfs-stjórnunarinnar" ryður leið fyrir hugmyndafræðilega og pólitíska moldvörpu- og skemmdarverkastarfsemi gegn hinum byltingarsinnuðu frelsishreyfingum öreiganna og alþýðunnar. Leið til að gera heimsvaldastefnunni kleift að þröngva sér inn í hin ýmsu lönd heims, pólitískt og efnahagslega. Heimsvaldastefnan og auðvaldið vilja eiga "sjálfs-stjórnunina"í bakhöndinni fyrir ýmsar aðstæður og mismunandi lönd, með það fyrir augum að lengja lífdaga auðvaldsins. Því auðvaldið leggur ekki upp laupana átakalaust, heldur leitast við að finna mismunandi stjórnunarform á kostnað alþýðunnar.

Júgóslavnesku kenningarnar um "hlutleysi" og viðkomandi starfsemi eru til mikils gagns fyrir ýmsa heimsvaldasinna, því þær hjálpa þeim að blekkja alþýðuna. Þetta þjónar bæði heimsvaldasinnum og sósíalheimsvaldasinnum, af því að það auðveldar þeim að koma ár sinni fyrir borð og styrkja áhrif sín í "hlutlausum löndum", að afvegaleiða hina frelsiselskandi alþýðu af vegi þjóðfrelsunar og öreigabyltingar. Þess vegna hlaða bæði Carter og Brezhnev, sem og Hua Kuo-feng, lofi á títóísku "hlutleysis-stefnuna"og reyna að nota hana í eigin þágu.

Títóisminn hefur alltaf verið vopn í höndum heimsvaldaborgarastéttarinnar, slökkvilið til að

kæfa loga byltingarinnar. Hann er sömu ættar og hefur sömu markmið og nútíma endurskoðunarstefna, almennt séð, og hinar mismunandi útgáfur hennar, sem hann er hugmyndafræðilega sammála. Leiðirnar, skipulagið og baráttuaðferðirnar, sem þau nota í baráttunni gegn marxismanum-lenínismanum geta verið mismunandi, en hin andbyltingarsinnuðu markmið þeirra eru hin sömu.

I tilraunum sínum til að bæla niður byltingarbaráttu öreiganna og alþýðunnar fá borgarastéttin og afturhaldið mikla aðstoð frá endurskoðunarsinnaflokkum Evrópu, í fyrsta lagi, og einnig frá endurskoðunarsinnaflokkum annarra landa í öllum heimsálfum.

Endurskoðunarsinnaflokkarnir í löndunum í Vestur-Evrópu eru að reyna að sjóða saman kenningu um "nýtt þjóðfélag" - að sögn sósíalískt - sem skapað verður með "skipulagsbreytingum" og í náinni samvinnu við sósíaldemókrataflokkana og jafnvel hægri flokkana. Þetta þjóðfélag verður, eftir því sem þeir segja, byggt á nýjum grunni, með "þjóðfélagslegum umbótum", "þjóðfélagsfriði", eftir "þingræðislegum leiðum" og með hinni "sögulegu málamiðlun" við borgaraflokkana.

Endurskoðunarsinnaflokkar Vestur-Evrópu, svo sem sá ítalski, franski og spánski, og í kjölfar þeirra allir aðrir endurskoðunarsinnaflokkar Vesturlanda, afneita lenínismanum, stéttabaráttunni, byltingunni og alræði öreiganna. Allir hafa þeir valið leið málamiðlana við borgarastéttina. Þeir hafa kallað þessa andmarxísku línu "evrópukommúnisma". "Evrópukommúnisminn" er nú gervikommúnísk stefna, sem er bæði hliðholl og andstæð sovésku endurskoðunarsinnablokkinni. Þessi tvístígandi afstaða þeirra skýrist af því, að þeir hafa að markmiði hugmyndafræðilega sambúð við evrópska sósíaldemókratíið og allan þann mýgrút skoðana, sem kraumar í nornakötlum Evrópu. "Evrópukommúnistarnir" geta sameinast hverjum sem er, nema þeim, sem berjast fyrir sigri byltingarinnar og hreinleika marx-

ísku hugmyndafræðinnar.

Allar endurskoðunarsinnuðu, hentistefnusinnuðu og sósíaldemókratísku stefnurnar ganga að fullu til móts við risaveldin í hinum djöfullegu aðgerðum þeirra til að undiroka byltinguna og alþýðuna. Stuðningur allra þessara afla við hið svokallaða nýja lífkerfi borgarastéttarinnar hefur eitt markmið að kæfa byltinguna með því að reisa þúsund og eina efnislega, pólitíska og hugmyndafræðilega hindrun gegn henni. Þessi öfl vinna að því að afvegaleiða og sundra öreigunum og bandamönnum þeirra. Þau vita nefnilega, að sundraðir og klofnir af baráttu smáhópa verða þeir síðarnefndu ófærir um að skapa - heima fyrir eða á alþjóðavettvangi - þá hugmyndafræðilegu, pólitísku og herskáu einingu, sem er lífsnauðsynleg til að fást við árásir hins rotnandi heimsauðvalds.

Samsteypa nútíma endurskoðunarstefnu og sósíaldemókrata hræðist innreið fasismans, sérstaklega í vissum löndum, sem er ógnað af hægri öfgaöflum. Til að forðast fasíska alræðið reyna endurskoðunarsinnarnir og sósíaldemókratarnir "að milda" móthverfurnar og "lægja" öldur stéttabaráttunnar milli fjölda alþýðunnar og öreiganna annars vegar og borgarastéttarinnar hins vegar. Þannig verða þessir samsteypuaðilar - með það fyrir augum að tryggja "frið í þjóðfélaginu" - að gera tilslakanir hvor gagnvart öðrum og gera málamiðlanir við borgarastéttina, ná samkomulagi um einhvers konar ríkisstjórn, sem hæfir báðum aðilum. Meðan borgarastéttin og flokkar hennar halda opinskátt áfram baráttunni gegn kommúnismanum leitast endurskoðunarsinnaflokkarnir því við að afbaka marxismann-lenínismann, hina leiðandi hugmyndafræði byltingarinnar.

Verkalýðsfélögin eru endurbótasinnuð og sérstaklega menntuð og þjálfuð í málamiðlunum við eignastéttina og þau gera aðeins efnahagslegar kröfur, en heyja ekki verkföll fyrir pólitískum kröfum og því markmiði að öreigarnir yfirtaki ríkisvaldið. Þessi verkalýðsfélög hafa orðið aðalstyrkur

endurskoðunarsinnaflokka Evrópu. Auðvitað miðar samningamakk þeirra að því að halda jafnvægi milli framboðs og eftirspurnar - annar aðilinn beiðist ölmusu og hinn ákveður stærð þessarar ölmusu. Aðilunum tveim - bæði endurbótasinnuðu verkalýðsfélögunum og endurskoðunarsinnaflokkunum og eignastéttinni með sína flokka, ríkisvald og verkalýðsfélög - stendur ógn af öreigunum og hinum raunverulegu marxísku-lenínísku flokkum þeirra. Þess vegna leita þeir að afturhaldssamri málamiðlun; lausn, sem getur ekki verið sú sama í öllum auðvaldslöndunum vegna mikmunandi styrkleika auðvaldsins, dýpt kreppunnar og umfangs þeirra móthverfa, sem brjóta þau niður innan frá.

## BYLTINGIN - EINA VOPNIÐ TIL AÐ SIGRAST Á STJÓRNLIST ÓVINA ÖREIGANNA OG ALÞÝÐUNNAR

Allir andstæðingarnir - heimsvaldasinnarnir, sósíalheimsvaldasinnarnir og alls kyns endurskoðunarsinnar, sameinaðir og hver í sínu lagi - berjast fyrir því að afvegaleiða framsækna alþýðu, gera marxismann-lenínismann tortryggilegan og sérstaklega að afbaka lenínísku fræðikenninguna um byltinguna. Ennfremur að halda niðri byltingunni og hvers kyns varnarbaráttu alþýðunnar og þjóðfrelsisbaráttu.

Vopnabúr andstæðinga marxismans-lenínismans er öflugt, en byltingaröflin eru einnig stórfengleg. Þetta eru þau öfl, sem gera uppreisn, valda árekstrum og berjast við óvini byltingarinnar og hafa raskað hugarró auðvaldsheimsins og heimsafturhaldsins og eru að gera þeim lífið óbærilegt.

> "Vofa gengur nú ljósum logum um Evrópu - vofa kommúnismans. Öll máttarvöld gömlu Evrópu hafa tekið höndum saman um heilaga ofsókn gegn vofu þessari".+

Þessi athugasemd þeirra Marx og Engels er enn í

+ K.Marx og F.Engels: "Kommúnistaávarpið"

fullu gildi. Heimsvaldastefnan, sósíalheimsvaldastefnan og nútíma endurskoðunarstefna álíta, að hættunni, sem þeim stafi af kommúnismanum, hafi verið útrýmt. Þær álíta, að það alvarlega áfall, sem svik endurskoðunarstefnunnar voru byltingunni, sé óbætanlegt og vanmeta þess vegna styrk marxismans-lenínismans og ofmeta þann efnislega, hernaðarkúgunarlega og efnahagslega styrk, sem þær ráða yfir. Þetta er aðeins tálsýn hjá þeim.

Öreigar heimsins draga saman lið sitt. Af eigin reynslu öðlast öreigarnir og hin frelsiselskandi alþýða með degi hverjum skarpari skilning á svikum títóísku endurskoðunarsinnanna, þeirra krúséffsku, kínversku, "evrópukommúnísku" og fleiri nútíma endurskoðunarsinna. Tíminn vinnur fyrir byltinguna, fyrir sósíalismann, og ekki fyrir borgarastéttina og heimsvaldastefnuna, ekki fyrir nútíma endurskoðunarstefnu og heimsafturhald. Eldur byltingarinnar brennur alls staðar í hjörtum hinnar kúguðu alþýðu, sem þráir raunverulegt frelsi, lýðræði og sjálfræði, vill taka völdin í eigin hendur og halda út á braut sósíalismans og útrýma heimsvaldastefnunni og þjónum hennar.

Það fyrirbæri frá tímum Leníns, þegar klofningurinn úr Öðru Alþjóðasambandinu hafði í för með sér sköpun nýrra marxískra-lenínískra flokka, er að gerast í dag. Svik endurskoðunarsinnanna hafa leitt af sér stofnun og eflingu raunverulegra kommúnistaflokka um allt - eins og þau hlutu að gera - og þessir flokkar hafa tekið upp og hafið hátt fána marxismans-lenínismans og byltingarinnar, þann fána sem endurskoðunarsinnarnir hafa afneitað og troðið niður í svaðið. Á þeim hvílir sú skylda að etja afli hinnar glæstu lenínísku byltingarstjórnlistar - hinni miklu fræðikenningu marxismans-lenínismans - gegn alheimsstjórnlist heimsvaldastefnu og endurskoðunarstefnu. Á þeim hvílir sú skylda, að gera fjöldanum að fullu ljós markmið og leiðir baráttunnar og þær fórnir, sem hún krefst, að sameina hann, skipuleggja og leiða til sigurs.

Stórfengleg barátta er nú háð milli frelsiselskandi öreiga og kúgaðrar alþýðu annars vegar og hinnar villimannlegu, gráðugu heimsvaldastefnu hins vegar. Vér marxistar-lenínistar, sem þar erum í fylkingarbrjósti, verðum að skilja að fullu þau markmið, baráttuaðferðir, leiðir og skipulag, sem sameiginlegir óvinir og einstakir óvinir í hverju landi nota í baráttunni. Til að geta séð þetta í réttu ljósi verðum við að vera kirfilega grundvallaðir á hinni marxísku-lenínísku fræðikenningu um byltinguna. Við verðum að gera okkur það ljóst, að við núverandi aðstæður er fjöldi veikra hlekkja í heimskeðju auðvaldsins - og eins mun það verða í framtíðinni - þar sem byltingarsinnarnir og alþýðan verða að halda uppi linnulausum aðgerðum og staðfastri og hugaðri skipulagðri baráttu til að slíta þessa hlekki hvern á fætur öðrum. Þetta krefst að sjálfsögðu vinnu, baráttu, fórna og sjálfsafneitunar. Hin hugaða alþýða og einstaklingar, leidd af hagsmunum byltingarinnar, geta og vilja standa andspænis hinum víðtæku öflum heimsvaldastefnu, sósíalheimsvaldastefnu og afturhalds, sem bindast böndum, koma á fót nýjum bandalögum og leita leiða út úr þeim erfiðu aðstæðum, sem þau eru í. Það eru byltingarsinnarnir, marxistarnir-lenínistarnir, barátta alþýðunnar í öllum heimsálfum, í öllum löndum, sem skapa þessar erfiðu aðstæður fyrir afturhaldsöflin.

Kommúnistar um víða veröld hafa enga ástæðu til að óttast þær uppspunnu goðsagnir, sem verið hafa ríkjandi í byltingarsinnaðri hugsun um nokkurn tíma. Kommúnistarnir verða að berjast fyrir því að vinna til fylgis við sig þá, sem gera mistök, með það fyrir augum að hjálpa þeim að leiðrétta villur sínar, að kosta miklu til þessa, án þess þó að falla sjálfir í gryfju hentistefnunnar. I hinni staðföstu baráttu mun í upphafi verða um einhvern tvístígandahátt að ræða, en þessi tvístígandaháttur mun skjóta upp kollinum hjá hinum staðfestulausu, á meðan ekki verður um slíkt að ræða

hjá þeim, sem eru ákveðnir og beita marxísku-lenínísku fræðikenningunni á réttan hátt, þeim sem gera sér ljósa grein fyrir hagsmunum öreiganna í eigin landi, hagsmunum öreiga heimsins og byltingarinnar. Samt sem áður munu hinir tvístígandi styrkjast í baráttu sinni þegar þeir sjá, að félagarnir standa óhagganlegir á hinni byltingarsinnuðu, marxísku-lenínísku afstöðu sinni.

Ef marxistarnir-lenínistarnir beita marxísku-lenínísku fræðikenningunni á réttan hátt og af festu á grundvelli núvernadi alþjóðaástands og þjóðlegra aðstæðna í hverju landi, ef þeir efla stöðugt alþjóðlega einingu öreiganna í miskunnarlausri baráttu gegn heimsvaldastefnunni og nútíma endurskoðunarstefnu allra handa, þá munu þeir sannarlega sigrast á öllum þeim erfiðleikum, sem mæta þeim á leið sinni, hversu miklir sem þeir verða. Sé marxismanum-lenínismanum og hinum ódauðlegu lögmálum hans rétt beitt munu þau óhjákvæmilega leiða af sér endalok heimsauðvaldsins og sigur alræðis öreiganna, sem verkalýðsstéttin notar til að byggja upp sósíalismann og ganga á vit kommúnismans.

II

## LENINISKA FRÆÐIKENNINGIN UM HEIMSVALDASTEFNUNA HELDUR FULLU GILDI

Krúséfsku, títóísku,"evrópu-kommúnísku" og kínversku endurskoðunarsinnarnir og aðrar andmarxískar stefnur ráðast nú gegn málstað byltingarinnar og frelsunar alþýðunnar á þeirri forsendu að kringumstæður hafi breyst. Við þessar aðstæður er það geysilega mikilvægt að nema vandlega verk Leníns um heimsvaldastefnuna.

Við verðum að snúa okkur aftur að þessum verkum og sérstaklega að nema gaumgæfilega hið snilldarlega verk Leníns "Heimsvaldastefnan - hæsta stig auðvaldsins". Með því að nema þetta verk af nákvæmni munum við sjá hvernig endurskoðunarsinnarnir, þeirra á meðal kínversku leiðtogarnir, afbaka fræðikenningu Leníns um heimsvaldastefnuna, hvernig þeir líta á markmið, stjórnlist og baráttuaðferðir heimsvaldastefnunnar. Skrif þeirra, yfirlýsingar, afstaða og aðgerðir sýna að skoðun þeirra á eðli heimsvaldastefnunnar er algjörlega röng. Þeir sjá hana frá gagnbyltingarsinnuðum og andmarxískum sjónarhóli á sama hátt og allir flokkar Annars Alþjóðasambandsins og hugmyndafræðingar þeirra, -Kautsky og félagar-, sem Lenín afhjúpaði miskunnarlaust.

Ef við nemum af nákvæmni þetta verk Leníns og höldum tryggð við snilldarlega greiningu hans og niðurstöður, munum við komast að því, að heimsvaldastefna okkar tíma hefur fyllilega

sömu einkenni og Lenín lýsti. Við munum komast að því að leníníska skilgreiningin á tímabili okkar, sem tímabili heimsvaldastefnu og öreigabyltinga stendur óhögguð og að sigur byltingarinnar er óhjákvæmilegur.

Sem kunnugt er hefur Lenín greiningu sína á heimsvaldastefnunni á samþjöppun framleiðslu og auðmagns ásamt einokunarhringjunum. Enn í dag er því aðeins hægt að greina samþjöppun og miðstýringu framleiðslu og auðmagns á réttan og vísindalegan hátt að það sé gert á grundvelli lenínísku greiningarinnar á heimsvaldastefnunni.

Einkenni á auðvaldi okkar tíma er hin síaukna samþjöppun framleiðslu og auðmagns,sem leitt hefur af sér að smáfyrirtækin hafa runnið saman við hin voldugu eða verið yfirtekin af þeim. Afleiðing þessa er fjöldasamþjöppun vinnuaflsins hjá stórum hringjum og samsteypum. Þessi fyrirtæki hafa einnig þjappað saman í sínum höndum gífurlegum framleiðsluöflum og orku- og hráefnalindum í óútreiknanlegum stærðum. Um þessar mundir nota stóru auðvaldsfyrirtækin einnig kjarnorku og nýjustu tækni sem þau ein ráða yfir.

Slík risafyrirtæki hafa þjóðleg og alþjóðleg einkenni. I eigin landi hafa þau komið á vonarvöl flestum smáum eignamönnum og iðnrekendum og um leið hafa þau orðið að stórfenglegum samsteypum á alþjóðavettvangi, sem innihalda heilar greinar iðnaðar, landbúnaðar, byggingaframkvæmda, flutninga o.fl. Alls staðar þar sem þessar samsteypur hafa teygt arma sína, alls staðar þar sem samþjöppun framleiðslunnar hefur verið náð af lítilli handfylli margmilljóna-kapítalista, hefur tilhneigingin til að uppræta minniháttar eignamenn og iðnrekendur orðið útbreiddari og augljósari. Þetta hefur leitt af sér frekari eflingu einokunarfyrirtækja.

> "Þessi umbreyting samkeppni yfir í einokun", sagði Lenín, "er eitt mikilvægasta fyrirbærið, - ef ekki það mikilvægasta, í efnahagslífi kapítalisma nútímans..." +

Með tilliti til þessa einkennis heimsvaldastefnunnar bætir hann við:

> "...uppkoma einokunarfyrirtækja sem afleiðing af samþjöppun framleiðslu almennt séð er alheimsfyrirbæri og grundvallarlögmál núverandi þróunarskeiðs auðvaldsins." ++

Þróun auðvaldsins við núverandi aðstæður staðfestir fullkomlega ofangreinda niðurstöðu Leníns. Nú eru einokunarfyrirtækin orðin dæmigerðasta og algengasta fyrirbærið sem einkennir heildarsvip heimsvaldastefnunnar, efnahagslegur kjarni hennar. Í heimsvaldalöndunum s.s. Bandaríkjunum, Þýska Sambandslýðveldinu, Bretlandi, Japan, Frakklandi o.fl. hefur samþjöppun framleiðslunnar náð ófyrirséðum hlutföllum.

Til dæmis voru árið 1976 næstum 17 millj. manna, þ.e.a.s. meira en 20% starfandi fólks, ráðnar hjá 500 stærstu fyrirtækjum Bandaríkjanna. Sextíu og sex prósent allra seldra vara komu frá þessum fyrirtækjum. Þegar Lenín skrifaði bók sína "Heimsvaldastefnan - hæsta stig auðvaldsins" var aðeins eitt stórt amerískt fyrirtæki með meira en einn milljarð dollara hlutafjár en 1976 var tala milljarðafélaga um 350. 1975 átti risa-einokunarfyrirtækið "General Motors Corporation" (bifreiðahringur) heildarauðmagn að upphæð meira en 22 milljarða dollara og arðrændi um það bil 800.000 verkamenn. Næst kemur einokunarfyrirtækið "Standard

---

\+ V.I.Lenín, Ritsafn,bindi 22, bls.237 (Alb. útg.)

++ Sama, bls.241

Oil of New Jersey" sem drottnar yfir olíuiðnaði Bandaríkjanna og fleiri landa og arðrænir yfir 700.000 verkamenn. I bílaiðnaðinum eru þrjú stór einokunarfyrirtæki sem ráða yfir meira en 90 prósentum framleiðslunnar í þeirri grein. I flugvélaiðnaðinum ráða fjögur mjög stór fyrirtæki yfir 65% framleiðslunnar og í stáliðnaðinum eru einnig fjögur stór fyrirtæki sem ráða yfir 47% framleiðslunnar.

Sama ferli hefur einnig átt sér stað og á sér stað í öðrum heimsvaldalöndum. I Þýska Sambandslýðveldinu hafa 13% af heildarfjölda fyrirtækjanna safnað saman u.þ.b. 50% framleiðslunnar og 40% af vinnuafli landsins. I Bretlandi drottna 50 stór einokunarfyrirtæki yfir öllu. "The British Steel Corporation" ræður yfir meira en 90% af stálframleiðslu landsins. I Frakklandi hafa tvö félög þjappað saman þrem fjórðu stálframleiðslu landsins, fjögur einokunarfyrirtæki eiga gervalla bílaframleiðsluna, og fjögur önnur stjórna allri framleiðslu olíuafurða. I Japan framleiða tíu stór járnmálms-félög allt hrájárn og meira en þrjá fjórðu stálsins en átta félög starfa í málmvinnslu utan járns. Sama gildir um aðrar greinar og svið.+

Þau litlu og meðalstóru fyrirtæki, sem enn halda velli í þessum löndum eru algjörlega háð einokunarfyrirtækjum. Þau taka við fyrirskipunum frá þeim og vinna fyrir þau; fá lán og hráefni, tækni o.fl. I reyndinni hafa þau orðið útibú einokunarfyrirtækjanna.

Samþjöppun og miðstýring framleiðslu og auðmagns, sem skapar risavaxin einokunarfyrirtæki, sem ekki eiga neitt sameiginlegt tækni-

---

+ Upplýsingar frá: "Monthly Bulletin of Statistics", Sameinuðu þjóðirnar, 1977; "Statistical Yearbook" 1976; bandaríska tímaritinu "Fortune", 1976, o.fl.

lega séð, er útbreidd nú á tímum. Fyrirtæki og heilar greinar iðnaðarframleiðslu, bygginga-framkvæmda, flutninga, verslunar, þjónustu,.... o.s.frv. starfa innan þessara risavöxnu "sam-suðu"-einokunarfyrirtækja. Þau framleiða allt frá barnaleikföngum til flugskeyta, sem skjóta má heimsálfa á milli.

Efnahagslegt vald einokunarfyrirtækjanna og samþjöppun auðmagnsins, sem hefur aukist og eykst stöðugt, skapar þær aðstæður, að fórnar-lömb samkeppninnar eru ekki aðeins "litlu börnin", þ.e.a.s. fyrirtæki sem ekki hafa ein-okunaraðstöðu, sem var dæmigert áður fyrr, heldur jafnvel stór fjármálafyrirtæki og sam-tök. Sem afleiðing af hinu óseðjandi hungri einokunarfyrirtækjanna í mikinn einokunargróða og hinni gífurlegu skerpingu samkeppninnar, hefur þetta ferli tekið á sig risavaxna mynd síðustu tvo áratugi. Sambræðslurnar og yfir-drottnararnir í auðvaldsheiminum eru 7-10 sinnum stærri nú en þeir voru á árunum fyrir seinni heimsstyrjöldina.

Sambræðslur og samtök iðnaðar-, verslunar-, landbúnaðar- og banka-fyrirtækja hafa fætt af sér ný form einokunar - iðnaðar-verslunarfélög eða iðnaðar-landbúnaðarfélög - form, sem mikið eru notuð, ekki aðeins í auðvaldslöndum Vestur-landa, heldur einnig í Sovétríkjunum, Tékkó-slóvakíu, Júgóslavíu og fleiri endurskoðunar-sinnalöndum. Áður fyrr fluttu og seldu ein-okunarfyrirtækin vörur sínar með hjálp annarra sjálfstæðra fyrirtækja, en nú ráða þau yfir framleiðslunni, flutningunum og sölunni.

Einokunarfyrirtækin reyna ekki aðeins að uppræta samkeppni milli fyrirtækja undir eigin stjórn, heldur hafa þau einnig teygt klærnar yfir í það að einoka allar hráefnalindir, öll svæði auðug af mikilvægum jarðefnum, eins og járni, kolum, kopar úraníum o.fl. Þetta ferli á sér stað bæði á þjóðlegum og alþjóðlegum vettvangi.

Samþjöppun framleiðslu og auðmagns tók á sig risavaxna mynd, sérstaklega eftir seinni heimsstyrjöldina, með útþenslu og þróun ríkiseinokunarauðvaldsins.

Ríkiseinokunarauðvald þýðir að ríkiskerfið er gert að undirsátu einokunarfyrirtækjanna og komið á fót algjörri drottnun þeirra í efnahagslegu, pólitísku og félagslegu lífi landsins. Þannig hlutast ríkið beint til um efnahagslífið fyrir hagsmuni fjármálafáveldisins. Markmiðið er að tryggja hámarksgróða fyrir valdastéttina með arðráni á öllu hinu vinnandi fólki og jafnframt að kæfa byltinguna og frelsisbaráttu alþýðunnar.

Eignir ríkiseinokunar - sem eru mest einkennandi grundvallaratriðið fyrir ríkiseinokunarkapítalismann - eru ekki eignir einstakra kapítalista, né heldur hóps kapítalista, heldur eignir auðvaldsríkisins, eignir hinnar ríkjandi borgarastéttar. I ýmsum heimsvaldalöndum ræður ríkiseinokunarkapítalisminn yfir 20 til 30 prósentum af heildarframleiðslunni.

Ríkiseinokunarkapítalisminn, sem er hæsta stig samþjöppunar framleiðslu og auðmagns, er nú ráðandi eignarform í Sovétríkjunum og hinum endurskoðunarsinnalöndunum. Þessi ríkiseinokunarkapítalismi þjónar hinni nýju, ráðandi borgarastétt.

I Kína er efnahagslífið einnig að taka á sig mynd dæmigerðs ríkiseinokunarkapítalisma fyrir tilstilli fjölda breytinga eins og þeirra að gera gróðann að höfuðmarkmiði í starfsemi fyrirtækjanna, notkun kapítalískra aðferða í skipulagningu, stjórnun og launamálum, myndun efnahagslegra svæða, hringa og samsteypa mjög áþekkum hinum sovésku, júgóslavnesku og japönsku, opnun fyrir innstreymi erlends auðmagns, bein tengsl fyrirtækja við erlend einokunarfyrirtæki o.fl.

I auðvalds- og endurskoðunarsinnaheiminum

hefur samþjöppun og miðstýring framleiðslu og auðmagns nú náð millirikjastigi. Efnahagsbandalag Evrópu, Comecon o.s.frv., sem eru samtök einokunarfyrirtækja ýmissa heimsvaldaafla, örva líka þessa tilhneigingu og framkvæma hana í raun.

I greiningu sinni á gerð alþjóðlegra einokunarfyrirtækja á sínum tíma talaði Lenín um samsteypur og hringa. Við núverandi aðstæður - þegar samþjöppun framleiðslu og auðmagns hefur náð mjög háu stigi - hefur einokunarborgarastéttin fundið önnur form fyrir arðránið á verkafólki. Það eru fjölþjóðafyrirtækin.

Á yfirborðinu leitast þessi félög við að láta líta svo út sem þau séu sameiginleg eign kapítalista margra landa. Í raun og veru, með tilliti til auðmagns þeirra og stjórnunar, tilheyra fjölþjóðafyrirtækin aðallega einu landi, þótt þau hafi starfsemi sín í mörgum löndum. Þau þenjast sífellt meira út með því að yfirtaka félög og fyrirtæki, sem fyrir eru, sem geta ekki staðist hina villtu samkeppni.

Fjölþjóðafyrirtækin setja upp dótturfyrirtæki og þenja út fyrirtæki sín í þeim löndum, sem vænlegust virðast til að tryggja hámarksgróða. T.d. Bandaríska fjölþjóðafyrirtækið "Ford" hefur sett upp 20 stórar verksmiðjur í öðrum löndum, sem hafa í vinnu 100 þúsund verkamenn af ýmsum þjóðernum.

Milli fjölþjóðafyrirtækjanna og hins borgaralega ríkis eru traustir hlekkir og gagnkvæmt traust, sem byggjast á arðránsstéttareðli þeirra. Auðvaldsríkið er notað sem verkfæri í þeirra þjónustu fyrir yfirdrottnunar- og útþenslustefnu þeirra bæði á þjóðlegum og alþjóðlegum vettvangi....

Sum fjölþjóðafyrirtæki ein sér eru meiri háttar efnahagslegt afl vegna þess að þau hafa leiðandi hlutverk í efnahagslífinu og geysileg

áhrif í öllu lífi landsins. Þetta efnahagslega afl stendur á mörgum sviðum jafnfætis eða jafnvel framar samanlögðum fjárlögum eða framleiðslu ýmissa auðvaldslanda. Framleiðsla eins hinna valdamiklu fjölþjóðafyrirtækja í Bandaríkjunum, "General Motors Corporation", er meiri en samanlögð iðnaðarframleiðsla Hollands, Belgíu og Sviss. Fjölþjóðafyrirtækin hlutast til um málefni þeirra ríkja, sem þau starfa í, til að tryggja sérstaka hagsmuni sína og forréttindi. Tökum dæmi: Eigendur rafeindaiðnaðarins í Bandaríkjunum kröfðust þess 1975, að mexíkanska ríkisstjórnin breytti vinnulöggjöf landsins sem innihélt vissa öryggisþætti. Að öðrum kosti myndu þeir flytja reksturinn til Costa Rica. Til að þrýsta á lokuðu þeir mörgum verksmiðjum, þar sem unnu nálega 12.000 mexíkanskir verkamenn.

Fjölþjóðafyrirtækin eru verkfæri heimsvaldastefnunnar og eitt helsta formið á útþenslu hennar. Þau eru undirstöður ný-nýlendustefnunnar og veikja þjóðlegt sjálfræði og sjálfstæði í þeim löndum, sem þau starfa í. Þessi fyrirtæki hika ekki við að fremja hvers kyns glæpi til að greiða fyrir drottnun sinni. Allt frá því að skipuleggja samsæri og trufla efnahagslífið til þess beinlínis að kaupa upp háttsetta embættismenn, pólitíska og faglega leiðtoga o.s.frv. Lockheed-hneykslið færði nægar sannanir fyrir þessu.

Einnig í endurskoðunarsinna-löndunum hafa mörg fjölþjóðafyrirtæki komið sér fyrir og hafið starfsemi.+ Þau hafa einnig hafið inn-

+ Sautján bandarísk, 18 japönsk, 13 vestur-þýsk, 20 frönsk og 7 ítölsk og fleiri fjölþjóðafyrirtæki hafa komið sér fyrir í Sovétríkjunum eða opnað skrifstofur þar. Meira en 30 fjölþjóðafyrirtæki hafa komið sér fyrir í Póllandi. Af þeim eru 10 bandarísk, 6 vestur-þýsk, 6 bresk, 3 japönsk o.s.frv. I Rúmeníu starfa 32 slík fyrir-

reið sína í Kína.

Það sem einkennir auðvaldsheiminn í dag er samþjöppun og miðstýring framleiðslu og auðmagns. Þetta hefur haft í för með sér umfangsmikla "sósíalíseringu" framleiðslunnar, en ekki á neinn hátt breytt arðránseðli heimsvaldastefnunnar. Þvert á móti, þetta hefur aukið og eflt kúgun og fátækt hinnar vinnandi alþýðu. Þessi fyrirbæri sanna til hlítar þá kenningu Leníns, að samþjöppun framleiðslu og auðmagns á tímum heimsvaldastefnunnar

"hefur í för með sér geysilega framþróun hvað varðar "sósíalíseringu" framleiðslunnar", en, samt sem áður, "...eignarétturinn heldur áfram að vera í höndum einkaaðila. Hin samfélagslegu framleiðslutæki eru enn einkaeign mjög fárra."+

Einokunarfyrirtækin og fjölþjóðafyrirtækin eru enn sem fyrr miklir féndur öreiganna og alþýðunnar.

Efling þeirrar þróunar, að framleiðsla og auðmagn þjappist saman, sem á sér stað á okkar dögum, hefur enn fremur skerpt grundvallarmóthverfu kapítalismans. Það er móthverfan milli félagslegs eðlis framleiðslunnar og einka-eðlis eignarhaldsins. Þessi þróun hefur líka skerpt allar aðrar móthverfur kapítalismans. Þær geysilegu tekjur og stórgróði, sem spretta upp úr villimannlegu arðráninu á verkafólki, falla í skaut hnefafylli af auðvaldsstórlöxum. Þetta er nú á dögum eins og áður fyrr. Eins er það með framleiðslutækin, sem iðnaðurinn er búinn, að þau eru einkaeign kapítalista, á meðan verk-

---

tæki, í Ungverjalandi 31, og í Tékkóslóvakíu 30. Eins lítur þetta út í hinum endurskoðunarsinnalöndunum. (Upplýsingar úr bókinni "Vodka-Cola" eftir Karl Levinson, 1977, bls. 79-82).

+ V.I. Lenín: Ritsafn, 22. bindi bls. 247 (Alb. útg.)

alýðsstéttin er þræll þeirra sem eiga framleiðslutækin og vinnuafl hennar er enn markaðsvara. Nú á dögum tekur arðrán stóru auðvaldsfyrirtækjanna ekki lengur til tuga eða hundruða verkamanna heldur hundruða þúsunda. Árangurinn af miskunnarlausu arðráni auðvaldsins á þessum mikla verkalýðsfjölda er sá, að gildisaukinn, sem bandarísk fyrirtæki hirtu aðeins árið 1976, er talinn vera yfir 100 milljörðum dollara, en var 44 milljarðar 1960.

Lenín afhjúpaði hentistefnumenn Annars Alþjóðasambandsins, sem héldu því fram sem möguleika, að ósættanlegar móthverfur kapitalismans myndu hverfa vegna uppkomu og þróunar einokunarfyrirtækja. Hann sýndi fram á, að einokunarfyrirtækin, sem burðarásar kúgunar og arðráns á vinnunni og einkaeignar á afrakstri vinnunnar, skerpa jafnvel móthverfur kapitalismans til muna. Yfirbygging auðvaldsskipulagsins er grundvölluð á drottnun einokunarfyrirtækjanna. Þessi yfirbygging er fulltrúi fyrir og verjandi rángjarnra hagsmuna einokunarfyrirtækjanna bæði á þjóðlega sviðinu og hinu alþjóðlega. Einokunarfyrirtækin stjórna innanlands- og utanríkisstefnunni og einnig stefnunni á sviði efnahags, félagsmála, hernaðar og á öðrum sviðum.

Samþjöppun framleiðslu og auðmagns - sem er veruleiki dagsins í dag - afhjúpar einnig predikanir afturhaldssamra leiðtoga sósíaldemókrata, nútíma endurskoðunarsinna og hentistefnumanna af öllum blæbrigðum. Þessar predikanir ganga út á það, að hringunum, eignum einokunarkapitalisma ríkisins o.s.frv. megi umbreyta á friðsamlegan hátt í sósíalískt efnahagskerfi, að einokunarkapitalismi nútímans muni smám saman snúast yfir í sósíalisma.

Lenín kennir okkur, að samþjöppun framleiðslu og auðmagns sé einnig grundvöllur fyrir aukna samþjöppun fjármagns, samþjöppun þess í höndum stórra banka og fyrir tilurð og þróun

fjármálaauðvalds. I þróunarferli kapítalismans og einokunarfyrirtækjanna, taka bankarnir geysilegri þróun. Þeir fá í hendur fjármagn einokunarfyrirtækjanna og samsteypanna og einnig fjármagn minni framleiðenda og fjárfestingaraðila. A þennan hátt verða bankarnir - sem eru í höndum kapitalistanna og þjóna þeim - eigendur mikilvægustu þátta fjármálalífsins.

Sama ferli og átti sér stað þegar stóru fyrirtækin útrýmdu þeim smærri, á sér stað þegar hinum smærri bönkum hefur verið útrýmt einum af öðrum. Nákvæmlega eins og stórfyrirtækin, sköpuðu stóru bankarnir bankasamsteypur sínar. Síðustu tvo áratugi hefur þetta fyrirbæri tekið á sig tröllaukna mynd og heldur hraðfara áfram enn í dag. Áberandi einkenni á sambræðslum og yfirtökum nútímans er sú staðreynd, að í þær blandast ekki aðeins litlu bankarnir heldur einnig meðalstórir og tiltölulega stórir bankar. Þetta fyrirbæri á rætur að rekja til dýpkandi andstæðna í kapítalískri endurnýjun, útvíkkun á baráttu og samkeppni og hinni alvarlegu kreppu sem ríkir í fjármála- og peningakerfi auðvaldsheimsins.

Tuttugu og sex stórir fjármálahópar drottna í Bandaríkjunum. Stærstur þeirra er Morganhópurinn með 20 stórbanka, tryggingafélög o.s. frv. og hlutafé að upphæð 90 milljarða dollara.

Stig samþjöppunar og miðstýringar á bankafjármagni er einnig mjög hátt í hinum helstu auðvaldslöndunum. I Vestur-Þýskalandi eiga þrír af sjötíu stórbönkum yfir 58 prósent allra bankainnistæðna. I Bretlandi er allri bankastarfsemi stjórnað af fjórum bönkum, sem ganga undir nafninu "Hinir fjórir stóru". Samþjöppunarstig bankafjármagns er einnig hátt í Japan og Frakklandi.

Lenín hefur sannað, að bankafjármagn er samtvinnað iðnaðarfjármagni. I fyrstu hafa bank-

arnir áhuga á örlögum þeirra lána, sem þeir veita iðjuhöldunum. Þeir miðla málum til að tryggja að iðjuhöldarnir, sem lánin fá, nái samkomulagi sín á milli með það fyrir augum að komast hjá innbyrðis samkeppni, því hún myndi einnig skaða bankana sjálfa. Þetta var fyrsta stigið í samtvinnun bankanna við iðnaðarauðmagnið. Með þróun samþjöppunar í framleiðslu og fjármagni fjárfesta bankarnir beint í framleiðslufyrirtækjum með því að stofna sameiginleg hlutafélög. Á þennan hátt treður bankafjármagnið sér inn í iðnað, byggingaiðnað, landbúnað, flutninga, dreifingarkerfið og á öll önnur svið. Fyrirtækin kaupa mikið af hlutabréfum og verða hluthafar í bönkum. Nú á tímum eru stjórnendur banka og einokunarfyrirtækja fulltrúar í stjórnarnefndum hvers annars og mynda þannig það, sem Lenín kallaði "persónusamtök". Fjármálaauðvaldið, sem þetta ferli fæðir af sér, inniheldur allar myndir auðmagns; iðnaðarauðmagn, fjármálaauðmagn, og vöruauðmagn. Eftirfarandi sagði Lenín um einkenni þessa ferlis:

> "Samþjöppun framleiðslunnar; einokunarfyrirtækin, sem upp af henni spretta; samruni eða sameining banka við iðnaðinn - það er sagan um tilkomu fjármálaauðvaldsins og þetta er innihald þess hugtaks."+

Þrátt fyrir að fjármálaauðmagnið hafi eflst og tekið breytingum hvað uppbyggingu varðar frá seinni heimsstyrjöldinni, þá hefur það enn nákvæmlega sömu markmið og það hefur alltaf haft; að ná hámarksgróða í gegnum arðránið á hinum breiða vinnandi fjölda innanlands sem utan. Tryggingafélögin, sem hefur fjölgað geysilega síðustu árin í helstu auðvaldslöndunum og hafa orðið keppinautar bankanna, hafa sama hlutverk. I Bandaríkjunum t.d. jukust eignir bankanna 3.5

---

\+ V.I. Lenín: Ritsafn, 22. bindi, bls. 247 (Alb. útg.)

sinnum frá 1950 til 1970, en eignir tryggingafyrirtækja á sama tíma 6.5 sinnum.

Með því auðmagni, sem þessi fyrirtæki safna saman með því að arðræna alþýðuna, geta þau fært einokunarfyrirtækjunum háar upphæðir; hundruð milljóna dollara. Á þennan hátt eru tryggingafélögin samrunnin og samtvinnuð iðnaðar- og banka-einokuninni og verða lifandi hluti af fjármálaauðvaldinu.

Rekin áfram af óseðjandi gróðahungri sínu breytir einokunarborgarastéttin öllum þeim peningum, sem hverju sinni eru fáanlegir í auðmagn, þ.á.m. lífeyrissjóðum verkafólks, sparifé alþýðunnar o.s.frv.

Samþjappað fjármálaauðvald hefur óvenju miklar tekjur, ekki aðeins vegna þess gróða, sem hringir, minni iðjuhöldar o.s.frv. gefa af sér, heldur einnig af útgáfu verðbréfa og vöxtum af lánum. I seinna tilfellinu, alveg eins og í daæminu um sparifjárinneignir, kemur aðeins lítill hluti gróðans í hlut þeirra, sem lána, en bankinn sjálfur rakar saman geysilegum gróða á þessari starfsemi. Þannig eykur hann eigið auðmagn og fjárfestingar, sem að sjálfsögðu leiða af sér stöðugan straum aukins gróða til handa fjármálaauðvaldinu. Fjármálaauðvaldið fjárfestir aðallega í iðnaði, en hefur einnig fært út net spákaupmennsku sinnar á svið annarra eigna, eins og lands, járnbrauta og annarra greina og sviða.

Bankarnir hafa raunverulega möguleika á að útvega háar upphæðir lána, sem nauðsynleg eru vegna hins háa stigs framleiðslusamþjöppunar og drottnunar einokunarfyrirtækjanna. Á þennan hátt eru skapaðar hagstæðar aðstæður fyrir stóru einokunar-samsteypurnar til að efla villimannlegt arðrán sitt á vinnandi fólki, bæði heima og erlendis, með það fyrir augum að tryggja hámarksgróða.

Með endurreisn kapítalismans í Sovétríkjunum og hinum endurskoðunarsinna-löndunum hafa

bankarnir þar fengið öll einkenni einokunar. Í þessum löndum þjóna bankarnir arðráninu á hinum breiða fjölda verkafólks, bæði heima og erlendis, á sama hátt og í öllum öðrum auðvaldslöndum.

Á síðustu árum hefur afborgunaverslun, þar sem viðskiptavinirnir kaupa neysluvarning - sérstaklega varanlega neysluhluti - með afborgunum vaxið hröðum skrefum í auðvalds- og endurskoðunarsinna-löndunum. Útvegun slíkra lána tryggir vörusölu á borgaralegum mörkuðum og kapítalistarnir raka saman stórgróða á þeim háu vöxtum, sem upp eru settir, en skuldunautarnir eru hlekkjaðir við lánadrottnana og auðvaldsfyrirtækin. Skuldir og aðrar skuldbindingar hins vinnandi fólks við bankana og aðrar lánastofnanir hafa aukist mjög nú á tímum. Í Bandaríkjunum einum voru skuldir landsmanna vegna slíkra lána komnar upp í 167 milljarða dollara árið 1976, en voru 6 milljarðar árið 1945. Í Þýska Sambandslýðveldinu voru skuldir landsmanna komnar yfir 46 milljarða marka.

Aukin samþjöppun og miðstýring bankaauðmagns hefur leitt til aukinnar efnahagslegrar og pólitískrar drottnunar fjármálafáveldisins og notkunar á röð forma og aðferða til að auka hina efnahagslegu fjötra og fátækt og eymd hins breiða fjölda vinnandi fólks.

Þróun fjármálaauðvalds gerði litlum hópi iðnaðarkapítalista og bankaeigenda kleift að safna að sér miklum auðæfum, en einnig að þjappa saman í sínar hendur raunverulegu efnahagslegu og pólitísku valdi, sem lætur til sín taka í öllu lífi landsins. Það er þetta almáttuga fólk, sem ríkir yfir einokunarfyrirtækjunum og bönkunum og myndar það sem kallað er fjármálafáveldið. Stórfyrirtækjunum hefur nú verið breytt í hlutafélög og einstakir verkamenn eiga jafnvel nokkur táknræn hlutabréf. Málsvarar kapítalismans nota þessa

staðreynd til að sýna fram á, að auðvaldið hafi nú tapað því einka-eðli, sem það hafði á þeim tíma er Marx skrifaði "Auðmagnið" eða þegar Lenín gerði greiningu sína á heimsvaldastefnunni. Þeir halda því fram, að það sé orðið auðvald alþýðunnar. En þetta er firra. Nú á dögum eins og áður fyrr eru það valdamiklir hópar einkaaðila á sviði iðnaðar og fjármála, sem drottna yfir auðvaldslöndunum: Rockefellerfjölskyldan, Chicagohópurinn, Texashópurinn, Kaliforníuhópurinn og fleiri hópar í Bandaríkjunum; Rothschilds-, Behrings-, og Samuels-hóparnir og fleiri í Bretlandi; Krupp, Siemens, Mannesmann, Thyssen, Gerling og fleiri í Vestur-Þýskalandi; Fiat, Alfa-Romeo, Montedison, Olivetti o.fl. á Ítalíu; voldugu fjölskyldurnar í Frakklandi o.s.frv.

Fjármálafáveldið hefur komið á fót efnahagslegri og pólitískri drottnun sinni yfir gervöllu lífi landsins. Þessi drottnun grundvallast á eignarhaldi þess á iðnaðar- og fjármálaauðmagni. Fjármálafáveldið hefur einnig náð ríkisvaldinu undir sína stjórn og því hefur verið breytt í tæki í höndum fjármálayfirstéttarinnar. Fjármálafáveldið fellir og kemur á fót ríkisstjórnum, og segir til um stefnuna í innanríkis- og alþjóðamálum. Innanlands er það samtvinnað afturhaldsöflunum, öllum þeim pólitísku, hugmyndafræðilegu og mennta- og menningarstofnunum, sem verja efnahagslegt og pólitískt vald þess. Í utanríkispólitíkinni ver fjármálafáveldið og styður öll þau íhalds- og afturhaldsöfl, sem ryðja veginn fyrir og styrkja útþensluna á einokun þess og berjast fyrir viðgangi og eflingu kapitalismans.

Fjármálafáveldið hikar ekki við að nota hvers kyns meðul til að tryggja drottnun sína og koma á legg pólitísku afturhaldi á öllum sviðum.

".....fjármálaauðvaldið," sagði Lenín, "sækist eftir drottnun en ekki frelsi."+

Ástandið í dag sannar að kúgun einokunarborgarastéttarinnar hefur alls staðar færst í aukana. Á grundvelli þess hefur móthverfan milli öreigastéttarinnar og borgarastéttarinnar dýpkað. Um leið hefur efnahagsleg og fjármálaleg útþensla, ásamt pólitískri og hernaðarlegri útþenslu, skerpt móthverfurnar milli alþýðunnar og heimsvaldastefnunnar eins og reyndar móthverfurnar milli heimsvaldaríkjanna innbyrðis. Í áróðri sínum um þessar mundir líta kínversku endurskoðunarsinnarnir fram hjá þessum óneitanlega hlutlæga veruleika.

Samþjöppun og miðstýring bankaauðmagnsins á sér nú stað, ekki innan ramma einstakra ríkja, heldur meðal margra auðvaldsríkja eða auðvalds- og endurskoðunarsinna-ríkja. Sameinaðir bankar Efnahagsbandalags Evrópu, eða "Alþjóðlegi efnahagssamvinnubankinn", sem og "Fjárfestingabanki" Comecon, eru þessa eðlis. Á sama hátt eru samsteypur vesturþýsk-pólsku, ensk-rúmensku, fransk-rúmensku, ensk-ungversku, amerísk-júgóslavnesku, ensk-júgóslavnesku og fleiri banka samsteypur af auðvaldsgerð. Sovétríkin hafa stofnsett fjölda banka í mörgum auðvaldslöndum og þeir hafa hvarvetna orðið keppinautar og samstarfsaðilar auðvaldsbankanna, í Zurich, London, París, Afríku , Rómönsku Ameríku og víðar.

Kína sekkur einnig sífellt dýpra í þetta samrunafen auðvaldsbankanna. Auk kínversku bankanna í Hong-Kong, Macao, og Singapore mun Kína í nánustu framtíð setja á stofn banka í Japan, Ameríku og víðar. Á sama tíma er bönkum heimsvaldaaflanna hleypt inn í Kína.

Lenín lagði áherslu á, að auðvald nútímans

+ V.I. Lenín, Ritsafn, 23. bindi, bls. 124 (Alb. útg.)

einkennist af auðmagnsútflutningi. Þetta efnahagslega einkenni heimsvaldastefnunnar hefur þróast og styrkst fram á þennan dag. Stærstu auðmagnsútflytjendur heims eru nú Bandaríkin, Japan, Sovétríkin, Þýska Sambandslýðveldið, Bretland og Frakkland.

Á vissu tímabili var auðmagn flutt út frá Bandaríkjunum, Bretlandi, Frakklandi og Þýskalandi, löndum með þróaðan iðnað, sem mergsugu auðlindir nýlendnanna. Í kjölfar stríðs og kreppu urðu heimsvaldaríki á borð við Bretland, Frakkland og Þýskaland efnahagslega veikari um leið og ameríska heimsvaldastefnan styrktist og varð að stórveldi. Í ástandi því, sem skapaðist eftir seinni heimsstyrjöldina, var hinn stríði straumur auðmagnsútflutnings frá Bandaríkjunum mjög skaðlegur fyrir hin auðvaldsríkin.

Nú hefur bandarískt auðmagn verið flutt út til allra landa, jafnvel hinna iðnvæddu, í formi fjárfestinga og lána, í formi samvinnu í sameinuðum fyrirtækjum eða með því að koma á fót stórum iðnaðarfyrirtækjum. Bandaríska heimsvaldastefnan, einokunarauðvaldið, fjárfestir í vanþróuðum og fátækum ríkjum vegna þess að framleiðslukostnaður er þar lágur, og arðránið á verkalýðnum mikið. Hún fjárfestir til að tryggja sér hráefni, einoka markaðinn og selja iðnaðarframleiðslu sína. Eins og kunnugt er þróast auðvaldsríkin ójafnt. Þess vegna flytja stóru einokunarfyrirtækin og félögin í Bandaríkjunum og í öðrum löndum út auðmagn einmitt til þeirra landa, þar sem efnahagsþróunin kallar á fjárfestingu og tækni.

Auðmagn, sem fjárfest hefur verið færir fjármálasamsteypunum og einokunarfyrirtækjunum ótrúlegan gróða vegna þess, að í fátæku, vanþróuðu löndunum er hægt að kaupa land og meðfylgjandi auðlindir í stórum stíl fyrir litla peninga. Vinnuafl er einnig ódýrt vegna þess

að fólk sem lifir við hungurmörkin neyðist til að vinna fyrir mjög lágt kaup. Það hefur verið reiknað út, að fyrir hvern dollar, sem fjárfestur er í þessum löndum, græði heimsvaldaríkin 5 dollara.

Samkvæmt opinberum bandarískum upplýsingum námu beinar fjárfestingar *Bandaríkjanna* í hinum nýju ríkjum samtals 6.5 milljörðum dollara á árunum 1971 - 75, en gróði þeirra í þessum löndum var á sama tíma nærri 30 milljarðar dollara.+

Til að dylja auðmagnsútflutninginn grípa heimsvaldaríkin einnig til þess ráðs að veita *lán*. *Með þessum* svokölluðu lánum eða aðstoð setja stóru auðvaldssamsteypurnar og viðkomandi ríki mikinn þrýsting á þau ríki og þær þjóðir, sem veita lánunum viðtöku, og hafa stjórn á þeim. "Aðstoðin" við og lánin til vanþróuðu landanna eiga rætur að rekja til arðránsins á auðæfum þeirra sem og arðráni á verkalýð þróuðu landanna og þau falla í skaut hinna auðugu í vanþróuðu löndunum. Með öðrum orðum þýðir þetta, að stóru bandarísku einokunarfyrirtækin, t.d., auðgast á þrældómi bæði bandarískrar alþýðu og alþýðu annarra landa, og þegar þau flytja út auðmagn og veita lán, þá eru þeir peningar afrakstur af blóði og svita þessara þjóða. En þessi lán, sem stóru einokunarfyrirtækin veita löndum hins svokallaða þriðja heims, þjóna í raun hinni lénsku borgarastétt, sem drottnar í þessum löndum.

Lánin, sem hin nýju ríki fá, eru hlekkir í þeirri keðju heimsvaldastefnunnar, sem hún herðir að hálsi viðkomandi þjóða. Skýrslur sýna, að skuldir þessara landa tvöfaldast á hverjum fimm árum. Skuldir vanþróuðu landanna við heimsvaldaríkin jukust úr 8.5 millj-

---

\+ Úr ameríska tímaritinu "Survey of Business", bls.44, ágúst 1976.

örðum dollara 1955 í 150 milljarða dollara 1977.

Heimsauðvaldið hefur þróað tækni og sérþekkingu í eigin þágu með það fyrir augum að margfalda gróða sinn af nýjum neðanjarðarauðlindum, eflingu landbúnaðarins o.s.frv. Öll þessi tækni, vísindabyltingin og hinar nýju aðferðir við efnahagslegt arðrán, þjóna heimsvaldastefnunni og einokunarkapítalismanum en ekki alþýðunni. Kapítalisminn fjárfestir ekki, lánar né flytur út auðmagn til annarra landa án þess að reikna fyrst út gróða sinn af fyrirtækinu. Stóru einokunarfyrirtækin og bankarnir, sem spunnið hafa vef sinn yfir allan hinn kapítalíska og endurskoðunarsinnaða heim, veita aldrei lán án þess að hafa í höndunum öruggar heimildir um tekjur sínar af námuvinnslu, jarðyrkju, olíuvinnslu, vatnsöflun í eyðimörk o.s.frv.

Lán eru einnig veitt á annan hátt, samanber það sem stundað er af gervi-sósíalísku ríkjunum um leið og þau reyna að leyna þeirri kapítalísku stefnu, sem þau hafa tekið upp. Þetta eru stórlán, sem veitt eru í formi verslunarlána og verða að sjálfsögðu að greiðast eftir skamman tíma. Þessi lán eru veitt sameiginlega af mörgum auðvaldsríkjum, sem hafa áður reiknað út þann efnahagslega og pólitíska hagnað, sem þau munu hafa af lánþegaríkjunum og þau taka með í reikninginn bæði efnahagslegt veldi og greiðslugetu viðkomandi ríkis. Kapítalistarnir veita aldrei lán til uppbyggingar sósíalismans. Þess vegna tekur raunverulegt sósíalískt ríki aldrei við neins konar lánum frá auðvalds- eða endurskoðunarsinnaríkjum.

Eins og krúséfsku Sovét-endurskoðunarsinnarnir nota kínversku endurskoðunarsinnarnir mörg vígorð, tilvitnanir og semja marga frasa, sem hljóma "lenínískt" og "bylt-

ingarsinnað" en hin raunverulega starfsemi þeirra er afturhaldssöm og gagnbyltingarsinnuð. Kínversku leiðtogarnir reyna jafnvel að láta svo líta út sem hentistefnusinnuð afstaða þeirra og tengsl við heimsvaldaríkin séu í þágu sósíalismans. Þessir endurskoðunarsinnar nota þetta dulargervi til að halda öreigalýðnum og alþýðunni frá ljósinu, svo að þeim reynist ógerlegt að gera úr óánægju sinni kraftmikið afl til að framkvæma byltinguna.

Tökum til dæmis atriðið um uppbyggingu landsins, þróun sósíalíska efnahagsins með eigin kröftum. Grundvallarreglan er rétt. Sérhvert sjálfstætt og sjálfráða sósíalískt ríki verður að virkja gervalla þjóðina og skilgreina efnahagsstefnu sína rétt. Það verður að gera allt sem hægt er til að nýta á sem bestan og skynsamlegastan hátt allar auðlindir landsins, fara sparlega með þær og auka þær í þágu eigin þjóðar og það má ekki leyfa öðrum að nýta þær. Þetta er aðal- og grundvallarafstaða sérhvers sósíalísks ríkis, en erlend aðstoð, frá öðrum sósíalískum ríkjum, er til uppfyllingar.

Lán, sem sósíalísk ríki veita hvert öðru, eru allt annars eðlis. Þessi lán byggja á óeigingjarnri aðstoð í anda alþjóðahyggjunnar. Slík aðstoð fæðir ekki af sér kapítalisma, hún gerir ekki fjöldann fátækari, heldur styður þróun iðnaðar og landbúnaðar. Þjónar samræmingu þeirra, leiðir til aukinnar velmegunar hins vinnandi lýðs og eflingar sósíalismans.

Í fyrsta lagi ættu hin efnahagslega þróuðu sósíalísku ríki að aðstoða önnur slík. Þetta þýðir ekki að sósíalísk ríki eigi ekki að mynda tengsl við ríki, sem ekki eru sósíalísk. En slík tengsl ættu að vera efnahagsleg og grundvallast á sameiginlegum hagsmunum

og mega ekki á nokkurn hátt gera efnahag so ialískra ríkja og ósósíalískra háðan hinum öflugri ríkjum. Ef þessi tengsl byggja á arðráni stórra og voldugra ríkja á hinum smærri og efnahagslega veikari, þá verður að hafna slíkri "aðstoð", því hún leiðir til þrælkunar.

Lenín segir, að fjármálaauðvaldið hafi bókstaflega kastað neti sínu yfir öll lönd heims. Kapítalísku einokunarfyrirtækin, hringarnir og samsteypurnar vinna skipulega. Fyrst ná þau undir sig innanlandsmarkaðinum heima fyrir, ná valdi yfir iðnaði og landbúnaði, þrælka verkalýðsstéttina og annað vinnandi fólk, sjúga út stórgróða og skapa sér síðan stórkostlega möguleika til að einoka markaði um allan heim. Fjármálaauðvaldið tekur beinan þátt í þessu.

Við sjáum nú að risaveldin tvö, bandaríska heimsvaldastefnan og sovéska sósíalheimsvaldastefnan berjast um skiptingu heimsins,til að komast yfir markaði. Þetta kemur heim og saman við kenningu Leníns um heimsvaldastefnuna sem síðasta stig auðvaldsins. Olíuvandamálið t.d., sem er orðið aðkallandi um allan heim, er fyrst og fremst á valdi stóru bandarísku einokunarfyrirtækjanna, en bresk, hollensk og fleiri olíufélög eru einnig flækt í það. Bandaríkjamenn fást við olíuvandamálið með það fyrir augum að fá algjöra einokunaraðstöðu. Þeir hafa fjárfest mikið auðmagn og sett upp meiri háttar tæki í olíuframleiðsluríkjunum, eins og Saudi-Arabíu, Íran og víðar. Þeir hafa ráðandi klíkur í þessum löndum í hendi sér, með því að múta konungum, sheikum og soldánum með stórum dollarafúlgum. Ráðamenn olíuframleiðsluríkjanna fá leyfi fjármála-yfirstéttarinnar í löndum sínum til að fjárfesta í Bandaríkjunum, Bretlandi og víðar, jafnvel að kaupa hluta í hinum ýmsu einokunarfyrirtækjum sem og lúxushótel, verksmiðjur

o.s.frv.

Saudi-Arabía t.d. er hálf-lénskt land, þar sem fátækt og fáfræði ráða ríkjum, þrátt fyrir að það vinni 420 milljónir lesta af olíu á ári. Á meðan verkalýðurinn býr við fátækt hafa kóngurinn og hin stóra landeigendastétt lagt inn 40 milljarða dollara bara í bankana í Wall Street. Ástandið er eins í Kuwait, Sameinuðu arabísku furstadæmunum og víðar. Þessar klíkur leyfa heimsvaldaríkjunum á allan hátt að arðræna auðæfi þjóðanna í löndunum, sem þær stjórna, með það fyrir augum að fá sjálfar hlutdeild í gróðanum.

Þær fjárfestingar, sem olíuframleiðsluríkin hafa gert og eru í eigu hinna ráðandi klíka, mynda bandalag - auðvitað mjög smávaxið - milli auðmagns þessara klíka og bandarísks og bresks auðmagns. Á yfirborðinu lítur svo út sem hinar ráðandi klíkur olíuframleiðsluríkjanna hafi nokkurs konar félag um fjárfestingar við bandarísku, bresku og frönsku heimsvaldastefnuna og hafi áhrif á efnahag þeirra. I raun og veru er þessu alveg öfugt farið. Gróði bandarísku heimsvaldasinnanna og annarra heimsvaldasinna er tröllaukin í samanburði við þann gróða sem deilt er til þessara klíka. Þetta er dæmigert fyrir ný-nýlendustefnu nútímans, sem gerir varfærnar tilslakanir til hagsbóta fyrir hinar kapítalísku eða lénsku valdahópa. Þetta skaðar ekki ný-nýlendustefnuna, heldur gerir henni kleyft að mergsjúga auðlindir ýmissa landa. Þetta staðfestir réttmæti þeirrar kenningar Leníns, að hagsmunir borgarastétta hinna ýmsu landa geti mjög auðveldlega samtvinnast rétt eins og hagsmunir einokunarfyrirtækja í einkaeign geta fléttast saman við hagsmuni ríkiseinokunar. Stóru einokunarfyrirtækin geta einnig sameinast hinum valda-

minni, sem ráða þó yfir miklum auðæfum, sérstaklega neðanjarðarauðlindum svo sem járni, krómi, kopar, úraníum og annars konar námum.

Ríkistjórnalán og -aðstoð hafa orðið eitt útbreiddasta form auðmagnsútflutnings nú á tímum. Slíkur útflutningur er sérstaklega stundaður af Sovétríkjunum og öðrum endurskoðunarsinnuðum löndum.

Auk þess að gefa af sér auðvaldsgróða hafa þessi lán, þessi "aðstoð", einnig pólitískan tilgang. Ríkið sem veitir lánin miðar að því að styðja og treysta í sessi pólitískt og efnahagslegt vald þeirra klíka, sem verja efnahagslega, pólitíska og hernaðarlega hagsmuni lánadrottinsins. Þar sem samningar um slík lán eru gerðir milli ríkisstjórna auka þeir enn á ósjálfstæði skuldunautarins gagnvart þeim sem lánar. Sígilt dæmi um þetta form á auðmagnsútflutningi er "Marshall - áætlunin" sem varð eftir seinni heimsstyrjöldina efnahagslegur grundvöllur fyrir pólitíska og hernaðarlega útþenslu Bandaríkjanna í löndum Vestur-Evrópu. Sama eðlis er hin svokallaða aðstoð, sem sovésku endurskoðunarsinnarnir veita til iðnþróunar og til að koma á fót ríkisreknum iðnaði í löndum eins og Indlandi, Irak og víðar.

Nú hafa bandaríska heimsvaldastefnan, sovéska sósíal-heimsvaldastefnan og auðvaldið í iðnvæddu löndunum komist á það stig, að gróði þeirra af upphleðslu auðmagns hefur vaxið gífurlega. Upphleðsla auðmagns skapar mikinn gróða, sem rennur í vasa einokaranna, fjármálafáveldisins. Þessum tekjum er ekki veitt í þjónustu hins fátæka verkafólks heldur eru þær fluttar úr landi þar sem hægt er að hafa af þeim enn meiri gróða. Þetta eru þau lönd, sem Kína kallar "Þriðja heiminn". Samt sem áður fjárfesta þeir einnig á þennan hátt í þróuðum auðvaldslöndum.

Margar bækur hafa verið skrifaðar um innrás bandarísks auðmagns í Evrópu og pólitísk og efnahagsleg markmið hennar. Skýra mynd af þessu gefur að líta í bók eftir bandaríska höfundinn Geofrey Owen. I upphafi kaflans "Fjölþjóðafyrirtæki" segir hann að þróunin í bandarískum fjárfestingum erlendis hafi átt sér stað í samræmi við þá hugmynd að bandarísk fyrirtæki séu ekki félög sem eigi hagsmuna að gæta erlendis heldur fjölþjóðafyrirtæki. Aðalstöðvar þessara fyrirtækja eru í Bandaríkjunum. Þetta þýðir að hin ýmsu stóru bandarísku fyrirtæki hugsa ekki aðeins um að sjá um eigið land og sjá fyrir þörfum iðnaðar og viðskiptavina innan Bandaríkjanna, heldur einnig um að þenja út net sitt til annarra landa. Þessi félög fjárfesta "umframfjármagn" sitt í öðrum löndum til að fá aukinn gróða. Risafyrirtæki eins og "Socony Mobile", "Standard Oil of New Jersey" o.fl. hafa næstum helminginn af gróða sínum af arðráni á öðrum löndum. Um 500 fyrirtæki hafa um 10 milljarða dollara gróða á ári utanlands. Það eru meira en 3000 slík fyrirtæki sem fjárfesta í öðrum löndum. Þetta er orsök þess, að hugtök á borð við "fjölþjóðafyrirtæki", eða "alþjóðlegt auðvald" hafa orðið daglegt brauð í blaðamennsku og bankastafsemi.

Geoffrey Owen segir að 1929 hafa yfir 1300 evrópsk félög verið í eigu eða undir stjórn bandarískra fyrirtækja. Þetta var fyrsta stigið í bandarísku árásinni á evrópskan iðnað. Þrýstingurinn af seinni heimsstyrjöldinni, sem var í undirbúningi, tafði tímabundið innrás bandarísks auðmagns. Frá 1929 til 1946 lækkaði upphæð beinna fjárfestinga bandarískra fyrirtækja í öðrum löndum úr 7.500 milljónum í 7.200 milljónir dollara. Samt sem áður hafði þessi upphæð hækkað í 11.200 milljónir dollara árið 1950, eftir seinni heimsstyrjöldina, og

var helmingur þess í Rómönsku Ameríku og Kanada. Fjárfestingarnar í Rómönsku Ameríku voru gerðar til að nýta hráefni: olíu, kopar, járngrýti, boxít, sem og banana og aðrar landbúnaðarafurðir. I Kanada var aðallega um að ræða námuvinnslu og olíu og fjárfestingar þróuðust mjög breitt, vegna nálægðar og annarra aðstæðna, sem auðvelduðu innstreymi auðmagns.

Evrópa 6.áratugarins varð einnig mikilvægt skotmark bandarískra fjárfestinga. Fjárfestingar í þessari heimsálfu jukust hratt í samgöngum, fjöldaframleiðsluvörum og flóknum tækjum. Ásamt fjárfestingum flæddu bandarískar vörur inn í Evrópu.

Umræddur höfundur bendir á að ástandið, sem skapaðist á auðvaldsmarkaðinum eftir seinni heimsstyrjöldina, ýtti enn undir bandarískar fjárfestingar. Hér eru tölur um aukningu þessara fjárfestinga erlendis: 1946 voru þær samtals 7.200 milljónir og síðan fóru þær að aukast í 11.200 milljónir 1950, 44.300 milljónir 1964 og yfir 60.000 milljónir dollara 1977.

Með því að þenja sífellt út starfsemi sína um víða veröld, hafa bandarísku félögin gert samkeppnina við staðbundin fyrirtæki mun ákafari og aukið óttann við drottnun bandarísku risanna. Þetta vandamál er jafnvel enn átakanlegra í vanþróuðu löndunum, þar sem bandarísk fyrirtæki drottna yfir lykilgreinum í iðnaði og hafa afgerandi áhrif á þjóðarhag þessara landa. Með öðrum orðum, stjórna þessi risavöxnu bandarísku félög viðkomandi efnahag og ríkisstjórnum og reka reyndar hvorttveggja.

Vel þekkt er hin langa barátta, sem stóð milli bandarísku olíufélaganna og mexíkönsku ríkisstjórnarinnar og lauk 1938 með hruni andstöðustefnunnar hjá mexíkönsku ríkisstjórninni. Svipuð var útkoman í baráttunni milli bresku olíueinokunarinnar og írönsku ríkis-

stjórnarinnar, sem endaði með falli Mossadeqs. Slíkir eyðileggjandi árekstrar eiga sér sífellt stað og þeim lýkur með sigri stóru bandarísku hringanna.

Stóru olíufélögin starfa um allan heim. Það hefur orðið þeim eðlilegt og nauðsynlegt að hafa fullkomna stjórn á öllu auðmagni og framleiðslu í þessari grein, að stjórna ríkisstjórnum í löndunum, sem þau hafa fjárfest í, vegna þess, að ef þau skortir þessa möguleika, geta komið upp erfiðleikar í samræmingu á aðgerðum þeirra um allan heim. Það er vegna þessa, sem stóru útlendu fyrirtækin leggjast gegn tilraunum kapítalistanna á staðnum til að öðlast stærri hluta af gróðanum en þann, sem fjárfestendurnir frá Bandaríkjunum eða öðrum heimsvaldalöndum úthluta þeim.

Bandarísku fyrirtækin í Evrópu, Kanada, Asíu, Afríku og víðar, hafa skapað slíkt ástand, að í raun stjórna þau efnahag margra landa. Stjórnum þessara landa stendur mikill beygur af Bandaríkjunum, sem hafa gerst leadership+ í evrópskum efnahagsmálum alveg eins og í hernaðarmálum. Þessvegna reyna hin iðnvæddu auðvaldsríki Vestur-Evrópu að hindra innrás bandarísks auðmagns, sem streymir í sífellt auknu mæli inn í þau.

Kínversku leiðtogarnir halda því fram, að evrópsku ríkin, iðnvædd síðan á 19.öld, fjárfesti meira í Bandaríkjunum. En það er ljóst, að meðan fjárfestingar evrópsks auðmagns í Bandaríkjunum eru aðallega í formi verðbréfa, hlutabréfa, skuldabréfa, tryggingarfjár o.s. frv., eru bandarísku fjárfestingarnar í Evrópu í drottnunaraðstöðu í mikilvægustu greinum evrópsks efnahags.

Í tilraun til að réttlæta aukningu bandarískra fjárfestinga, heldur Geoffrey Owen því fram, að Evrópulönd vilji og séu að reyna að

+ Enska í frumtextanum.

þróa iðnað sinn á vísindalegum grunni, eins og til dæmis rafeinda- og tölvuiðnaðinn. Þessar iðngreinar standa að vissu marki fyrir tækniframförum, útflutningsaukningu og efnahagslegum vexti þessara landa. En bandarísku fyrirtækin eru lengra komin á þessu sviði en keppinautar þeirra í Evrópu og þau stjórna þessum tækniframförum í eigin þágu.

I tölvuframleiðslu, til dæmis, hafa hin ýmsu evrópsku fyrirtæki bundist sterkum böndum til að verjast í samkeppninni við bandaríska "International Business Machines" (IBM)-fyrirtækið, sem ríkir yfir meiru en 70% af bandaríska markaðinum og jafnvel stærri hluta af heimsmarkaðinum.

Stóru bandarísku fyrirtækin hafa einnig tilhneigingu til að standa í sameiginlegum rekstri með staðbundnum fyrirtækjum. Til að dylja arðrán sitt, forðast mörg fyrirtæki að eiga hundrað prósent í dótturfyrirtækjum sínum og setja á stofn félög, þar sem skiptingin er 49-51 eða 50-50. Þannig hafa Bandaríkjamenn farið að í Japan og þannig hafa þeir farið að í Júgóslavíu, sem reynir að telja fólki trú um, að þar sé verið að byggja upp sósíalisma með eigin kröftum. I raun hafa títóistarnir skipt Júgóslavíu efnahagslega milli Bandaríkjanna og stórfyrirtækjanna í þróuðu iðnríkjunum. Þannig hafa títóistarnir einnig heft frelsi og sjálfstæði Júgóslavíu.

Mörgum hinna stóru bandarísku fyrirtækja eins og "General Motors", "Ford", "Chrysler", "General Electric" o.fl. hafa tilhneigingu til að eiga hundrað prósent í dótturfyrirtækjum sínum erlendis. Samt sem áður gleyma þessi dótturfyrirtæki aldrei þjóðernisspurningunni og svar þeirra er, að "það sé ekki spurning um að setja á stofn fyrirtæki með fjárfestendum á staðnum, heldur að hvetja til alþjóðlegs eignarhalds á hlutabréfum í móðurfyrirtækjunum". Þetta

er hugmyndin um "alþjóðasamband" auðvaldsins, sem þeir hjá "General Motors" einkanlega eru eldheitir baráttumenn fyrir. Þessar skoðanir bandaríska heimsvalda-auðmagnsins eða þess bandaríska iðnaðarveldis, sem fjárfestir utan Bandaríkjanna til að skapa sínar eigin nýlendur og heimsveldi, eru aðeins nokkrar staðreyndir, sem ljóslega sýna, að bandaríska heimsvaldastefnan hefur alls ekki veikst, þrátt fyrir það, sem Kínverjarnir vilja vera láta. Þvert á móti hefur hún eflst, hefur komist yfir góða aðstöðu í öðrum löndum og rekur margar mikilvægar greinar af efnahag þeirra. Hún hefur einnig valdið stjórnum annarra landa ómældum erfiðleikum, stjórnar oft löggjöf þeirra og hefur margar stjórnir á valdi sínu og undir sinni stjórn. Auðvitað skiptast á skin og skúrir í þessu ferli, en ekkert bendir til þess, að bandaríska heimsvaldastefnan sé að veikjast.

Við lifum nú þá tíma, að annað risaveldi, sovéska sósíalheimsvaldastefnan, flytur út auðmagn sitt og fæst við að arðræna ýmsar þjóðir. Auðmagnið, sem þetta stórveldi flytur út, á rætur sínar að rekja til þess gildisauka, sem skapaður er í Sovétríkjunum, en þau hafa breyst í auðvaldsland.

Endurreisn kapítalismans hefur skipt sovéska þjóðfélaginu í tvö horn, þar sem lítill hópur stjórnar og arðrænir yfirgnæfandi meirihluta þjóðarinnar. Nú hefur myndast lag skriffinna, tæknikrata og hærra settra menntamanna, sem hefur tekið á sig mynd sjálfstæðrar borgarastéttar, arðránsstéttar, sem slær eignarhaldi á og skiptir upp gildisaukanum, sem villimannlegt arðrán á verkalýðsstéttinni og hinum breiða vinnandi fjölda gefur af sér. I löndum hins klassíska kapítalisma, er eignarhaldið á gildisaukanum í réttu hlutfalli við auðmagn hvers kapítalista. Þessu er ólíkt farið í Sovétríkjunum og öðrum endurskoðunarlöndum, þar sem

gildisaukanum er skipt í samræmi við stöðu fólks úr hærri lögum borgarastéttarinnar í ríkiskerfinu, efnahags-, vísinda- og menningar-valdapýramída. Há laun, fastur og sérstakur bónus, verðlaun og hvatningar, forréttindi o.fl. - allt þetta hefur verið gert að heilu kerfi til að komast yfir gildisaukann, sem fæst af striti og svita hinnar vinnandi alþýðu. Það lag, sem stendur fyrir "sameiginlega hagsmuni kapítalistanna", verndar þetta arðrán með mýgrúti laga og boða, sem tryggja auðvaldskúgunina og arðránið.

Sovéskur efnahagur er nú orðinn hluti af kerfi heimsauðvaldsins. Um leið og bandarískt, þýskt, japanskt og fleiri landa auðmagn hefur borað sig djúpt inn í Sovétríkin, er sovéskt auðmagn flutt út til annarra landa og rennur saman við auðmagnið á hverjum stað með ýmsum hætti.

Það er kunnugt að Sovétríkin arðræna fyrst og fremst leppríkin efnahagslega. En nú keppa þau við önnur auðvaldsríki um markaði, fjárfestingasvæði, nýtingu hráefnis, verndun ný-nýlendulögmála í heimsverslun o.s.frv.

Sovétríkin leitast við að þenja út yfirráð sín með því að flytja út auðmagn, en þar lenda þau í samkeppni ekki bara við bandarísku heimsvaldastefnuna, sem er mjög öflug, heldur einnig við önnur þróuð auðvaldsríki, eins og Japan, Bretland, Vestur-Þýskaland, Frakkland o.fl. I sókn sinni að hámarksgróða flytja þessi ríki út auðmagn ekki aðeins til Afríku, Asíu og Rómönsku Ameríku, heldur einnig til Austur-Evrópulandanna, sem eru undir eftirliti Sovétríkjanna og jafnvel til Sovétríkjanna sjálfra.

Ráðandi klíkur í hinum svokölluðu sósíalísku löndum, eins og Sovétríkjunum, Tékkóslóvakíu, Póllandi o.s.frv., og nú einnig Kína, leyfa erlendu auðmagni að flæða inn í lönd sín vegna þess að þetta auðmagn þjónar þessum klíkum um leið og það er þung byrði alþýðunni. Comeconlöndin eru

sokkin upp að hálsi í skuldafenið. Þau skulda Vesturlöndum hvorki meira né minna en 50 milljarða dollara.

Júgóslavía varð eitt af fyrstu endurskoðunarsinnalöndunum til að leyfa erlendu auðmagni að ryðjast inn í hagkerfi sitt. Fyrst voru þegin lán, þá keypt framleiðsluleyfi og síðan var farið út í að setja á stofn sameiginleg fyrirtæki. 1976 voru sett lög í Júgóslavíu, sem leyfðu stofnun sameiginlegra fyrirtækja, þar sem 49 prósent af auðmagninu væru í eigu erlendra félaga. 1977 voru 170 slík fyrirtæki í Júgóslavíu. Júgóslavía hefur tryggt mjög hagstæð skilyrði fyrir auðvaldsfyrirtækin til að stunda starfsemi sína og ná hámarksgróða.

Júgóslavneska fyrirbærið sýnir að erlenda auðmagnið, sem fjárfest hefur verið í Júgóslavíu er einn af ráðandi þáttunum, sem hafa breytt landinu í auðvaldsland. Bandaríkin og önnur auðug auðvaldsríki hafa engu tapað á þessum fjárfestingum. Þvert á móti hafa þau rakað saman stórgróða og um leið aukið vesöld verkalýðsstéttar og bænda í Júgóslavíu. Lenín sagði að útflutningur auðmagns væri traustur grunnur fyrir auðvaldsafætuhátt örfárra vellauðugra ríkja.

Auðvaldsríkin munu einnig raka saman stórgróða í Kína. Sjá má, að auðmagn frá Bandaríkjunum, Japan, Vestur-Þýskalandi og fleiri löndum streymir þangað í milljörðum dollara. Samningar hafa verið undirritaðir við Japani um sameiginlega nýtingu olíulinda og orkulinda Yangtze-fljóts. Samið hefur verið við Þjóðverja um byggingu kolanáma o.fl. Fjárfestingar þær sem gerðar hafa verið og verða gerðar í Kína munu sannarlega færa hinum erlendu kapítalistum snotran gróða, en um leið munu þær styrkja undirstöður kapítalismans í Kína.

Útflutningur auðmagns frá einu auðvaldsríki til annars auðvaldslands eða endurskoðunarsinnalands, burt séð frá því hvort viðkomandi ríki

eru stór eða smá, er ávallt eitt af formum arðráns auðmagnsins á alþýðunni. Þetta arðrán leiðir af sér að landið sem þiggur verður efnahagslega og pólitískt ósjálfstætt.

Lenín benti á, að eftir að hafa náð undir sig heimamarkaðinum taka einokunarfyrirtækin að berjast efnahagslega til að endurskipta og ná undir sig heimsmarkaðinum í iðnaðarframleiðslu og hráefnum. Samkeppni og gróðahungur fær einokunarfyrirtæki hinna ýmsu landa til að komast að tímabundnum samningum, að mynda bandalög og samsteypur hvert með öðru til að skipta upp alþjóðamarkaðinum í sölu framleiðsluvara og hráefnakaupum. Jafnvel þótt þróuðu auðvaldsríkin ráði sjálf yfir hráefnalindum og orku ráðast þau á önnur lönd, þar sem framleiðslukostnaður í þessum löndum er lægri en heimafyrir og verkamannalaun, sérstaklega, eru margfalt lægri.

Sú barátta sem háð hefur verið og enn stendur um að komast yfir olíulindir og markaði er vel kunn. Þessi barátta hefur leitt það af sér að hundruð einkafyrirtækja og félaga hafa orðið gjaldþrota og alþjóðlega olíubandalagið sem samanstendur af 7 stórum einokunarfyrirtækjum (5 bandarískum, 1 bresku og 1 bresk-hollensku, hinum þekktu Esso, Texaco, Shell o.s.frv.) hefur tekist að ná stjórn yfir meiru en 60 prósentum af olíuframleiðslu og olíusölu í auðvaldsríkjum hins vestræna heims, og um 54 prósentum af vinnslunni.

Hliðstæð skipting auðlinda og markaða á sér stað í dag hvað varðar kopar og tin, úraníum og fleiri verðmæt og hernaðarlega mikilvæg jarðefni. Mörg hinna eldri nýlenduvelda svo sem Bretland og Frakkland hafa gert sérstaka, svokallaða forgangssamninga við fyrrverandi nýlendur, sem tryggja þeim næstum algjör efnahags- og viðskipta forréttindi. Hin svokölluðu dollara-, sterlingspunds-, franka-, eða rúblu-svæði benda á efnahagslega skiptingu heimsins milli einokunarfyrir-

tækjanna og hinna ýmsu heimsvaldaríkja.

Bandaríska heimsvaldastefnan, sovéska sósíalheimsvaldastefnan og önnur heimsvaldaríki tryggja sér hámarksgróða á ýmsa vegu, með þeirri óréttlátu og ójöfnu verslun sem þau eiga við þessi lönd. "Þróunar"löndin ein, að OPEC löndunum undanskildum, skulda nú um 34 milljarða dollara.

Við núverandi aðstæður, sérstaklega nú í efnahagskreppunni, semja einokunarfyrirtækin beint við ríkisstjórnir auðvaldslanda um framleiðslukvóta, verð, markaði o.s.frv. Tilvera fyrirbæra á borði við Efnahagsbandalag Evrópu, Comecon o.s.frv. er einnig skýr sönnun þeirrar efnahagslegu skiptingar heimsins, sem ríkir í dag.

Þessi efnahagslega skipting heimsins, drottnun einokunarfyrirtækjanna, stjórnun þeirra á lífi og efnahagsþróun annarra landa skerpir til muna mótsverfuna á milli launavinnu og auðmagns sem og móthverfurnar milli alþýðunnar og heimsvaldastefnunnar og innbyrðis móthverfur milli heimsvaldaríkja.

Kínverska kenningin um "heimana þrjá" sem leitast við að koma á sáttum "þriðja heimsins" við "annan heiminn" og við bandarísku heimsvaldastefnuna, er úr takti við þennan raunveruleika. Hún neitar að horfast í augu við að hina miskunnarlausu sókn bandarískra, breskra, þýskra, japanskra, franskra, og fleiri einokunarfyrirtækja gegn því sem Kína kallar "þriðja heiminn", eykur mótstöðu alþýðunnar gegn öllum heimsvalda- og drottnunargjörnum öflum og útvíkkar hlutlægar aðstæður fyrir ósættanlegri baráttu þeirra. Á hinn bóginn knýr ójöfn þróun heimsvaldaríkjanna - sem er hlutlægt lögmál í þróun kapítalismans - þau til samkeppni og slítandi árekstra sín á milli í sókn þeirra að efnahagslegri útþenslu um víða veröld.

Kínverska kenningin um "þrjá heima", sem reynir að sætta þessar móthverfur og mælir með nákvæmlega því, sem sósíaldemókratar og endurskoð-

unarsinnar af öllum gerðum hafa lengi predikað, er í hróplegri mótsögn við lenínísku stjórnlistina, sem - fjarri því að afneita þessum móthverfum - leitast við að dýpka þær til að undirbúa öreigana fyrir byltingu og alþýðuna fyrir frelsun.

Í greiningu sinni á heimsvaldastefnunni benti Lenín á, að með umskiptum kapítalismans frá einokunarleysi til síns hæsta og síðasta stigs, stigs heimsvaldastefnu, er lokið landfræðilegri skiptingu heimsins milli hinna voldugu heimsvaldaríkja.

"...einkenni á umræddu tímabili er endanleg uppskipting jarðarinnar, endanleg ekki í þeirri merkingu, að endurskipting sé ómöguleg; þvert á móti enduruppskiptingar eru mögulegar og óhjákvæmilegar - heldur í þeirri merkingu að nýlendustefna auðvaldslandanna hefur fullkomnað yfirtöku sína á ónumdum svæðum á hnetti vorum. Í fyrsta sinn hefur veröldinni verið skipt að fullu svo að í framtíðinni er aðeins mögulegt að endurskipta henni, þ.e.a.s. landsvæði geta aðeins skipt um "eigendur"......."+

Eftir seinni heimsstyrjöldina hefur gamla klassíska nýlendustefnan, sem arðrændi og kúgaði flestar þjóðir heims líkamlega, efnahagslega, pólitískt og hugmyndafræðilega, breyst í nýja nýlendustefnu. Þessi nýja nýlendustefna býr yfir heilu kerfi af efnahagslegum, pólitískum, hernaðarlegum og hugmyndafræðilegum þáttum, sem heimsvaldastefnan hefur byggt upp í þeim tilgangi að viðhalda drottnun sinni og tryggja pólitíska stjórn og efnahagslegt arðrán á fyrrverandi nýlendum og mörgum fleiri löndum, á meðan hún aðlagar sig að hinum nýju aðstæðum,

---

V.I. Lenín: Ritsafn, 22 bindi, bls. 308-309 (alb. útg.)

sem skapast hafa eftir stríðið.

Hverjar eru þessar nýju aðstæður?

Eftir styrjöldina voru heimsvaldaríkin - Frakkland, Bretland, Italía, Þýskaland, Japan og Bandaríkin - ekki í aðstöðu til að viðhalda með valdi því ástandi, sem ríkti fyrir stríðið. Frakkland gat t.d. ekki lengur haldið Marokkó, Alsír, Túnis og fleiri löndum í Afríku sem nýlendum eins og það gerði fyrrum. Sama má segja um Bretland, Italíu og önnur heimsvaldaríki.

Seinni heimsstyrjöldin hafði í för með sér róttækar breytingar á valdahlutfalli í heiminum. Hún leiddi af sér ósigur hinna miklu fasistaríkja, en hún veikti einnig stórkostlega gömlu nýlenduveldin og skók þau á grunni sínum. Hvarvetna, jafnvel í löndum, sem ekki voru þátttakendur í hamförunum, leiddi andfasíska stríðið til þess að þjóðfrelsi komst á dagskrá. Þær þjóðir nýlendnanna fyrrverandi, sem tóku þátt í stríðinu með löndunum í andfasíska bandalaginu til að losna undan oki fasismans, gátu ekki snúið aftur til nýlendufjötranna eða þolað þá lengur. Sigur Sovétríkjanna yfir fasismanum, sköpun sósíalísku herbúðanna og frelsun Kína voru mikil hvatning fyrir þjóðlega vitund hinna ýmsu þjóða og frelsisbaráttu þeirra. Hinn breiði fjöldi meðal nýlenduþjóðanna skildi að fyrrverandi ástandi þurfti að breyta. Frelsisstríðin brutust út í Indókína, Norður Afríku og víðar.

Þetta ástand knúði mörg nýlenduveldi til að gera sér grein fyrir, að hinar gömlu aðferðir við arðrán og stjórnun í nýlendunum, án nokkurs frelsis og sjálfstæðis, voru úreltar. Nýlendueigandi heimsvaldaríki komust að þeirri niðurstöðu, ekki vegna lýðræðislegrar afstöðu sinnar eða löngunar til að gefa þjóðunum frelsi, heldur vegna þrýstings frá nýlenduþjóðunum og vegna þess að þessi nýlenduveldi voru of máttvana hernaðarlega, efnahagslega, pólitískt og hugmyndafræðilega til að viðhalda hinu gamla nýlendukerfi. En Frakkland, Bretland, Bandaríkin og fleiri

heimsvaldaríki kærðu sig ekki um að hætta að arðræna þessar þjóðir og lönd. Við ríkjandi aðstæður neyddust heimsvaldaríkin hvert um sig til að veita þessum þjóðum sjálfstjórn eða lofa þeim frelsi og sjálfstæði eftir vissan tíma. Þetta tímabil - sem að sögn var ætlað til að skapa meðvitund um sjálfstórn og til að þjálfa innlenda embættismenn til þessarar stjórnunar - notuðu heimsvaldaríkin í raun til að undirbúa aðrar og nýjar aðferðir við heimsvaldaarðránið, hina nýju nýlendustefnu, um leið og þau sköpuðu þá fölsku tilfinningu meðal þessara landa og þjóða, að þau hefðu öðlast frelsi.

Þetta var það tímaskeið eftir stríðið þegar heimsvaldastefna heimsins beið mikið afhroð, þegar kreppan í nýlendukerfi heimsvaldastefnunnar varð enn dýpri. Á þessu tímabili úrkynjunar kapítalismans, sem var afleiðing af veikingu heimsvaldastefnunnar vegna seinni heimsstyrjaldarinnar, notuðu Bandaríkin tækifærið og settu á nýlenduþjóðirnar, sem voru að sögn frjálsar og sjálfstæðar, klafa nýs og hatrammara arðráns. Þau böndu heimsveldi sitt yfir hinar fyrrverandi nýlendur hinna heimsvaldaríkjanna, sem þegar voru orðin máttfarin á einn eða annan hátt.

Þrátt fyrir að fyrrverandi nýlenduþjóðirnar hefðu fengið viðurkenningu á því "sjálfstæði" og "frelsi", sem nýlenduveldin fyrrverandi veittu þeim, þurftu mörg þeirra að grípa til vopna, vegna þess að heimsvaldasinnarnir voru ekki reiðubúnir til að veita þeim þetta "frelsi" og og "sjálfstæði" tafarlaust. Sérstaklega voru það frönsku heimsvaldasinnarnir, sem reyndu jafnvel enn eftir stríðið að varðveita veldi Frakklands, eða "reisn" þess. Þannig hófu Alsírbúar, Víetnamar og margir fleiri sína langvinnu frelsisbaráttu og sigruðu að lokum. Hér verður ekki farið nánar út í það hvernig þeir náðu sigri, hvaða þjóðfélagsöfl börðust o.s.frv. Staðreyndin er, að hin gamla heimsvaldastefna

breta og frakka missti mátt. Þannig voru staðfestar þær kenningar Leníns, að heimsvaldastefnan væri á niðurleið, að gamla auðvalds-heimsvaldaþjóðfélagið yrði fyrir búsifjum af völdum byltingarhreyfinganna og frelsisást alþýðunnar, sem verið hafði kúguð og þrælkuð fram að þessum tíma.

Bandarísku heimsvaldastefnunni óx ásmegin á þessu tímabili. Hún útvíkkaði dollarasvæðið, náði undir sína stjórn franka- og sterlings-svæðum og setti upp fjölda herstöðva og kom á laggirnar Bandaríkjasinnuðum pólitískum klíkum í mörgum þeirra landa, sem höfðu að nafninu til öðlast frelsi og sjálfstæði, allt til að vernda drottnun heimsveldis síns, sem byggðist á hámarksgróða á alþýðunni. Þetta arðrán var að sjálfsögðu samtvinnað röð breytinga í þjóðfélagsbyggingunni og yfirbyggingunni.

Fjármálaauðvaldið hefur einnig skapað sína eigin sérstöku hugmyndafræði, sem er framvörður þess í arðráninu á öreigunum og sigri þess yfir heiminum. Það fullkomnar drottnun sína yfir þjóðunum og réttlætir hana með ýmsum fagurlega skreyttum útgáfum af fölsku frelsi og sjálfstæði, og eins með því að mynda svonefnda lýðræðislega flokka o.s.frv.

Með myndun banka og fjölþjóðafyrirtækja, ásamt fjárfestingum bandarísks auðmagns, er ameríski lífsstíllinn einnig fluttur út, með þeirri úrkynjun, sem hann býr yfir.

Auðmagnsútflutningur stóru heimsvaldaríkjanna skapar nýlendurnar, sem eru þau lönd, þar sem ný-nýlendustefnan ræður ríkjum. Þessi lönd eru sjálfstæð að nafninu til. Með öðrum orðum á sér stað sama ferli í auðmagnsútflutningnum og áður fyrr, en í öðru formi; með "sykurhúðuðum" útskýringum og áróðri. Hið miskunnarlausa arðrán á þjóðum þessara landa er hið sama eða jafnvel enn heiftugra og áfram er haldið að ræna náttúruauðlindirnar.

Stærsta ný-nýlenduveldi okkar tíma eru Banda-

ríkin. Á þrem árum, 1973-1975, voru fjárfestingar ríkisstjórnar og einkaauðmagns Bandaríkjanna í fyrrum nýlendum, háðum og hálf-háðum löndum um 36 prósent af heildarfjárfestingum þróuðustu auðvalds- og endurskoðunarsinnalandanna á þessum svæðum.+

Efnahagsleg, pólitísk og hernaðarleg bandalög og samningar milli heimsvaldaríkjanna og fyrrverandi nýlendna eru þrælasvipur, vopn í höndum heimsvaldastefnunnar til að halda þessum löndum í ánauð. Eftirfarandi orð Leníns eru fyllilega eins gild nú og þau voru fyrrum:

> "...nauðsynlegt er að útskýra og afhjúpa stöðugt fyrir sem stærstum hluta hins vinnandi fjölda í öllum löndum, og sérstaklega í vanþróuðum löndum, þær kerfisbundnu blekkingar, sem heimsvaldaríkin stunda þegar þau koma á fót ríkjum, sem eru algjörlega háð þeim efnahagslega, fjármálalega og hernaðarlega, undir því yfirskyni, að um sé að ræða pólitísk sjálfstæð ríki."++

Bandaríska heimsvaldastefnan, sovéska sósíalheimsvaldastefnan og önnur heimsvaldaríki, gömul og ný, æsa til illdeilna hvar sem þau geta til að geta drottnað yfir þjóðunum. Þau etja saman nágrannaríkjum, eða mismunandi þjóðfélagshópum innan einhvers lands og í hlutverki dómara eða styðjanda annarrar hliðarinnar hlutast þau til um innanríkismál annarra og réttlæta efnahagslega, pólitíska og hernaðarlega nærveru sína þar. Staðreyndirnar sýna, að alltaf þegar stórveldin hafa hlutast til um innanríkismál annarra þjóða, þá hafa vandamálin áfram verið óleyst eða að útkoman hefur verið styrkari staða heimsvaldastefnunnar í þessum löndum. Um þetta vitna atburðirnir í Mið-Austurlöndum, átökin milli

---

\+ Statistical yearbook of the FGR, 1977.

++ V.I. Lenín: Ritsafn, bindi 31, bls. 159 (alb. útg.)

Sómalíu og Epíópíu, stríðið milli Kambódíu og Vietnams o.s.frv.

Bandaríkin, Sovétríkin og öll hin auðvaldsríkin treysta einnig, með fjárfestingum sínum, stöðu sína í þeim löndum, sem taka við þessum fjárfestingum, þar sem þau berjast fyrir mörkuðum og áhrifasvæðum. Þetta leiðir af sér væringar milli ýmissa auðvaldsríkja og milli stórra samsteypna, sem ekki eru tengdar eða háðar hver annarri. Þessar væringar koma af stað staðbundnum styrjöldum og geta jafnvel leitt til almenns stríðs. Eins og Lenín kennir okkur, eru styrjaldir, sem brjótast út af þessum ástæðum - hvort sem þau eru staðbundin eða almenn - ráns- en ekki frelsisstríð. Aðeins þegar alþýðan rís upp gegn erlendum innrásarher, þegar hún rís upp gegn eigin borgarastétt, sem er nátengd heimsvaldastefnunni, sósíalheimsvaldastefnunni og heimsauðvaldinu, aðeins þá er um að ræða réttlátt frelsisstríð.

Fulltrúar heimsauðvaldsins tala mikið um að það sé nauðsynlegt að gera lagfæringar á núverandi kerfi alþjóðlegra efnahagstengsla og "nýsköpun efnahagsmála í heiminum," sem kínversku leiðtogarnir styðja einnig. Samkvæmt þeim mun þetta "nýja ástand efnahagsmála" verða "grundvöllur fyrir stöðugleika í heiminum". Að sínu leyti tala sovésku endurskoðunarsinnarnir um svo kallaða nýja gerð alþjóðlegra efnahagstengsla.

Þetta eru tilraunir og áætlanir heimsvaldasinna og ný-nýlenduvelda, sem vilja halda lífi í ný-nýlendustefnunni, framlengja tilveru hennar og viðhalda kúgun sinni og arðráni á þjóðunum. En lögmálin um þróun auðvalds og heimsvaldastefnu eru hvorki háð óskum né fræðilegum uppfinningum borgaranna og endurskoðunarsinnanna. Eins og Lenín sagði er það hin stöðuga barátta gegn nýlendustefnu og ný-nýlendustefnu, sem er leiðin út úr þessum móthverfum.

I greiningu sinni á grundvallarlegum efnahagseinkennum heimsvaldastefnunnar skilgreindi Lenín einnig sess hennar í sögunni. Hann lagði áherslu á, að heimsvaldastefnan er ekki aðeins hæsta heldur einnig síðasta stig auðvaldsins, forleikurinn að öreigabyltingunni. Lenín benti á:

> "Heimsvaldastefnan er sérstakt sögulegt skeið auðvaldsins... heimsvaldastefna er (1) einokunarauðvald; (2) afætu- eða rotnandi auðvald; (3) deyjandi auðvald".+

Raunveruleikinn í auðvaldsheimi nútímans staðfestir fyllilega þessa niðurstöðu.

Efnahagslegi grunnurinn fyrir öll efnahagsleg þjóðfélagsmein heimsvaldastefnunnar er einokunin, eins og Lenín sannaði. Einokunarfyrirtækin eru þess ekki megnug að yfirvinna móthverfur hins kapítalíska hagkerfis. Lenín setti afætueðli og rotnun heimsvaldastefnunnar í beint samband við tilhneigingu einokunarinnar til að hamla gegn þróun framleiðsluaflanna almennt séð, til að dýpka ójafna þróun milli greina og í þjóðarhagkerfinu í heild, að geta ekki nýtt mannleg og efnisleg framleiðsluöfl og við tilhneiginuna til að hindra notkun nýrrar þróunar í vísindum og tækni í þágu fjöldans og framfara þjóðfélagsins í heild.

Gróðahungrið, samkeppnin, neyða einokunarfyrirtækin til að fjárfesta í þróaðri tækni í framleiðsluferlinu. En í öllu sögulegu þróunarferli heimsvaldastefnunnar hefur ráðandi tilhneiging verið í átt til ójafnrar þróunar og hafta á þróunina.

I Bandaríjunum t.d. hafa útgjöld til rannsókna og vísindalegrar þróunar á sviði iðnaðar, og sérstaklega hergagnaiðnaðar, hækkað úr 2 milljörðum dollara 1950 í næstum 11 milljarða 1965 og um 30

---

+ V.I. Lenín: Ritsafn, bindi 23, bls. 122 (alb. útg.)

milljarða 1972. Stóru fyrirtækin standa oft frammi fyrir erfiðleikum í vísindarannsóknum, en þegar eitthvað hefur verið uppgötvað kaupa þau upp einkaleyfi og ráða hæfa starfsmenn en samt sem áður nota þau niðurstöður rannsókna aðeins þegar þeirra eigin hagsmunir krefjast þess.

Mikilvægustu greinarnar - þær sem vænlegast er að fjárfesta í á sviði þróunar og tæknibyltingar - hafa auðvitað forgang, vegna þess að þær bjóða upp á meiri gróðamöguleika. Hergagnaiðnaður er efstur á listanum, því það er þar, sem gróðahlutfallið er hæst. Sem dæmi má nefna, að 1969 fjárfestu Bandaríkin 3.565 milljónir dollara í vísindalegum rannsóknum á sviði flugs og eldflauga. Á sama ári var fjárfest fyrir 1 milljarð og 537 þúsund dollara í rafmagns- og fjarskiptaiðnaðinum, 196 milljónir í efnaiðnaði, 136 milljónir í vélaframleiðslu, 174 milljónir í bílaiðnaðinum, 172 milljónir í vísindatækjum, 38 milljónir í gúmmíiðnaðinum, 8 milljónir í olíuiðnaðinum, 9 milljónir í metaniðnaðinum o.s.frv.

Við núverandi aðstæður hefur hervæðing efnahagskerfisins, sem staðfesting á rotnun heimsvaldastefnunnar, orðið einkennandi fyrir öll auðvalds og endurskoðunarsinna-ríkin. En hervæðingarferlið í efnahagskerfinu hefur tekið á sig áður óþekktar stærðir, sérstaklega í Bandaríkjunum og Sovétríkjunum. Bein útgjöld til hernaðarmála beggja aðila hafa aukist svo að um er að ræða stjarnfræðilegar upphæðir; samtals meira en 240 milljarða dollara á ári.

Í heimsyfirráða- og drottnunarstefnu sinni nota Bandaríkin og Sovétríkin sér vopnaverslunina til hins ítrasta, sem er enn eitt skýrt dæmi um rotnun heimsvaldastefnunnar. Ár hvert selja þau vopn að verðmæti meira en 20 milljarða dollara. Önnur heimsvaldaríki, eins og Bretland, Vestur-Þýskaland, Frakkland, Ítalía o.fl. fást einnig við vopnasölu. Fastir viðskiptavinir í þessari heimsvaldaverslun eru afturhalds- og fasistaklíkur á borð við þær í Chile, Brasilíu,

Argentínu, Israel, á Spáni, í Suður-Kóreu, Ródesíu, Suður-Afríku o.fl. Meðal þessara viðskiptavina eru einnig þau ríki, sem eru auðug af hernaðarlega mikilvægum hráefnum eða olíu. Þessum löndum bjóða heimsvaldasinnarnir vopn til að ginna þau til að leyfa að auðæfi þeirra séu rænd.

Offramleiðslukreppur verða sífellt tíðari og það er augljós sönnun á rotnun og afætueðli nútíma einokunarkapítalisma. Kreppurnar, sem nú hafa orðið mjög djúpar, staðfesta réttmæti marxísku kenningarinnar um að stjórnleysi, tilviljanir og ójöfnuður einkenni framleiðslu og neyslu og hnekkja borgaralegu "kenningunum" um "kreppulausa" þróun auðvaldsins eða umbreytingu auðvaldsins í "skipulagt auðvald".

Hið almenna lögmál um samþjöppun auðmagns, sem Marx uppgötvaði - að verkalýðurinn verði sífellt fátækari um leið og gróði kapitalistanna eykst - vinnur með síauknum styrk í auðvaldsþjóðfélagi nútímans. Ferlið, sem skiptir þjóðfélaginu í tvö horn, annars vegar öreigana og hins vegar borgarana, sem eru mjög fámennir, er að dýpka.

Heimsvaldakerfi nútímans, sem hefur meiri efnahagslega möguleika á að kaupa upp efri lög verkalýðsins, verkalýðsaðalinn, hefur eflt þennan verkalýðsaðal til mikilla muna.

Fjármálafáveldið notfærir sér nú verkalýðsaðalinn út í æsar, til að blekkja og rugla öreigana, til að hamla gegn byltingareldmóði þeirra. Úr þessum verkalýðsaðli koma vanalega þeir, sem Lenín kallar sósíalista í orði, en heimsvaldasinna í verki. Sósíaldemókratíið, "borgaralegu verkalýðsflokkarnir", hentistefnuleiðtogarnir í verkalýðsfélögunum, nútíma endurskoðunarsinnarnir, o.s.frv. - allt fellur þetta lið undir lýsingu Leníns. Lenín leggur áherslu á að heimsvaldastefnan er samtvinnuð hentistefnunni, að hentistefnumennirnir stuðli að viðhaldi og eflingu heimsvaldastefnunnar. Hann segir:

"...hættulegastir allra eru þeir, sem vilja

ekki skilja, að baráttan gegn heimsvaldastefnunni er einskis virði sé hún ekki órjúfanlega tengd baráttunni gegn hentistefnunni."+

Rotnun heimsvaldastefnunnar má einnig ljóslega sjá í vexti og eflingu afturhalds á öllum sviðum, og sérstaklega á sviði stjórnmála og félagsmála. Reynslan sýnir, að þegar einokunarborgarastéttin verður þess vör að stéttabaráttan er orðin ógnandi, þá kastar hún dulargervinu og sviftir hinn vinnandi fjölda jafnvel þeim smáu réttindum, sem hann hefur áunnið sér með blóðugri baráttu. Fasistastjórnir og einræði, sem sett hefur verið á laggirnar í mörgum löndum heims bera því vitni.

Öllu þessu rotna kerfi, sem er í upplausnarástandi, er haldið uppi af ógnarstórum lífvarðarher, herskörum lögreglu, sem er vopnuð og vígbúin. Allur þessi herafli og lögregluliðð hafa það verkefni að koma í veg fyrir eða bæla niður hvers kyns mótspyrnu, sem fer yfir þau mörk sem sett eru í lagafrumskógi hinnar ríkjandi borgarastéttar. Yfirmenn í hernum og öðrum kúgunartækjum lifa í vellystingum og þiggja væn laun. Á Ítalíu er til dæmis ekki talað um annað en herinn, lögregluna, óeirðalögregluna, um öryggislögreglu, sem fær orður, en er líka drepin.

Í þessu óvissuástandi, sem ríkjandi er í borgaralegu löndunum, hefur glæpahneigð þróast og orðið útbreidd, og hún er skilgetið afkvæmi auðvaldsskipulagsins. Þetta er táknrænt fyrir úrkynjun auðvaldsskipulagsins, endurspeglun á þeirri örvinglun og óvissu, sem er afleiðing af kúgunarkerfi borgaranna. Borgarastéttin reynir að koma í veg fyrir þá glæpastarfsemi, sem veldur henni vandræðum og borgaralega ríkinu áhyggjum. En hún hvetur til og notar glæpi til að halda í stöðugum ótta hinum breiða vinnandi fjölda, sem

---

+ V.I. Lenín: Ritsafn, bindi 22. bls. 367 (alb. útg.)

býr við fátækt. Í mörgum auðvaldslöndum hefur glæpastarfsemi orðið atvinnuvegur og breiðst út frá banka- og verslanaránum yfir í það að ræna fólki og krefjast hárra upphæða í lausnargjald. Í sumum löndum hefur glæpastarfsemi verið skipulögð í mismunandi hópum. Þessir hópar bera oft nöfn, sem hljóma "byltingarsinnað" eða "kommúnískt". Borgarastéttin leyfir þeim að leika lausum hala til að undirbúa ástandið fyrir fasískt valdarán og til að réttlæta það. Talað er um þessa glæpastarfsemi eins og hún sé stunduð af "kommúnistahópum", sem vinni gegn borgaralegu skipulagi, til þess að koma óorði á byltinguna og sósíalismann.

Við getum dregið eftirfarandi niðurstöðu um núverandi ástand heimsvaldastefnunnar í heild, bandarísku heimsvaldastefnunnar, sovésku sósíalheimsvaldastefnunnar sem og annarra heimsvaldaríkja: Öll heimsvaldastefna er á stigi hnignunar og rotnunar og hið gamla þjóðfélag mun verða lagt í rúst af byltingunni og nýtt þjóðfélag koma í þess stað, þ.e. sósíalíska þjóðfélagið. Þetta nýja sósíalíska þjóðfélag er þegar til og það mun breiðast út og þróast. Það mun vinna á þrátt fyrir þá staðreynd að sovésku endurskoðunarsinnarnir sviku sósíalismann í Sovétríkjunum, þrátt fyrir að hentistefnan ráði ríkjum í Kína og ný sósíalheimsvaldastefna sé að rísa þar, þrátt fyrir þá staðreynd að kapítalisminn hefur verið endurreistur í löndunum sem áður bjuggu við alþýðulýðræði. Sósíalisminn mun halda ótrauður sína leið og sigra heimsvaldastefnu og kapítalisma heimsins með baráttu og elju, en aldrei á nokkurn hátt með endurbótum né eftir leiðum þingræðisins, eins og Krúséff predikaði og allir endurskoðunarsinnarnir predika nú. Sósíalisminn mun sigra með því að halda tryggð við lenínísku kenninguna um heimsvaldastefnuna og öreigabyltinguna, og aldrei með því að fylgja kenningum nútíma endurskoðunarsinnanna, sem halda því

fram að ríkiseinokunarkapítalisminn sé nýtt, sérstakt stig í þróun kapítalismans, "fæðing sósíalískra þátta í faðmi kapítalismans."

Í framhaldi af niðurstöðum Leníns um eðli heimsvaldastefnunnar og stöðu hennar í sögunni, þá hefur heimsvaldastefnan í heild ekki lengur það óskipta drottnunarvald, sem hún réð einu sinni yfir. Það stafar af móthverfunum, sem naga hana innanfrá, af frelsisbaráttu alþýðunnar og byltingarbaráttunni. Þetta er díalektík sögunnar og hún staðfestir þá marxísku-lenínísku kenningu að heimsvaldastefnan sé á niðurleið, að úrkynjast og rotna.

Ráðandi tilhneiging í veraldarsögunni í dag er hnignunartilhneiging auðvalds og heimsvaldastefnu. Marx og Lenín héldu þessu fram á grundvelli hlutstæðra staðreynda, sögulegra atburða og díalektískrar efnishyggju. Tilhneiging þeirra ríkja, sem eru í andstöðu við heimsvaldastefnuna, til að sameina kraftana, leiðir einnig til hnignunar heimsvaldastefnunnar. En þessi tilhneiging, sem Kína alhæfir, án þess að benda á undantekningarnar, án þess að rannsaka hinar sérstöku aðstæður, leiðir ekki á rétta braut. Með því að halda fram að bandaríska heimsvaldastefnan sé á niðurleið og veikari en sovéska sósíalheimsvaldastefnan, með því að tala um "þriðja heiminn" sem leiðandi afl tímabilsins, eru kínversku leiðtogarnir í raun að hvetja til uppgjafar og undirgefni við borgarastéttina.

Það er rétt að alþýðan vill frelsi, en hún getur aðeins öðlast þetta frelsi með baráttu, með erfiði, og leidd af herskárri forystu. Marx, Engels, Lenín og Stalín kenna okkur, að þessi forysta sé öreigastétt hvers lands. En öreigastéttin og marxískir-lenínískir flokkar hennar verða að gera ítarlega pólitíska, efnahagslega, og hernaðarlega greiningu, vega og meta, taka ákvarðanir og skilgreina viðeigandi stjórnlist og baráttuaðferðir, alltaf með undirbúning og

framkvæmd byltingarinnar í huga. Ef byltingin gleymist, eins og hjá kínverjunum, þá geta hvorki greiningin, aðgerðirnar, stjórnlistin né baráttuaðferðirnar orðið marxískar-lenínískar og byltingarsinnaðar.

Við getum ekki haft neinar tálvonir um nokkurs konar heimsvaldastefnu, hvorki valdamikla né valdalitla. Eðli heimsvaldastefnunnar leiðir af sér aðstæðurnar fyrir efnahagslega og pólitíska útþenslu, fyrir því að stríð brjótist út, vegna þess að hún er í eðli sínu fyrst og fremst arðrænandi og árásargjörn. Telji maður því hinum breiða fjölda alþýðunnar, sem vill frelsi, trú um að því sé hægt að ná undir leiðsögn endurskoðunarsinnakenninga á borð við "þriggja heima"-kenninguna, þá er maður að fremja glæp gegn alþýðunni og byltingunni.

Tímabil okkar er, eins og Lenín kennir okkur, tímabil heimsvaldastefnu og öreigabyltingar. Við marxistar-lenínistar verðum að skilja af þessu að við verðum að berjast af miklum ákafa gegn heimsvaldastefnu heimsins, hvers konar heimsvaldastefnu, öllu auðvaldi, sem arðrænir öreigana og alþýðuna. Við leggjum áherslu á lenínísku kenninguna um að byltingin sé nú á dagskipuninni. Heimurinn er á leið til nýs þjóðfélags, sem verður hið sósíalíska þjóðfélag. Heimsauðvaldið, heimsvaldastefnan og sósíalheimsvaldastefnan munu rotna jafnvel enn meira og líða undir lok í byltingunni.

Lenín kennir okkur að við verðum að berjast gegn heimsvaldastefnunni til enda, verðum að gagnrýna hana í breiðari merkingu þess hugtaks og fylkja hinum kúguðu stéttum fram til baráttu gegn stefnu heimsvaldastefnunnar, gegn borgarastéttinni. Marxíska-lenínísk greiningin á þróun heimsvaldastefnunnar nú á tímum sýnir ljóslega, að engu er hægt að breyta í greiningu og niðurstöðum Leníns um eðli og einkenni heimsvaldastefnunnar og byltingarinnar. Tilraunir

allra hentistefnumanna, allt frá sósíaldemókrötum niður til krúséffistanna og kínversku endurskoðunarsinnanna, til að afbaka lenínísku kenninguna um heimsvaldastefnuna, eru gagnbyltingarsinnaðar. Markmiðið er að afneita byltingunni, að fegra heimsvaldastefnuna og lengja lífdaga auðvaldsins.

Þegar Lenín afhjúpar heimsvaldastefnuna og verjendur hennar, eins og Bernstein, Kautsky, Hilferding og alla hina hentistefnumennina í Öðru Alþjóðasambandinu, þá bendir hann á eftirfarandi:

> "Hugmyndafræði heimsvaldastefnunnar þröngvar sér einnig inn í verkalýðsstéttina. Enginn Kínamúr skilur hana frá öðrum stéttum."+

Því miður hefur nú jafnvel "Kínamúrinn" verið brotinn og áróður og hugmyndafræði heimsvaldastefnunnar hafið innreið sína í Kína. Kínversku hentistefnumennirnir eru ekki á nokkurn hátt frumlegir. Þeir fylgja í fótspor Kautskys og kumpána, og fegra einnig heimsvaldastefnuna, almennt séð, og sérstaklega bandarísku heimsvaldastefnuna og halda því fram að hún sé heimsvaldastefna á undanhaldi og að þjóðirnar eigi að reiða sig á hana til að verjast gegn sovésku sósíalheimsvaldasinnunum.

Líkindin með "fræðikenningum" kínversku endurskoðunarsinnanna og Kautskys eru allt of augljós. Kautsky reyndi á sínum tíma að verja nýlendustefnu heimsvaldastefnunnar, að breiða yfir arðrán og útþenslu hennar, með því að afbaka marxísku fræðikenninguna um þróun auðvaldsins. Þetta gera kínversku leiðtogarnir einnig nú. Í viðleitni sinni við að styðja bandarísku heimsvaldastefnuna og ný-nýlendupólitík hennar hræra þeir saman fáránlegar fræðikenningar, sem þeir segja byggðar á Marx og Lenín. Svo notuð séu orð Leníns, þá eru kínversku "fræðikenning-

---

+ V.I. Lenín, Ritsafn, bindi 22, bls. 347 (alb. útg.)

arnar" stökk út í fúafen endurskoðunarstefnu og hentistefnu.

Fræðikenning Kautskys breiddi út þá tálsýn að í einokunarauðvaldinu geti verið um að ræða aðra, and-útþenslusinnaða stefnu. Í þessu sambandi sagði Lenín:

> "Kjarni málsins er sá, að Kautsky slítur pólitík heimsvaldastefnunnar úr tengslum við hagfræði hennar, talar um útþenslu sem stefnu er fjármálaauðvaldinu "falli í geð" og setur í andstöðu við hana aðra borgaralega stefnu, sem hann segir að sé möguleg á þessum sama grundvelli fjármálaauðvaldsins. Þar af leiði, að einokun í efnahagslífinu sé í samræmi við and-einokunar, and-ofbeldissinnaðar, and-útþenslusinnaðar aðferðir í pólitík. Þar af leiðir einnig, að landfræðileg uppskipting heimsins, sem var lokið akkúrat á tímabili fjármálaauðvaldsins og sem myndar nú grunninn fyrir hin sérstöku form ágreinings milli stærstu auðvaldsríkjanna, er samræmanleg and-heimsvaldasinnaðri stefnu. Afleiðingin er sú, að breitt er yfir og dregið úr mest óberandi móthverfunum á síðasta stigi auðvaldsins í stað þess að afhjúpa dýpt þeirra; afleiðingin er borgaraleg endurbótastefna í stað marxisma."+

Kínversku endurskoðunarsinnarnir tala um friðsamlega heimsvaldastefnu, sem hefur lagt útþensluna á hilluna og sé í raun og veru á undanhaldi. Með þessu skella þeir skollaeyrum við þeirri staðreynd, að einokunarfyrirtækin - fjármálaauðvaldið - drottna yfir efnahagslífinu í Bandaríkjunum og það eru einmitt þau sem stjórna innanlands- og utanríkisstefnunni. Kínversku leiðtogarnir "gleyma" þeim orðum Stalíns, að að-

---

+ V.I. Lenín, Ritsafn, bindi 22, bls. 328 (alb. útg.)

aleinkenni og þarfir grundvallarefnahagslögmáls nútíma kapítalismans eru:

> "...að tryggja hámarks auðvaldsgróða með því að arðræna, féfletta og rýja inn að skinni meirihluta landsmanna í viðkomandi landi, með þrælkun á og skipulögðum þjófnaði frá þjóðum annarra landa, sérstaklega vanþróaðra landa, og að lokum með styrjöldum og hervæðingu á þjóðarhagkerfinu, sem notuð eru til að ná sem mestum gróða."+

Þannig sína hinar "nýju" fræðikenningar kínversku leiðtoganna, að þeir syngja hinn gamla söng Kautskys undir nýju lagi.

Þegar Lenín afhjúpaði foringja Annars Alþjóðasambandsins - sem vildu gera greinarmun á heimsvaldaríkjum á grundvelli þess hver væru árásargjarnari en hin - þá lagði hann áherslu á að þessi afstaða væri andmarxísk. Þessi skoðun leiddi til þess að flokkar Annars Alþjóðasambandsins tóku þjóðrembingslega afstöðu og sviku opinskátt málstað öreiganna og byltingarinnar. Lenín sagði, að á okkar tímum væri engin spurning um það hvert af heimsvaldaríkjunum, sem tóku þátt í fyrri heimsstyrjöldinni, hvoru megin sem þau stóðu, hafi verið "verri".

> "Nútíma lýðræði" segir hann, "verður sjálfu sér trútt, aðeins ef það sameinast hvorki þessari heimsvaldaborgarastéttinni né hinni. Aðeins ef það segir að báðir aðilar séu jafn slæmir, og ef það óskar eftir ósigri heimsvaldaborgarastéttarinnar í sérhverju landi. Allar aðrar ákvarðanir munu í raun vera þjóðlegar-frjálslyndar og ekki eiga neitt sameiginlegt með hinni raunverulegu alþjóðahyggju."++

---

\+ J.V. Stalín, "Efnahagsleg vandamál sósíalismans í Sovétríkjunum", bls. 45, 1974 (alb. útg.)

++ V.I. Lenín, Ritsafn, bindi 21, bls. 145-146

Ef kínverska kenningin, um hvort sovéska sósíalheimsvaldastefnan sé árásargjarnari en bandaríska heimsvaldastefnan, væri samþykkt við núverandi aðstæður, myndi það leiða til beinna svika við byltinguna, við sögulegt hlutverk verkalýðsstéttarinnar, og til þess að studd væri afstaða Annars Alþjóðasambandsins. Stórveldin tvö eru jafnmiklir óvinir og jafn hættuleg sósíalismanum, frelsi og sjálfstæði alþýðunnar og sjálfræði þjóðanna. Þau eru helstu verjendur heimsauðvaldsins.

Til að leyna svikum sínum við alþýðuna segja kínversku leiðtogarnir að tengsl stóru einokunarfyrirtækjanna við sum lönd, sem ráða yfir miklum auðæfum, skapi aðstæður, þar sem jafnvel sé hægt að forðast árekstra milli einokunaraflanna og alþýðunnar. Þetta er hrikaleg afskræming, tilraun til að lýsa hinni blóðþyrstu heimsvaldastefnu sem leiðitamri, til að skapa falska vellíðan byggða á því að fjárfesting auðmagns muni skapa velferð alþýðunni í þeim löndum, sem fjárfest er í og þannig að hinar ósættanlegu móthverfur milli heimsvaldasinnanna og alþýðunnar í þessum löndum muni hverfa. Þessi falska kenning, sem kínversku leiðtogarnir básúna nú út, er saman soðin af heimsvaldastefnunni til að útvíkka drottnun hennar um víða veröld og til að aðstoða ráðandi afturhaldsklíkur í ýmsum löndum við að kúga eigin alþýðu og selja lönd sín útlendingum.

Þessar "fræðikenningar" eru endurtekning á afturhaldssömum kenningum hentistefnumannanna í Öðru Alþjóðasambandinu, í nýju og bættu formi. Á tímum fyrri heimsstyrjaldarinnar afhjúpaði Lenín andmarxíska kenningu Kautskys um "últra-heimsvaldastefnuna". Kautsky hélt því fram, að hægt væri að koma í veg fyrir styrjaldir á tímum heimsvaldastefnunnar með samkomulagi milli kapítalista

---

(alb. útg.)

hinna ýmsu landa.

I röksemdafærslu sinni gegn Kautsky sagði Lenín:

> "...í raunveruleika auðvaldsskipulagsins - og ekki í ómerkilegum oddborgaradraumórum enskra presta eða þýska "marxistans" Kautskys - eru "sam-heimsvaldasinnuð" eða "últra-heimsvaldasinnuð" bandalög aldrei annað en 'vopnahlé' á milli styrjalda. Og þá skiptir engu máli hvaða form er á þessum bandalögum, hvort um er að ræða eina heimsvaldasamsteypu gegn annarri eða almennt bandalag sem inniheldur öll heimsvaldaríkin."+

Þessar kenningar Leníns eru ákaflega vel viðeigandi við núverandi aðstæður þegar kínversku endurskoðunarsinnarnir tala um og gera ákafar *tilraunir til að koma á fót bandalagi og víðtæku* heimsbandalagi allra fasískra, lénskra, kapítalískra og heimsvaldasinnaðra ríkja og ríkisstjórna, að Bandaríkjunum meðtöldum, gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni.

Bandalög milli heimsvaldalanda eru möguleg, sagði Lenín, en þau hafa það eina markmið að vinna sameiginlega að því að méla byltinguna og sósíalismann, að arðræna nýlendurnar og háð og hálf-háð lönd.

I staðinn fyrir vígorð Kommúnistaávarpsins, "*Öreigar allra landa sameinist!*" *hafa kínversku* endurskoðunarsinnarnir, eins og foringjar Annars Alþjóðasambandsins, sett hið tækifærissinnaða vígorð "Sameinumst öllum þeim, sem hægt er að sameina" gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni.

Kenningin um "heimana þrjá", sem kínversku leiðtogarnir fundu upp, greinir ekki sögulega þróun heimsvaldastefnunnar á marxískum-lenínískum

---

+ V.I. Lenín: Ritsafn, bindi 22, bls. 359-36o (alb. útg.)

stéttargrundvelli, heldur lítur hana í röngu ljósi og afneitar móthverfum okkar tíma, sem Marx og Lenín skilgreindu svo ljóslega. Í samræmi við þessa "kenningu" sameinast hið "sósíalíska" Kína bandarísku heimsvaldastefnunni og "öðrum heiminum", þ.e.a.s. öðrum heimsvaldasinnum, sem arðræna alþýðuna, og hvetur "þriðja heiminn", alþýðuna sem vill berjast gegn heimsvaldastefnu og auðvaldi heimsins - hvort sem um er að ræða bandarísku heimsvaldastefnuna eða sovésku sósíalheimsvaldastefnuna - til að sameinast gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni einni.

Títóíska kenningin um "óháðu" löndin er alveg jafn andmarxísk og kenningin um "heimana þrjá".

Þessar kenningar eru teinarnir í þeirri sameiginlegu járnbraut, sem lest bandarísku heimsvaldastefnunnar og sovésku sósíalheimsvaldastefnunnar rennur eftir. Þessi lest er hlaðin auðæfum, sem rænt hefur verið frá alþýðu heimsins. Títóistarnir og kínversku endurskoðunarsinnarnir reyna að gera smá göt á vagnana í þessari heimsvalda- og sósíalheimsvalda-lest svo að út leki dálítið af olíu og sykri, nokkrir dollarar, frankar eða rúblur. Þessir teinar, sem lagðir eru á bökum hinnar kúguðu alþýðu og er ætlað að halda þessari alþýðu í stöðugum fjötrum, eru tvær kenningar, sem eru alveg jafn afturhaldssamar og allar hinar andmarxísku kenningarnar hjá trotskíistunum, anarkistunum, búkarínistunum, krúséffistunum, stuðningsmönnum Togliattis, Carillos, Marchais o.fl. o.fl.

Lífið sjálft staðfestir í sífellu snilldarlega kenningu Leníns um heimsvaldastefnuna. Auðvaldið er komið á stig rotnunar. Þetta ástand hvetur alþýðuna til uppreisnar og knýr hana til byltingar. Barátta alþýðunnar gegn heimsvaldastefnunni og auðvaldsklíkunum, byggist upp á ýmsan hátt, af mismunandi styrk. Megind verður óhjákvæmilega að eigind. Þetta mun fyrst gerast í þeim löndum, sem eru veikustu hlekkirnir í auðvalds-

keðjunni og þar sem meðvitund og skipulagning verkalýðsstéttarinnar hefur náð háu stigi, þar sem ríkir djúpur pólitískur og hugmyndafræðilegur skilningur á vandamálunum.

Heimsvaldastefnan hefur aukið villimannlega kúgun sína og arðrán á alþýðunni. En á sama tíma verður alþýða heimsins sífellt meðvitaðri um að hún getur ekki búið áfram við auðvaldsþjóðfélagið, þar sem hinn vinnandi fjöldi er ekki síður kúgaður og arðrændur en var á tímabilinu fyrir stríð.

Þrátt fyrir allar tilraunir heimsvaldastefnunnar og áhangenda hennar, mun hún ekki öðlast stöðugleika, hvorki í nútíð né framtíð, í baráttu sinni við að koma á drottnun sinni yfir alþýðunni. Hún getur ekki öðlast stöðugleika, vegna vaknandi vitundar verkalýðsstéttarinnar og fjölda hinnar vinnandi alþýðu, sem vill frelsi, og einnig vegna hinna óhjákvæmilegu móthverfa milli heimsvaldasinnanna innbyrðis.

Alþýðan sér, og mun sjá það sífellt skýrar, að heimsvaldastefna og auðvald heimsins er ekki eingöngu grundvölluð á efnahagslegum, hernaðarlegum, pólitískum og hugmyndafræðilegum styrk stórveldanna tveggja, heldur einnig á hinum auðugu stéttum, sem halda alþýðu eigin landa í fjötrum, arðræna hana og halda henni í ótta svo að hún rísi ekki upp til að öðlast frelsi og sjálfstæði.

Hinn breiði alþýðufjöldi í heiminum er einnig byrjaður að skilja, að auðvaldsþjóðfélagi nútímans, arðránskerfi heimsvaldastefnu heimsins, verður að kollvarpa. Alþýðunni er þetta ekki bara framtíðarsýn, því í mörgum löndum hefur hún gripið til vopna.

Það er þess vegna allsendis ónauðsynlegt að sjóða saman kenningar, sem skipta heiminum upp í þrjá eða fjóra hluta, í "háðan" og "óháðan". Í staðinn ber að sjá og túlka hið hlutlæga sögulega ferli á réttan hátt, í samræmi við kenningar marxísmans-lenínismans. Heimurinn skiptist í

tvennt, auðvaldsheiminn og hinn nýja heim sósíalismans, sem heyja miskunnarlausa baráttu hvor gegn öðrum. Í þessari baráttu mun hinn nýi sósíalíski heimur fara með sigur af hólmi, en gamla auðvaldsþjóðfélaginu, borgaralega heimsvaldaþjóðfélaginu, verður kollvarpað.

## III

## BYLTINGIN OG ÞJÓÐIRNAR

Marx sýndi með vísindarökum fram á eyðingu auðvaldsþjóðfélagsins og uppbyggingu þroskaðra þjóðfélags, sósíalisma og kommúnisma. Lenín tók til frekari meðferðar hugmyndir Marx í bók sinni "Heimsvalda - stefnan, hæsta stig auðvaldsskipulagsins" og sýndi fram á að okkar tímar væru tímar heimsvaldastefnu og öreigabyltinga. Þetta er tímabil hrynjandi auðvaldsskipulags, nýlendukúgunar og heimsvaldastefnu, tímabil þar sem öreigarnir taka ríkisvaldið í sínar hendur og kúgaðar þjóðir heimta frelsi sitt, tímar þar sem sósíalisminn sigrar um víða veröld."

Þetta þýðir að í dag lifum við á þeirri öld, að í stað hins gamla arðránsþjóðfélags, sem er óbærilegt meirihluta mannkyns, er komið á nýju þjóðfélagi, þar sem arðráni manns á manni er útrýmt þegar í stað og um alla framtíð.

Það var einmitt á þessum grundvelli, kenningum marx-lenínískrar skýrgreiningar á framvindu heimsmálanna í dag, sem flokkur okkar byggði ákvarðanir sínar á 7. þinginu, þegar hann setti fram þá kenningu að heimurinn stæði frammi fyrir viðfangsefni, þar sem bylting og þjóðfrelsi væru málefni, sem krefðust lausnar.

Barátta öreiganna við borgarastéttina er alvarleg, miskunnarlaus barátta, sem stöðugt heldur áfram. Öndverð standa tvö mikil þjóðfélagsöfl. Annars vegar heimsvaldasinnuð borgarastétt auðvaldsskipulagsins, sem er hin grimmasta, hrottafyllsta og blóðþyrstasta

stétt, sem sagan þekkir. Hins vegar öreigarnir, stétt sem gersnauð af framleiðslutækjum, kúguð og arðrænd af borgarastéttinni, er jafnframt þroskaðasta stétt, sem hugsar, skapar, vinnur og framleiðir, en nýtur ekki ávaxta erfiðis síns.

Hver stétt reynir að safna um sig liði og beina því að sínu takmarki: Öreigarnir beina sinni stétt, að félagslegu frelsi og þjóðfrelsi. Býr hana undir að framkvæma byltinguna. Borgarastéttin reynir að viðhalda yfirráðum sínum og bæla niður byltinguna. Borgarastéttin safnar um sig hinum válegustu afturhalds- og glæpaöflum, en öreigastéttin leitast við að vinna til fylgis við sig öll byltingar- og framfaraöfl.

Marxisminn-lenínisminn kennir okkur að baráttan milli öreigastéttarinnar og borgarastéttar sé í stöðugri uppbyggingu og lykti án efa með sigri öreiganna og bandamanna þeirra. En til þess að sigurinn falli þeim í skaut verði að skipuleggja öreigastéttina. Hún verði að eiga sér forystuflokk. Þar verði að gera allri alþýðu ljósa nauðsyn byltingar og vekja hana til meðvitundar, og leiða hana í baráttunni um ríkisvaldið, til að setja á stofn sitt eigið alræði og byggja upp sósíalisma og kommúnisma, hið stéttlausa þjóðfélag.

Það eru margir æðikollar í veröldinni, með góð eða ill áform, sem halda að byltingu sé hægt að gera hvenær sem er og hvar sem er. En slíkt fólk veður í villu. Byltingu er ekki hægt að gera hvenær sem er og hvar sem er að eigin óskum. Bylting brýst út og er gerð í þeim hlekk auðvaldsfjötursins, sem veikastur er. Til þess að bylting geti brotist út og sigrað verða að vera fyrir hendi hagkvæm hlutlæg og huglæg skilyrði, og ákjósanleg augnablik verður að finna til þess að hleypa byltingunni af stað. Þegar byltingu er hleypt af stað er það aðalatriðið að öll alþýða, með öreigastéttina í broddi fylkingar, sé staðráðin í því og undir það búin að leiða byltinguna til sigurs.

Lenín lagði áherslu á að bylting sé gerð af þjóð

hvers lands þ.e. að hún verði ekki flutt út. Þetta þýðir ekki að marx-lenínistar eigi ekki, þegar um stríðsátök er að ræða, að finna til einingar sinnar og tengjast hvorir öðrum, trúnaðar og tilfinningaböndum hins alþjóðlega öreigaviðhorfs, og styðja baráttu öreigastéttarinnar og alþýðu annarra landa í frelsisbaráttu þeirra. Þvert á móti eru allir kommúnistar, allir öreigasinnar, öll byltingaröfl í hínum ýmsu löndum, skuldbundin til að styðja byltingu í hverju einstöku landi og um allan heim með útbreiðslustarfi og áróðri, með efnahagsaðstoð, með góðu fordæmi, sem í einbeitni, fórnfýsi lýsir trúu fylgi við marx-lenínismann. Hvernig tekst að notfæra sér aðstæður, fer fyrst og fremst eftir því hvernig öreigastéttin og flokkurinn eru undirbúin og hver þróun byltingarbaráttunnar hefur verið í þessu eða hinu landinu.

Eins og Lenín hefur kennt okkur og lífið hefur staðfest, sigrar byltingin í hverju landi fyrir sig. Þess vegna byggist sigurinn fyrst og fremmst á verkalýðsstéttinni og byltingarflokki hennar í hverju landi þ.e. á því hve fær verkalýðsstéttin og flokkurinn eru í því að beita kenningum Marx, Engels, Leníns og Stalíns í byltingunni við þau skilyrði sem fyrir hendi eru.

Um þessar kenningar hefur verið þyrlað upp miklu moldviðri og sérstaklega hina lenínísku fræðikenningu um byltinguna. Títóistar, sovéskir, "evrópukommúnískir," kínverskir og aðrir nútíma endurskoðunarsinnar hafa tekið það sérstaklega að sér, að villa um fyrir fólki, að því er varðar byltinguna og hindra að hún brjótist út, enda eytt til þess miklu púðri.

Þegar þetta mál er tekið til úrlausnar í dag, er það skilyrðislaus skylda marx-lenínista, að reka burt þokuna, sem endurskoðunarsinnar haf þyrlað upp um byltinguna, afhjúpa aðferðir þeirra og yfirvegaðar rangtúlkanir á þessum málum, afhjúpa gagnbyltingaráform þeirra, þjóðernishroka og yfirdrottnunarstefnu, en tryggja að kenningar marx-lenínismans um byltinguna séu rétt skildar og þeim beitt á réttan hátt.

## VIÐ VERÐUM AÐ VERJA OG BEITA MARX-LENÍNISKU FRÆÐIKENNINGUNNI UM BYLTINGUNA

Marx-lenínisminn kennir okkur og reynsla allra byltinga hefur staðfest, að til þess að bylting brjótist út og verði sigursæl verða hlutlægir og huglægir þættir að vera til staðar.

Lenín orðaði þessa kenningu í bók sinni "Uppgjöf Annars Alþjóðasambandsins" og útlistaði hana nánar í bók sinni "Vinstri róttækni - barnasjúkdómar kommúnismans", svo og í öðrum ritum.

Lenín ræðir þar byltingarástand sem hlutlægan þátt byltingarinnar og lýsir honum þannig:

"1) Að ráðandi stétt geti ekki viðhaldið stjórn sinni í óbreyttu formi", vegna djúpstæðrar kreppu hjá hinni ráðandi stétt. Kreppu sem veldur óánægju og fyrirlitningu hjá hinni kúguðu stétt. "En það er venjulega ekki nóg", segir hann, "til þess að bylting brjótist út, að lægri stéttirnar vilji ekki una ástandinu. Einnig þarf til að koma að yfirstéttin geti ekki lifað við óbreytt ástand. 2) Að skortur og þjáningar sverfi fast að hinum kúguðu stéttum. 3) Að um sé að ræða verulega aukin viðbrögð fjöldans, sem þá leiðist út í sjálfstæðar athafnir af sögulegri nauðsyn." Þessum sannleika má lýsa þannig: "Bylting er ekki möguleg án kreppu, sem tekur til heillar þjóðar, bæði arðrændra og arðræningja."

Lenín segir ennfremur: "Án þessara hlutlægu möguleika, sem eru óháðir ekki aðeins vilja einstakra hópa eða flokka, heldur jafnvel einstakra stétta, er það almenn regla, að bylting sé ó-framkvæmanleg." Og Lenín heldur áfram og segir: "Byltingarástand leiðir ekki ávallt til byltingar. Oft og tíðum eins og á árunum 1860-1870 í Þýskalandi eða á árunum 1859-1861 og 1879-1880 í Rússlandi var byltingarástand ekki ummyndað í byltingu vegna þess að hinn huglæga þátt vantaði þ.e. það vantaði ljósa meðvitund fjöldans

að hann væri reiðubúinn til byltingar." eða eins og Lenín orðaði það, "geta byltingarstéttarinnar til þess að gera byltingarhreyfingu fjöldans nógu sterka til þess að brjóta á bak aftur (eða setja af) hina gömlu stjórn, var ekki fyrir hendi, en jafnvel á krepputímum verða byltingaröflin að víkja slíkri stjórn frá völdum annars situr hún áfram."

Við undirbúning huglæga þáttarins, er, eins og Lenín sýnir fram á í fyrri verkum sínum, byltingarflokkur verkalýðsstéttarinnar, forysta hans, uppfræðsla og skipulagning hins byltingarsinnaða fjölda, það sem úrslitum ræður. Flokkurinn framkvæmir þetta, bæði með því að leggja rétta pólitíska línu, sem samsvarar tilteknu ástandi og byltingarkröfum fjöldans, og með þrotlausu starfi, þar á meðal öflugum og vel athuguðum pólitískum byltingaraðgerðum, sem vekja öreigana og verkalýðsfjöldann til vitundar um ástandið, sem hann á við að búa, arðránið, kúgunina, siðlaus lög borgarastéttarinnar, og skilyrðislausa nauðsyn á byltingu, sem tæki til þess að kollvarpa þrældóms-skipulaginu.

Við þessum aðgerðum munu hinar fátæku stéttir bregðast af slíkum krafti að jafnvel hinar auðugu borgara- og valdastéttir, sem einnig eru hrjáðar af innri og ytri andstæðum, munu eiga erfitt með að stjórna á sama hátt og áður, þegar þessum skilyrðum er fullnægt og huglægir þættir hver öðrum tengdir eru fyrir hendi. Möguleikar á því að bylting brjótist út eru þá ekki aðeins fyrir hendi heldur að hún sigri jafnframt.

Byltingarsinnar velta ávalt vandlega fyrir sér þessum snjöllu kenningum Leníns og velta þeim ekki aðeins fyrir sér heldur gera sérstaka og alhliða skýrgreiningu á ástandinu. Þeir gera þetta til þess að þeim verð aldrei komið að óvörum um byltingarástandið, standi ekki uppi afvopnaðir á úrslitastund, til þess að undirbúa byltinguna og leggja til atlögu.

Hvað sýnir nú greining núverandi ástands í heiminum okkur? Af kenningum Leníns um byltinguna dró Flokkur Vinnunnar í Albaníu þá ályktun að ástand heimsins í dag væri byltingarástand almennt. Þetta ástand væri fullþroskað eða þroskaðist óðfluga í mörgum löndum. Þar sem í mörgum öðrum löndum væri það í þróun.

Þegar við segjum, að nú sé byltingarástand, þá eigum við við, að veröldin þokist nú nær miklum umbrotum. Almennt talað er veröldin í dag eins og gjósandi eldfjall, svíðandi eldur. Eldur , sem einmitt brennur á hinni ráðandi yfirstétt með kúgun sinni og arðráni.

Veröld auðjöfra og endurskoðunarsinna er í greipum grafar, kreppu efnahags og stjórnmála, fjármála- og vígbúnaðar, hugmyndafræðilegri- og siðferðilegri kreppu. Þessi kreppa hefur skekið alla byggingu og yfirbyggingu í heimsskipan borgarastéttar og endurskoðunarsinna og gert hina almennu kreppu auðvaldskerfisins ennþá dýpri og ákafari.

Afleiðingar kreppunnar eru sýnilega mjög alvarlegar og eyðileggjandi, sérstaklega á efnahagssviðinu. Dýpkun hinnar skæðu efnahagskreppu, sem fylgdi síðari heimsstyrjöldinni hefur haldið áfram allt frá árinu 1974. Hún hefur haft í för með sér all verulega hnignun í iðnaðarframleiðslu: 20 % í Japan, 15% í Bretlandi, 14% í Bandaríkjunum, 18% í Frakklandi og Italíu, 10% í Vestur-Þýskalandi o.s.frv. Kreppan hefur leitt af sér mjög djúpa lægð í efnahagslífinu. Í mörgum löndum auðvaldsins hafa ónotaðir framleiðslumöguleikar náð 25-40% í nokkrum lykilgreinum framleiðslunnar. Þetta ástand helst ár frá ári. Iðnaðarframleiðslan heldur áfram að staðna. Risabirgðir "umfram"- vöru seljast ekki.

En þrátt fyrir allar þessar óseldu vörubirgðir og enda þótt margir framleiðslumöguleikar séu ekki nýttir, þá heldur gróði einokunarauðvaldsins áfram að vaxa vegna hækkandi verðlags. Verð hækkar dag frá degi á meðan verðbólgan eykst gífurlega í mörgum löndum.

Verðhækkanir, og þá sérstaklega verðbólgan hafa reynst mjög handhæg tæki hjá einokunarauðvaldinu og ríkjum auðvalds- og endurskoðunarsinna til þess, að hlaða á verkalýðsstéttina, og annað vinnandi fólk, hinum þungu byrðum kreppunnar.

Undir því yfirskini að hefta verðbólguna, hækka auðvaldsríkin og hinir endurskoðunarsinnuðu borgarar tekjuskatta á verkalýðnum og binda kaupið, en lækka jafnframt skattlagningu einokunargróðans, fella gengið o.s.frv. Þessum ráðstöfunum er beint gegn verkalýðsstéttinni og öllu vinnandi fólki, arðránið aukið, lífskjörin rýrð.

Hin langvinna efnahagskreppa hefur skert kjör verkalýðsstéttarinnar og bænda og gert líf þeirra margfallt erfiðara. Atvinnuleysi hefur aukist svo, að varla eru dæmi slíks, og er nú orðið viðvarandi sem meiriháttar sár á þjóðfélagi borgarastéttarinnar og endurskoðunarsinna. Í heimi auðvalds og endurskoðunar hafa 110 milljónir fólks þegar orðið atvinnuleysinu að bráð. Í Bandaríkjunum einum eru atvinnuleysingjar 7 - 8 milljónir.

Hundrað milljónir fólks eru við það að svelta, eða svelta beinlínis. Hundruð milljóna fólks er þjakað kvíða af óvissu morgundagsins.

Fátækt og óvissa verkalýðsins, og afturhaldssöm mannhaturspólitík auðvalds og ríkja borgarastéttar og endurskoðunarsinna í utanríkismálum hefur aukið, og eykur stöðugt óánægju stórs hluta þjóðanna. Hið alvarlega ástand hefur vakið óhefta reiði, sem birtist í verkföllum, mótmælum, hópgöngum og átökum við stofnanir, sem eiga að halda uppi skipulagi hins borgaralega- endurskoðunarsinnaða samfélags, og oft hefur þetta jafnvel leitt til raunverulegra uppreisna. Alþýðufólk verður sífellt fjandsamlegra því ríkisvaldi, sem stjórnar því.

Í viðleitni sinni að tryggja hámarksgróða, jafnvel á krepputímum, bera stjórnir í löndum heimsvaldasinna og auðvalds- endurskoðunarsinna fram svikaloforð og tilboð til þess að lægja óánægju og reiði fjöldans og snúa hugum fólksins frá byltingu. En

jafnframt verða hinir fátæku enn fátækari og gjáin, sem skilur hinar ríku og fátæku þjóðfélagsstéttir og hin þróuðu auðvaldsríki og vanþróuð ríki sífellt breiðari.

Nútíma kreppa hefur einnig teygt sig inn í stjórnmálakerfið og æst andstæðurnar hjá valdshópum auðvalds og endurskoðunarríkja. Glöggt dæmi þess eru hinar tíðu stjórnarkreppur og hin tíðu skipti á valdahópum við stjórnvölinn.

Borgarastéttin og valdaklíkurnar neyðast til að söðla æ tíðar um á valdahópunum í þeim tilgangi að blekkja verkalýðinn og vekja hjá honum vonir um,að nýr hópur verði betri en sá fyrri, og sannfæra hann um að kreppan sé sök þeirra, sem létu af völdum, en við taki nú þeir sem munu bæta ástandið og þannig áfram, endurtekið á sama veg. Öll svikin, sem stöðugt verða umfangs meiri eru dulbúin í fölskum áróðri um frelsi, lýðræði o.s.frv., sérstaklega í kosningaslag. Jafnframt þessu er borgarastéttin í auðvalds- og endurskoðunarríkjunum að styrkja og efla hin villimannlegu vopn sín til valdbeitingar, her og lögreglu, leyniþjónustu, dómstóla og allt eftirlits kerfið, til viðhalds stjórn sinni og alræðisvaldi á hverri hreyfingu og hræringu öreiganna. Í auðvalds- og endurskoðunarríkjum er í dag augljós tilhneiging til aukinnar borgaralegrar valdbeitingar og takmarkana á lýðréttindum. Árátta til fasískrar þróunar í þjóðlífinu og undirbúningur að fasískri valdatöku jafnskjótt og ráð borgarastéttarinnar og "lýðræðisaðferðir" duga ekki til að stjórna, verður æ augljósari.

Viðskipta- og fjármálakreppa, jafnframt stjórnarkreppu hefur læst sig, ekki aðeins um einokunarhringana, ríkisstjórnir, stjórnmálaflokka og slík öfl innan hvers einstaks lands, en einnig um alþjóðabandalög, ásamt viðskipta- stjórnmála- og hernaðarsamsteypum svo sem Efnahagsbandalagið og viðskiptabandalag Austur- Evrópu (Comecon), Evrópuráðið, Atlantshafsbandalagið og Varsjárbandalagið. Andstæðurnar, árekstrarnir, átökin og deilurnar

milli aðila þessara bandalaga og samsteypa, eru að sýna sig æ betur og betur.

Annað einkenni þessa kreppuástands og tilrauna til þess að komast út úr því er vígbúnaðarkapphlaupið, hinn allsráðandi undirbúningur styrjaldar og áeggjanir til svæðisbundinna styrjalda af hálfu risaveldanna og annarra heimsvaldaafla eins og í Mið-Austurlöndum, Afríkuhorninu, Vestur- Sahara, Indókína og annarsstaðar. Þessi stefna þjónar og útþenslu- og yfirráðaáætlun heimsvaldaaflanna, þessa eða hins. Þannig helst við og eflist hergagnabúnaðurinn og vopnasalan, sem hefur náð stærra framleiðsluhlutfalli en dæmi eru um áður.

En þessi stjórnmála- og hermálaúrræði eru aðeins þróun, sem ekki læknar sjúkleika ört hnignandi auðvalds og endurskoðunarskipulags.

Við þá viðskipta- og stjórnmálakreppu, sem heimur auðvalds og endurskoðunar á við að búa í dag bætist kreppa í hugmyndafræði og siðfræði, sem ekki á sér fordæmi. Aldrei hefur verið slík hugmyndafræðileg ringuleið og siðspilling sem nú blasir við allra augum. Aldrei fyrr hafa verið jafn mörg tilbrigði borgaralegra kenninga, veraldlegra, hægri, mið, vinstri og skreyttar and-kommúnískum, og "sam" - kommúnískum og marxískum- búningi. Aldrei höfum við orðið vitni að slíkri siðferðisspillingu og jafnframt rottnu lífsmati, né jafn mikilli andlegri lægingu. Nú hriktir í undirstöðum þeirra fræðikenninga, sem borgarastéttin og endurskoðunarsinnarnir byggðu upp með svo miklum erfiðismunum og útbreiddu með oflátungslegum yfirlýsingum eins og þessum: "leið til frelsunar frá böli hins gamla þjóðskipulags, endanlegur grundvöllur auðvaldsskipulagsins", "almannahlutafélög - neysluþjóðfélag", "afstýrt kreppum", "tækni- og vísindabyltingin". Krústévistar sögðu "friðsamleg sambúð", "heimur án herja, vopna og stríðs", "sósíalismi með mannúðlegu yfirbragði" o.s. frv. o.s.frv.

Öll þessi einkenni almenns kreppuástands eru fyrir hendi, ekki aðeins í Júgóslavíu þar sem afleið-

ingar kreppunnar eru augljósar, en einnig í heimi sósíalheimsvaldasinna Sovétríkjanna og öðrum ríkjum enduskoðunarstefnunnar. Kúgun og arðráni hefur verið komið á allsstaðar í þessum ríkjum, öll þjást þau af meinum auðvaldsskipulagsins, af deilum og átökum um völd og forréttindi, innan forystuliðsins og þeirra, sem ofar standa í þjóðfélagsstiganum. Allsstaðar ólgar óánægja og reiði alþýðunnar. Af þessum ástæðum eru einnig miklir möguleikar á byltingu í þessum ríkjum. Lögmál byltingarinnar er hér að verki eins og í öllum öðrum löndum borgarastéttarinnar.

Það er einmitt þetta almenna kreppuástand auðvaldsskipulagsins, nú á tímum, sem liggur æ dýpra inn í þjóðskipulagið, sem leiðir okkur að þeirri ályktun að byltingarástand hafi þegar þróast eða sé að þróast í meiri hluta auðvalds- og endurskoðunarríkja, og að þetta ástand sé dagskipan um byltingu.

Vegna stöðugt vaxandi þunga af kreppum og óförum í áætlunum um að bæla niður byltingar, hefur borgarastéttin og endurskoðunarsinnarnir reynt að finna ný úrræði, undirbúa nýjar refjar.

Endurskoðunarsinnarnir hafa nú dregið upp varnarmerki auðvaldsskipulagsins, merki kúgunar og arðráns á þjóðum, sundrun byltinga og frelsishreyfinga og svika við alþýðuna. En þeirra bíða sömu örlög og sósíaldemókratanna og allra tækifærissinna fortíðarinnar sem gerst hafa óbreyttir þjónar borgarastéttarinnar. I hinni miklu viðskipta-, stjórnmála- og hugmyndakreppu, sem nú þrengir að, krefst borgarastéttin þess að þjónar hennar, endurskoðunarsinnarnir, sýni henni augljósari stuðning. Þetta neyðir þá til þess að varpa af sér dulargerfinu enn frekar, en jafnframt fá þeir á sig meira og meira óorð. Lenín orðaði þetta svo:

> "Tækifærissinnarnir eru borgarar, óvinir öreigabyltingarinnar, sem á friðartímum vinna störf sín í leyni, leynast innan verkalýðsflokkanna, en reynast allt í einu, á tímum kreppu, opinberir bandamenn hinnar sameinuðu borgarastéttar,

allt frá hinum íhaldssömu til hinna róttækustu og lýðræðislegustu flokka þeirrar stéttar, allt frá fríhyggjumönnum til trúfélaga og klerklegra hópa." +

Þessi vísindalega ályktun Leníns hefur sannast fullkomlega með þeirri þjónustu, sem nútíma endurskoðunarsinnar veita hinu kreppuhrjáða auðvaldsskipulagi.

Lítum á Italíu, land með dæmigert hrun auðvaldsskipulagsins, frá grunni og upp úr. Frá lokum annarar heimsstyrjaldar til þessa dags hafa kristilegir demókratar verið við völd á Italíu, flokkur stórborgarastéttarinnar, flokkur Vatíkansins, sem safnað hefur um sig öllu trúmálaafturhaldi borgarastéttarinnar og hægri öflunum. Stjórn þeirra ræður ríkjum í landi, sem riðar á barmi gjaldþrots. Allt frá árinu 1945 til þessa dags hafa æðstu stéttir borgaranna verið í greipum svo alvarlegrar kreppu að á þessu tímabili hafa setið um 40 ríkisstjórnir,"einlitar" stjórnir Kristilegra demókrata, stjórnir sósíalista og Kristilegra demókrata, þríflokkastjórnir Kristilegra demókrata, sósíalista, sósíaldemókrata, vinstri miðflokka, hægri stjórnir miðflokka o.s.frv. o.s.frv.

Hinar djúpstæðu stjórnarkreppur á Italíu sýna almennt innra kreppuástand, sem enginn finnur leið út úr. Deilur, árekstrar, pólitísk morð og hneykslismál, eins og brottnám Leóne,forseta, morð á flokksforingja Kristilegra demókrata, Moro o.s.frv. eru atburðir, sem verða tíðari og eru afleiðing þessarar kreppu.

Italía hefur orðið brúarsporður Bandaríkjanna. Gjaldþrota efnahagur þeirra, sem lent hefur í klóm bandarískrar heimsvaldastefnu, er einnig tengdur Efnahagsbandalagi Evrópu, sem Italía er þátttakandi í en má sín minnst.

Þetta ástand hefur leitt af sér almenna fátækt

---

\+ Lenín, Hvað ber að gera?, Safn verka,21.b. bls.110 (alb. útgáfan)

verkalýðs Italíu og leiðir af sér enn meiri fátækt. Á Italíu er fjöldi atvinnulausra meiri en í öðrum löndum Efnahagsbandalagsins. Útflutningur vinnuafls er meiri frá Italíu en öðrum ríkjum og vöruinnflutningur er meiri en vöruútflutningur. Með því að takmarka matvælakaup frá Italíu, hafa aðildarríki bandalagsins, einkum Vestur-Þýskaland og Frakkland, skapað erfiðleika í ítölskum landbúnaði. Útflutningsverð á ítölsku smjöri, mjólk og ávöxtum hefur lækkað gífurlega en framfærslukostnaður í landinu hefur hækkað stórlega. Italía er orðið land hinna miklu verkfalla, þar sem verkafólk í þunga- og léttaiðnaðinum, flutningaþjónustunni, póstþjónustunni, flugþjónustunni og jafnvel lögregluliðið er þátttakendur.

Þegar slíkt ástand skapast grípur óánægjan um sig og þá er það í þágu fjöldans og byltingarinnar að hinni miklu óánægju öreiganna og allrar þjóðarinnar sé beint til baráttu gegn hinni afturhaldssömu borgarastétt, gegn undirbúningi hinnar fasísku árásar, sem hún er að hleypa af stað. En ítalskir endurskoðunarsinnar og hin umbótasinnuðu verkalýðssambönd, allur verkalýðsaðallinn ásamt fylgjendum kínversku kenningarinnar um "þrjá heima", starfa eins og slökkvilið að því að kæfa loga byltingarinnar, sem verjendur hins borgaralega skipulags.

Þetta rotna borgaraskipulag er varið af öllum flokkum frá fasistaflokkum til endurskoðunarflokks Berlinguers. Italskir endurskoðunarsinnar tengjast borgarastéttinni beinlínis til þess að viðhalda hinni bororalegu skipan, þó hún riði til falls. Þeir reyna að veikja og bæla niður byltingarhvata meðal hinna ítölsku öreiga með því að útbreiða þá lygi, að þeir fylgi og beiti marxismanum, sem hæfi ástandinu í þeirra eigin landi.

Berlinguer hóf ekki einungis samningaviðræður við Kristilega demókrata fyrir löngu, heldur gerði við þá samning og án þess að vísu að gerast formlega aðili að stjórn, þá tók hann þátt í stjórninni með þeim í mörgum málum. Stjórnin styður því flokkinn en lætur líta svo út að hana greini á við

hann. Ítalski endurskoðunarflokkurinn leikur sama leikinn að sínu leyti.

Ítölsku endurskoðunarsinnarnir hrópa hátt um stjórnarstefnu, sem fimm flokkar, er mynda meirihluta á ítalska þinginu, hafa komið sér saman um, og gorta af því sem "miklum sigri", sem nýjum pólitískum þáttaskilum í landinu. En þessi pólitísku þáttaskil, sem Berliguer talar um eru í því fólgin að flokkur endurskoðunarsinna er nú talinn fylgja áætlunum ítalska auðvaldsins. Berlinguer lýsir þessu sem þýðingarmiklum raunsæum samningi óbundnum af kennisetningu. Hann staðhæfir að þessi samningur muni hafa í för með sér raunverulega breytingu, ekki einungis í pólitískum samskiptum flokka, en einnig í gjörvöllu efnahags-, félags- og stjórnmálakerfi landsins.

Þannig halda ítalskir endurskoðunarsinnar þá leið, sem Lenín sá fyrir að framundan væri hjá hinum ýmsu tækifærissinnum, sem leita einingar við auðvaldið til þess að hindra byltingarstefnu fjöldans. Með þessari einingu halda þeir að þeim hafi skilað áleiðis að því marki að koma á sósíalisma með afli atkvæða. Augljóslega er þetta draumur einn og forseti ítalska öldungaráðsins, Amintorí Fanfaní, skjátlast ekki þegar hann lýsir þessum samningi milli flokkanna fimm, sem draumasafni. Samningurinn er draumasafn að því er tekur til ítalskra endurskoðunarsinna, þar sem hann hins vegar, af hálfu auðmagnsaflanna, er enginn draumur, heldur þrauthugsaður gerningur ætlaður til þess að gera útaf við hugmyndina um kommúnisma á Italíu og stöðva kröfur ítölsku þjóðarinnar og öreiganna, en bæla niður byltingarbaráttu þeirra fyrir uppbyggingu nýs þjóðfélags. Italskir endurskoðunarsinnar hafa þegar fengið nokkra mola af borðum auðvaldsins, en þeir halda því fast fram, að stjórnin þurfi á frekari þátttöku þeirra að halda, og reyna því að koma flokknum að fullu inn í stjórnina. Með öðrum orðum er flokkur ítalskra endurskoðunarsinna að reyna að bindast algerlega afturhalds ringulreið ítalska einokunarauðvaldsins.

Flokkur Berlinguers er fræðilega séð í algerri niðurlægingu með hreinræktaða sósíaldemókratíska stefnuskrá á úmbóta- og þingræðisvísu. Hann styður þá skipan, sem komið var á með stjórnarskrá þess falslýðræðis, sem ítalskir"kommúnistar , undir forystu Togliattís tóku þátt í að móta. Það er einmitt á tímum þessarar stjórnarskrár sem hin afturhaldssama klerka- og borgarastétt Ítalíu hefur sett sín lög og kúgað öreigana og þjóðina í heild í þrjá áratugi. Hinir svonefndu kommúnistar telja þessi lög réttlát og samræmast stjórnarskránni.

Innan og utan ítalska þingsins, í blöðum og sjónvarpi og útvarpi, fylgir endurskoðunarflokkurinn, ásamt öðrum flokkum borgarastéttarinnar með kristilega demókrata í broddi fylkingar, fram pólitík hins óhefta lýðskrums, sem forheimskar ítalskan almenning og ruglar hann og sundrar dag frá degi í þeim tilgangi að veikja byltingarvilja öreiganna og pólitíska vitund verkalýðsstéttarinnar.

Ítalska afturhaldinu og Vatíkaninu er mikil þörf á þessari iðju. Ítalskir endurskoðunarsinnar eru að reyna að bæla niður byltingarhreyfingu fjöldans undir forystu öreigastéttarinnar, til þess að hindra byltinguna og hjálpa með því borgarastéttinni úr klípunni, en hindra kollvörpun ríkjandi skipulags.

Tökum annað dæmi, Spán. Að Frankó liðnum kom Juan Carlos konungur til valda á Spáni. Hann er fulltrúi spönsku stórborgarastéttarinnar, sem sá, að fasistarnir höfðu á löngum stjórnarferli sínum steypt landinu í alvarlega kreppu og dró af því þá ályktun, að Spáni yrði ekki lengur stjórnað með sama hætti og á valdatíma Frankós. Því þyrfti að gera vissar breytingar á stjórnarforminu og ekki væri lengur hægt að halda í valdasætum hinum illa þokkuðu falangistum. Eftir stöðugar breytingar á stjórnarforystu, tóku við völdum menn, sem hinn nýi konungur treysti best, þ.e. menn, sem aðhylltust endurbætta stjórnarhætti frankótímans.

Mótmælagöngur og verkföll brutust út á Spáni, tíðar en nokkurn tíma áður. Þar krafðist fólkið breytinga og þá að sjálfsögðu ekki þeirra, sem orðið höfðu, heldur djúptækra og róttækra breytinga. Mótmælagöngum, verkföllum og skærum linnti ekki og halda enn áfram. Almenningur krefst frelsis og réttinda og hin ýmsu þjóðerni sjálfstjórnar. Við þessar aðstæður og til þess að villa um fyrir uppreisnarmúgnum, löggilti stjórn Juans Carlos endurskoðunarflokk Ibarruri og Carillios. Forystulið þessa flokks hefur orðið hlýðnir dindlar spánska konungsdæmisins, hafa gerst handbendi þess í þeim tilgangi að halda aftur af byltingarstraumnum, sem myndast hafði í þessum átökum, sameinast borgarastéttinni í að halda niðri öflum með byltingarhugmyndir úr Spánarstyrjöldinni og aðdáun á lýðveldinu.

Hér sjáum við spánska endurskoðunarflokkinn í hlutverki slökviliðs, sama hlutverki og ítalalski endurskoðunarflokkurinn, en sá spánski að vísu aflminni.

Endurskoðunarflokkarnir í Frakklandi, Japan, Bandaríkjunum, Bretlandi, Portúgal og öllum öðrum auðvaldslöndum, leika sama hlutverk til varnar borgaralegu skipulagi. Þeir gera borgarastéttinni fært að komast út úr kreppu- og byltingarástandi. Sljóvga og lama öreigastéttina og annan kúgaðan arðrændan lýð, sem verður það ljósara með hverjum degi að ekki er lengur hægt að lifa í "neysluþjóðfélaginu" né öðrum arðránssamfélögum, en hefur uppreisn gegn pólitískri- og efnahagslegri skipan auðvaldsins.

Endurskoðunarsinnarnir eru sérstaklega fjandsamlegir lenínismanum. Það þýðir að þeir eru fjandsamlegir byltingunni, þar sem það var Lenín, sem útfærði kenninguna um öreigabyltinguna til fulls, og beitti henni í Rússlandi. Á grundvelli þessara kenninga sigraði sósíalísk bylting í Albaníu og öðrum löndum. Kenning Leníns, sem vísar veginn til sigurs byltingarinnar allsstaðar, sýnir haldleysi andbyltingar- og endurskoðunarkenninga um friðsama

breytingu til sósíalisma eftir þingræðisleiðum, án þess að eyðileggja stjórnkerfi borgarastéttarinnar. En eftir þeirra kenningum er kerfi borgarastéttarinnar nothæft til friðsamlegrar umbreytingar til sósíalisma án þess að nokkur þörf sé á forystu öreigastéttarinnar eða flokks hennar, né alræði öreigastéttarinnar. Hér er þó um að ræða úrslitastund fyrir byltinguna. Stund þegar miklir möguleikar eru í upphafi byltingarinnar að rjúfa veikasta hlekk auðvaldskeðjunnar. Stund þegar mest ríður á að vekja stéttarvitund öreiganna, að undirbúa hinn huglæga þátt, að byggja upp traust á réttmæti og alþjóðlegu eðli lenínískra fræða, sem sýna hina réttu leið til valdatöku öreigastéttarinnar, og hins kúgaða lýðs. En endurskoðunarsinnarnir veita borgarastéttinni ómetanlega þjónustu með tilraunum sínum að berjast gegn og afstýra byltingu. Þess vegna reynir borgarastéttin á allan hátt að flækja endurskoðunarflokkana og verkalýðssambönd undir þeirra áhrifum til þátttöku í baráttunni gegn byltingu og kommúnisma. Þetta er nákvæmlega það takmark, sem öll fylking hinnar bandarísku heimsvaldastefnu, heimsauðvalds og borgarastéttar ætlar sér að ná. Borgarastéttin vill að endurskoðunarflokkarnir bjóði sig opinberlega og fullkomlega til þjónustu við auðmagnið með því að vinna undir "kommúnísku" yfirskini og láta líta svo út að þeir séu að berjast fyrir breytingu á ástandinu, skapa nýtt blendingssamfélag, þar sem ekki aðeins eignastéttin og auðstéttin heldur einnig að því er virðist fátækari stéttir hafa sitt að segja. Þar sem endurskoðunar- og "kommúnista"-flokkar og sósíalistaflokkar vísa hinum fátækari stéttum veginn, sem fulltrúar þeirra og forvígismenn.

Því er það að endurskoðunarsinnar í valdastólum, sérstaklega endurskoðunarsinnarnir í Júgóslavíu, Sovétríkjunum og Kína veita heimsvaldasinnum mjög mikla aðstoð við að stöðva og bæla niður byltingar.

Júgóslavar eru yfirleitt fjandmenn lenínismans.

Þeir reka heiftarlegan áróður fyrir neitun þeirrar staðreyndar, að hin sósíalíska bylting, sem átti sér stað hjá okkur og staðfestir byltingarkenningu Leníns, byggist á algildum lögmálum. Þeir halda því fram, að heimurinn færist til sósíalisma af sjálfu sér, því sé engin þörf á byltingu, stéttarbaráttu o.s.frv. Júgóslavneskir endurskoðunarsinnar benda á sitt auðmagnsskipulag í formi "sjálfsstjórnar" sem fyrirmyndarsósíalisma og staðhæfa, að hann sé kynjalyf, bæði gegn "meinum" stalínisma, sósíalisma og böli auðvaldsskipulagsins. Þeir halda því fram,að stofnun slíks skipulags krefjist ekki valdbeitingar í byltingu, ekki alræðisvalds öreigastéttarinnar, ekki sósíalísks eignarhalds ríkisins né lýðræðislegs miðstjórnarvalds. "Sjálfstjórnarskipuninni" sé hægt að koma á hægt og rólega með samningum og samstarfi milli ráðandi hópa, milli vinnuveitenda og verkamanna, milli ríkisstjórna og eignaraðila.

I skemmdarstarfi júgóslavneskra endurskoðunarsinna gegn byltingunni og fjandskap þeirra við lenínismann, er að leita ástæðanna fyrir örlæti hins alþjóðlega auðvalds og einkum hins bandaríska, á lánveitingum til Júgóslavíu og annari hjálp við þá, pólitískri og hugmyndafræðilegri.

I orði kveðnu hafna sovéskir endurskoðunarsinnar ekki lenínismanum og kenningu Leníns um byltinguna en þeir berjast gegn framkvæmd hennar með andbyltingarafstöðu sinni og athöfnum. Þeir eru jafn hræddir við öreigabyltinguna og bandarísku heimsvaldasinnarnir eða borgarastéttin í hverju öðru landi sem er. Það er vegna þess, að í þeirra eigin landi veltir byltingin þeim úr valdastóli, sviptir þá völdum og stéttarréttindum en eyðileggur herstjórnaráætlanir þeirra um heimsyfirráð í öðrum löndum.

Þeir reyna að láta svo líta út að þeir séu að halda byltingunni áfram sem fylgjendur lenínismans. Það gera þeir í þeim tilgangi að svíkja öreigastéttina og verkalýðinn, bæði í Sovétríkjunum og öðrum löndum. Þeir tala um "þróaðan sósíalisma" og

"umbreytingu til kommúnisma" til þess að kveða niður alla óánægju, uppþot og byltingarhreyfingu verkalýðsins gegn endurskoðunarstjórn landsins, sem kúgar þá sem "andbyltingarsinna" og "andsósíalista". Utan síns lands nota þeir Lenínismann sem grímu til þess að styðja and-marxískar og and-lenínískar kenningar sínar og athafnir við útþenslu- og yfirdrottnunaráætlanir sósíal-heimsvaldastefnu sinnar.

Sovét-endurskoðunarsinnarnir lýsa valdbeitingu í byltingu sem mjög hættulegri aðferð nú á tímum, þegar öllum byltingarátökum væri hægt að snúa upp í alheims-kjarnorkustyrjöld, sem útrýmdi öllu mannkyninu. Þeir mæla því með byltingu eftir leiðum friðarins, þ.e. umbreytingu þjóðþinganna "úr stofnun borgaralegs lýðræðis í lýðræðisstofnun verkalýðsins", sem leið dagsins í dag. Þeir kynna "slökun", sem kölluð er lækkun spennu og þjónar markmiðum í utanríkisstefnu Sovétstjórnarinnar, sem "megin stefnu í þróun heimsmála í dag", og muni leiða til friðsamlegs sigurs byltingarinnar um allan heim.

Af lýðsskrums ástæðum hafna þeir ekki alræði öreiganna, og verja það reyndar í kenningum sínum, er þeir segja að valdbeitingu megi nota í byltingu við sérstakar aðstæður. En þeir þurfa á þessum yfirlýsingum sínum að halda sérstaklega til þess að réttlæta samsæri og valdarán, sem þeir skipuleggja í hinu og þessu landi, til þess að koma til valda afturhaldsstjórnum og klíkum þeirra, sem hlynntar eru Sovétstjórninni, og leiða þar með þjóðfrelsishreyfinguna af réttri leið, undir drottinvald Sovétstjórnarinnar.

Nú hafa kínverskir endurskoðunarsinnar gerst eindregnir talsmenn þess að kæfa byltinguna.

Innan- og utanríkisstefnu kínversku endurskoðunarsinnanna er beint gegn byltingunni vegna þess að hún eyðileggur stjórnlistaráform þeirra, þ.e. að gera Kína að risaveldi.

Í Kína beitir forystulið endurskoðunarsinnanna grimmilegum aðferðum við að kveða niður öll byltingarátök verkalýðsstéttarinnar og hins vinnandi lýðs. Þetta sýnir ljóst hina borgaralegu andbyltingar-

afstöðu valdhafanna í orðum og athöfnum. Þeir leitast við á allan hátt að dylja andstæðurnar eins og þær eru nú, einkum andstæðurnar milli auðmagns og vinnu, milli öreiga og borgara. Kínverskir endurskoðunarsinnar segja að í dag sé ekki um að ræða andstæður nema á milli tveggja risavelda og telja þá andstæðu vera á milli Bandaríkjanna og allra annarra landa heims annars vegar og sósíalheimsvaldastefnu Sovétríkjanna hinsvegar. Á grundvelli þessara tilbúnu kenninga heita þeir á öreiga og þjóðir allra landa að verja sitt föðurland og sjálfstæði sinnar þjóðar gegn hættu, sem einungis stafi frá sósíalheimsvaldastefnu og Sovétríkjunum. Með þessum hætti boða kínverskir endurskoðunarsinnar lýðnum hugmyndir sínar um að hann afsali sér rétti til byltingar og frelsisbaráttu.

Kínverskir endurskoðunarsinnar líta svo á að viðfangsefni öreiga- og þjóðfrelsisbyltinga séu alls ekki málefni dagsins. Meðfram vegna þess að byltingarástand sé hvergi fyrir hendi í heiminum. Þeir ráða því öreigastéttinni til að loka sig inni á bókasöfnum og læra "fræðin", þar sem tími byltingarathafna sé ekki kominn. Í þessu sambandi verður ljóst hve fjandsamlega andbyltingarpólitík kínversku endurskoðunarsinnarnir reka. Pólitík, sem sundrar marx-lenínistahreyfingunni og hindrar einingu verkalýðsstéttarinnar í baráttu hennar við auðvaldið.

Í kínverskum blöðum og áróðurstækjum og ræðum kínverskra leiðtoga er ekkert minnst á hinar miklu mótmælagöngur og verkföll, sem gjörvöll öreigastéttin skipuleggur í hinum ýmsu auðvaldslöndum í dag. Þetta stafar af því að þeir vilja ekki efla uppreisn fjöldans. Þeir vilja ekki að öreigastéttin notfæri sér þetta ástand í baráttu sinni gegn kúgun og arðráni. Hvílíkan hræsnistón bera ekki hin uppbelgdu og innantómu slagorð að "lönd vilja sjálfstæði, þjóðir vilja frelsi og lýðurinn vilji byltingu".

Það er ekki aðeins að kínversku endurskoðunarsinnarnir staðhæfi að ekki sé fyrir hendi bylting-

arástand í veröldinni í dag, þvert á móti raunveruleikanum, heldur krefjast þeir einnig þess af öreigastéttinni og marx-lenínískum flokkum hennar, að þeir sitji með hendur í skauti og haldi sér frá öllum byltingaraðgerðum og öllum athöfnum til undirbúnings byltingunni. Fyrir löngu þ.e. á öðru þingi Alþjóðasambands kommúnista, gagnrýndi Lenín slík uppgjafasjónarmið, er fram höfðu komið hjá ítalanum Serrati, en hann hélt því fram að engin byltingarstarfsemi ætti að fara fram þegar ekki væri byltingarástand fyrir hendi.

> "Munurinn á sósíalistum og kommúnistum liggur í því, að þeir fyrrnefndur neita að vinna á þann hátt, sem við vinnum, við hvaða aðstæður sem er - þ.e. að viðhafa byltingarstarfsemi."+

Þessi gagnrýni Leníns er þungur löðrungur, einnig fyrir kínverska endurskoðunarsinna og alla aðra endurskoðunarsinna, sem eru eins og sósíaldemókratar á móti byltingaraðgerðum öreiga og verkalýðs.

Lenín kallar Kátský svikara af eftirfarandi ástæðum:

> "...hann hafði algerlega rangsnúið kenningu Marx, sniðið hana að hæfi tækifærisstefnunnar og hann hafði í verki hafnað byltingu, þó hann féllist á hana í orði." ++

Kínverskir tækifærissinnar ganga nokkuð lengra en Kautsky. Þeir viðurkenna jafnvel ekki í orði nauðsyn byltingarinnar.

Þessi afturhaldsstefna skýrir hina djúpstæðu andbyltingarpólitík kínverskra endurskoðunarsinna og alla afstöðu forystunnar, sem reynir á allan hátt að komast í bandalag og samstarf við bandaríska heimsvaldastefnu, sem og önnur þróuð auðvaldsríki

---

+ (Lenín: Annað þing Alþjóðasambands kommúnista, Ritsafn, 21.bindi, bls. 251. Ensk útg.)

++ (Lenín: Öreigabyltingin og svikarinn Kautsky, Úrvalsverk, 10.bindi, bls.30.)

og styður Efnahagsbandalag Evrópu og Atlantshafsbandalagið.

Með því að ganga í bandalag og leita samstöðu með bandarískum heimsvaldasinnum, eru kínverskir endurskoðunarsinnar sjálfir að taka þátt í kúguninni og sameinast þá heimsauðvaldinu í baráttunni gegn byltingunni, gegn sósíalisma, gegn þjóðfrelsi. Bandarískir heimsvaldasinnar eru ásamt með sovéskum sósíal-heimsvaldasinnum hinir grimmustu kúgarar og arðræningjar, erkióvinir öreigastéttarinnar og fólksins ásamt með öðrum heimsvaldasinnuðum ríkisstjórnum og svartasta afturhaldi heimsins. Þessum öflum fylgja kínverskir endurskoðunarsinnar, þegar þeir krefjast þess, að öreigar Evrópulanda og annara þróaðra auðvaldslanda beygi sig undir kúgunarok borgarastéttarinnar.

Það er augljóst, að heimsauðvaldið, með stuðningi nútíma endurskoðunarsinna, ásamt öðrum tækjum sínum heyr margþætta baráttu á öllum vígstöðvum, til að forða því, að bylting brjótist út.

Það reynir af öllu afli að komast út úr kreppum, að kæla eða deyfa byltingarbólguna og koma þannig í veg fyrir að hún breytist í byltingu.

En kreppur og byltingarástand eru hlutlæg fyrirbrigði, sem ekki fara eftir óskum eða vilja auðvaldsins, endurskoðunarsinna eða nokkurs annars. Framhjá þessu fyrirbrigði verður ekki komist, fyrr en auðvaldsskipulagið með kúgun sinni og arðráni hefur verið afmáð.

Heimsvaldasinnar og aðrir auðvaldssinnar svo og endurskoðunarsinnar vita vel, að byltingin brýst ekki út af sjálfu sér, þó kreppu- og byltingarástand sé fyrir hendi. Þessvegna beina þeir athygli sinni og megin átökum að huglæga þættinum. Annarsvegar reyna þeir að rugla og blekkja öreigastéttina, annan verkalýð og þjóðir. Koma í veg fyrir að þær komist til vitundar um nauðsyn byltingarinnar. Sameinist og skipuleggi sig. Hinsvegar leggja þeir til atlögu við að eyðileggja alþjóðahreyfingu marxista-lenínista, stöðva uppbyggingu hennar og viðgang

til að verða voldugt pólitískt forystuafl byltingarinnar, svo hinir sönnu marxista-lenínista-flokkar hvers lands nái ekki því pólitíska og fræðilega afli, sem til þarf til að sameina, skipuleggja, vígbúa og stjórna fjöldanum í byltingu og sigri.

En hversu sem heimsvaldasinnar, auðvaldssinnar, endurskoðunarsinnar, og afturhald stritar og streðar þá hindra þær ekki hjól sögunnar að snúast áfram. Þeirra strit og stríð mætir stríði og striti öreigastéttarinnar og frelsisunnandi fólki, en nútíma endurskoðunarsinna bíða sömu örlög og allra sósíaldemókrata, allra tækifærissinna fortíðarinnar og allra skósveina borgarastéttarinnar og heimsvaldastefnu.

## FRELSISBARÁTTA ÞJÓÐANNA
## - SNAR ÞÁTTUR Í HEIMSBYLTINGUNNI

Þegar við tölum um byltingu, þá eigum við ekki aðeins við sósíalíska byltingu. Á því skeiði byltingaumskipta, sem nú ganga yfir, frá auðvaldsskipulagi til sósíalísks skipulags, er frelsisbarátta þjóðanna, lýðræðisbyltingar andstæðar heimsvaldastefnu og þjóðfrelsishreyfingar, snar þáttur af einu og sama byltingarferli, heimsbyltingu öreiganna, eins og Lenín og Stalín útskýrðu.

Stalín farast þannig orð:

> "Lenínisminn hefur sannað að þjóðernismálið er einungis hægt að leysa í tengslum við og á grundvelli öreigabyltingar og að leiðin til sigurs á Vesturlöndum liggur um byltingarbandalag við frelsishreyfingar nýlendnanna og ósjálfstæðra ríkja gegn heimsvaldastefnunni. Þjóðernismálið er hluti af hinu almenna viðfangsefni öreigabyltingarinnar, hluti af viðfangsefni öreigaalræðisins." +

---

+ Stalín, Grundvöllur lenínismans, 1949, bls 52

Þessi tengsl hafa orðið enn ljósari og eðlilegri nú, þar sem flestar þjóðir hafa við fall gamla nýlendukerfisins tekið stórt skref fram á við til sjálfsstæðis með því að skapa sín eigin þjóðríki, og um leið og þær feta í þau spor, sýna þær viðleitni sína til þess að komast lengra. Þær vilja afnám ný-nýlendukerfisins, vilja losna undan öllum áhrifum heimsvaldastefnunnar og öllu arðráni erlenda auðvaldsins. Þær vilja algert fullveldi og efnahagslegt og stjórnarfarslegt sjálfsstæði. Það hefur nú verið sannað að því aðeins er hægt að láta slíkar óskir rætast, og því aðeins hægt að skapa hin hlutlægu skilyrði fyrir þessu, að afnumin séu öll erlend yfirráð og allt ósjálfsstæði gagnvart erlendum áhrifum og brotin á bak aftur kúgun og arðrán innlendra valdhafa borgarastéttar og stór-landeiganda.

Af þessu leiðir að lýðræðis- og þjóðfrelsisbyltingar gegn heimsvaldastefnunni tengjast og samtvinnast sósíalískri byltingu í því að greiða heimsvaldastefnunni og afturhaldinu höggin, þ.e. sameiginlegum óvini öreigastéttarinnnar og fólksins. Þessar byltingar styðja líka brautina til sósíalískra umbreytinga, stuðla að sigri sósíalískrar byltingar. En gagnkvæmt skapar hin sósíalíska bylting hagstæð skilyrði og auðveldar sigur frelsishreyfinganna með því að leggja til atlögu við hina heimsvaldasinnuðu borgarastétt og eyðileggja efnahags- og stjórnarfarslega stöðu hennar.

Þannig lítur Flokkur Vinnunnar í Albaníu á byltingarviðfangsefnin. Hann lítur á þau frá marx-lenínískri stöðu og þess vegna styður hann og styrkir fullkomlega réttláta baráttu frelsisunnandi fólks gegn heimsvaldastefnu Bandaríkjanna, sósíalheimsvaldastefnu Sovétríkjanna og heimsvaldastefnu annarra ríkja og ný-nýlendustefnu þeirra, þar sem þessi barátta styrkir hinn sameiginlega málstað, að eyðileggja heimsvaldastefnuna og auðvaldskerfið, en eflir sigur sósíalismans í hverju landi og um allan heim.

Þegar við drögum þá ályktun að byltingin sé það

málefni, sem leysa þurfi, þá eigum við ekki aðeins við sósíalíska byltingu, heldur líka lýðræðisbyltingu andstæða heimsvaldastefnunni.

Að því er snertir byltingarástandið, viðgang þess og eðli þróunarinnar, getur það ekki verið hið sama í öllum löndum. Þetta byggist á sérstökum sögulegum forsendum í hverju einstöku landi, efnahagslegu- og félagslegu þróunarstigi, hlutföllum stéttanna, ásigkomulagi og skipulagi öreigastéttarinnar og hins kúgaða fjölda, afskiptum erlendra afla í hinum ýmsu löndum o.s.frv.

Hvert land og hver þjóð hefur mörg sérstæð byltingarviðfangsefni og margslungin.

Nú er mikið rætt um ástandið í Afríku, Asíu, S-Ameríku og byltingaraðgerðir þar. Kínverjar líta á málefni byltingar, sjálfsstæðis og þjóðfrelsis í þessum löndum sem eitt alheimsmál, sem leysa megi með einingu alls "þriðja heimsins", þ.e. einingu ríkja, stétta og ríkisstjórna o.s.frv. og ganga þar með framhjá sérstöðu og viðfangsefnum hvers einstaks ríkis og svæðis. Þessi háspekilegu viðhorf sýna að kínverskir leiðtogar eru í raun mótfallnir byltingu og frelsi þjóða Afríku, Asíu og S-Ameríku. Þeir vilja viðhalda óbreyttu ástandi, vilja viðhalda yfirráðum heimsvaldasinna og ný-nýlendustöðu.

Við ræðum einnig frelsun þessara þjóða svo og arabískra þjóða og annarra þjóða. Þessar þjóðir þurfa að leysa mörg vandamál, sem eru þeim sameiginleg, en hver þeirra um sig hefur einnig mjög vandasöm viðfangsefni og sérstæð við að fást.

Hið almenna og sameiginlega verkefni þessara þjóða er að brjóta á bak aftur alla erlenda áþján, heimsvaldastefnu, nýlendustefnu, ný-nýlendustefnu og kúgun innlendrar borgarastéttar. Þessar þjóðir Asíu, Afríku, S-Ameríku og annars staðar, loga af reiði og hatri á hinu erlenda oki og oki borgarastéttar síns lands ásamt ráðandi klíkum landeigenda og borgarastéttar, sem hafa selt sig bandarísku heimsvaldastefnunni, sovét-sósíalheimsvaldastefnunni eða öðrum heimsvaldasinnum. Þessar þjóðir eru nú vaknaðar og geta

ekki lengur þolað rán þeirra ríku, sviti þeirra og blóð geta ekki lengur sætt þá við þá efnahagslegu-, félagslegu- og menningarlegu vanþróun, sem þeir búa við.

Vegna baráttunnar gegn bandarískri heimsvaldastefnu og sovéskri sósíal-heimsvaldastefnu, aðalóvinum byltingarinnar og þjóðernislegrar og félagslegrar frelsunar þjóðanna og vegna baráttunnar við borgarastéttina og afturhaldið, hafa þjóðirnar marga sameiginlega hagsmuni og á þeim grundvelli verða þær að sameinast.

Baráttan gegn Ísraelum, hinum blóðþyrstu leiguþýum bandarískrar heimsvaldastefnu, er sameiginlegt vandamál og hrösunarhella Arabaþjóðanna í allri framþróun. Í framkvæmd eru þó ekki öll Arabaríkin á einu máli um þá baráttu, er þau ættu að heyja sameiginlega gegn Ísraelum, né eðli þeirrar baráttu. Sum ríkjanna líta þessa baráttu oft og tíðum frá þröngu þjóðernissjónarmiði. Við erum ekki samþykk þeirri afstöðu. Við höldum fast við þá afstöðu okkar, að Ísraelar verði að hörfa til sinna eigin grenja og láta af þjóðernisgorgeir, áreitni, árásum og yfirgangi gegn Arabaríkjunum. Við krefjumst þess að Ísraelar láti af hendi landssvæði Araba, að Palestínumenn fái öll sín þjóðarréttindi, en við getum aldrei samþykkt, að ísraelska þjóðin verði þurrkuð út.

Tilraunir þjóða Arabalandanna til að losa sig algerlega úr klóm heimsvaldastefnunnar og sósíalheimsvaldastefnunnar, tilraunir þeirra til að styrkja frelsi sitt og fullveldi eru líka sameiginleg vandamál allra þessara þjóða.

En hver Arabaþjóð hefur sín séreinkenni, sérvandamál, sem eru frábrugðin málefnum hinna. Þetta stafar af félags- og efnahagsþróun þeirra hvers um sig, ríkisskipulagi, hvaða frelsi og fullveldi þau hafa búið við og sameiningu ættflokka og kynkvísla hjá þeim mörgum o.s.frv. Að hrúga öllum þessum aðgreindu þáttum saman og krefjast þess, að

málefni frelsis, sjálfstæðis, lýðræðis og sósíalisma séu leyst á sama hátt og á sama tíma fyrir öll þessi lönd, er að krefjast hins ómögulega.

Í Arabalöndunum, þar sem hagsmunir borgarastéttarinnar hafa verið mestir, fjárfestu ýmsir heimsvaldasinnar verulegar upphæðir til arðnýtingar auðlinda og þjóða. Til þess að þetta tækist, þurfti að skapa viss starfsskilyrði, bæði fyrir nýlenduherrana og nýlenduþjóðirnar. Allsstaðar, þar sem verið hefur gnægð náttúruauðæfa og hagsmunir nýlenduherranna mestir, hefur arðránið á auðlindum og þjóðum verið mest.

Að sjálfsögðu hefur arðnýting auðlinda einnig haft í för með sér vissa þróun, en ekki er hægt að líta á hana, sem alhliða samræmda þróun efnahags þessara landa. Nýlenduherrarnir veittu fé og aðstoð helstu ættarhöfðingjunum, sem seldu sálir og auð þjóða sinna heimsvaldasinnuðum valdamönnum. Til endurgjalds fengu þeir lítinn hluta hins gífurlega hagnaðar nýlenduherranna.

Ættarhöfðingjarnir notuðu aðstöðu og vald þess ríkis, sem hafði hneppt þá í ánauð til þess að skapa einskonar óháð ríki, sem naut stuðnings og umsjár nýlenduveldisins. Með þessu móti urðu ættarhöfðingjarnir, með aðstoð nýlenduherranna að auðugri borgarastétt Sheika, sem seldu lendur sínar ásamt fólki sínu fyrir næstum ekki neitt og felldu þar með tvöfaldan fjötur á fólkið,þ.e. fjötur erlends nýlenduherra og sinn eiginn fjötur. Þannig stóðu andspænis hvor annrri í Arabalöndunum annars vegar stétt stórborgara, stórlandeigenda og "miðaldakónga", en hins vegar öreigalýður vinnandi hjá erlendum sérleyfishöfum. Með þeim peningum og gróða, sem hinir erlendu arðræningjar létu af hendi rakna tók yfirstéttin upp lifnaðarhætti evrópskrar og bandarískrar borgarastéttar. Synir hennar sóttu jafn vel skóla nýlenduherranna, þar sem þeir fengu nokkra vestræna menntun. Þeir létust vera fulltrúar fyrir menningu sinnar þjóðar, en voru í raun þjálfaðir í því að halda verkalýðnum í hlekkjum og leyfa ný-

lenduherrunum að viðhalda miskunnarlausu arðráni á honum.

Það Arabaríki, sem átti meiri auð þróaðist fyrr, annað sem ekki átti jafn mikinn auð þróaðist hægar, en þau ríki, sem voru fátæk stóðu í stað á mjög lágu þróunarstigi.

Nýlenduskipaninni var þannig fyrir komið að hægt var að halda uppi róttækri kúgun, þar sem herinn var ávallt reiðubúinn til athafna og með aðstoð ríkisvalds lénskonunganna og stórlandeigenda borgarastéttarinnar var hver tilraun til uppreisnar kæfð í fæðingu, allar kröfur, jafnvel smávægilegustu kröfur um kjarabætur, að ekki sé minnst á pólitískar kröfur og byltingarkröfur.

Að því er tekur til þróunar Arabaríkjanna í dag þá hafa þau ekki öll við sömu vandamál að glíma. Konungur Saudi-Arabíu þarf að leysa önnur vandamál og lítur frá öðru sjónarhorni efnahag, pólitík, skipulag og hermál, en emírarnir við Persaflóa, sem hafa önnur viðhorf. Sama er að segja um Irak, Sýrland, Egyptaland, Líbýu, Túnis, Alsír, Marokkó, Mauritaníu o.s.frv., einnig þau líta sín eigin vandamál frá öðrum sjónarhóli.

Því er það að þegar við tölum um Arabaþjóðirnar komumst við að þeirri niðurstöðu að enda þótt hagsmunir þeirra falli víða saman, þá eru vandamálin ekki þau sömu og verða ekki leyst á einn veg í öllum löndum. Á sama hátt getum við ekki sagt að til sé bandalag og sameiginleg skoðun á lausn sameiginlegra vandamála hjá þessum ríkjum. Vandamálin eru mismunandi fyrir hvert Arabaríki, ekki aðeins vegna ólíkrar afstöðu ríkisstjórna þessara landa, en einnig vegna afstöðu nýlendu og ný-nýlendu ríkja, sem enn ráða lögum og lofum í flestum ríkjanna.

Það sem sagt hefur verið um Arabaþjóðirnar á einnig við um þjóðirnar á meginlandi Afríku. Afríka er greypt fjölskrúðugu mynstri fornrar menningar. Hver Afríkuþjóð hefur sína eigin menningu, siði og lífshætti, sem með nokkrum tilbrigðum eru allfrumstæð, af ástæðum, sem eru vel kunnar. Vakning

þessara þjóða er nýbyrjuð. Að lögum hafa Afríkuþjóðirnar almennt áunnið sér frelsi og sjálfstæði. En um raunverulegt frelsi og sjálfstæði getur ekki verið að ræða, þar eð flestar þeirra eru ennþá á nýlendustigi. Mörgum þessara landa er stjórnað af þjóðflokka-höfðingjum, sem hafa hrifsað til sín völdin og styðjast við gamla nýlenduherra eða bandaríska heimsvaldasinna og sovét-sósíal-heimsvaldasinna. Á þessu stigi einkennast stjórnarhættir Afríku-ríkja af framlengingu á nýlendustjórnarfarinu og hljóta að gera það. Heimsvaldasinnar ráða flestum Afríkulöndum enn á ný með afskiptum af málum þeirra, iðnaðarfjárfestingu, bönkum o.s.frv. Hin feikilegu auðæfi þessara landa halda áfram að renna til móðurborganna.

Nokkur Afríkulönd hafa barist fyrir því frelsi og sjálfstæði, sem þau njóta í dag, en öðrum hefur verið rétt frelsið baráttulaust. Á tímum nýlendustjórnar í Afríku, kúguðu Bretar, Frakkar og aðrir nýlenduherrar fólkið, en þeir komu líka á fót borgarastétt í viðkomandi landi, meira og minna menntaðri á vesturlanda vísu. Forystuliðið nú er líka runnið frá þessari borgarastétt. Á meðal þess eru mörg and-heimsvaldasinnuð öfl, baráttulið fyrir sjálfstæði síns eigin lands, en meirihlutinn er annaðhvort trúr hinum gömlu nýlenduherrum í því að varðveita hin nánu tengsl við þá eftir að nýlenduskipaninni hefur verið aflétt formlega, eða þá að þeir hafa bundist efnahags- og stjórnmálaböndum bandarískum heimsvaldasinnum eða þá sovéskum sósíal-heimsvaldasinnum.

Nýlenduherrarnir lögðu ekki í miklar fjárfestingar áður fyrr. Þannig var því háttað t.d. í Líbýu, Túnis, Egyptalandi o.s.frv. En nýlenduherrarnir þurrkuðu upp auð þessarra landa, hrifsuðu til sín stórar lendur og bjuggu til öreigastétt, og hana ekki svo fámenna í vissum greinum iðnaðar, eins og í námuvinnslu og öðrum hráefnaiðnaði. Þeir drógu einnig mikinn fjölda verkamanna til móðurríkjanna eins og Frakklands og Bretlands, sem ódýrt vinnuafl,

sem vann í námum og verksmiðjum nýlenduherranna.

I öðrum hlutum Afríku, einkum í Svörtu-Afríku hélst iðnaðarþjóunin á meira frumstigi. Öllum ríkjum á þessu svæði var skipt upp, fyrst og fremst á milli Frakklands, Bretlands, Belgíu og Portúgal. Mikil auðæfi í jörðu eins og demantar, járn, eir, gull, tin o.s.frv. höfðu fundist þar fyrir löngu og iðnaði komið þar upp til að vinna þennan auð.

I mörgum Afríkulöndum voru byggðar stórar borgir, með sérkennum nýlenduborga, þar sem nýlenduherrarnir lifðu ævintýralífi. I þessum borgum óx og dafnaði annars vegar stórborgarastétt staðarins og auður hennar, en hins vegar jókst enn meir fátækt hins vaxandi fjölda verkafólks. I þessum löndum hefur menning þróast að vissu leyti, en hún er meir í ætt við evrópska menningu. Menning heimahaganna hefur ekki tekið framförum. Hún hefur yfirleitt haldist á því stigi sem hún var meðal ættflokkanna og er ekki látin ná út fyrir þá á þeim menningarsvæðum, sem skýjakljúfarnir hreykja sér. Þetta stafar af því að utan hinna stóru aðalstöðva, þar sem nýlenduherrarnir bjuggu, var eymd og sár fátækt ríkjandi. Hungur, sjúkdómar, fáfræði og miskunnarlaust arðrán á fólkinu allsráðandi í fyllstu merkingu þess orðs.

Ibúar Afríku héldu áfram að vera menningarlega og efnahagslega vanþróaðir. Þeim fækkaði stöðugt og hnignaði vegna nýlendustríða, villimannlegra ofsókna og verslunar með Afríkusvertingja, sem sendir voru til móðurlandanna, Bandaríkjanna og annarra landa til þess að vinna þar eins og dýr á plantekrum, við aðra uppskeru auk erfiðustu verkanna í iðnaði og bygg-ingaframkvæmdum.

Afríkuþjóðirnar eiga því mikla baráttu fyrir höndum. Þetta er og verður mjög flókin barátta, mismunandi í hinum ýmsu löndum vegna efnahags-, mennignar-, og menntunarástands, pólitískrar vakningar og hinna miklu áhrifa, sem mismunandi trúarbrögð eins og kristni, múhameðstrú, forn heiðindómur o.s.frv., hafa á almenning hjá þessum þjóðum. Baráttan verður ennþá erfiðari vegna þess að mörg þessara

landa eru í raun og veru undir yfirráðum ný-nýlenduvelda í samstarfi við borgaralegar fjármálaklíkur. Lögin setja hinir voldugu auðmenn og heimsvaldaríki, sem styrkja stjórnstöðu ráðandi klíkna, sem þeir koma sér upp eða leysa frá störfum allt eftir því hvers hagsmunir ný-nýlendustefnunnar krefjast eða eftir því hvort hagsmunajafnvægið hefur raskast.

Pólitík stór-landeigenda, borgaralegs afturhalds, heimsvaldasinna, og ný-nýlenduherra er við það miðuð að halda Afríkuþjóðunum í stöðugri áþján og fáfræði. Hindra hjá þeim félagslega og pólitíska þróun. Tálma hugmyndafræðilegri framþróun og félagslegri og pólitískri réttindabaráttu. Eins og nú standa sakir sjáum við að þeir heimsvaldasinnar, sem drottnuðu yfir Afríkuþjóðunum áður fyr, reyna nú ásamt öðrum nýjum heimsvaldasinnum, að þrengja sér inn á hið afríska meginland á allan hátt með afskiptum af innanlandsmálum þessara þjóða. Af þessu leiðir að andstæðurnar milli heimsvaldasinna, andstæður milli Afríkuþjóðanna og hinnar borgaralegu auðvaldsforystu í þessum löndum, og andstæður Afríkuþjóða og hinna nýju nýlenduherra magnast stöðugt.

Þessar andstæður verða þjóðirnar að nota, bæði dýpka þær og hafa af þeim ávinning, en þetta gerist aðeins fyrir einbeitta baráttu öreigastéttarinnar, fátækra bænda, allra hinna kúguðu þræla gegn heimsvaldastefnu og ný-nýlendustefnu, gegn viðkomandi borgarastétt, stórlandeigendum og allri þeirra uppbyggingu á málefnum Afríku. Sérstakt hlutverk þessarar baráttu fellur í hlut framfara- og lýðræðissinna, byltingarsinnaðrar æsku og þjóðernissinnaðra menntamanna, sem keppa að því að sjá land sitt taka framförum, frjálst og óháð, á leið til þróunar og framfara. Aðeins með stöðugri, skipulagðri baráttu þeirra, verður innlendum og erlendum kúgurum og arðræningjum gert erfitt um vik og óframkvæmanlegt að halda uppi stjórn mála. Þetta ástand verður að skapa við hinar sérstæðu aðstæður hvers Afríkuríkis um sig. Bresk og

bandarísk heimsvaldastefna hefur ekki veitt þjóðum Afríku neitt frelsi. Allir geta séð hvað er að gerast í Suður-Afríku til dæmis. Hvítir kynþáttaféndur, breskir auðmenn og arðræningjar ráða þar ríkjum og kúga þar fólk af öðrum litarhætti á villimannlegan hátt eftir lögmálum ríkjandi í frumskóginum. Mörg önnur lönd Afríku eru undir yfirráðum og umsjón bandarísks- bresks- fransks- og belgísks fjármagns og fjármagns annarra gamalla nýlendur-herra og heimsvaldasinna, sem eru orðnir nokkuð vanmáttugri, en hafa þó enn lyklavöld í efnahagsmálum þessara landa.

Þjóðir Asíu hafa líka gengið götu þjáninga og harðréttis, beittar miskunnarlausri kúgun og arðráni af heimsvaldasinnum.

Í upphafi annarrar heimsstyrjaldar bjuggu að undantekinni Sovét-Asíu, níu tíundu af íbúum meginlandsins við kúgun og arðrán heimsvaldasinna Evrópu, Japans og Bandaríkjanna, sem nýlendur eða hálf-nýlendur. Stóra-Bretland eitt réði nýlendum að flatarmáli fimm milljónir, sexhundruðþrjátíuogfimmþúsund ferkílómetrar með yfir 420 milljónir íbúa. Nýlendukúgunin og arðránið hafði leitt yfir Asíulöndin félags-, efnahags- og menningarlega vanþróun og sára fátækt. Þau voru eingöngu notuð sem forðabúr heimsvaldasinnaðra móðurlanda. Þaðan voru flutt hráefni eins og olía, kol, króm, magnesíu, tin, gúmmí o.s.frv.....

Eftir styrjöldina var nýlenduskipaninni í Asíu sundrað. Sérstök þjóðríki voru sett á stofn í nýlendunum. Flest þessara landa unnu þessa sigra sína í blóðugum styrjöldum, sem almenningur háði gegn nýlenduherrunum og japönskum innrásarher.

Frelsisstríð kínversku þjóðarinnar, sem leiddi til frelsunar Kína undan stjórn japönsku heimsvaldasinnanna. Sigur yfir afturhaldsöflum Shang-Kaj-Sheks og sigur lýðræðisbyltingarinnar, hafði sérstaklega mikla þýðingu fyrir fall nýlendustefnunnar í Asíu. Um tíma hafði þessi sigur í jafnstóru landi og Kína

geysi víðtæk áhrif á frelsisbaráttu Asíuþjóða og þjóða annarra landa undir yfirráðum eða áhrifum heim valdasinna. En þessi áhrf dvínuðu smám saman vegna þeirra stefnu, sem forysta Kína fylgdi eftir stofnun Kínverska Alþýðulýðveldisins.

Kínverskir leiðtogar lýstu yfir, að Kína hefði lagt á braut sósíalískrar þróunar. Byltingarsinnar og frelsisunnandi þjóðir heims vildu og vonuðu að Kína yrði voldugt vígi sósíalsma og heimsbyltingar og fögnuðu þessum yfirlýsingum ákaft. En þeim varð ekki að þessum óskum sínum og vonum.Þó fólki gengi erfiðlega að trúa,þá var það þó staðreynd að hið órólega og ruglingslega ástand, sem ríkti í Kína sýndi að þar var ekki farin leiðin til sósíalismans.

En baráttu Asíuþjóða lauk ekki með eyðileggingu nýlendustefnunnar. Um leið og fyrri nýlenduveldi voru neydd til þess að viðurkenna sjálfstæði nýlendnanna vildu ríki eins og Bretland, Frakkland, Hol land og aðrir nýlenduherrar halda efnahagslegri og pólitískri stöðu sinni í þessum löndum, til þess að halda áfram yfirráðum og arðráni, en nú í formi nýnýlendustefnunnar. Ásælni Bandaríkjanna til áhrifa í Asíu, sérstaklega í Austurlöndum fjær, Suðaustur-Asíu og Kyrrahafseyjum, gerði ástandið sérstaklega alvarlegt. Þessi svæði höfðu og hafa enn mikla efnahags- og hernaðarlega þýðingu fyrir bandarísku heimsvaldastefnuna. Þeir hafa komið þar upp miklum herflugvöllum og dreift þar öflugum flota. Jafnframt þessu hremmdi bandarískt fjármagn efnahagsmál landanna á þessu svæði í blóðstokknar klær sínar.

Um leið og bandarískir heimsvaldasinnar tóku sér fyrir hendur meiriháttar hernaðaraðgerðir, sundurngar og njósnastarfsemi til þess að brjóta á bak aftur frelsishreyfingar Asíulanda, tókst þeim að skipta Kóreu og Víetnam í tvennt og setja upp afturhaldsleppstjórnir í Suðurhluta beggja þessara ríkja. Landeigenda og borgarastjórnir hliðhollar heimsvaldasinnum voru settar í valdastóla í mörgum fyrverandi nýlendum og hálfnýlendum í Asíu. Á þennan hátt var viðhaldið miðalda þrældómi, ógnarstjórn fursta,kónga,

sheika, herforingja og "nýtísku" fjármálamanna. Þessir valdhafar seldu lönd sín aftur heimsvaldasinnum einkum bandarískum og hindruðu þannig alvarlega félagslega, efnahagslega og menningarlega þróun þessara landa.

Þjóðir Asíu, sem enn á ný urðu, með þessu móti, lamaðar af þungu oki heimsvaldasinna, landeigenda- og borgarastéttar, gátu ekki lagt niður vopn, en urðu þess í stað að halda áfram frelsisbaráttu sinni til þess að losna undan okinu. Venjulega var þessi barátta undir forystu kommúnistaflokkanna. Alls staðar, þar sem þessum flokkum tókst að skapa heilbrigð tengsl við fjöldann, vekja vitund hans um frelsismarkmið styrjaldarinnar og virkja hann og skipuleggja til vopnaðrar byltingarbaráttu, náðist jákvæður árangur. Hinn sögulegi sigur þjóða Indókína, einkum sigur víetnömsku þjóðarinnar á bandarísku heimsvaldasinnunum og sinni eigin landeigenda- og borgarastétt, sýndi öllum heimi,að heimsvaldastefna jafnvel hjá risaveldi eins og Bandaríkjunum með öll nútíma hernaðartæki í notkun, til að bæla niður frelsishreyfingar, megnar ekki að undiroka þjóðir og ríki, hvort heldur stór eða smá, þegar þau eru reiðubúin að færa hverja fórn og berjast skilyrðislaust fyrir frelsi sínu og sjálfstæði þar til yfir líkur.

Vopnuð frelsisbarátta hefur verið háð og heldur áfram.í mörgum öðrum löndum Asíu, eins og Burma, Malasíu, Filipseyjum, Indónesíu og víðar. Hefði hin andmarxíska forysta Kína ekki skorist í leikinn með sín þjóðrembingssjónarmið og vakið sundrungu og villu hjá byltingaröflunum og kommúnistaflokkunum, sem veittu þeim forystu, hefði þessi barátta vafalaust átt miklu gengi og mörgum sigrum að fagna.

En kínverskir forystumenn lýstu annars vegar stuðningi við frelsisstríð í þessum löndum, en studdu hins vegar afturhaldsstjórnir þeirra, fögnuðu forystumönnum þessara ríkja með lofræðum og kvöddu þá með viðhöfn. Þeir hafa ávalt fylgt þeirri stjórnlist og starfsaðferð að láta frelsishreyfingar Asíu þjóna

ofríkisstefnu sinni og yfirdrottnunarhagsmunum. Þeir hafa ávallt beitt þvingunum við byltingaröflin og forystulið þeirra, til þess að ná fram sinni pólitísku stefnu og markmiðum. Þeir hafa aldrei haft raunverulegan áhuga á frelsismálum eða byltingum í Asíulöndum, heldur aðeins að gera eigin þjóðrembingsmetnað að veruleika. Þeir hafa ekki hjálpað þessum þjóðum heldur lagt stein í götu þeirra.

Málefni byltingar og frelsisbaráttu í Asíu hafa aldrei knúið svo fast og skilyrðislaust á um lausn og nú. Þau hafa aldrei verið flóknari og vandasamari úrlausnar.

Þessi flækja og erfiðleikar stafa aðallega af starfsemi bandarískra heimsvaldasinna ásamt andmarxískum og óvinsælum yfirdrottnunar og útþensluáformum og -athöfnum sovéskra og kínverskra endurskoðunarsinna og sósíalheimsvaldasinna.

Bandaríkin leitast við af öllum mætti að styrkja herstjórnar-, efnahags- og hernaðarstöðu sína í Asíu, vegna þess að þeir telja þessa stöðu lífsnauðsynlega fyrir heimsvaldahagsmuni sína. Sovétríkin leitast einnig við með öllum ráðum og af öllu afli að færa út aðstöðu, sem þeir hafa þegar náð í Asíu.

Kína hefur að sínu leyti, nú þegar, komið á framfæri kröfu um að ráða yfir löndum Asíu með því að gera bandalag í þessu skyni við Bandaríkin og sérstaklega við Japan, en lýst yfir beinni andstöðu við Sovétríkin.

Japanir ágirnast líka yfirráð í Asíu. Þetta er hin gamla græðgi japanskra heimsvaldasinna.

Þess vegna hræðast Sovétríkin svo mikið kínverskt-japanskt bandalag og veita því sterka mótstöðu. En bandarískir heimsvaldasinnar vilja heldur ekki að það verði svo traust, að það brjóti gegn bandarískum hagsmunum, þó þeir hvetji til og veiti blessun sína samningsgerð Kína og Japan, ef þessi samningur gæti heft útþennslu Sovétríkjanna, sem skaðar yfirráð Bandaríkjanna.

Indland, sem er stórt land, sækir líka fast að

verða stórveldi með kjarnorkusprengur, mikil völd í Asíu og leika sérstakt hlutverk vegna hernaðarstöðu sinnar, þar sem skerast útþennsluhagsmunir tveggja heimsvaldasinnaðra risavelda, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna á Indlandshafi, Persaflóa og norður og austur landamærunum.

Bresk heimsveldisstefna hefur heldur ekki hvikað frá áformum sínum um yfirráð í Asíulöndum og vafalaust hafa önnur heimsvaldasinnuð auðvaldslönd svipuð áformum

Af þessum sökum hefur Asía orðið vettvangur grimmilegustu átaka milli heimsvaldasinna í dag og því hafa orðið þar til margar hættulegar gróðrarstíur að alheimsbáli, sem þjóðirnar munu gjalda dýru verði.

Til þess að kæfa byltingar- og frelsisbaráttu í löndum Asíu hafa sovéskir og kínverskir endurskoðunarsinnar hafið æðisgengið kapphlaup sín á milli og unnið mjög óþrifalegt verk til þess að sundra og eyðileggja skipulagða kommúnistaflokka og frelsisunnandi öfl þessara landa. Þessi starfsemi var ein aðal orsökin að þeim hörmungum, sem kommúnistaflokkur Indónesíu varð fyrir og upplausn kommúnistaflokks Indlands o.s.frv. Þeir mæla með bandalagi og einingu öreigastéttarinnar og alls almennings við afturhaldssinnaða borgarastétt á hverjum stað, á sama tíma og þeir sjálfir, hvor um sig reyna að afla sér vináttu þessarar sömu borgarastéttar sér til ávinnings.

Íhlutun sovéskra og kínverskra heimsvaldasinna í hinum ýmsu löndum Asíu er gerð með yfirdrottnunar- og útþenslu-áform í huga og hefur leitt mikla hættu yfir frelsishreyfingar þessara þjóða og jafnvel stofnað sigrum frelsisstríða í Víetnam, Kambódíu og Laos í beina hættu.

Byltingar- og frelsisunnandi öfl í löndum Asíu, undir forystu marxískra-lenínískra kommúnistaflokka verða að mæta óhikað og uppræta hættuna, sem þeim stafar af afturhaldinu heima hjá sér, sem heimsvaldasinnaðir verndarar byrgja upp af vopnum og einnig

hættum af sundrungar- og niðurrifs-starfsemi, ásamt yfirdrottnunar- og útþensluáformum sovéskra og kínverskra endurskoðunarsinna. Þeir þurfa líka að losa sig við heilmikið af gömlum hugmyndum afturhaldsins. Dulfræði. Búddisma. Brahmisma og aðrar trúarhugmyndir og ímyndanir, sem eru hömlur á frelsishreyfingunni. Þeir þurfa líka að hindra að "nýjar" afturhaldshugmyndir og ímyndanir festi rætur eins og endurskoðunarhugmyndir krústéfismans og maóismans, og aðrar engu síðri afturhaldskenningar, sem rugla og blekkja fjöldann, svipta hann stéttarlegum baráttuhug og leiða hann á rangar og vonlausar leiðir.

Frelsisbaráttan, sem þjóðir Asíu eiga fyrir höndum, er erfið í hæsta máta og á við marga örðugleika að etja. En það hefur aldrei verið og verður aldrei til auðveld frelsis- eða byltingarbarátta án mikilla hindrana, sem verður að yfirvinna. Það verður aldrei til frelsis- og byltingarbarátta, sem ekki krefst blóðsúthellinga og margskonar fórna ef endanlegur sigur á að vinnast.

Yfirleitt er auðvaldsþróunin á hærra stigi í löndum Suður-Ameríku en í löndum Asíu og Afríku. En lönd S-Ameríku eru ekki síður háð erlendu fjármagni en yfirgnæfandi meirihluti Afríku- og Asíulanda. Flest lönd S-Ameríku lýstu yfir sjálfstæði sínu miklu fyrr en Afríku- og Asíulönd eða á fyrra helmingi 19. aldar, eftir frelsisstríð þjóða þessa heimshluta undan nýlenduoki Spánar og Portúgal. Þessi lönd hefðu tekið mikið meiri framförum eftir að þau hrundu af sér nýlenduoki Spánar og Portúgal hefðu þau ekki lent undir öðru oki, sem hálfnýlendur Breta, Frakka, Þjóðverja, Bandaríkjamanna og annars erlends fjármagns. Við upphaf þessarar aldar voru breskir nýlenduherrar alsráðandi í þessum heimshluta. Þeir rændu óhemju birgðum af hráefnum frá þessum löndum. Byggðu hafnir, járnbrautir og orkustöðvar til þjónustu fyrir sín einkaleyfisfélög og seldu iðnaðarvörur þeirra framleiddar í Bretlandi.

Þetta átti eftir að breytast, en ekki þjóðum S-Ameríku í hag. Þegar Bandaríkin ruddu sér leið inn í S-Ameríku á heimsveldaferli sínum. Heimsvaldastefna Bandaríkjanna tók upp kjörorðið "Ameríka fyrir Ameríkana", svo nefnda "monroe kenningu" til þess að grundvalla óskipt yfirráð sín yfir öllum Vesturheimi. Efnahagslegri fótfestu í þessum heimshluta náðu Bandaríkjamenn með hernaðarmætti, pólitískum mútum og fjármálabrögðum. Árið 1930 var jöfn fjárfesting Bretlands og Bandaríkjanna í S-Ameríku, en aftur á móti urðu Bandaríkin næstum einráð eftir aðra heimsstyrjöldina. Hinir stóru einokunarhringar tóku stjórnina í lykilgreinum efnahagslífs S-Ameríku. Lönd þessa heimshluta urðu hluti af ósýnilegu heimsvaldi Bandaríkjanna, sem nú fór að ráða hér lögum og lofum, úthluta ríkisstjórnum valdastólum og velta þeim aftur, og skipa fyrir um efnahagsmál og hermál.

Einokunarfélög Bandaríkjanna drógu til sín ævintýralegan auð með nýtingu náttúruauðlinda og erfiði, svita og blóði Suður-Ameríku-þjóða. Af hverjum dal, sem þeir fjárfestu þar fengu þeir 4 - 5 dali í hagnað. Þetta ástand ríkir þar enn í dag.

Enda þótt fjárfesting heimsvaldasinnaðra ríkja í Suður-Ameríku leiddi til þess að komið var á fót nokkrum nútíma iðnaðarfyrirtækjum hefur þessi fjárfesting orðið mjög mikill hemill á atvinnu- og efnahagsþróun Suður-Ameríku. Erlend einokun og ný-nýlendupólitík heimsvaldasinnaðra ríkja hefur leitt til þess að efnahagsþróun í þessum löndum hefur afskræmst og mótast einhæft og einhliða og gert þau sérhæfða hráefnisframleiðendur: Olía í Venesuela, tin í Bólivíu, eir í Chile, kaffi í Brasilíu og Kólombíu, sykur á Kúbu, Haítí og Dóminíska lýðveldinu, kjöt í Argentínu og Uruguay, bananar í Ecuador o.s.frv. Þessi einhæfni gerði búskaparhætti þessara landa allsendis ófullnægjandi, og algerlega ófæra til skjótrar og

alhliða þróunar, en ofurselda breytingum óstöðugs verðlags á heimsmarkaði auðvaldsríkjanna. Samdráttur í framleiðslu og fjárhagskreppur í Bandaríkjunum og öðrum auðvaldsríkjum hafði neikvæðar afleiðingar og afdrifaríkar fyrir efnahagslíf í Suður-Ameríku.

Eftir aðra heimsstyrjöldina hófu hin heimsvaldasinnuðu móðurríki beina og stórfellda fjárfestingu í ýmsum greinum iðnaðar, námuvinnslu og landbúnaði. Keyptu upp fyrirtæki í eigu þjóðarinnar o.s.frv. Þau færðu út yfirráð sín til heilla framleiðsluþátta og juku ránið í löndum Suður-Ameríku til hins ýtrasta. Á sama tíma juku þau lánastarfsemi og fjármögnun með háum vöxtum og bundu þessi lönd þar með enn fastar erlendum yfirráðum og þá fyrst og fremst yfirráðum Bandaríkjanna. Í Brasilíu einni nema skuldir við erlenda banka 90 milljörðum dollara og í Mexíkó nær 30 milljörðum.

Auðvaldsþróun í Suður-Ameríku hefur yfirleitt verið á mjög lágu stigi vegna þess að þar eru enn við lýði landssetur sem í eðli sínu eru leifar af lénsskipan. Þetta veldur því að í Suður-Ameríku eru frumstæðir lifnaðarhættir mjög áberandi eins og í Asíu og Afríku. I löndum Suður-Ameríku styðjast fámennisstjórnir mjög valdamikillar og einráðrar stórborgarastéttar við heimsvaldapólitík og beina heimsvaldaíhlutun, sem hefur ríkt þar. Ríkisvaldið er í höndum þessara afla, sem með aðstoð bandarískra heimsvaldasinna og ásamt þeim kúga og arðræna miskunnarlaust verkalýðsstéttina, bændur og annað verkafólk, sem lifir í aumustu örbirgð.

Þessi þróun hefur fætt af sér fjölmenna öreigastétt iðnverkalýðs, landbúnaðar-, bygginga- og þjónustuverkafólks, sem eru nær helmingur íbúanna, gagnstætt því, sem er í Afríku, þar sem verkalýðsstéttin er mjög fámenn í flestum löndum.

Auk þess á Suður-Amerísk bændastétt og verka-

lýðsstéttin, sem vaxin er úr þeirra röðum, mikinn auð í erfðavenjum vopnaðra byltinga, erfðavenjum áunnum í látlausri baráttu fyrir frelsi, landi, vinnu og brauði. Erfðavenjum, sem þróast hafa enn frekar í bardögum við fámennisstjórnir heima fyrir og við erlenda einokun ásamt bandarískri heimsvaldastefnu. Þjóðir S-Ameríku heyra þeim þjóðum til, sem hvað harðast hafa barist og úthelt mestu blóði í viðureign við innlenda og erlenda kúgara og arðræningja. Í þessum orrustum hafa þeir unnið marga sigra og stóra, en fullnaðar sigur, er veiti þeim útþurrkun á arðráni, sjálfstæði, lýðfrelsi og fullveldi, hefur enn ekki verið unninn í neinu landi S-Ameríku. Þjóðir S-Ameríku ólu miklar vonir og eltu margar tálsýnir við sigur kúbönsku þjóðarinnar, sem varð þeim innblástur og hvatning í baráttu þeirra undan oki auðmannanna heima fyrir og stjórn landeigendanna og bandarískrar heimsvaldastefnu. En þessi innblástur og vonir bliknuðu brátt. Þær sáu að Kúba Castrós var ekki á leið sósíalískrar þróunar heldur var hér auðvaldsþróun af endurskoðunar gerð og vonirnar dofnuðu jafnvel enn fljótar við það að Kúba varð leppríki með málaliðasveitir, sem þjónaði hagsmunum sovéskrar heimsvaldastefnu.

Mál eru margslungin í S-Ameríku í dag eins og í öllum löndum.

Í flestum þessara landa er byltingarástand og viðfangsefnið er bylting, sem kollvarpar skipan borgarastéttar og landeigenda og losar þjóðirnar undan áhrifum heimsvaldastefnunnar. Að sjálfsögðu verður byltingin og framvinda þróunarinnar með sínum hætti í hverju landi vegna mismunandi skilyrða, sem fyrir hendi eru í hverju ríki eða ríkjahópum, mismunandi þróunarstigs í félags- og efnahagsmálum, hversu háð þau eru heimsvaldasinnum eða sósíalheimsvaldasinnum, hversu frjálslynd eða menguð fasisma borgarastéttin og stjórnarfar hennar er á hverjum stað. En eitt er greinilega mikil nauðsyn, þ.e. nánari samtenging en í Afríku og Asíu á and-

heimsvaldasinnuðum, lýðræðislegum og sósíalískum byltingarverkefnum.

S-Ameríka á líka marga kosti að því er varðar undirbúning að huglægum þáttum byltingarinnar vegna þess að hér er vitund og vilji vakandi fyrir því hjá almenningi, að berjast við innlenda og erlenda kúgun og arðrán, fyrir frelsi, lýðræði og sósíalisma. En það eru ekki bara heimsvaldasinnar, einkum bandarískir, ásamt innlendu afturhaldi, heldur líka innlendir endurskoðunarsinnar og annað tækifærissinnað stóð auðvaldsins, ásamt sovéskum og kínverskum endurskoðunarsinnum, hindra og rugla fólkið, og berjast af öllum mætti gegn fullum undirbúningi þessa þáttar byltingarverkefnisins.

Bandaríska heimsvaldastefnan heldur fast við áform sín um skilyrðislaus yfirráð yfir S-Ameríku enda er gróðinn af þeim yfirráðum gífurlegur. Þeir beita því öllum ráðum, hervaldi, njósnum, skrumi og blekkingum til þess að hindra alla aðra heimsvaldasinna í að ná yfirburðum þar og til þess að tryggja að bylting brjótist ekki út eða sigri í þessum löndum. Með þessu vilja þeir viðhalda bæði ósjálfstæði S-Ameríkulanda gagnvart Bandaríkjunum og þjóðfélagsskipan borgarastéttarinnar og landeigenda í þessum löndum.

Áhrifamikið vopn í höndum Bandaríkjanna í þessum efnum er Samband Ameríkuríkja, sem er undir stjórn forseta hermálaráðs og ríkisráðs Bandaríkjanna. Stofnskrá þessa sambands veitir Bandaríkjunum heimild til þess að grípa inn í gang mála hvenær sem er með hvaða hætti sem er, jafnvel með hervaldi til þess að viðhalda óbreyttu ástandi bæði í innanríkis og utanríkismálum í löndum S-Ameríku.

Jafnframt hafa hinir stóru einokunarhringir fullkomnað arðránsaðferðir sínar í þessum löndum með því að skipuleggja fjölþjóða einokunarsamsteypur, með aðalstöðvum og eftirliti í Bandaríkjunum og notfæra sér einnig í stórum stíl ríkisfjármögnun til þess að styrkja þar með eftirlit sitt með stjórnum ríkjanna og ríkiskerfinu í heild.

En þessi ráð og mörg önnur, sem Bandaríkin nota leysa ekki þann vanda, sem fylgir þeim alvarlegu efnahags og stjórnmálakreppum, sem halda S-Ameríku í greip sinni. En þar sem tilvera auðmanna og landeigendanna byggist á bandarískri heimsvaldastefnu þá hefur hugmyndin um byltingu, sem hina einu og óhjákvæmilegu aðferð við að ávinna sér þjóðlegt- og félagslegt frelsi, fest enn dýpri rætur og víðfeðmari í vitund öreigastéttarinnar, landbúnaðarverkamanna, framsækinna menntamanna og æskulýðs þessara landa.

Í þeim tilgangi að bægja byltingunni frá hafa bandarískir heimsvaldasinnar og innlendir auðmenn gripið til tveggja ráða aðallega. Hins fyrra að koma á fót fasísku hernaðareinræði með valdaráni, þegar þeir sjá stöðu sinni ógnað. Þetta gerðu þeir í Brasilíu, Chíle, Uruguay, Bólivíu og víðar. Hin aðferðin er að koma upp lýðræðis-, borgaralegri stjórn með alls kyns takmörkunum og stórkostlegri skerðingu á frelsi í grundvallaratriðum. Þetta gerðu þeir í Venesúela og Mexíkó og eru nú á þeirri leið í Brasilíu. Þannig reyna þeir að slaka á byltingarspennunni og láta líta svo út að borgarastétt þessara landa og þá enn frekar ríkisstjórn Bandaríkjanna og forseti geri sér far um að hlúa að "mannréttindum".

En slík ráð og tilburðir leysa ekki þetta kreppuástand né bægir byltingarástandinu frá dyrum. Með slíkum ráðum verður byltingin ekki tekin af dagskrá.

Öreigastéttin og öll byltingaröfl í löndum S-Ameríku eiga mjög mikilvægt byltingarverkefni fyrir höndum. Til þess að inna það verkefni af höndum þ.e. að framkvæma byltinguna, að vinna sér algert þjóðlegt sjálfstæði, að koma á lýðræðislegu frelsi og sósíalisma, þurfa þau að heyja baráttu úr mörgum áttum við innlenda borgarastétt og landaðal, við bandaríska heimsvaldastefnu og ýmsa þjóna auðvalds, heimsvaldastefnu og sósíalheimsvaldastefnu eins og Sovét- og Castróholla endurskoðunarsinna o.s.frv. Þau þurfa ekki aðeins að fást við þá, sem boða fráhvarf frá sósíalisma og sundrungarstarfsemi tækifæris- og

endurskoðunarsinna af ýmsum gerðum. Þau þurfa einnig að losa sig við smáborgaraleg áhrif, sem lýsa sér í hugmyndum ævintýramanna um valdarán og framkvæmdir, sem orðið hafa að eins konar arfsögn en á ekkert sam eiginlegt með sannri byltingu, heldur vinna henni mikið tjón.

Að því er varðar hernaðararfsögn þjóða Suður-Ameríku, þá er hið jákvæða byltingarviðhorf ráðandi. Það felur í sér mjög þýðingarmikinn þátt sem verður að nota og efla sem mest og víðast við undirbúning og þróun byltingarinnar um leið og arfsögnin er gædd nýju innihaldi, lausu við viðhorf hinna skotglöðu ævintýramanna.

Marx-lenínískir flokkar verkalýðsstéttarinnar munu hafa úrslitaáhrif við að framkvæma þessi miklu verkefni. Nú hafa slíkir flokkar ekki aðeins verið stofnaðir í næstum hverju landi í Suður-Ameríku, heldur hafa þeir flestir tekið þýðingarmikil skref fram á við í því starfi að undirbúa öreigastéttina og almenning undir byltinguna. Í ósættanlegri baráttu við endurskoðunarsinnana og aðra tækifærissinna gegn öllum þjónum borgarastéttarinnar og heimsvaldasinna, gegn castróistum, krústséffistum, trotskíistum, "þremur heimum" og öðrum álíka viðhorfum og aðferðum, hafa þeir byggt upp rétta pólitíska línu og áunnið sér næga reynslu í baráttunni til þess að prófa þá línu í framkvæmd og byggja þar á allri byltingarhefð fyrri tíma og beita henni í þágu verkalýðs- og frelsishreyfinga við undirbúning byltingarinnar og til hvatningar almenningi.

Byltingarástandið í dag gerir þessum flokkum nauðsynlegt að viðhafa sem mest samskipti og samráð sín á milli og eins oft og kostur er, til þess að hagnast sem mest á reynslu hvers annars. Einnig að samræma stöðu sína og athafnir í sameiginlegum viðfangsefnum, í baráttunni við afturhaldið, borgarastéttina og heimsvaldasinnana, við Sovétríkin og Kína og við aðrar greinar nútíma endurskoðunarstefnu svo og öll önnur viðfangsefni byltingarinnar.

En þjóðirnar hafa vaknað og neita að búa öllu

lengur við áþján heimsvalda- og nýlendustefnunnar. Þær krefjast frelsis, sjálfstæðis og framfara og með þeim sýður reiðin gegn erlendum og innlendum kúgurum. Afríka, Suður-Ameríka og Asía eru kraumandi hverir; gömlum og nýjum nýlenduherrum verður erfitt eða ómögulegt að kúga og arðræna þjóðir þessara landa eftir fyrri reglum og aðferðum. En þeir geta ekki þrifist án rána og nýtingar á auði, erfiði og blóði þessara þjóða.

Þessvegna eru gerðar allar þessar tilraunir með nýjar aðferðir og form á blekkingunum og við arðránið, einhver ölmusa látin af hendi rakna, sem reyndar kemur almenningi ekki að notum, heldur ráðandi stétt borgara og landeigenda. Nú er staðan jafnvel enn flóknari, þar sem sovét-sósíal-heimsvaldasinnarnir hófu fyrir löngu að þrengja sér lengra og lengra inn á fyrrverandi nýlendu- og hálfnýlendusvæði og líka vegna þess, að sósíalheimsvaldasinnar Kína eru farnir að gera heiftarlegar tilraunir til að seilast þar til áhrifa.

Hin endurskoðunarsinnuðu Sovétríki reka útþennsluafskipti sín undir því yfirskini að hér sé um að ræða lenínísku hjálparstefnu við frelsisbaráttu þjóða og þykjast þar af leiðandi vera bandamenn þessara landa og þjóða. Til þess að komast inn á Afríku og annars staðar nota Sovétríkin kjörorð með sósíalísku yfirbragði, til þess að blekkja það fólk, sem er að reyna að frelsa sig og losna við arðrán og kúgun, og veit að sósíalisminn er eina leiðin til félagslegrar og þjóðlegrar frelsunar.

Sovétríkin flækja bandamenn sína eða öllu heldur leppríki sín í þessa útþenslupólitík. Við sjáum þetta beinlínis í Afríku. Þar hlutast sovéskir endurskoðunarsinnar og kúbanskir málaliðar þeirra um málefnin undir því yfirskini að þeir séu að styðja byltinguna. Þetta er lygi. Íhlutun þeirra er ekkert annað en nýlenduaðgerðir í því augnamiði að ná undir sig mörkuðum og kúga þjóðirnar.

Íhlutun Sovétríkjanna og kúbanskra málaliða þeirra í Angóla er af þessum toga. Þeir hafa aldrei haft

nein áform um að hjálpa til við byltinguna í Angóla, en ætlun þeirra var og er að læsa klónum í afrískt land, sem hafði áunnið sér nokkurt sjálfstæði, eftir að portúgalskir nýlenduherrar höfðu verið reknir burtu. Kúbanskir málaliðar eru nýlenduher sendur af Sovétríkjunum, til þess að hrifsa til sín markaði og ná undir sig víghreiðrum í Svörtu-Afríku. Þeir halda síðan frá Angóla til annarra ríkja og gera sovéskum sósíalheimsvaldasinnum jafnframt fært að koma upp nýlenduheimsveldi á nútíma vísu.

Undir því yfirskini að veita aðstoð í þjóðfrelsisbaráttu blanda Sovétríkin og kúbanskir málaliðar þeirra sér í málefni annarra ríkja. Með herliði búnu fallbyssum og vélbyssum þykjast þeir vera að byggja upp sósíalisma, sem hvorki er til í Sovétríkjunum né Kúbu. Þessi tvö borgaralegu endurskoðunarríki blanda sér í mál Angóla til þess að hjálpa auðmannaklíku við að hrifsa völdin, gagnstætt tilgangi angólsku þjóðarinnar, sem barðist til þess að vinna sér frelsi undan nýlenduoki Portúgala. Ágústínó Netó leikur hlutverkið fyrir Sovétríkin. Í valdabaráttu sinni við aðra ættflokka kallaði hann á Sovétmenn til hjálpar. Baráttan milli þeirra var valdabarátta tveggja klíkna sem studdar voru af ýmsum heimsvaldasinnum. Ágústínó Netó varð þar sigurvegari, en sósíalisminn sigraði ekki í Angóla að heldur. En þvert á móti leiddi erlend íhlutun til þess að sovésk ný-nýlendustefna komst þar á fót.

Einnig er hið sósíalheimsvaldasinnaða Kína að gera miklar tilraunir til að ná fótfestu í fyrverandi nýlendum og hálfnýlendum. Sem dæmi um íhlutun Kína má nefna Zaire, land, sem stjórnað er af klíkuhring Móbútós, auðugustu og blóðþyrstustu valdaklíku í Afríku. Þegar bardagar blossuðu upp nýlega í Zaire fékk Móbútó, morðingi Lúmumba, strax aðstoð frá lögreglukonungdæminu Marokkó, franska flughernum og Kínverjum. Aðstoð Frakka er skiljanleg, því þeir voru þar með að verja einkaleyfi sín og aðra hagsmuni í Katanga jafnframt því að vernda sína menn og Móbútú og klíku hans. En hvað vilja kínverskir endur-

skoðunarsinnar í Katanga? Hvern eru þeir að aðstoða þar? Eru þeir að hjálpa fólkinu í Zaire, sem er kúgað af Móbútú og klíku hans, Frökkum, Bandaríkjamönnum, Belgíumönnum og öðrum einkaleyfishöfum? Eða eru þeir ekki líka að aðstoða hina blóðþyrstu klíku Móbútús? Svo mikið er víst að forystulið kínverskra endurskoðunarsinna veitir þessari klíku ekki óbeina aðstoð heldur styðja þeir hana opinberlega. Til þess að gera þessa aðstoð enn virkari og áhrifameiri, senda þeir þangað utanríkisráðherra sinn, Huang Hua, ásamt hernaðarráðunautum og hergagna- og efnahagshjálp. Þannig beita þeir andmarxískum og andbyltingarsinnuðum aðferðum. Íhlutun Kínverja ber nákvæmlega sama svip og íhlutun Hassans Marokkókonungs og Frakka.

Kínverskir sósíalheimsvaldasinnar hlutast ekki aðeins til um mál þessa lands heldur málefni þjóða og landa í Afríku og öðrum heimshlutum, sérstaklega í löndum, þar sem þeir eru að reyna að fá ítök með einum eða öðrum hætti til þess að ná þar viðskipta-, stjórnmála- eða hernaðaraðstöðu.

Meira að segja Bandaríkin þora ekki að aðstoða Pínóchet, fasistaböðulinn í Chíle, jafn opinskátt og Kínverjar. Víst er um það, að Bandaríkin aðstoða ekki afturhaldsstjórnir annarra landa á þennan hátt, enda þótt miklir hagsmunir séu í húfi. Þetta þýðir ekki það, að bandarískir heimsvaldasinnar séu að afsala sér sínum hagsmunum. Þeir verja þessa hagsmuni, verja þá af miklu afli en kænlegar.

Með þessari afstöðu sinni ganga hinir svonefndu kínversku sósíalistar gegn hagsmunum og viðleitni fólksins, kommúnistanna, byltingaraflanna, gegn hagsmunum alls framsækins fólks í Suður-Ameríku.

Kína tekur undir sinn verndarvæng hina mörgu einræðisherra, sem ríkja yfir þjóðunum og nota hvers kyns hryðjuverk og aðrar aðferðir gegn tilraunum byltingarsinnanna, öreiganna og marx-lenínísku flokkanna til að berjast fyrir þjóðlegu- og félagslegu frelsi Með slíkri afstöðu hafa þeir snúið á leið gagnbyltingarinnar. Undir yfirskini marx-lenínismans reyna þeir að sýna fram á að þeir séu að flytja út hugmynd

ir byltingarinnar til hinna ýmsu landa. I raun eru þeir að flytja út hugmyndir gagnbyltingar. Með þessu móti eru þeir að hjálpa bandarískum heimsvaldasinnum og fasískum klíkum í valdastólum.

Heimsvalda- og sósíalheimsvaldaöflin leitast við í jafnríkum mæli að hindra þjóðir Afríku, Asíu og S-Ameríku í því að þróa byltingarbaráttu sína stig af stigi. Byltingarbaráttu gegn kúgun og villimannlegu arðráni valdhafa síns heimalands og heimsvaldasinna, sem stjórna þeim sameiginlega og sjúga úr þeim blóðið.

Skylda byltingarsinna, framfarasinna og ættjarðarvina í löndum á lágu stigi efnahags og þróunar, háðum heimsvaldasinnum og sósíalheimsvaldasinnum, er að vekja þjóðirnar til vitundar um þessa kúgun og arðrán. Ala þær upp, undirbúa þær og skipuleggja. Varpa þeim út í frelsisbaráttuna og minnast þess ætíð að það er lýðurinn, fólkið, sem framkvæmir byltinguna. I þeim tilgangi er nauðsynlegt að gera nákvæma greiningu á innri og ytri aðstæðum í hverju landi. Greina hlutfallslegan styrk stéttanna, andstæður milli stétta, andstæður milli þjóðerna og þeirra afturhaldsklíka, sem eru við völd. Einnig andstæðurnar milli þjóðarinnar og heimsvaldasinnaðra ríkja. Á þessum grundvelli er hægt að draga rétta ályktun um þau skref, sem stíga verður og þær baráttuaðferðir, sem beita verður. Til byltingaraflanna er gerð krafa um öflugt starf, einbeitni og visku og fyrst og fremst gagngeran skilning á þeirri staðreynd, að frelsisbaráttan í löndum þeirra leiðir því aðeins til sigurs, að hún sé tengd baráttunni fyrir málstað öreiganna, málstað sósíalismans.

Því er það, að öreigarnir í hverju landi verða að skapa sinn eiginn byltingarflokk, sem sé fær um að beita kenningum Marx, Engels, Leníns og Stalíns dyggilega og tengja þær náið skilyrðum hvers lands og ástandi hverrar einstakrar þjóðar. Það er alger nauðsyn að hver þessara flokka hafi djúpstæða

þekkingu á hugarfari fólksins og efnahagslegri, pólitískri, hugmyndafræðilegri og menningarlegri þróun síns lands og láti ekki duttlunga og ævintýramennsku ráða gerðum sínum, að hætti Blanquista, heldur vinni með harðfylgi að því að safna um sig bandamönnum öreiganna og almennings.

Byltingarsinnar og almenningur þarf að undirbúa sig af harðfylgi og hafa í huga starfsemi borgaralegs afturhalds, og stór-landeigenda í valdastólum, ásamt erlendri kúgun og undirferli nýlendurherranna. Þetta eru þýðingarmiklir þættir, sem byltingaröflin og fólkið verður að mæta með þroska, heilbrigðri skipulagningu og byltingaraðferðum.

Samstarfstengsl, samræming og gagnkvæm upplýsing um reynslu er því ætíð nauðsynleg og mjög áríðandi á milli byltingarafla, og eining þeirra, í hinum ýmsu löndum. Þetta verður auðveldara vegna þess að margar aðstæður eru þar eins, svo sem kúgun, og arðrán nýnýlendustefnunnar og afturhaldssamrar borgarastéttar. Menning sameiginleg ásamt sameiginlegu takmarki að brjótast undan oki kúgunar og arðráns. Sameiginlegar aðstæður og hagsmunir krefjast þess af byltingar- og framfaraöflum allra þessara landa að bera ráð sín saman og þróa með sér samstarf og samræmingu aðgerða til að mæta kúgunaraðgerðum óvinanna.

Ef litið er á ástand þeirra þjóða, sem eru lamaðar af yfirgangi nýlenduherranna, frá marxlenínísku sjónarmiði þá liggur það verkefni fyrir öllum sönnum byltingarsinnum að veita byltingar- og frelsisbaráttu þessara þjóða skilyrðislausan stuðning og styrk svo hún hafi sífelldan framgang og byltingargrundvöllurinn byggist stöðugt upp til algers sigurs.

## SANNIR BYLTINGARSINNAR HVETJA ÖREIGANA OG ÞJÓÐIRNAR TIL BARÁTTU FYRIR NÝJUM HEIMI, SÓSÍALÍSKUM HEIMI

Eins og skýrt hefur verið hér að framan er hin

altæka kreppa auðvaldsskipulagsins stöðugt að dýpka. Af því leiðir að öreigastéttin, hinar kúguðu stéttir og þjóðir, neita að bera lengur arðránið, og krefjast breytinga á lífi sínu, krefjast þess að borgaralegu skipulagi verði kollvarpað, nýlendustefnan og heimsvaldastefnan afnumin. En byltingin ein getur gert þessa löngun að veruleika. Enginn sigur vinnst án þess að lenda saman við og ráðast á innlenda og erlenda stéttaróvini.

Sannir marx-lenínista-flokkar verkalýðsstéttarinnar, sem leiðtogar byltingar vekja öreigana, stritandi fjöldann og þjóðirnar til vitundar, búa almenning pólitískt, fræðilega og hernaðarlega undir þessi átök.

Marx-lenínískur flokkur, allir byltingarsinnar, hversu fámennur sem hópurinn er, byggja sig upp meðal fólksins, skipuleggja fjöldann af natni og þolgæði, sannfæra hann um hið mikla afl, sem hann býr yfir, afl sem sé fært um að steypa auðvaldinu, taka ríkisvaldið í sínar hendur og breyta því til hagsbóta fyrir öreigana og fólkið. Slíkir flokkar ímynda sér ekki að þeir séu svo litlir að þeir geti ekki ráðið við bandalag borgaraflokkanna og þann hugmyndaheim sem þeir hafa skapað. Verkefni byltingarsinnanna er að sanna fjöldanum að skoðanir borgarastéttarinnar séu rangar og þær verði að brjóta niður og móta í þeirra stað sannar byltingarskoðanir, sem fela í sér hið mikla umbreytingarafl.

Til þess að þetta ætlunarverk takist telja marx-lenínistaflokkar að til þurfi að koma fyrst og fremst byltingarstjórnlist og aðferð, rétt pólitísk stefna, sem svari til hagsmuna og óska fjöldans, og byltingarsinnuð lausn þeirra viðfangsefna og verkefna, sem bíða hans í baráttunni við að eyðileggja hið borgaralega skipulag og yfirráð erlendra heimsvaldasinna.

Marx-lenínisminn er einu vísindin, sem veita byltingarflokki verkalýðsstéttarinnar möguleika á að móta rétta pólitíska stefnu, skýrgreina stjórn-

listarmarkmið og verkefni skýrt og beita byltingaratferli og aðferðum í framkvæmdum sínum.

Með þekkingu á marx-lenínískum fræðum og í samræmi við félagslegar- efnahagslegar- og pólitískar aðstæður landsins á hverjum tíma þá vita marx-lenínískir flokkar hvernig þeir eiga að átta sig á stöðunni og verða þannig í forustu fjöldans á hverjum tíma og á sérhverju stigi byltingarinnar, hvort sem um er að ræða lýðræðis- þjóðfrelsis- eða sósíalíska- byltingu. Byltingarstjórnlist og rétt pólitísk lína byggð á byltingarstarfi öreiganna í heiminum og stéttabaráttu eigin lands, gerir mögulegt að skýrgreina ljóslega stjórnlistarmarkmiðið á hverjum tíma, að ákvarða hverjir eru höfuð-óvinir, innlendir og erlendir, sem greiða verði aðal höggið, hverjir séu innlendir og erlendir bandamenn öreiganna o.s.frv.

Marx-lenínistar hafa að markmiði að kollvarpa auðvaldsskipulaginu og leiða sósíalismann fram til sigurs. Standi byltingin í landi þeirra frammi fyrir verkefni, sem í eðli sínu er lýðræðislegt eða andheimsvaldaeðlis, þá stefna þeir að því að þróa það látlaust, þannig að það leiði til sósíalískrar byltingar, sem fáist við framkvæmd sósíalískra verkefna eins fljótt og mögulegt er.

Bæði stjórnlistarmarkmið marx-lenínískra flokka og leiðirnar að þeim markmiðum eru gjörólíkar þeim, sem hinir svonefndu kommúnista og verkalýðsflokkar beita. Hinir fyrrnefndu búast ekki við að ná þessu markmiði á annan hátt, en þann að kollvarpa framleiðslukerfi auðvaldsins og uppræta gamla ríkiskerfið, alla hina borgaralegu yfirbygginguallt til grunna. Þeir fylgja þar kenningu Leníns, þegar hann segir:

> "Inntak byltingar er það að öreigarnir eyðileggja stjórnkerfi framkvæmdavaldsins, gjörvallt ríkiskerfið og í stað þess kemur nýtt kerfi í vörslu vopnaðra verkamanna".

Hinir síðarnefndu boða varðveislu gamla ríkiskerfisins, þó þeir í orði kveðnu haldi því fram að

þeir fylgi sósíalisma. Þeir halda því fram að hægt sé að koma á sósíalisma með umbótastefnu eftir þingræðisleiðum með því jafnvel að nota gömlu ríkisvélina.

Heill hópur svonefndra kommúnistaflokka reyna að verða enn ötulli en yfirlýstir borgaraflokkar í vörn sinni fyrir ríkjandi auðvaldsskipulagi. Til að mynda ver endurskoðunarflokkur Ibarruri og Carillos konungdæmi Juans Carlos af óskammfeilni á sama tíma og ýmsir spánskir borgaraflokkar krefjast þess, að það víki fyrir lýðveldinu. Á sama hátt ver endurskoðunarflokkur Berlinguers af ákafa kúgunar-lög ítalska ríkisins, sem stefnt er gegn lýðræðislegu frelsi, á sama tíma sem ýmsir borgaralegir flokkar gera slíkt ekki opinberlega. Kínverskir endurskoðunarsinnar beina því að sínu leyti til þeirra, sem fylgja kínversku línunni í auðvaldsheiminum, að þeir verði að berjast með forhertum hernaðarsinnum til þess að styrkja heri og borgaraleg valdbeitingartæki, sem ætluð eru til varnar heimalandinu að því er sagt er, en eru í raun og veru tæki til þess að bæla niður byltingu, ef hún skyldi brjótast út.

Borgarastéttin og fylgjendur hennar, sérstaklega nútíma endurskoðunarsinnar reyna á allan hátt að rugla og sundra byltingaröflum, til þess að ná markmiðum sínum, að grafa undan byltingar- og frelsishreyfingum, og afmá greinarmuninn milli vina og óvina byltingarinnar, en viðhalda til frambúðar yfirráðum auðvalds og heimsvaldastefnu. Einkennandi fyrir þessa starfsemi er boðskapur kínverskra endurskoðunarsinna, sem kynna einokunarauðvaldið, afturhalds- og fasistaveldi, NATÓ og Efnahagsbandalag Evrópu og jafnvel bandaríska heimsvaldasinna sem bandamenn öreiganna og kúgaðra þjóða.

Að því er tekur til marx-lenínískra flokka, þá álíta þeir að óhjákvæmilegt skilyrði, til þess að byggja upp sanna byltingarstjórnlist, sé það að draga skýra markalínu milli hreyfiafla byltingar-

innar og óvina hennar. Ljós skilgreining höfuðóvina, innlendra og erlendra, sem beina verður, eins og Stalín benti á, aðalatlögunni að, án þess að vanmeta eða líta framhjá baráttunni gegn öðrum óvinum.

Á okkar tímum, við skilyrði heimsvaldastefnunnar, er innlendur höfuðóvinur byltingarinnar, ekki aðeins í þróuðum auðvaldsríkjum, heldur einnig í kúguðum ríkjum og leppríkjum, hin innlenda stórborgarastétt, sem er í forustu fyrir auðvaldsskipulaginu, og berst með öllum ráðum til þess að viðhalda yfirráðum sínum og forréttindum, reynir að halda í skefjum og afmá hverja hreyfingu verkalýðsins, sem stofnar á nokkurn máta ríkisvaldinu og stéttarhagsmunum borgarastéttarinnar í hættu.

Hinsvegar er hér við að eiga heimsvaldastefnu erlendis frá, sem höfuð óvin byltingarinnar og flokksins, og þá sérstaklega heimsvaldasinnuðu risaveldin tvö. Að ráða öreigunum og kúguðum þjóðum til þess að treysta þeirri framvindu, að risaveldin berjist hvort gegn öðru, eða að ganga í bandalag við heimsvaldasinnað ríki og ætla sér þannig að verja þjóðfrelsi og sjálfstæði sitt, eins og kínverskir endurskoðunarsinnar mæla með, eru bein svik við málstað byltingarinnar.

Endurskoðunarsinnarnir hafa gert <u>forustuhlutverk verkalýðsstéttarinnar í byltingunni, sem er eitt grundvallaratriðið í byltingarstjórnlistinni,</u> að sérstökum skotspæni sínum.

> "Aðalatriðið í kenningu Marx", skrifaði Lenín, "er skýring hans á heimssögulegu hlutverki öreiganna, sem skapanda sósíalísks þjóðfélags."

Lenín lýsti höfnun hugmyndarinnar um forustu öreiganna í byltingarhreyfingunni sem hinu siðlausasta orðbragði umbótastefnunnar.

Sumir nútíma endurskoðunarsinnar reyna að sanna verkalýðsstéttinni að hún sé vaxin frá öreigastöðu sinni og orðin að meðstjórnendum fyrirtækja, því sé ekki lengur staður fyrir

öreigabyltingu, engin þörf á félagslegri skipan mála, sem sé frábrugðin þeirri, sem við búum við. Aðrir halda því fram að ekki aðeins verkamenn heldur hver og einn sem fæst við störf og menningar-verkefni, allur launavinnulýður, séu nú öreigar, og ekki aðeins verkalýðsstéttin, en líka aðrar stéttir og hópar þjóðfélagsins hafi hagsmuna að gæta, að því er varðar sósíalismann. Þeir álykta því á þá leið að forustuhlutverk verkalýðsstéttarinnar í byltingu nútímans hafi glatað merkingu sinni. Sovét-endurskoðunarsinnar neita ekki forustu hlutverki verkalýðsstéttarinnar í orði, þó þeir hafi afnumið það í framkvæmd, þar sem þeir hafa svipt þessa stétt öllum möguleikum til forustu. En þeir afnema jafnvel þetta hlutverk fræðilega, þar sem þeir verja hina illræmdu kenningu "um flokkinn og ríki allrar þjóðarinnar." Kínverskir endurskoðunarsinnar setja ýmist bændur, herinn eða nemendur og menntamenn í forustu fyrir byltingunni eftir því sem þeim hentar hverju sinni, og eru þar samir við sig sem hentistefnumenn.

Flokkur Vinnunnar í Albaníu ver af einbeitni þær kenningar marx-lenínista að verkalýðsstéttin sé úrslita aflið í þróun þjóðfélagsins, forustuaflið í byltingarumbreytingu nútímans, er byggt er upp þjóðfélag sósíalismans og kommúnisma í heiminum.

Verkalýðsstéttin er aðal framleiðsluafl þjóðfélagsins, þroskaðasta stéttin, áhugasamari en nokkur önnur um þjóðlega og félagslega frelsun, um sósíalisma, og hún er arftaki hins snjalla byltingarskipulags og baráttuanda. Verkalýðsstéttin ein á vísindalega kenningu um byltingarumskipti í þjóðfélaginu og marx-lenínínska baráttuflokka sem vísa henni leiðina að markinu. Sagan hefur beinlínis falið henni það ætlunarverk að leiða alla baráttuna fyrir umbreytingunni frá auðvaldsskipulagi til kommúnisma.

Forusta öreigastéttarinnar í byltingunni skiptir sköpum um lausn grundvallar málefna byltingar-

innar þ.e að hið pólitíska vald sé í þágu öreigastéttarinnar og alls almennings.

Hið nýja vald breytist frá einum þætti til annars og beitir mismunandi nöfnum, er samsvarar ástandi því, sem byltingin býr við á hverjum tíma, en það verður engin þróun byltingarinnar í átt til sigurs sósíalismans nema komið sé á alræði öreiganna. Marx-lenínisminn kennir okkur þetta og reynsla allra sigursælla sósíalískra byltinga staðfestir það einnig. Því er það, að hverjar sem kringumstæðurnar eru, sem byltingin er framkvæmd við, þá afsalar marx-lenínískur flokkur sér aldrei því takmarki sínu að koma á alræði öreiganna.

Allir endurskoðunarsinnar hvaða stefnu, sem þeir elta og hverjar svo sem kröfur þeirra eru, þá neita þeir á einn eða annan hátt þörfinni á að koma upp alræði öreiganna, vegna þess að þeir eru á móti byltingu vegna þess að þeir styðja varðveislu auðvaldsskipulagsins.

Öreigarnir ásamt sínum marx-lenínísku flokkum ganga til orustu með bandamönnum sínum. Þetta er eitt af þýðinarmestu atriðunum í byltingarstjórnlistinni.

Sjálfsagður og náinn bandamaður öreigastéttarinnar, er hin fátæka bændastétt, sem er tengd öreigunum ekki aðeins vegna aðkallandi úrlausnarefna í stjórnlistinni heldur vegna endanlegs stjórnlistarmarkmiðs. Fátækur verkalýður borganna er einnig slíkur bandamaður. Öreigarnir ásamt fátækum bændum og öðru kúguðu og fátæku verkafólki, er aðal aflvaki byltingarinnar.

Smáborgarar í borgunum eru stöðugt í greipum stórfjármagnseigenda, sem ógna þeim með algerri eignaupptöku og gætu því og ættu að vera bandamenn.

Öreigastéttin reynir líka, og best fyrir því að gera aðra hópa þjóðarinnar að bandamönnum, t.d. framfarasinnað menntafólk, sem er arðrænt af erlendri og innlendri auðstétt. Mikilvægi menntalýðs hefur aukist í löndum auðvalds og endurskoð-

unarsinna. En þrátt fyrir allar þær aðstöðubreytingar og breytingar á störfum þessa fólks, getur það aldrei myndað stétt í sjálfu sér, og *það getur* ekki orðið verkalýðsstétt né blandað sér saman við hana, eins og ýmsir endurskoðunarsinnar halda fram. Þetta staðfestir það sem Lenín sýndi fram á og sagan hefur sannað, að menntalýðurinn getur ekki verið sjálfstætt afl í félags- og stjórnmálum. Hlutverk hans og staða í þjóðfélaginu ákvarðast af félags- og efnahags-stöðu hans, hugmyndafræði hans og pólitískri sannfæringu. Engu máli skiptir hversu oft þessi staða breytist eða hin pólitíska sannfæring. Menntalýðurinn getur aldrei komið í stað verkalýðsstéttarinnar. Hlutverk *öreigastéttarinnar er að vinna framfarasinn*aðan menntalýð til fylgis við sig, að sannfæra hann um óhjákvæmilegt hrun auðvaldskerfisins og sigur sósíalismans og gera hann að bandamanni í byltingunni.

I löndum Afríku, Suður-Ameríku, Asíu o.fl. með litla félags- og efnahagsþróun, en háð erlendu fjármagni hefur lýðræðis- og and-heimsvaldasinnað byltingarstarf sérstaka þýðingu og þar getur stétt miðlungsbænda, og sá hluti borgarastéttarinnar, sem ekki er bundinn erlendu fjármagni og sækist eftir sjálfstæðri þróun verið *bandamaður* öreigastéttarinnar.

Tenging þessa hluta borgarastéttarinnar við lýðræðislega and-heimsvaldasinnaða byltingu byggist á stjórnlist og aðferð öreigastéttarinnar, hæfni og stjórnsnilli byltingarflokks verkalýðsstéttarinnar. Á þennan hátt getur öreigastéttin ásamt flokki hennar talið, ekki aðeins smáborgarana, heldur líka borgarastéttina, á að gefa sig undir forustu öreigastéttarinnar og rísa upp til þess að afnema erlend yfirráð og uppræta hina villimannlegu stórborgarastétt - tæki heimsvaldasinnanna, sem kúgar og arðrænir þjóðina, afsiðar hana og spillir hreinum tilfinningum hennar, og gamalli menningu landanna.

Til þess að fá sem bandamenn aðrar stéttir og hópa, sem hafa áhuga á hinu stjórnlistarlega markmiði á vissu stigi byltingarinnar, þarf öreigastéttin að berjast við stórborgarastéttina og önnur afturhaldsöfl á sama hátt og hún þarf að berjast við þau öfl um öll önnur málefni.

Þegar hin afturhaldssama borgarastétt og stórlandeigendur sjá fram á ósigur sinn, beita þeir öllum ráðum í tilraunum sínum að ná smáborgarastéttinni, bændum og framsæknum menntalýð til liðs við sig og hindra þá í að gerast bandamenn öreiganna. Jafnframt reyna þeir að blekkja sjálfa verkalýðsstéttina til þess að hindra að byltingin brjótist út. En verði það eigi að síður, þá að tryggja að henni verði ekki lokið heldur lendi í óförum eða taki aðra stefnu.

Að því er tekur til öreigastéttarinnar og marx-lenínískra flokka, þá vinna þeir að og ættu að geta náð einingu meðal bandamanna sinna, um sameiningu gegn sameiginlegum óvini, stórborgarastéttinni og stórlandeigendum, heimsvaldasinnum og sósíal-heimsvaldasinnum, og hindrað, að bændur og smáborgarar verði varalið stórfjármagnsins eða fasísks einræðis eins og varð á tímum Hitlers í Þýskalandi, Mússólínis á Italíu og Frankós í Spánarstyrjöldinni.

Marx-lenínískur flokkur heldur varkárri, sveigjanlegri afstöðu einkum til óákveðinna, en mögulegra eða tímabundinna bandamanna. Þar með taldir ýmsir hópar mið-borgarastéttar, sem tengist með fjölmörgum þráðum ýmsum hagsmunum, siðvenjum og fordómum í heimi auðmagns og heimsvaldastefnu. Öreigastéttin og framvarðlið hennar marx-lenínista-flokkar, hafa líka hagsmuni af því að draga til sín slík öfl þó völt séu og vaklandi, til stuðnings byltingunni, frelsisbaráttunni og hagsmuni af því að gera þau a.m.k. hlutlaus svo þau verði ekki varalið óvinarins, en ávalt án þess að víkja nokkru sinni frá grundvallaðri stefnu sinni.

Lögmál byltingarinnar er líka að verki, eins og

allsstaðar annars staðar, þar sem endurskoðunarsinnar eru við völd. Hver er staða nýju borgarastéttarinnar, sem er að þróast í löndum endurskoðunarsinna í Evrópu? Hún reynir að losa sig undan hinni altæku, grimmu kúgun sovésku borgarastéttarinnar, sovét sósíal-heimsvaldastefnunni. En þessir tveir aðilar eiga sameiginlega grundvallarhagsmuni.

Borgarastétt þessara landa væri ekki til án borgarastéttar Sovétríkjanna. En þó henni tækist að losa sig undan þessari grimmu sósíal-heimsvaldasinnuðu stórborgarastétt, þá er það víst, að hún myndi brátt lenda undir yfirráðum borgarastéttar hinna þróuðu auðvaldsríkja Vestur-Evrópu og bandarískrar heimsvaldastefnu.

Jafnframt eru aðrir hópar íbúa í ríkjum endurskoðunarsinna, auk öreigastéttarinnar, óánægðir vegna þess arðráns, sem þeir eru beittir af sovésku sósíal-heimsvaldastefnunni, en þessi lönd eru orðin efnahagslegur- pólitískur og hernaðarlegur hluti af hinu mikla sovéska sósíalheimsveldi. Þessvegna hata þessar þjóðir bæði sína eigin ráðandi borgarastétt og hina rússnesku yfirdrottnunar og nýnýlendustefnu. Öreigastétt þessara landa verður að vekja til vitundar um sögulega nauðsyn þess, að halda aftur út á vígvöllinn, að steypa sér í baráttuna til að reka svikarana af höndum sér og kollvarpa þeim, en framkvæma aftur öreigabyltinguna svo endurreist verði aftur alræði öreiganna. Öreigastéttin verður að byggja að nýju marx-leníníska flokka og sameina fólk undir þeirra forustu.

Marx-lenínískir flokkar halda fast við þá grundvallarreglu að sá þáttur, sem úrslitum ræður um sigur byltingarinnar sé innlendur, þ.e. barátta öreigastéttarinnar, og fólksins í landinu sjálfu, en erlendi þátturinn sé til aðstoðar og minni háttar í eðli sínu. En þeir ganga ekki framhjá, né vanmeta á nokkurn hátt erlenda bandamenn í byltingunni. Jafnframt taka þeir grundvallaða

og sveigjanlega afstöðu til erlendra bandamanna, alveg á sama hátt og þeir gera gagnvart innlendum bandamönnum.

Í samræmi við kenningar Leníns og Stalíns, og á grundvelli ríkjandi aðstæðna, þá líta þeir á öreigastéttina og byltingarhreyfingu hennar í öðrum löndum, hina byltingarsinnuðu and-heimsvaldasinnuðu hreyfingu kúgaðra þjóða heims og sönn sósíalísk lönd, sem sjálfsagða og ábyggilega erlenda bandamenn byltingarhreyfingarinnar í hverju landi.

Við sérstök skilyrði geta aðstæður orðið þær að sósíalísk lönd eða þjóðir, sem berjast gegn árás heimsvaldasinna eða sósíalheimsvaldasinna heyji sameiginlega baráttu með ýmsum auðvaldslöndum, sem berjast við sama fjandmann. Þetta átti sér stað í annari heimsstyrjöldinni.

Þegar svo stendur á er mikilvægast að hafa málstað byltingarinnar ávallt í huga, þannig að hann falli aldrei í skuggann eða sé fórnað vegna sameiginlegrar vígstöðu eða bandalags við tímabundna bandamenn. Tryggja verður að vígstöðvarnar eða bandalagið breytist ekki í markmið í sjálfu sér, sérstaklega er nauðsynlegt að slíkir bandamenn grípi ekki inn í til að vinna byltingunni ógagn og hrifsa frá henni sigurinn. Reynsla kommúnistaflokks Albaníu af stöðunni gagnvart bandarískum og breskum bandamönnum í andfasíska-frelsisstríðinu er athyglisverð. Þessi staða var gagnleg fyrir framvindu byltingarinnar í Albaníu.

Byltingarstjórnlistin er óaðskiljanleg frá byltingaraðferðum þeim sem marx-lenínistar beita til að ná markmiðum sínum og ljúka byltingarstarfinu. Jafnframt því að aðferðirnar, sem beitt er, eru hluti stjórnlistarinnar og þjóna henni, geta aðferðir breyst samkvæmt flóði og fjöru byltingarfallanna, og aðstæðum og skilyrðum á hverjum tíma, en ávallt innan marka byltingarstjórnlistarinnar og samkvæmt marx-lenínískum grundvallarreglum.

Stalín segir:

"Verkefni framkvæmdastjórnar er að ráða við öll baráttuform og skipulagningu öreigastéttarinnar og tryggja að þeim sé beitt á réttan hátt til að ná hámarks árangri við gefnar valdaaðstæður og tryggja góðan árangur stjórnlistarinnar."

Sannir marx-lenínistaflokkar halda ávallt fast við grundvallarreglur byltingarinnar og veita snjöllum aðferðum og baráttuformum til þess að skila málstað byltingarinnar áleiðis. Þeir hafna og berjast gegn öllum tilhneigingum til að yfirgefa grundvallarreglur vegna hernaðaraðgerðanna. Þeir eru mjög eindregnir andstæðingar samviskulausrar hentistefnu, sem byggist á hverfulu ástandi. En þessi afstaða einkennir alla starfsemi endurskoðunarsinna til hvaða stefnu, sem þeir telja sig.

Byltingin er ávallt dáð fjöldans undir leiðsögn forustuliðs byltingarinnar. Þess vegna hljóta marx-lenínískir flokkar að veita mikla athygli byltingarsamtökum fjöldans í hentugu formi, er starfa við þau skilyrði, aðstæður og venjur, sem sérstaða hvers lands býður upp á. Hafi flokkurinn ekki skipulögð tengsl við fjöldann þá er tilgangslaust að tala um að vekja, undirbúa og skipuleggja hann til byltingarbaráttu.

Marx-lenínistaflokkar leggja því mikið upp úr skipulagningu fjöldans undir forustu flokksins. Þetta er reyndar mál sem ekki er auðleyst, síst í dag, þar sem margskonar verkalýðsfélög, samvinnufélög, menningarfélög, nemendafélög, æskulýðsfélög og aðrar skipulagseiningar eru starfandi í öllum löndum auðvalds og endurskoðunarsinna. Flest þessi samtök eru undir forustu og áhrifum borgaranna, endurskoðunarsinna og kirkjunnar.

En eins og Lenín kennir okkur verða kommúnistar að koma sér þar fyrir og vinna allsstaðar þar sem fjöldinn er. Þeir verða því að vinna líka í fjöldasamtökum undir stjórn og áhrifum borgara,

endurskoðunarsinna, sósíaldemókrata o.s.frv. marx-lenínistar starfa þar til að grafa undan áhrifum og forustu borgaranna, og flokka endurskoðunarsinna. Starfa þar til að útbreiða áhrif byltingarflokks verkalýðsstéttarinnar meðal fjöldans, til að afhjúpa svikin í stefnuskrá og starfsemi forustuliðs þessara samtaka og gefa starfsemi fjöldans pólitískan svip, and-kapítalískan, and-heimsvaldasinnaðan og and-endurskoðunarsinnaðan. Með byltingarstarfsemi, sem þeir vinna að meðal fjöldans er hægt að stofna byltingarhópa innan samtakanna, sem síðan verða að skapa möguleika til þess að yfirtaka forustu samtakanna og beina þeim á rétta braut.

En hvernig sem mál ganga þá hvikar marx-lenínískur flokkur aldrei frá því markmiði að koma á fót byltingarsamtökum fjöldans undir sinni forustu.

Þýðingarmestu fjöldasamtökin eru verkalýðsfélögin. Almennt talað þjóna þessi félög í auðvalds- og endurskoðunar-löndum, borgarastéttinni og endurskoðunarstefnunni til þess að halda öreigunum og allri verkalýðsstéttinni í fjötrum. Engels sagði að í Bretlandi hefði verkalýðsfélögunum verið breytt úr samtökum, sem skelfdu borgarastéttina, í samtök, sem þjónuðu auðmagninu. Skipulag verkalýðsfélaganna hefur bundið verkalýðinn með þúsund þráðum með þúsund hlekkjum þrældóms, þannig að geri einstakur verkamaður uppreisn er auðvelt að kúga hann. Hinir tækifærissinnuðu verkalýðsforingjar vinna þannig, að uppreisn verkamanna hjá einu eða fleiri fyrirtækjum, sem gera verkfall eða efna til kröfugöngu, eru settir undir eftirlit og uppreisnin snýst aðeins um efnahagsatriði. Verkalýðsaðallinn leggur mikið kapp á að beina málum inn á þessa braut. Í auðvaldslöndum hefur þessi aðall með höndum meiriháttar hlutverk í því að grafa undan, kúga og afvegaleiða uppreisn fjöldans, og er fyrir löngu orðinn slökkvilið til þess að kæfa loga byltingar-

innar.

Í öllum auðvaldslöndum hefur borgarastéttin og endurskoðunarflokkarnir sín eigin verkalýðsfélög. Verkalýðsfélögin eru nú farin að vinna sem ein heild og hafa stofnað til náinnar samvinnu til þess að hafa hemil á byltingarhreyfingu öreiganna, og spilla verkalýðsstéttinni, pólitískt og siðferðilega.

Í Frakklandi og Ítalíu eru verkalýðsfélög endurskoðunarflokkanna stór og öflug sambönd. En hvað gera þau? Þau reyna að halda öreigunum í fjötrum, svæfa reiði þeirra og uppreisnarhug, beina þeim inn á samningsbrautina svo atvinnurekendur geti lokað munni verkamannanna með smánarmolum af ofsagróða auðmannanna. En það sem látið er af hendi rakna er síðan tekið aftur í hækkuðu vöruverði.

Til þess að losa sig við auðvaldsskipulagið er því nauðsynlegt fyrir öreigastétt hvers lands að hrista af sér ok verkalýðshreyfingarinnar, sem er undir yfirráðum borgarastéttarinnar og tækifærissinnanna, ásamt samtökum eða flokkum sósíaldemókrata og endurskoðunarsinna. Allar þessar stofnanir styrkja eignastéttina á ýmsan hátt og reyna að skapa þá blekkingu að þær séu "mikið afl", "að þær séu hemill" og "þær geti gabbað stórkapítalistana" til hagsbóta fyrir öreigana. Þetta eru ekkert annað en stór svik. Öreigastéttin verður að brjóta niður þessar stofnanir. En hvernig? Hún verður að eyðileggja þær með því að berjast við forustu verkalýðssamtakanna, með því að rjúfa "kyrrðina","sósíalfriðinn", sem er dulbúin með hinum svo nefndu uppreisnum gegn eignastéttinni, sem samtökin leggja út í við og við.

Það er mögulegt að eyðileggja þessi verkalýðssamtök með því að komast inn í þau og berjast þar innan frá og snúast gegn hinum ranglátu ákvörðunum þeirra og athöfnum. Þessi starfsemi verður að taka til stærstu og öflugustu hópanna, sem hægt er að ná til í verksmiðjunum. Allsstaðar verður

markmiðið að vera að ná fram órofa einingu öreiganna í baráttunni. Ekki aðeins gegn atvinnurekendum heldur einnig gegn erindrekum þeirra - verkalýðsforigjunum. Miskunnarlaus afhjúpun á öllum svikurum í forustu verkalýðssamtakanna, á borgaralegri úrkynjun hjá forustu verkalýðssamtakanna, og á verkalýðssamtökum umbótasinna yfirleytt, losar verkamennina við margar tálmyndir, sem þeir enn gera sér af forustuliðinu og samtökunum.

Þó marx-lenínistar seilist inn í þau verkalýðsfélög sem fyrir eru, þá ganga þeir aldrei svo langt að þeir tileinki sér endurskoðunarafstöðu á grundvelli verkalýðssamtakanna, eða afstöðu umbótasinna, stjórnleysingja og syndikalista, sem einkennir forustulið verkalýðssamtakanna. Þeir verða aldrei aðilar að flokkum endurskoðunarsinna eða annara borgara- og hentistefnumanna. Þeirra markmið er að fletta ofan af því borgaralega eðli og afturhaldssama hlutverki, sem verkalýðssamtökin almennt hafa í dag í ríkjum auðvalds- og endurskoðunarsinna, grafa undan þessum samtökum og opna leiðina til þess að koma upp sönnum verkalýðssamtökum öreigastéttarinnar.

Æskulýðssamtökin hafa sérstaklega mikla þýðingu fyrir marx-lenínísku flokka. Hlutverk æskulýðsins í byltingarhreyfingum hefur ávalt verið mikið. Eðli sínu samkvæmt er æskan fylgjandi hinu nýja, en á móti því gamla, og er reiðubúin að berjast fyrir sigri alls sem til framfara horfir, og byltingar. En upp á sitt eindæmi er hún ófær um að finna réttu leiðina.

Flokkur verkalýðsstéttarinnar er einn fær um að vísa henni veginn. Þegar hin óþrjótandi byltingarorka æskunnar er sameinuð orku verkalýðsstéttarinnar og annars vinnulýðs, til þess að þurrka út kúgun og arðrán, sameinuð til þjóðlegrar og félagslegrar frelsunar, þá er ekkert afl til, sem getur stöðvað sigur byltingarinnar.

En í auðvalds- og endurskoðunarlöndunum beitir æskan orkunni í ranga átt. Borgarastéttin og endur-

skoðunarsinnarnir villa um fyrir henni þannig að hún leiðist til glæframennsku og stjórnleysis. Fer að elta tálsýnir eða gefst upp vegna þess að hún hefur verið afvegaleidd og misnotuð og verður því svartsýn á framtíðina, svartsýn á að pólitískum og andlegum kröfum hennar verði fullnægt.

Marxistar veita æskunni ávallt mikla athygli, reyna að uppfræða hana og sannfæra um að óskir hennar og þrár nái aðeins fram að ganga eftir þeim leiðum, sem marx-lenínistarnir benda þeim á og undir forystu verkalýðsstéttarinnar og flokks hennar. Þeir vinna að því að losa æskuna undan áhrifum borgarastéttarinnar og endurskoðunarsinnanna, undan áhrifum "vinstrisinna" trotskíista eða hreyfingu stjórnleysingja og virkja hana í byltingarsamtökum til þess að beina henni á leið byltingarinnar.

Sannir marx-lenínistaflokkar og byltingarsinnaðir kommúnistar taka virkan þátt í verkföllum verkamanna og kröfugöngum og heyja baráttu fyrir því að breyta þeim í pólitísk verkföll og kröfugöngur og gera þannig auðvaldinu, atvinnurekendum, auð- og einokunarhringum og verkalýðsaðli ómögulegt að lifa. Eftir því sem þessi barátta verður víðtækari kemst öreigastéttin æ oftar í kast við vopnað lið borgarastéttarinnar í beinum átökum, en af þessum skærum lærir öreigastéttin að berjast betur. Í baráttunni kemst hún líka að því hvaða skipulagsform og byltingarbarátta er möguleg, rétt og hagkvæm. Enginn lærir að synda, sem ekki dýfir sér í vatnið er haft að orðtaki. Án þess að beita verkföllum, kröfugöngum og þátttöku í aðgerðum gegn auðvaldinu yfirleitt, er ekki hægt að herða eða skipuleggja baráttuna fyrir lokasigurinn. En þá er heldur ekki hægt að kollvarpa borgaralegu skipulagi.

Byltingin verður ekki undirbúin með því einu að tala eins og ýmsir endurskoðunarsinnar gera eða með kenningum um "heimana þrjá" eins og kínverskir endurskoðunarsinnar gera. Byltingin sigrar ekki eftir leið friðarins. Lenín ræddi þetta sem

möguleika í sérstökum tilvikum, en lagði ávallt aðaláhersluna á byltingarvaldbeitingu vegna þess að borgarastéttin afsalar sér aldrei völdum sjálfviljug.

Saga hinnar alþjóðlegu verkalýðs- og kommúnistahreyfingar, þróun byltinga og sigrar verkalýðsstéttarinnar í fjölmörgum sósíalískum löndum og í okkar landi, sýna, að allt til þessa dags hefur byltingin aðeins sigrað í vopnaðri uppreisn.

Vopnuð byltingaruppreisn á ekkert sameiginlegt með vopnuðu valdaráni. Vopnuð bylting hefur að markmiði að kollvarpa á róttækan, pólitískan hátt gömlu ríkisvaldi, mola það til grunna. Valdaráninu er ekki ætlað og getur ekki leitt til afnáms á kúgun og arðránsskipulagi, afnámi á heimsvaldayfirdrottnun. Vopnuð uppreisn byggist á stuðningi fjöldans, þar sem valdaránið lýsir vantrausti á almenningi og til þess gert að einangra hann. Valdaránstilhneigingar í stefnu og starfi flokks, sem kallar sig flokk verkalýðsstéttarinnar er frávik frá marx-lenínismanum. Í samræmi við sérstæður hvers lands og ástand almennt, getur vopnuð uppreisn verið skyndiupphlaup eða langdrægari byltingarferli, en ekki látlaust án sýnilegra markmiða eins og Maó Tsetung hefur haldið fram í kenningunni "um langvarandi stríð fólksins". Sé kenning Marx,Engels, Leníns og Stalíns um vopnaða byltingaruppreisn, borin saman við kenningu Maós um "stríð fólksins" sést and-marxískt, and-lenínískt, and-vísindalegt eðli þeirrar kenningar ljóslega. Marx-lenínískar kenningar um vopnaða uppreisn eru byggðar á náinni samtengingu baráttunnar í borgunum, við baráttuna úti í sveitunum undir forystu verkalýðsstéttarinnar og byltingarflokks hennar. Maó, sem var andvígur forystuhlutverki öreiganna í byltingunni, leit á sveitirnar sem hinn eina grundvöll fyrir vopnaðri uppreisn og vanrækti vopnaða baráttu verkalýðsins í borgunum. Kenning hans er sú, að sveitirnar haldi borgunum um-

setnum. En hann lítur á þær sem virki andbyltingarafla borgarastéttarinnar. Þetta lýsir vantrausti á verkalýðsstéttinni og er neitun á forystuhlutverki hennar.

Byltingarflokkur verkalýðsstéttarinnar hafnar eindregið áhættustefnu og leikur sér ekki að vopnuðum uppreisnum. Hann aðhyllist hiklaust kenningar Marx og Leníns um valdbeitingarbyltingu sem algilt lögmál. Við hvaða skilyrði eða aðstæður sem vera skal, heldur hann uppi látlausri byltingarbaráttu og byltingarstarfsemi í ýmsum myndum, til þess að búa sig og fólkið undir úrslitaorustu í byltingunni, þar sem kollvarpað er stjórn borgarastéttarinnar með byltingarvaldbeitingu. En það er ekki fyrr en byltingarástandið hefur náð fullum þroska, að hann setur vopnaða uppreisn beint fram sem skipan dagsins og gerir allar pólitískar, fræðilegar, skipulagslegar og hernaðarlegar ráðstafanir til að bera hana fram til sigurs.

Áróður er öflugt tæki í höndum marx-lenínískra flokka til þess að búa fólkið undir byltinguna, en hann verður að vera eldlegur, ljós og sannfærandi. Byltingaráróður er einskis virði sé hann aðeins slagorðaflaumur. Aðeins skarpur áróður, sem tengir viðfangsefnin almennum viðfangsefnum lífsins og úrlausnarefnum, áróður, sem skapar og eflir anda framtakssemi meðal fjöldans, getur alið öreigana og verkalýðinn upp, pólitískt og fræðilega, fengið hann til athafna og búið hann til byltingar.

Auk valdatækja eins og hers og lögreglu o.s.frv. hefur auðvald borgarastéttarinnar í öllum löndum mikla reynslu í baráttu gegn öreigunum og starfsemi þeirra. Einnig hefur hún yfir að ráða áróðursneti. Má þar til nefna blöð, hljóðvarp, sjónvarp, kvikmyndir, leikhús, hljómlist o.s.frv. Allur þessi áróður er svo öflugur, að hann getur villt um, hindrað og veikt öreigana í baráttu þeirra fyrir frelsi sínu.

Í ríkjum sem búa við svo nefnt "borgaralegt lýðræði", þar sem visst "lýðræði" er fyrir hendi, er ekki nóg að beita aðeins venjubundnum blaðaáróðri gegn auðvaldinu almennt. Blöð ýmissa borgara- og endurskoðunarflokka eru alltaf að reka upp óp og köll, að sjálfsögðu ekki gegn borgaralegu skipulagi, heldur gegn einstaklingum, sem reyna að hrifsa til sín stærri hluta kökunnar á stóra borðinu, þar sem þeir hafa allir tekið sér sæti til að fylla hít sína á kostnað fólksins.

Á sviði áróðursins, einkum í blöðum hinna nýju marx-lenínísku flokka, er framundan mjög mikil verkefni þ.e. að afhjúpa blekkingu borgaralegs "lýðræðis", að svipta grímunni af allri þeirra starfsemi, svo og lýðskrumi endurskoðunarsinnanna og annarra þjóna auðvaldsins. Marx-lenínísk blöð og áróður segja sannleikann umbúðalaust , vísa leiðina til sósíalismans og þjóðfrelsis eftir leið byltingarinnar, þar sem áróður borgarastéttar og endurskoðunarsinna og blaða þeirra, blekkir fólkið, svæfir það og villir um fyrir því, til þess að snúa fjöldanum frá byltingunni, leiða hann í blindgötu og halda honum í þrældómsfjötrum.

En til þess að uppfræða fjöldann, sannfæra hann um réttmæti þess að beina verkalýðsstéttinni inn á pólitíska braut flokksins, að búa hana undir byltinguna, nægir ekki áróðurinn einn. Lenín segir að til þess að undirbúa byltinguna

...sé pólitísk reynsla fjöldans nauðsynleg"+

Áróðurinn hittir því aðeins í mark og skilar árangri, að honum fylgi byltingarstarfsemi. Án athafnar visnar hugsunin. Þetta byltingarstarf er ekki og má ekki vera glæfrastarfsemi, heldur alvarleg barátta, heiftúðugir árekstrar við stéttaróvininn. Byltingarstarf, sem þokast stig af stigi, af lægra stigi á hærra, sigrast á ótal erfiðleikum

+ Lenín:Vinstri róttækni - barnasjúkdómar kommúnismans, Verk í úrvali, 11 bindi, bls 212

og tekur á sig allar fórnir, sem byltingin krefst.

Sannir marx-lenínistaflokkar eru framverðir byltingarinnar en ekki taglhnýtingar. Tímabundnar takmarkanir á baráttu- og athafnamöguleikum, þar sem þeir verða að beita sér gegn miklu afli auðvalds og afturhalds, draga ekki úr þeim kjarkinn. Þeir kenna meðlimum sínum að vera hugrakkir og hafa í huga að rétt, velathuguð, þroskuð og einbeitt athöfn af þeirra hálfu bergmálar djúpt meðal fjöldans, sem verður vitni að henni og fréttir af henni. Þegar kommúnistar starfa á þennan hátt, þá sannfærist fjöldinn um að þessi eða hin byltingarstarfsemin sé í þágu öreiganna og hinna arðrændu, Hugrekki og þroski í athöfnum eru mikilvægir þættir, vegna þess að á þann hátt fæst smátt og smátt grundvöllur og árangur við að byggja upp öldur byltingarinnar. Byltingarathafnir tengja flokka verkalýðsstéttarinnar við fjöldann og gerir þeim fært að sigrast á umbótasinnum og endurskoðunarflokkum.

> "Hvert skref sem sönn hreyfing stígur er á við tugi stefnuskráa."+

Fyrir utan byltingaröflin undir forystu marx-lenínískra flokka í auðvaldsríkjunum, eru einnig önnur öfl, sem eiga í baráttu og árekstrum við lögreglu, óeirðalögreglu og ýmsa aðra. Ýmsar aðgerðir og árásir þessara afla bera með sér svipmót hryðjuverkahópa, ævintýramanna og stjórnleysingja. Á þessum hópum eru allir litir og einkenni, Þeir stjórnast af margvíslegum hugmyndum. Slíkar aðgerðir eru oft skipulagðar að áeggjan og með fjárstuðningi leynilögreglu auðvaldslanda, og er m.a. ætlað að koma óorði á marx-lenínistaflokka með því að skella skuldinni á þá. Fasistaöflin eða leynierindrekar borgarastéttarinnar, sem oft skipuleggja og stjórna þessum aðgerðum, reyna þannig að notfæra sér óánægju, reiði og hugrekki öreiganna og stúdenta og annars námsfólks og æskuna almennt til þess að taka þátt í þessum að-

---

+ Marx-Engels, Úrvalsrit, 2.bindi, bls 9

gerðum. Þessar aðgerðir eiga ekkert sameiginlegt með sönnum byltingarhreyfingum en stofna þeim í alvarlega hættu með því að vekja þá hugmynd, að öreigastéttin sé úrkynjaður úrhrakslýður.

Um leið og marx-lenínistaflokkar veita þessu máli tilhlýðilega athygli, verða þeir að sannfæra fjöldann af eigin reynslu um það, að byltingarstarf sé allt annars eðlis en hryðjuverk og stjórnleysingjaaðgerðir og einnig verða þeir að berjast fyrir því að fá til fylgis við sig byltingaröfl, sem hafa verið blekkt til fylgis við hryðjuverka- og stjórnleysingjahópa og losa þau undan áhrifum þessara hópa og hinna fasísku afla ogleynilegra erindreka borgarastéttarinnar, sem starfa meðal þeirra.

Marx-lenínistaflokkar eru byltingarflokkar. Gagnstætt kenningum og starfsemi endurskoðunarflokkanna, sem hafa algerlega kafnað í borgaralegu lögmæti og "þingræðislegum fábjánahætti", takmarka þeir starfsemi sína ekki við lögmæt verk eingöngu, né heldur líta á þau sem aðal verkefni sitt. Í samhengi við tilraunir sínar að ná tökum á hverskonar baráttuformi, leggja þeir sérstaka áherslu á samtengingu lögmætra og ólögmætra verka, þar sem síðara atriðið hefur forgang, sem úrslita-atriði við að kollvarpa borgarastéttinni og tryggja sigur. Þeir uppfræða og kenna flokkskjarnanum, flokksfélögunum og velunnurum að vinna skynsamlega, hvort heldur er við löglegar eða ólöglegar aðstæður. En jafnvel þó þeir starfi með hinni mestu leynd og forðist að láta óvinina vita um liðstyrk sinn og verndi byltingarhreyfinguna fyrir atlögum fjandmannanna, þá loka marx-lenínísku flokkarnir sig ekki frá umhverfinu, veikja ekki böndin við fjöldann eða slíta þau, láta aldrei niður falla starf sitt meðal almennings, en nota alla löglega möguleika, sem aðstæður og ástand leyfir, til framdráttar málstað byltingarinnar.

Jafnframt því sem marx-lenínísku flokkarnir ala ekki á neinum tálvonum um valdatöku eftir þingræðisleiðum, geta þeir þó litið svo á að þátttaka

í lögmætum aðgerðum eins og kosningum til sveitastjórna og þings o.s.frv. sé eðlileg við sérstaklega hagstæð skilyrði, en með því eina markmiði að útbreiða stefnu sína meðal fjöldans og fletta ofan af borgaralegu skipulagi. En flokkurinn breytir þessari þáttöku ekki í almenna baráttustefnu eins og endurskoðunarsinnar gera, gerir þetta ekki að aðalbaráttuforminu, eða það sem meira er, að eina baráttuforminu.

Um leið og notaðir eru löglegir möguleikar leitast flokkurinn við að finna og beita formi og aðferðum byltingareðlis, frá þeim einföldustu til þeirra flóknari, án tillits til fórna, en reynir jafnframt að gera þessi form og aðferðir eins alþýðleg og aðgengileg fyrir fjöldann og kostur er.

Í starfsemi sinni hika marx-lenínistar ekki við að brjóta og hundsa ákvæði stjórnarskrár, laga, reglna, venja og skipulags í byltingarstarfi sínu. Þeir berjast til þess að grafa undan þessu skipulagi til þess að undirbúa byltinguna. Þess vegna búa marx-lenínísku flokkarnir sig og fjöldann undir það að fást við gagnaðgerðir, sem borgarastéttin gæti gripið til sem svar við byltingaraðgerðum öreigastéttarinnar og allrar alþýðu.

Við þær þróunaraðstæður fyrir byltingu og frelsishreyfingar, sem nú eru ríkjandi þ.e. margslungið ferli með breiðum félagslegum fleti, sem margar stéttir og stjórnmálaöfl taka þátt í, stendur byltingarflokkur öreigastéttarnnar frammi fyrir því oft á tíðum ,að þurfa að taka ákvörðun um samvinnu við aðra flokka og pólitísk samtök og mynda með þeim samfylkingu á einu eða öðru stigi byltingarinnar, um eitt eða annað sameiginlegt áhugamál. Rétt afstaða til þessa málefnis, grundvölluð og sveigjanleg, laus við hentistefnu og einangrun, er mjög þýðingarmikil til þess að fá fjöldann með í byltingar- og frelsisbaráttuna, undirbúa hann til átaka. Marx-lenínískir flokkar eru ekki og geta ekki verið á móti samstarfi eða samstöðu með öðrum pólitískum flokkum og öflum, þegar hagsmunir og málefni byltingarinnar krefjast þess og ástandið

gerir það nauðsynlegt. En marx-lenínískir flokkar líta aldrei á þetta sem bandalag flokksforingja né takmark í sjálfu sér, heldur sem aðferð til þess að sameina og vekja fjöldann í baráttunni. Það sem máli skiptir í þessari samfylkingu er það að flokkur öreiganna missi aldrei sjónar á stéttarhagsmunum öreiganna og loka takmarki baráttunnar. Hann má ekki ganga upp í samfylkingunni, heldur verður hann að varðveita hugmyndafræðilega sérstöðu sína og pólitískt, skipulagslegt og hernaðarlegt sjálfstæði sitt í samfylkingunni. Hann verður að berjast fyrir forystuhlutverki þar og beita þar byltingarpólitík.

Eigi marx-lenínískur flokkur að vera fær um að byggja upp og beita byltingarstefnu og aðferðum, beita réttri pólitískri línu, ná fótfestu við erfiðar aðstæður, fást við óvinina og sigrast á erfiðleikum, þá er alger nauðsyn, að hann haldi uppi víðtæku starfi við nám og aðlögun að marx-lenínískri fræðikenningu.

Ein ástæðan til þess að fyrrverandi kommúnistaflokkar í auðvaldslöndunum urðu endurskoðunarflokkar var einmitt sú að þeir vanræktu nám og aðlögun að marx-lenínismanum. Kenning marx-lenínista var aðeins notuð sem skraut, er snerist upp í innantóm orð og kjörorð, var ekki innrætt djúpt í vitund flokksfélaga, hafði ekki orðið hluti af holdi þeirra og blóði og hafði ekki orðið vopn til athafna. Hið litla sem gert var til að nema marx-lenínismann var við það miðað, að flokksfélagarnir þekktu nokkrar stirðnaðar formúlur, sem nægðu til þess að hann gæti kallað sig kommúnista, gæti elskað kommúnismann af viðkvæmni, en hvernig og hversu honum yrði komið á vissi hann ekkert um vegna þess að honum var ekki kennt það.

Forystumenn þessara flokka, sem skorti ekki orð, en afrekuðu því minna, lifðu í borgaralegu umhverfi og smituðu öreigastétt landa sinna af frelsis- og umbótahugmyndum. Því er afturhvarf endurskoðunarflokkanna til borgarastéttarinnar þró-

un til hentistefnu, sósíaldemókrata, sem lengi hafði verið í undirbúningi hjá foringjum þeirra, sem eru í raun sósíaldemókratar, verkalýðsaðall, er stjórnuðu svonefndum kommúnistaflokkum.

Marx-lenínistaflokkar hljóta að minnast þessarar reynslu og draga þar af þá lærdóma að þeir verði að skipuleggja nám og aðlögun að marx-lenínismanum á heilbrigðum grundvelli, og tengja ávallt þetta nám byltingarstarfinu.

Eining og samstarf marx-lenínískra flokka hinna ýmsu landa á grundvelli alþjóðahyggju öreiganna, hefur sérstaka þýðingu fyrir undirbúning að byltingunni.

Einingin styrkist og samstarfið verður víðtækara í baráttu við heimsvaldastefnuna og sósíalheimsvaldastefnuna, við borgarastéttina, nútíma endurskoðunarstefnu af öllum gerðum, Krústéfsinna, títóista, "Evrópukommúnista", Kínasinna o.s.frv.

Endurskoðunarsinnar eru óvinir byltingarinnar, berjast gegn alþjóðahyggju öreiganna af öllu afli og með öllum ráðum, til þess að ná þessu máttuga vopni í baráttunni við borgarastéttina og heimsvaldastefnuna úr höndum öreiga hvers lands.

Það er skylda marx-lenínísku flokkanna að fletta ofan af starfsemi títóískra endurskoðunarsinna og "Evrópukommúnista", sem kalla alþjóðahyggju öreiganna úrelta og gamaldags nú á tímum, á sama hátt og kínversku og sovésku endurskoðunarsinnarnir, sem afskræma alþjóðahyggjuna og reyna að nota hana sem vopn til að ná yfirdrottnunartakmarki sósíalheimsvaldastefnunnar.

Kommúnistaflokkur Kína, sem ekki fylgir grundvallarreglum alþjóðahyggju öreiganna, styður ekki byltingarsinnaða frelsisbaráttu þjóðanna, hefur lagt á leið endurnýjaðs samstarfs og vináttu við sósíaldemókrata og flokka borgarastéttarinnar, þar með taldir flokkar yst til hægri og hreinir afturhaldsflokkar. Jafnframt eru þeir að reyna að koma sér upp hópum, sem eru þeim háðir og er stjórnað af þeim. Þessa hópa þurfa þeir nauðsynlega að nota

til þess að vinna spellvirki hjá sönnum marx-lenínískum flokkum og framfaraöflum, sem hafa hafið starf til þess að vekja fólkið, hvetja það til byltingar gegn ráðandi klíku, sem er hlekkjuð við risaveldin.

Þessir hópar, sem kalla sig flokka og hlýða skipunum kínversku línunnar eins og hverjir aðrir hentistefnumenn gera ekki annað en verja og útbreiða endurskoðunarkenningar Húa Gúófeng og Dengsjáping og styðja gagnbyltingarstarfsemi þeirra. Þessir hópar eiga enga sjálfstæða tilveru og ekkert sjálfstætt framtak til baráttu samkvæmt marx-lenínískri kenningu.

Aðal kjörorð þessara flokka, sem einnig er grundvallarkjörorð kínverskrar stefnu, er að við þær aðstæður, sem nú eru, sé grundvallarverkefnið og reyndar eina verkefnið fyrir öreigastéttina að verja þjóðlegt sjálfstæði sitt, sem þeir telja að einungis sé ógnað af sósíalheimsvaldastefnu Sovétríkjanna. Þeir endurtaka nær orðrétt vígorð foringjanna hjá Öðru Alþjóðasambandinu, sem yfirgáfu málstað byltingarinnar og settu í staðinn kenninguna um varnir sinnar eigin kapítalísku fósturjarðar. Lenín fletti ofan af þessum ósönnu og andmarxísku kjörorðum, sem þjóna ekki vörnum hins sanna sjálfstæðis, en þjóna hins vegar áskorunum um altæka styrjöld heimsvaldasinnanna. Hann markaði skýrt hver ætti að vera afstaða hins sanna byltingarmanns til átaka milli einstakra hópa heimsvaldasinna. Hann skrifar:

> "Ef um er að ræða styrjöld afturhalds og heimsvaldasinna og hún er háð af tveimur samsteypum heimsvaldasinna, samsteypum hinnar ofsafengnu, rángjörnu og afturhaldssömu borgarastéttar, þá verður hver borgari (jafnvel smæstu landa) þátttakandi í raun, og skylda mín sem fulltrúa byltingarsinnaðrar öreigastéttar er að búa hana undir heimsbyltingu öreiganna sem einu undankomuleiðina frá skelfingu alheims manndráps... Þetta er það sem

átt er við með alþjóðahyggju og þetta er skylda sem hvílir á öllum fylgjendum alþjóðahyggjunnar og öllum sönnum sósíalistum."+

Flokkar sem fylgja kínversku línunni hafa gerst verjendur fyrir sífellda aukningu og eflingu herja borgarastéttarinnar og nota sem afsökun að þetta virðist nauðsynlegt til þess að verja sjálfstæðið. Þeir heita á verkalýðinn að verða hlýðnir hermenn og snúast með borgarastéttinni til varnar gegn öllum, sem berjast við að veikja þetta aðalvopn auðvaldsskipulagsins og arðrán þess. Með öðrum orðum, þeir vilja að öreigastéttin og verkalýðurinn láti nota sig sem fallbyssufóður í ránsstyrjöldum þeim, sem heimsvaldasinnarnir og sósíalheimsvaldasinnarnir undirbúa.

Á sama hátt hafa þessir áhangendur Kínverja orðið ákafir verjendur stofnana hinna borgaralegu auðvaldsríkja, einkum Atlantshafsbandalagsins og Efnahagsbandalagsins o.s.frv., sem þeir líta á sem meginstoðir til "varnar sjálfstæðinu"."

Eins og kínverskir forystumenn hvítþvo þeir og fegra þessar stoðir auðvaldsyfirráða og útþennslu. Þeir aðstoða einmitt þessar stofnanir, sem beinlínis vanhelga alvarlega sjálfstæði og fullveldi landa þeirra.

Hér er um að ræða mjög greiða leið fyrir svikamarxista, þar sem bandalag við stórborgarastéttina, borgaralegar hervarnir, stuðningur við Atlantshafsbandalagið, Efnahagsbandalagið o.s.frv. leiða ekki til árekstra við borgarastéttina, heldur þvert á móti ávinnur þeim hylli hennar.

Staða þessara hópa, sem ekki eiga neina framtíð leiðir þá til sameiningar við flokka "Evrópukommúnista" og borgarastéttarinnar og hjá því verður ekki komist vegna þess að Kínverjar sjálfir beina öreigastéttinni á braut sameiningar við borgarastétt-

---

+ Lenín: Öreigabyltingin og svikarinn Kautsky, Úrval verka, 10 bindi, bls 103-104

ina. Nú þegar er enginn munur á þessum svika-marx-istum og Marchais.

Marx-lenínistar verða að vera mjög vel á verði gagnvart innantómum glamuryrðum, sem nútíma endurskoðunarsinnar, sósíaldemókratar og svika marx-lenínistar nota um *alþjóðahyggju öreiganna, einingu öreigastéttarinnar* til varnar friðinum o.s.frv. Alþjóðahyggja öreiganna er sönn þegar fólk vinnur af fórnfýsi við framkvæmd byltingaraðgerða, við að skapa raunverulegt byltingarástand í eigin landi fyrst og fremst. Á sama tíma verður það eins og Lenín sagði "... að styrkja með áróðri, samúð og fjárstuðningi þessa baráttu og stefnu í öllum löndum án undantekningar." Allt annað, kennir hann, eru svik og manílofismi.

Við verðum því að vera vel á verði fyrir slíkum svika marxistum, svika-byltingarsinnum, svika-alþjóðasinnum, hvort heldur eru einstaklingar eða hópar eða flokkar, sem kalla sig marx-lenínista, en eru það ekki í raun og veru, heldur sósíal-*skrumarar, sentristar og smá*borgarar. Allir þessir flokkar, berjandi sér á brjóst sem boðberar alþjóðahyggju öreiganna, verjendur friðar og umbóta o.s.frv. þjóna auðvaldinu.

Kínverskir endurskoðunarsinnar tala líka stundum um alþjóðahyggju öreiganna, en hasla sér völl á þjóðernis- og þjóðrembingsgrundvelli. Kínverskir leiðtogar eru meðal þeirra, sem berja sér á brjóst, sverjandi "við guð" að þeir séu málsvarar alþjóðahyggju öreiganna, málsvarar friðar og styðji baráttu öreiganna og kröfur þeirra en í reynd standa þeir álengdar og gera ekkert annað en að setja saman tælandi glamuryrði til þess að sundra byltingaröflunum.

Marx-lenínistarnir standa frammi fyrir því að efla alþjóðahyggju öreiganna, sem verður að þróa meðal allra flokka stórra og smárra, gamalla og nýrra. Allir verða þeir að styrkja eininguna sín á milli og samræma pólitískar og fræðilegar aðgerðir sínar og baráttu.

Með því að leggja áherslu á þessa stefnu, sem er fyrsta verkefni marx-lenínistaflokka til þess að þeir verði færir um að leggja til beinnar atlögu við heimsauðvaldið, þrælkunarstjórnir þess, stjórnkænskubrögð og svik, svo og bandalag þess við Sovétríkin,títóista, Kína, Italíu, Frakkland, Spán og aðra nútíma endurskoðunarsinna. Þessir flokkar munu skapa volduga víglínu, sem verður órjúfanlegri með hverjum deginum ef þeir vinna saman og leggja til atlögu við afturhaldsöflin sameiginlega, ef þeir afhjúpa öll þau brögð og launráð, sem auðvaldið og nútíma endurskoðunarsinnar brugga á ýmsa vegu til þess að bæla niður byltingar og kæfa stéttarbaráttuna, er þeim sigurinn vís.

Við marx-lenínistar verðum að berjast og kalla verkalýðinn hvar sem er til þess að rísa upp gegn sínum aldagamla óvini og brjóta hlekki sína, kalla hann til þess að framkvæma byltinguna og gefast ekki upp fyrir einokunarhringunum og auðvaldi eins og nútíma endurskoðunarsinnar boða. Verkefni marx-lenínista sem sannra byltingarsinna, er að kalla öreigana og fólkið til að rísa upp til nýrrar veraldar, sinnar eigin veraldar, sósíalískrar veraldar.

## Síðari hluti

# I

## KENNINGIN UM "HEIMANA ÞRJÁ" - GAGNBYLTINGARSINNUÐ ÞJÓÐREMBINGSKENNING

Nú hafa kínversku endurskoðunarsinnarnir einnig komið fram í dagsljósið og berjast á breiðum grundvelli gegn lenínísku kenningunni og stjórnlistinni um byltinguna og frelsisbaráttu alþýðunnar. Þeir reyna að andmæla þessari stórkostlegu vísindalegu kenningu og stjórnlist með kenningu sinni um "þrjá heima", sem er fölsk, gagnbyltingarsinnuð og þjóðrembingsleg kenning.

Kenningin um "heimana þrjá" er í andstöðu við kenningu Marx, Engels, Leníns og Stalíns, eða öllu heldur afneitun á henni. Það skiptir engu máli hver fyrstur fann upp hugtakið "þriðji heimurinn", hver var fyrstur til að skipta heiminum í þrennt, en það er öruggt að Lenín gerði ekki slíka skiptingu og kínverski Kommúnistaflokkurinn lýsir faðerninu á hendur sér, um leið og hann lýsir því yfir, að Mao Tsetung hafi fundið upp

kenninguna um "heimana þrjá". Sé hann höfundurinn, sem fyrst formaði þessa svokölluðu kenningu, þá er það frekari sönnun þess, að Mao Tsetung er ekki marxisti. En jafnvel þótt hann hafi aðeins tekið þessa kenningu upp frá öðrum, þá er það einnig næg sönnun þess að hann er ekki marxisti.

## HUGMYNDIN UM "HEIMANA ÞRJÁ" - AFNEITUN Á MARXISMANUM-LENÍNISMANUM

Sú afstaða, að til séu þrír heimar, eða að veröldin skiptist í þrennt, byggist á kynþáttamiðaðri og frumspekilegri heimsskoðun, sem er afsprengi heimsauðvalds og afturhalds.

En þessi kynþáttakenning, sem skiptir löndunum í þrjú stig eða "þrjá heima" grundvallast ekki eingöngu á hörundslit. Hún flokkar löndin eftir efnahagslegu þróunarstigi og er til þess ætluð að skilgreina "hinn mikla yfirkynþátt" annars vegar og hins vegar "kynþátt paría og plebeia", að skapa óbreytanlega og frumspekilega skiptingu í þágu auðvaldsborgarastéttarinnar. Hún lítur á hinar ýmsu þjóðir og alþýðu heimsins sem sauðahjörð, eins og formlausa heild.

Kínversku endurskoðunarsinnarnir meðtaka og predika, að "yfirkynþáttinn" verði að varðveita og að "kynþætti paría og plebeia" beri að þjóna honum auðmjúklega og af alúð.

Marxíska-leníníska díalektíkin kennir okkur að þróuninni séu engin takmörk sett, að ekkert haldist óbreytt. Í þessari óstöðvandi þróun á vit framtíðarinnar eiga sér stað meginda- og eigindabreytingar. Okkar tímaskeið, eins og öll önnur, einkennist af djúpum móthverfum, sem Marx, Engels, Lenín og Stalín skilgreindu svo ljóslega. Það er skeið heimsvaldastefnu og öreigabyltingar, og þar af leiðandi geysilegra megindalegra og eigindalegra breytinga, sem leiða til byltingar og valdatöku verkalýðsstéttarinnar með

það fyrir augum að byggja nýtt, sósíalískt þjóðfélag.

Gervöll fræðikenning Marx er byggð á stéttabaráttunni og díalektískri og sögulegri efnishyggju. Marx sýndi fram á, að auðvaldsþjóðfélagið skiptist í arðránsstéttir og arðrændar, að stéttirnar muni hverfa þegar hinu stéttlausa þjóðfélagi kommúnismans verður náð og ekki fyrr.

Við lifum nú þá tíma, er heimsvaldastefnan hrynur til grunna og öreigabyltingarnar sigra. Þetta þýðir, að í auðvaldsþjóðfélagi nútímans eru tvær megin-stéttir, öreigarnir og borgararnir, sem eiga í ósættanlegri baráttu upp á líf og dauða. Hvor þeirra mun sigra? Marx og Lenín, marxísku-lenínísku vísindin, fræðikenning og starf byltingarinnar færa okkur sönnun þess að öreigastéttin muni að lokum sigra með því að kollvarpa og eyða veldi borgarastéttarinnar, heimsvaldastefnunnar og allra arðræningja og byggja nýtt þjóðfélag sósíalisma. Þessi vísindi kenna okkur ennfremur, að jafnvel í þessu nýja þjóðfélagi muni um langan tíma verða til stéttir, þ.e.a.s. verkalýðsstéttin og hin vinnandi bændastétt, sem eru nátengdar, og einnig leifar af hinum sigruðu og eignasviptu stéttum. Allt þetta tímabil munu þessar leifar, sem og aðilar sem úrkynjast og berjast gegn uppbyggingu sósíalismans, reyna að endurheimta vald sitt. Þannig mun hatrömm stéttabarátta einnig eiga sér stað í sósíalismanum.

Marxistar-lenínistar hafa alltaf í huga, að í öllum löndum - að þeim undanskildum þar sem byltingin hefur sigrað og sósíalísku skipulagi verið komið á fót - er að finna fátækar stéttir með öreigastéttina í broddi fylkingar og hinar auðugu stéttir með borgarastéttina í fararbroddi.

Í sérhverju auðvaldsríki - hvar sem það er og hversu lýðræðislegt og framsækið sem það er - er að finna kúgara og kúgaða, arðræningja og arðrænda, andstæður og miskunnarlausa stéttabaráttu.

Mismunandi styrkur þessarar baráttu breytir ekki þessum raunveruleika. Baráttan er ýmist öflug eða veik, en hún er til staðar og verður ekki kæfð. Hún er háð allsstaðar. Í Bandaríkjunum milli öreiganna og heimsvaldaborgarastéttarinnar og einnig í Sovétríkjunum þar sem marxisminn-lenínisminn hefur verið svikinn og sköpuð hefur verið ný borgaraleg auðvaldsstétt, sem kúgar hina vinnandi alþýðu í landinu. Stéttir og stéttabarátta fyrirfinnast einnig í "öðrum heiminum", svo sem í Frakklandi, Bretlandi, Ítalíu, Vestur-Þýskalandi, Japan. Og einnig í "þriðja heiminum", í Indlandi, í Zaire, Burundi, Pakistan, Filippseyjum o.s.frv.

Það er aðeins í kenningu Mao Tsetungs um "heimana þrjá", sem ekki er að finna stéttir og stéttabaráttu í neinu landi. Slíkum hlutum gengur þessi kenning framhjá vegna þess að hún lítur á lönd og þjóðir út frá borgaralegum landfræðipólitískum hugmyndum og efnahagslegu þróunarstigi þeirra.

Að sjá heiminn þrískiptan, í "fyrsta" "annan" og "þriðja" heiminn, eins og kínversku endurskoðunarsinnarnir gera, og ekki frá stéttarsjónarhóli, er að hverfa frá marxísku-lenínísku kenningunni um stéttabaráttuna, að afneita baráttu öreigastéttarinnar gegn borgarastéttinni fyrir umskiptunum frá stöðnuðu þjóðfélagi til nýs, sósíalísks þjóðfélags og síðar til hins stéttlausa þjóðfélags kommúnismans. Að skipta heiminum í þrennt er að skilja ekki einkenni tímaskeiðsins, að standa í vegi fyrir framþróun öreigastéttarinnar og alþýðunnar á vit byltingar og þjóðfrelsis, að standa í vegi fyrir baráttu þeirra gegn bandarísku heimsvaldastefnunni, sovésku sósíalheimsvaldastefnunni og auðvaldi og afturhaldi í hverju landi og í sérhverju horni veraldarinnar. Kenningin um "heimana þrjá" talar fyrir þjóðfélagsfriði, stéttasamvinnu og reynir að mynda bandalag milli ósættanlegra andstæð-

inga, öreiganna og borgaranna, kúgaranna og hinna kúguðu, alþýðunnar og heimsvaldastefnunnar Hún er tilraun til að lengja lífdaga hins gamla heims, auðvaldsheimsins, að halda í honum lífi nákvæmlega með því að reyna að uppræta stéttabaráttuna.

En stéttabaráttuna, baráttu öreigastéttarinnar og bandamanna hennar fyrir völdum og baráttu borgaranna til að viðhalda valdi sínu, er aldrei hægt að uppræta. Þetta er ómótmælanlegur sannleikur og honum verður ekki breytt, hversu mjög sem hafðar eru uppi innantómar fræðikenningar um "heimana", hvort heldur það er "fyrsti heimurinn", "annar heimurinn", "þriðji heimurinn", "óháði heimurinn" eða "hundraðasti heimurinn". Að fallast á slíka skiptingu er að afneita og yfirgefa fræðikenningu Marx, Engels, Leníns og Stalíns um stéttir og stéttabaráttu.

Eftir sigur Októberbyltingarinnar sögðu Lenín og Stalín, að á okkar tímum væri um tvo heima að ræða: sósíalíska heiminn og auðvaldsheiminn, þrátt fyrir að þá hefði sósíalisminn aðeins sigrað í einu landi. Lenín skrifaði 1921:

> "...Nú eru heimarnir tveir: hinn gamli heimur auðvaldsins, sem er í uppnámi en mun aldrei gefast upp af frjálsum vilja og hinn rísandi nýi heimur, sem enn er mjög veikburða, en mun vaxa, því að hann er ósigrandi."+

Þessi stéttmiðaða skipting heimsins gildir enn í dag, burtséð frá þeirri staðreynd, að sósíalisminn hefur ekki sigrað í mörgum löndum og hið nýja þjóðfélag hefur ekki leyst af hólmi hið gamla borgaralega auðvaldsþjóðfélag. Morgundagurinn mun ótvírætt bera slíka hluti í skauti sínu.

---

+ V.I.Lenín, ritsafn, 33.bindi, bls.153-154, (alb. útg.)

Sú staðreynd að sósíalisminn hefur verið svikinn í Sovétríkjunum og hinum fyrrverandi sósíalísku ríkjum breytir ekki á nokkurn hátt hinni lenínísku afstöðu til skiptingar heimsins. Nú sem fyrr er aðeins um tvo heima að ræða og baráttan milli þeirra, milli hinna tveggja ósættanlegu stétta, milli auðvalds og sósíalisma, fer ekki aðeins fram á þjóðlegum mælikvarða, heldur einnig alþjóðlegum.

Kínversku endurskoðunarsinnarnir viðurkenna ekki tilvist hins sósíalíska heims á þeirri forsendu að sósíalísku herbúðirnar séu ekki lengur við lýði, vegna svika Sovétríkjanna og annarra fyrrverandi sósíalískra ríkja. Þeir ganga viljandi fram hjá einu; nefnilega því, að tilurð nútíma endurskoðunarstefnunnar breytir ekki hið minnsta hinni almennu tilhneigingu í sögunni til byltingar, til kollvörpunar heimsvaldastefnunnar burtséð frá þeirri staðreynd, að hinar ódauðlegu hugmyndir marxismans-lenínismans lifa enn, þær þróast og sigra, að til eru marxískir-lenínískir flokkar, hin sósíalíska Albanía heldur velli, að alþýðan berst enn fyrir frelsi, sjálfstæði og þjóðlegu sjálfræði og að öreigastéttin er ennþá til og er enn að berjast.

Parísarkommúnan fór ekki með sigur af hólmi hún var bæld niður, en hún var öreigum heimsins lýsandi fordæmi. Marx sagði, að reynslan af kommúnunni sýndi tímabundinn veikleika frönsku öreigastéttarinnar, en samt sem áður undirbyggi hún öreiga allra landa fyrir heimsbyltinguna og væri stórkostleg lexía um þær aðstæður, sem nauðsynlegar væru til að ná sigri. Marx lyfti reynslu kommúnarðanna, sem "réðust gegn himnunum" upp á svið fræðikenningarinnar og kenndi öreigunum að þeir yrðu að méla borgaralega ríkiskerfið og alræði þess með byltingarsinnuðu valdi.

Nútíma endurskoðunarsinnarnir eru hugleysingjar. Þeir álíta að gagnbyltingaröflin séu nú mjög öflug. En þetta er alls ekki rétt. Al-

þýðan, með öreigana í fararbroddi, er sterkari. Hún mun brjóta á bak aftur gagnbyltingaröflin, afturhaldsöflin, heimsvaldastefnuna og sósíalheimsvaldastefnuna. Þessi afstaða er byggð á stéttagreiningu á heiminum. Öll önnur afstaða er röng, hvernig svo sem endurskoðunarsinnarnir dulbúa starfsemi sína og ótta með byltingarsinnuðum frösum.

Þegar við marxistar-lenínistar segjum að heimarnir séu tveir, en ekki þrír eða fimm, þá erum við á réttri leið og á grundvelli marxismans-lenínismans verðum við að byggja baráttu okkar gegn auðvalds-borgarastéttinni, bandarísku heimsvaldastefnunni og sovésku sósíalheimsvaldastefnunni og gegn öðrum heimsvaldaöflum. Þessi barátta verður að leiða af sér eyðileggingu gamla borgaralega auðvaldsheimsins og sköpun hins nýja sósíalíska skipulags.

Öreigastéttin er hið leiðandi þjóðfélagsafl okkar tímaskeiðs. Lenín lagði áherslu á að hið leiðandi afl, sem knýr söguna fram á við, sé að finna í þeirri stétt, sem stendur

> "...í brennipunkti eins tímaskeiðs eða annars og ræður megininnihaldi þess, helstu straumum í þróun þess, aðaleinkennunum á sögulegum aðstæðum þessa tímaskeiðs o.s.frv."+

Gagnstætt þessarri kenningu Leníns, reyna kínversku endurskoðunarsinnarnir að tefla þriðja heiminum" fram sem "hinu mikla hreyfiafli sem knýr áfram hjól sögunnar". Að gefa út slíka yfirlýsingu, er að gera skilgreiningu á hreyfiaflinu, sem er röng í fræðikenningu og starfi. Á núverandi tímaskeiði, er það byltingarsinnaðasta stéttin, öreigastéttin, sem er miðpunkturinn í þjóðfélagsþróuninni. Hvernig er þá hægt að segja að hreyfiaflið sé

---

+ V.I.Lenín, Ritsafn, 21.bindi, bls.147 (alb. útg.)

hópur ríkja, sem að yfirgnæfandi meirihluta er stjórnað af borgarastéttinni og lénsherrum og jafnvel óduldu afturhaldi og fasistum? Þetta er meiriháttar brenglun á marxismanum.

Kínverska forystan tekur ekki með í reikninginn þá staðreynd, að í "þriðja heiminum" eru kúgarar og kúgaðir, öreigarnir og hin þrælkaða fátæka og allslausa bændastétt annars vegar og hins vegar kapítalistarnir og landeigendurnir, sem arðræna og féfletta alþýðuna. Að benda ekki á þessar stéttaaðstæður í hinum svokallaða þriðja heimi, að benda ekki á stéttaandstæðurnar sem fyrir hendi eru, það er að endurskoða marxismann-lenínismann og verja auðvaldið. Í löndum hins svokallaða þriðja heims, er það yfirleitt kapítalíska borgarastéttin, sem fer með völdin. Þessi borgarastétt arðrænir landið, arðrænir og kúgar hina fátæku alþýðu í þágu eigin stéttar til að ná hámarksgróða fyrir sjálfa sig og til að halda alþýðunni í stöðugri þrælkun og eymd.

Í mörgum löndum "þriðja heimsins" eru það borgaralegar, kapítalískar ríkisstjórnir, sem eru við völd, auðvitað af ýmsum pólitískum blæbrigðum. Þær eru ríkisstjórnir þeirrar stéttar, sem er fjandsamleg öreigunum, hinum kúgaða og fátæka bændalýð, fjandsamleg byltingu og frelsisstríðum. Borgarastéttin, sem fer með ríkisvaldið í þessum löndum, verndar af kostgæfni það auðvaldsþjóðfélag, sem öreigarnir, í bandalagi við hina fátæku íbúa bæja og sveita, reyna að kollvarpa. Borgarastéttin er sú yfirstétt, sem er reiðubúin, hvenær sem er, við minnstu veðrabrigði, að selja auðæfi landsins í jörðu og á-, frelsi, sjálfstæði og sjálfræði ættjarðarinnar í hendur erlendu auðvaldi. Hvarvetna, þar sem þessi stétt er við völd, er hún í andstöðu við baráttu og markmið öreiganna og bandamanna þeirra, kúgaðra stétta og hópa.

Mörg þeirra ríkja, sem samkvæmt kínversku

leiðtogunum tilheyra "þriðja heiminum", eru ekki í andstöðu við bandarísku heimsvaldastefnuna og sovésku sósíalheimsvaldastefnuna. Að kalla slík ríki "helsta hreyfiafl byltingarinnar og baráttunnar gegn heimsvaldastefnunni", eins og Mao Tsetung gerir, eru svo augljós mistök að jafnvel blindir sjá það. Til eru fleiri gervi-marxistar, en þeir kunna þó að dyljast á bak við borgaralegar kenningar sínar.

Kínversku endurskoðunarsinnarnir hafa ekki aðeins andmarxíska afstöðu til "þriðja heimsins", heldur einnig til þess, sem þeir kalla "annan heiminn", þar sem völdin eru í höndum stórkapítalista borgarastéttarinnar og hinna miklu heimsvaldasinna gærdagsins, sem enn eru heimsvaldasinnar. Í löndum hins svokallaða annars heims er að finna mikinn og öflugan öreigalýð, sem er arðrændur inn að skyrtunni og er haldið niðri af yfirþyrmandi lögum, her, lögreglu og verkalýðsfélögum. Allt þetta eru vopn í höndum alræðis borgarastéttarinnar. Bæði í löndum "þriðja heimsins" og "annars heimsins" er það borgaralega auðvaldsstéttin, sama þjóðfélagsaflið, sem drottnar yfir öreigunum og alþýðunni og brjóta verður á bak aftur. Einnig hér er það öreigastéttin, sem er helsta hreyfiaflið.

Alveg eins og kínversku endurskoðunarsinnarnir ganga framhjá öreigastéttinni í "þriðja heiminum" og "öðrum heiminum", eins ganga þeir fram hjá öreigastéttinni í Bandaríkjunum og Sovétríkjunum, öreigastéttinni ,sem er hinn mikli her byltingarinnar. Þeir afneita nákvæmlega því aðalhreyfiafli þjóðfélagsins, sem verður að ráðast gegn einokunarborgarastéttinni, stéttaróvini sínum og fjandmanni heimsbyltingarinnar yfirleitt.

Kenning Mao Tsetungs um "heimana þrjá" afneitar þessum mikla veruleika og vanmetur öreigastétt Evrópu og annarra þróaðra landa. Rétt er það að úrkynjun er til í röðum ör-

eiganna, hvort heldur er í hinum svokallaða fyrsta, öðrum eða þriðja heimi, vegna þess að borgarastéttin situr ekki auðum höndum heldur berst gegn andstæðingi sínum, ekki aðeins með vopnum og kúgun, heldur einnig pólitískt og hugmyndafræðilega, með þeim lífsstíl sem hún skapar o.s.frv. En sú staðreynd, að sumir hlutar öreigastéttarinnar, svo sem verkalýðsaðall, hafa úrkynjast, þýðir ekki að marxisminn-lenínisminn skuli yfirgefinn og hlutverki verkalýðsstéttarinnar í ferli heimsbyltingarinn afneitað. Með réttri marxískri-lenínískri menntun og daglegri byltingarstarfsemi verja hinir raunverulegu kommúnistar öreiga sérhvers lands og sérhvers "heims" gegn úrkynjun og virkja þá til baráttu gegn kúgurum sínum, hvort sem þeir eru breskir eða franskir, ítalskir eða þýskir, portúgalskir eða spánskir, bandarískir eða japanskir.

Í Bandaríkjunum, sem eru leiðtogar heimsvaldastefnu heimsins, er einnig að finna stóra öreigastétt. Þar sem Bandaríkin eru eitt iðnvæddasta land veraldar og einnig það auðugasta, þá eru molarnir sem auðvaldið lætur af hendi rakna til að afvegaleiða öreigana, stærri þar en í öðrum borgaralegum löndum. Í Bandaríkjunum hefur lífsstíllinn meiri áhrif á öreigana, en við getum á engan hátt afneitað hlutverki og framlagi bandarísku öreigastéttarinnar til byltingar í því landi. Í rauninni er að finna í Bandaríkjunum skoðanahóp, sem er á móti heimsvaldastefnu, ránsstyrjöldum, kúgun af hálfu kapítalista, auðhringa, banka o.s.frv. Jafnvel meðal smáborgaranna í landinu má finna andstöðu við kúgun stórauðvaldsins.

Með því að afneita stéttabaráttunni afneitar kínverska kenningin um "heimana þrjá" einnig baráttu alþýðunnar fyrir frelsun sjálfrar sín undan erlendri drottnun, fyrir lýðræðislegum

réttindum og frelsi, afneitar baráttu hennar fyrir sósíalismanum. Þessi gagnbyltingarsinnaða og andvísindalega kenning afskrifar baráttu alþýðunnar gegn óvini sínum – heimsvaldastefnunni, sósíalheimsvaldastefnunni, og allri hinni alþjóðlegu stórborgarastétt.

Að setja alþýðuna í "þrjú hólf" og prédika, að aðeins "þriðji heimurinn" leitist við að frelsa sig undan heimsvaldastefnunni, að hann einn sé "aðalhreyfiaflið gegn heimsvaldastefnunni", er villukenning og hrópandi frávik frá marxismanum-lenínismanum. Ef heimsvaldasinnarnir og kapítalistarnir teljast til "fyrsta heimsins" og "annars heimsins" þá vaknar spurningin: Hvar á að setja alþýðu þessara "tveggja heima", sem einnig berjast fyrir frelsun sinni gegn sömu kúgurum og þeim sem kúga "þriðja heiminn"? Þeir sem hafa fundið upp og styðja skiptingu heimsins í þrennt eiga í talsverðum erfiðleikum með að svara þessari spurningu, því samkvæmt andmarxískum og andlenínískum hugmyndum þeirra eru heimsvaldasinnarnir, drottnararnir og alþýðan brædd saman í eitt.

Marxistar-lenínistar geta ekki kennt alþýðu Sovétríkjanna við þá andmarxísku, sósíalheimsvaldasinnuðu svikahrappa og nýju kapítalista, sem drottna yfir henni. Engu frekar geta þeir ruglað saman bandarískri alþýðu og bandarísku heimsvaldastefnunni. Ef byltingarsinnarnir tækju upp starfsaðferðir kínversku endurskoðunarsinnanna, þá gerðu þeir meiriháttar fræðileg mistök og settu sig upp á móti byltingunni; þá styddu þeir ekkert annað en heimsvaldastefnuna og sósíalheimsvaldastefnuna, þau auðvaldsöfl, sem öreigarnir og alþýðan berjast gegn.

Hvaða vit er í því ákalli kínverjanna, að "þriðji heimurinn" eigi að mynda bandalag með "öðrum heiminum" til að berjast gegn hálfum "fyrsta heiminum", þegar slík skipting ruglar saman sérstöðu, markmiðum og þróun alþýðunnar á hverjum

stað fyrir sig, alþýðu sem er í andstöðu og baráttu við fáveldið sem kúgar hana? Andspyrna og barátta alþýðunnar á hinum ýmsu stöðum er einnig á mismunandi stigi, en endanlegt markmið er það sama, kommúnisminn. Við þessar aðstæður verðum við marxistar-lenínistar að reka áróður og virkja okkur þannig að við náum hinu endanlega markmiði með stöðugri stéttabaráttu gegn heimsvaldastefnunni, sósíalheimsvaldastefnunni, auðvaldinu og þeim svikavef, sem hugmyndafræði þeirra er.

Það er ekki nóg með að kínversku endurskoðunarsinnarnir rugli alþýðunni saman við stjórnvöldin í auðvaldslöndunum, þeir reyna líka að gera að engu sérstöðu sósíalísku landanna, þegar þeir predika að þessi lönd tilheyri einnig "þriðja heiminum".

Hvernig er hægt að líkja sósíalísku landi saman við "þriðja heiminn", þar sem er að finna ósættanlegar stéttaandstæður, kúgun og arðrán, og hvernig getur sósíalískt land stillt sér upp við hlið "konunga og prinsa" eins og kínverska forystan lýsir yfir? Kínversku endurskoðunarsinnarnir, sem kalla land sitt sósíalískt, segjast telja sjálfa sig til "þriðja heimsins" með það fyrir augum að styðja alþýðu þess "heims". Þetta er svikamylla, sem þeir nota til að reyna að dylja útþenslustefnu sína. Raunverulegt sósíalískt ríki þarf ekki að skipta heiminum í þrennt eða telja sjálft sig til "þriðja heimsins" til að aðstoða og styðja baráttu alþýðunnar.

Með afstöðu okkar marxista-lenínista, sem höfum stéttarafstöðu að leiðarljósi, hjálpum við alþýðunni, öreigunum, raunverulegu lýðræði, sjálfræði og frelsi, en ekki þeim ríkjum sem stjórnað er af konungum, keisurum og afturhaldsklíkum. Við hjálpum þeirri alþýðu og lýðræðisríkjum, sem vilja frelsa sig undan oki stórveldanna, en við bendum á, að það sé ekki hægt nema um leið sé barist gegn kóngunum og alþjóðlegu

einokunarfyrirtækjunum, sem tengd eru stórveldunum. Kínversku leiðtogarnir segjast hafa leyst þetta flókna stéttavandamál með því að "bræða" sig saman við þennan ímyndaða "þriðja heim". En þetta er andmarxísk lausn. Gagnstætt því, sem kínversku leiðtogarnir halda fram, eru fæst ríki og ríkisstjórnir "þriðja heimsins" á því að berjast gegn "fyrsta heiminum", gegn bandarísku heimsvaldastefnunni og sovésku sósíalheimsvaldastefnunni, eða "öðrum heiminum".

Alþýða heimsins hneigist til baráttu fyrir frelsi, fyrir byltingu, fyrir sósíalisma, en ríkisstjórnir konunga, emíra og afturhaldsklíkna í "þriðja heiminum" á borð við klíkur Mobutus og Pinochets, slíkar ríkisstjórnir falla ekki undir þessa tilhneigingu.

Varðandi ríki hins svokallaða þriðja heims gera kínversku leiðtogarnir engan greinarmun á stéttum samkvæmt grundvallarreglum alþjóðahyggju öreiganna og hagsmunum heimsbyltingarinnar. Þeir taka ekkert tillit til þeirrar staðreyndar, að þessi þjóðríki, sem flestum er stjórnað af efri lögum borgarastéttarinnar, eru undir áhrifum frá og margvíslegum böndum bundin við bandarísku heimsvaldastefnuna og einnig við sovésku sósíalheimsvaldastefnuna.

I þessum ríkjum er að finna djúpstæðar innbyrðis móthverfur milli öreiganna og fátæks og kúgaðs bændalýðs annars vegar og hins vegar borgarastéttarinnar og allra þrælahaldara. Sú aðstoð, sem sósíalískt land veitir alþýðu þessara ríkja ætti að vera stórkostleg hvatning framgangi þeirra í átt til að skapa raunverulegt lýðræðisríki, án þess að byrgja útsýnið, án þess að hafa áhrif á spurninguna um sigur öreigabyltingarinnar og valdatöku öreiganna. Byltingin verður ekki flutt inn. Hún verður gerð af öreigum og alþýðu sérhvers lands. Auðvitað verður valdatakan ekki gerð á einni nóttu, en eins og Lenín kennir okkur verður að skapa slíkar aðstæður, að við sérhvern

vendipunkt í sögunni sé öreigastéttin í fylkingarbrjósti í baráttunni fyrir því að kollvarpa hinu úrkynjaða ríkisvaldi einræðisherra og afturhaldssamrar borgarastéttar og koma á fót alþýðustjórn.

Sú skipting á heiminum, sem við kommúnistar gerum nú á grundvelli lenínískrar stéttaafstöðu, hindrar okkur ekki í því að berjast gegn stórveldunum og að styðja alla alþýðu og öll ríki, sem sækjast eftir frelsun og eiga í útistöðum við stórveldin. Hin sósíalíska Albanía hefur heilshugar veitt öflugan stuðning baráttu alþýðunnar í Asíu, Afríku og Rómönsku Ameríku, því að þessi barátta er í hennar eigin þágu og beinist gegn heimsvaldastefnu og erlendri nýlendudrottnun. En að fela og brengla grundvallarreglur marxismans-lenínismans, hugmyndafræði og stefnu öreigaflokksins, eins og kínversku leiðtogarnir gera, það er andmarxískt, svik og prettir. Flokkur Vinnunnar í Albaníu hefur aldrei og mun aldrei gera slíkt, því það væri ófyrirgefanlegur glæpur gegn eigin alþýðu, gegn hinum alþjóðlega öreigalýð og heimsbyltingunni.

Með því að skipta heiminum í þrennt mælir Kommúnistaflokkur Kína fyrir stéttasamvinnu.

Raunverulegir marxistar-lenínistar gleyma aldrei kenningum Leníns, sem bendir á, að hentistefnumenn og endurskoðunarsinnar reyna með öllum tiltækum ráðum að lægja öldur stéttarbaráttunnar, að blekkja verkalýðsstéttina og hina kúguðu með "byltingarsinnuðum" klisjum um leið og þeir ræna marxísku-lenínísku fræðikenninguna byltingarsinnuðu innihaldi sínu. Það er þetta, sem kínverska endurskoðunarsinnaforystan gerir, þegar hún predikar sættir og friðsamlega sambúð milli verkalýðsstéttarinnar og borgarastéttarinnar.

Eins og Engels og Lenín kenna okkur, er ógerlegt að sætta móthverfur milli stétta eða

þjóðfélagsafla með andstæða grundvallarhagsmuni. Þvert á móti verða þessar móthverfur æ dýpri og enda í þjóðfélagspólitískum árekstrum. Sjálf tilvera ríkisvaldsins sannar, að stéttaandstæðurnar eru ósættanlegar. Að reyna að milda þessar stéttaandstæður, sem er að finna í hinum ýmsu borgaralegur og endurskoðunarsinnuðu löndum "þriðja", "annars" eða "fyrsta" heimsins með því að prédika skilyrðislausa samstöðu, það er að afneita hlutlægum einkennum á tilveru móthverfanna og að meðhöndla vandamálin á andmarxískan hátt.

Kínversku "fræðimennirnir" reyna að sætta stéttir, sem aldrei er hægt að sætta og það þýðir, að þeir taka endurskoðunarsinnaða hentistefnuafstöðu. Afskræming kínversku endurskoðunarsinnanna á kenningu Marx er augljós, þegar þeir segja, að stéttafriður ríki í þeim löndum, sem þeir telja til "þriðja heimsins" og að ríkisvaldið í þessum löndum sé stofnun stéttarfriðar.

Að fallast á hugmyndina um "þriðja heiminn" eins og kínversku leiðtogarnir prédika, er að vinna að því að skapa afstöðu, sem þjónar því markmiði að verja þau tæki ríkisvaldsins, sem borgarastéttin þarfnast til að kúga verkalýðsstéttina og alþýðufjöldann. Eins og Lenín sagði, þegar hann réðst gegn endurskoðunarsinnunum, þá er kenningin um að lægja öldur stéttabaráttunnar til þess fallin að réttlæta og styrkja þessa kúgun. Að leita samstöðu innan "þriðja heimsins" er í raun og veru að leita samstöðu hinnar kúguðu stéttar með kúgarastéttinni, þ.e.a.s. að reyna að milda aðstæðurnar milli hins vinnandi fjölda og borgarastéttarinnar, milli alþýðunnar og erlendra kúgara. Þessar predikanir kínversku endurskoðunarsinnanna ganga þvert á hagsmuni þjóðlegrar og þjóðfélagslegrar frelsunar alþýðunnar, á frelsisást hennar, sjálfstæðisvilja og þjóð-

félagslega réttlætiskennd.

Meirihluti þeirra ríkja, sem sögð eru mynda "þriðja" eða "óháða heiminn" er háður erlendu fjármálaauðvaldi, sem er svo öflugt og útbreitt, að það hefur afgerandi áhrif á öllum sviðum í þessum löndum. Þessi ríki njóta ekki algjörs sjálfstæðis. Þvert á móti eru þau háð þessu mikla fjármálaauðvaldi, sem þróar þá stefnu og breiðir út þá hugmyndafræði, sem réttlætir arðrán á alþýðunni.

Borgarastéttin og heimsvaldastefnan leggja hart að sér við að dylja þennan raunveruleika og þegar þau eru afhjúpuð, sjóða þau saman "ýmsar kenningar" gegn sjálfstæði og sjálfræði ríkja. Til að bæla niður vilja alþýðunnar til frelsis, sjálfstæðis og sjálfræðis, kalla borgaralegir og endurskoðunarsinnaðir fræðimenn þennan vilja "úreltan", gefa honum ýmis frumspekileg nöfn og setja gegn honum slagorðið um "gagnkvæmt hæði í heiminum", sem á að vera táknrænt fyrir ríkjandi strauma í þróun mannlegs samfélags eða slagorðið um "takmarkað sjálfræði", sem á að tákna æðstu hagsmuni hins svokallaða sósíalíska sambýlis o.s.frv.

Hinn borgaralegi-endurskoðunarsinnaði raunveruleiki - fótumtroðsla á frelsi, sjálfstæði og sjálfræði þjóða og ríkja - sýnir í öllum myndum sínum rotnun auðvaldskerfisins. Við lifum á tímaskeiði, þegar borgarastéttin er að missa fótanna sem ráðandi stétt um leið og öreigalýður heimsins er orðinn að risavöxnu afli og hefur hafið óstöðvandi, miskunnarlausa baráttu til að hrista af sér stéttina, sem arðrænir hana. Vegna árásar alþýðunnar og stéttarbaráttu öreiganna neyddist borgarastéttin til að láta af nýlendustefnunni að nafninu til og að viðurkenna að forminu til frelsi, sjálfstæði og sjálfræði margra landa, sem hún hafði lengi haft á valdi sínu og rúið inn að skinni.

Frelsi, sjálfstæði og sjálfræði fyrrum nýlendna, sem auðvaldsríkin hafa viðurkennt lagalega séð, hefur í mörgum löndum aðeins verið formlegt til þessa dags, vegna þess að kapítalistarnir og heimsvaldasinnarnir stjórna þar enn þrátt fyrir að í nýju formi sé. Til að lengja lífdaga drottnunar sinnar yfir fyrrum nýlendum nota þessi afturhaldsöfl nútímans á víðtækan hátt samsæri og launráð til að deila og drottna. Í þessum löndum er enn að finna heppilegan jarðveg fyrir slíka starfshætti vegna efnahagslegrar, pólitískrar og hugmyndafræðilegrar vanþróunar alþýðunnar og skorts á skipulagningu byltingaraflanna.

Þegar fengist er við þetta vandamál, má ekki ætla, að þar sem nýlendurnar fyrrverandi hafi enn ekki náð fullkomnu sjálfstæði og sjálfræði, þá hafi barátta þeirra verið gagnslaus. Síður en svo. Baráttu alþýðunnar fyrir frelsun smáríkja sinna undan yfirráðum hinna miklu - heimsvaldastefnunnar og sósíalheimsvaldastefnunnar - má ekki vanmeta. Þvert á móti hafa Flokkur Vinnunnar í Albaníu og albanska ríkið stutt og munu styðja skilyrðislaust þessa réttlátu byltingar- og frelsisbaráttu. Flokkur Vinnunnar og albanska ríkið líta á þetta sem sigur alþýðunnar í baráttunni fyrir að styrkja pólitískt sjálfstæði sitt og brjótast út úr viðjum nýlendu- og nýnýlendu-drottnunar. En við erum á móti þeim endurskoðunarsinnuðu kenningum, sem predíka að nú beri að einskorða alla byltingarbaráttu *við baráttuna fyrir þjóðlegu sjálfstæði,* við það að vinna þetta sjálfstæði og verja það gegn árásum heimsvaldaaflanna um leið og baráttunni *fyrir þjóðfélagslegri frelsun* er afneitað. Það er aðeins sigur í þessarri baráttu, sem tryggir algert þjóðlegt frelsi, sjálfstæði og sjálfræði. Talsmenn arðránsskipulagsins "gleyma" því, að stéttarbaráttan milli öreiganna og bandamanna þeirra annars vegar og

innlendrar borgarastéttar og erlendra bandamanna hinsvegar er háð af hörku á hverjum tíma og einhvern tíma mun hún fæða af sér þessi andartök, þetta byltingarástand eins og Lenín kallar það, þegar byltingin brýst út. Sífellt skapast hagstæðari aðstæður í heiminum fyrir þróun víðtækra andheimsvalda- og lýðræðisbyltinga og fyrir forystu öreiganna í þeim. Þessar aðstæður verður að nýta með það fyrir augum að halda áfram frá baráttunni fyrir þjóðlegu sjálfstæði til annars og æðra stigs, baráttunnar fyrir sósíalismanum. Lenín kennir okkur að byltinguna verði að leiða til lykta með því að uppræta borgarastéttina og ríkisvald hennar. Aðeins á þeim grundvelli er hægt að tala um raunverulegt frelsi, sjálfstæði og sjálfræði.

Samkvæmt okkar marxísku-lenínísku hugmyndum getur alþýðan ekki öðlast frelsi og sjálfstæði í þjóðfélagi með ósættanlegum stéttum, þar sem lénsstéttirnar og borgarastéttin halda velli. Frelsi, sjálfstæði og sjálfræði hafa hlutstætt þjóðfélags-pólitískt innihald. Raunverulegt og algjört frelsi og sjálfræði eru tryggð í alræði öreiganna, en þar sem ríkisvaldið er í höndum arðránsstéttarinnar, leiða efnahagsleg og pólitísk tengsl ójöfnuð milli arðræningja og arðrændra og milli landa til sviptingar eða takmarkana á frelsi og sjálfræði alþýðunnar. Af þessu leiðir, að í þeim löndum, sem teljast til "þriðja heimsins" eða "óháða heimsins" er ekki um að ræða raunverulegt þjóðlegt frelsi og sjálfræði og ennþá síður sjálfræði alþýðunnar. Aðeins á grundvelli vísindalegrar greiningar, sem byggist á kenningum marxismans-lenínismans, er mögulegt að dæma um það á réttan hátt, hvar alþýðan sé frjáls og hvar hún er kúguð, hvaða ríki eru sjálfstæð og sjálfráða og hver séu háð og kúguð. Kenningar marxismans-lenínismans útskýra ljóslega hverjir kúga og arðræna alþýðuna og hver sé leið alþýðunnar til frelsis,

sjálfstæðis og sjálfræðis. Við albanskir kommúnistar skiljum frelsi, sjálfstæði og sjálfræði ríkja og alþýðunnar aðeins á þennan hátt, í ljósi marxismans-lenínismans.

## AFSTAÐA KINVERSKU ENDURSKOÐUNARSINNANNA TIL MÓTHVERFA ER BYGGÐ Á HUGHYGGJU, ENDURSKOÐUNARSTEFNU OG UPPGJAFARSTEFNU

Að beita réttri byltingarsinnaðri stjórnlist grundvallaðri á kenningum marxismans-lenínismans krefst ekki aðeins alhliða díalektískrar greiningar og mats á hreyfiöflunum í byltingar- og frelsisþróun heimsins og rétts mats á afli andstæðingsins, styrkleikum hans og veikleikum, heldur einnig rétts og vísindalegs skilnings á móthverfum þeim, sem einkennandi eru fyrir okkar tíma.

Ef við túlkum móthverfurnar í samhengi við hlutstæðar staðreyndir og raunverulega þróun aðstæðna, í samræmi við kenningar marxismans-lenínismans, þá munu okkur ekki verða á mistök.

I sambandi við móthverfurnar hafa kínversku leiðtogarnir gert "fræðilegar" útlistanir á, "túlkað", "fílósóferað" um, umorðað og ruglað saman mörgum kenningum, sem frumkvöðlar marxismans-lenínismans orðuðu svo ljóslega. Með því að túlka móthverfur öðru vísi en þær eru í raun og veru, leiðast þeir út í samninga og eftirgjafir, sem eru ekki í þágu frelsisbaráttunnar, alþýðunnar, byltingarinnar og uppbyggingar sósíalismans, heldur borgarastéttarinnar og heimsvaldastefnunnar. Þessir leiðtogar sem koma fram sem marxískir-lenínískir heimspekingar, hafa tvær grímur: aðra til að sýnast vera sammála marxismanum-lenínismanum og hina til að afskræma hann í starfi.

Afstaða þeirra varðandi móthverfur, bandalög og málamiðlanir á rætur að rekja til brenglaðrar og tækifærisinnaðrar greiningar

sem þeir hafa gert á alþjóðaástandinu, móthverfunum í heiminum, móthverfunum milli heimsvaldaríkjanna, milli ýmissa auðvaldsríkja, milli öreiganna og borgaranna o.s.frv. Þessi afstaða á uppruna sinn í hughyggjulegri og endurskoðunarsinnaðri heimsskoðun þeirra.

Það er engin tilviljun að kínversku leiðtogarnir leggja fram til umræðu vandamálin varðandi móthverfur, bandalög og málamiðlanir. Kínverska forystan hefur nú kastað grímunni og opinberað andstöðu sína við byltinguna. Hún er orðin fánaberi hægrihentistefnu, endurskoðunarstefnu. Eins og allir endurskoðunarsinnar, reyna leiðtogar Kommúnistaflokks Kína að "réttlæta" fráhvarf sitt frá marxísku-lenínísku fræðikenningunni, endurskoðunarsinnuð markmið sín, með því að nota tilvitnanir í Marx, Engels, Lenín og Stalín. Að sjálfsögðu klippa þeir þessar tilvitnanir sundur og saman og slíta þær úr samhengi og nota þær síðan þannig svívirtar til að reyna að selja afstöðu sína og kenningar sem marxískar-lenínískar. En kínversku endurskoðunarsinnarnir eru hvorki þeir fyrstu né síðustu til að brengla, slíta sundur og mistúlka okkar sönnu fræðikenningu. Langt á undan þeim gerðu foringjar sósíaldemókratísins, títóistarnir, sovéskir, ítalskir, franskir og fleiri endurskoðunarsinnar sömu hluti. Og þeir eru enn að.

Með sjónhverfingum sínum varðandi móthverfurnar, hafa kínversku leiðtogarnir fyrst og fremst það markmið að réttlæta afstöðu sína til bandarísku heimsvaldastefnunnar, að ryðja veginn fyrir nálgun sína og samstarf við hana.

Kínversku endurskoðunarsinnarnir halda því fram, að það sé aðeins ein móthverfa í heiminum í dag og að það stilli "þriðja heiminum", "öðrum heiminum" og hálfum "fyrsta heiminum" upp gegn Sovétríkjunum. Út frá þessari kenningu

sem sameinar alþýðuna hópi heimsvaldasinna, leggja þeir til að allar stéttamóthverfur verði lagðar til hliðar og að aðeins skuli berjast gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni.

En athugum nú hvernig málin standa varðandi móthverfurnar milli alþýðunnar og risaveldanna og móthverfurnar milli risaveldanna innbyrðis.

Þegar skilgreina á rökrétta byltingarsinnaða stjórnlist og baráttuaðferð við núverandi aðstæður, er það sem mestu máli skiptir afstaðan til risaveldanna tveggja, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna, sem mynda sterkasta aflið í vörn auðvaldskerfisins, kerfis kúgunar og arðráns, höfuðvígi afturhaldsins í heiminum. Þau eru svarnir óvinir, hættulegustu óvinir byltingarinnar, sósíalismans og alþýðu alls heimsins. Þau hafa sjálf tekið sér það viðbjóðslega hlutverk að vera alþjóðleg lögregla gegn öllum byltingar- og frelsishreyfingum og eru auk þess árásargjörnustu vígbúnaðaröflin, sem með aðgerðum sínum eru að hrinda veröldinni út í tortímingarstyrjöld.

Enginn, og síst af öllum Flokkur Vinnunnar í Albaníu, getur afneitað tilveru djúpra móthverfa milli tveggja mestu heimsvaldaafla okkar tíma - bandarísku heimsvaldastefnunnar og sovésku sósíalheimsvaldastefnunnar. Við höfum hvað eftir annað bent á, að móthverfurnar milli risaveldanna tveggja eru ekki bara til staðar, heldur eru að dýpka. Samhliða því vinna risaveldin að því að ná samkomulagi um viss mál. Lenín útskýrir þessar tvær tilhneigingar auðvaldsins. Hann sagði:

> "...tilhneigingarnar eru tvær - önnur, sem gerir bandalag allra heimsvaldasinna óhjákvæmilegt og hin, sem etur sumum heimsvaldasinnum gegn öðrum...".

---

V.I.Lenín, ritsafn, 27.bindi, bls.418 (alb. útg.)

En af hverju eru ósættanlegar móthverfur og ágreiningur milli risaveldanna tveggja? Vegna þess, að þar sem bæði eru voldug heimsvaldaöfl, þá berst hvort um sig fyrir heimsyfirráðum, fyrir sköpun nýrra áhrifasvæða, fyrir þrælkun og arðráni á alþýðunni. Græðgi þeirra, hvors um sig, er uppspretta árekstra og alvarlegra átaka þeirra á milli. Þessi átök geta leitt til styrjaldar milli þeirra og jafnvel blóðugrar heimsstyrjaldar.

Við marxistar-lenínistar verðum að nota móthverfurnar milli risaveldanna í þágu byltingarinnar og frelsisbaráttu alþýðunnar.

Að notfæra sér móthverfur í herbúðum andstæðingsins er þáttur í byltingarsinnaðri stjórnlist og baráttuaðferð. Að notfæra sér móthverfur og ágreining í herbúðum andstæðinga verkalýðsstéttarinnar, innanlands eða meðal heimsvaldaríkjanna á alþjóðavettvangi, því lýsti Stalín sem óbeinu hjálpartæki öreigabyltingarinnar. Það er velþekkt söguleg staðreynd, að sósíalísku Ráðstjórnarríkin undir forystu Leníns og Stalíns tóku tillit til og notfærðu sér innbyrðis móthverfur milli heimsvaldaríkja á tímabilinu eftir Októberbyltinguna og á árum seinni heimsstyrjaldarinnar.

Mat byltingaraflanna, sósíalísku ríkjanna, og notkun á móthverfunum meðal andstæðinganna er í sérhverju tilfelli ávöxtur af réttri marxískri-lenínískri greiningu á þessum móthverfum og dýpt þeirra, á valdahlutföllum á hverju tímabili eða andartaki, með það fyrir augum að skilgreina á hvern hátt, með hvaða aðferðum og eftir hvaða leiðum þær verði nýttar. Grundvallarreglan er að þessar móthverfur beri alltaf að nota í þágu byltingarinnar, alþýðunnar og frelsis hennar, í þágu sósíalísks málstaðar. Notkun á móthverfum meðal andstæðinganna ætti alltaf að leiða til vaxtar og

styrkingar byltingar- og frelsishreyfingarinnar, en ekki þess að hún veikist og lognist út af. Hún ætti að leiða af sér sífellt öflugri virkjun á byltingaröflunum í baráttunni við andstæðingana, sérstaklega höfuðandstæðingana, án þess að skapa blekkingar um þá meðal alþýðunnar.

Risaveldin tvö, Bandaríkin og Sovétríkin endurskoðunarsinnuðu, hafa það efst á stefnuskrá sinni að halda í skefjum byltingunni og sósíalismanum. Það er ekki nóg með það, að kínversku leiðtogarnir bendi ekki á þessa staðreynd, sem túlkar hina ósættanlegu móthverfu milli sósíalisma og kapítalisma, heldur neita þeir henni í starfi. Auðvitað er það algjörlega ófyrirgefanlegt marxistum-lenínistum að gleyma því, að þrátt fyrir baráttuna milli risaveldanna um yfirráð, þrátt fyrir móthverfurnar milli þeirra, þá missa þau aldrei sjónar á því sameiginlega markmiði sínu að kúga alþýðuna, sem krefst frelsis, að vinna skemmdarverk gegn byltingunni og þetta leiðir af sér almennar eða staðbundnar styrjaldir. Varðandi þetta atriði halda kínversku endurskoðunarsinnarnir fast við fyrri afstöðu sína , en hún felst sem kunnugt er í einhliða baráttu gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni, sem þeir segja hættulegri, árásargjarnari og herskárri. Þeir setja bandarísku heimsvaldastefnuna í annað sæti og segja að Bandaríkin "sækist eftir status quo, að þau séu á undanhaldi." Út frá þessu álykta kínversku endurskoðunarsinnarnir, að bandalag við bandarísku heimsvaldastefnuna gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni sé mögulegt og æskilegt.

Bandaríska heimsvaldastefnan hefur alls ekki verið veikt eða hamin eins og kínversku leiðtogarnir halda fram. Þvert á móti er hún árásargjörn, villimannleg og öflug eins og sovéska sósíalheimsvaldastefnan. Sú staðreynd, að bandaríska heimsvaldastefnan er ekki lengur í þeirri drottnunaraðstöðu, sem hún hafði áður fyrr,

breytir engu. Þetta er eðli auðvaldsþróunarinnar og rennir stoðum undir þá kenningu Leníns, að heimsvaldastefnan sé auðvald á undanhaldi, rotnandi auðvald. En það er alveg ófært að ganga svo langt að vanmeta árásargjarnan her- og efnahagsstyrk annars risaveldisins eða hins. Það er líka ófært að segja, á grundvelli raunverulegrar hnignunar og veikingar á völdum heimsvaldasinnanna, að annað heimsveldið sé hættuminna og hitt hættulegra. Bæði heimsvaldasinnuðu risaveldin eru hættuleg, vegna þess að hvorugt gleymir nokkurn tíma baráttunni gegn þeim, sem vilja taka þeim gröfina, þ.e.a.s. alþýðunni.

Að hvetja aðeins til baráttu gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni og að hætta í raun baráttunni gegn bandarísku heimsvaldastefnunni, eins og kínversku leiðtogarnir gera, það er að bregðast því að halda á lofti grundvallarkenningum marxismans-lenínismans. Á því leikur enginn vafi, að gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni verður að berjast þar til yfir lýkur. En að berjast ekki af sömu hörku gegn bandarísku heimsvaldastefnunni, það er ófært, það eru svik við byltinguna. Sé kínversku stefnunni fylgt, þá verður það ekki ljóst, hvaða bandaríska heimsvaldastefnan er, hversvegna þessi tvö risaveldi eiga í andstöðu, hver sé kjarni þeirrar andstöðu, hver sé grundvöllur baráttunnar milli þeirra, sem við verðum að dýpka, og hvað við verðum að gera til að koma í veg fyrir að þessi tvö heimsvaldaríki komi af stað heimsstyrjöld o.s.frv.

Ef við skiljum þessi atriði rétt fræðilega og ef við högum aðgerðum okkar rétt á grundvelli marxísku-lenínísku fræðikenningarinnar, þá verður okkur augljós nauðsyn þess að styrkja og styðja alþýðuna í baráttu hennar gegn risaveldunum tveim og borgaralegu auðvaldsklíkunum, sem stjórna þeim. Auðvaldsheimurinn á nú í alvarlegri kreppu. En þessa kreppu verður að meta í

öllu sínu veldi og einnig þær móthverfur, sem fyrirfinnast í auðvaldsheiminum.

Hin tækifærissinnaða og and-marxíska rökleiðsla kínversku endurskoðunarsinnanna fær þá til að lýsa Sovétríkjunum sem landi, er þróist án móthverfa, sem heimsveldi, er stjórni vandræðalaust hinum endurskoðunasinnuðu löndum eins og Póllandi, Austur-Þýskalandi, Ungverjalandi, Tékkóslóvakíu, Rúmeníu og Búlgaríu. Þeir lýsa Sovét-blokkinni sem blokk á uppleið og Sovétríkjunum sem eina heimsveldinu í veröldinni, heimsveldi, sem sé staðráðið í að koma á fót yfirráðum sínum hvarvetna.

Ef við tölum um drottnun Sovétríkjanna yfir endurskoðunarsinna-löndunum í Austur-Evrópu, þá lýsir hún sér fyrst og fremst í hernámi sovéska hersins á þessum löndum, í hlífðarlausu arðráni sovésku sósíalheimsvaldastefnunnar á auðæfum þessara landa, sem sovéska sósíalheimsvaldastefnan er að reyna að innlima algerlega í kerfi Sovétlýðveldanna. Auðvitað mæta hin endurskoðunarsinnuðu Sovétríki andstöðu í þessum tilraunum sínum. Sá tími mun koma, að þessi andstaða og þessar móthverfur sem leynast í endurskoðunarsinnablokkinni, verða alvarlegri og brjótast út.

Við höfum lýst sovésku sósíalheimsvaldastefnunni sem árásargjarnri vegna þess að hún réðst á og hernam Tékkóslóvakíu, vegna þess, að hún hefur stundað íhlutun í Afríku og víðar og hefur á prjónunum fleiri árásir. En er hægt að segja að bandaríska heimsvaldastefnan hafi framið færri árásir eða sé síður árásargjörn en sovéska sósíalheimsvaldastefnan?

Kínverska forystan hefur gleymt árásum Bandaríkjanna á Kóreu, hún hefur gleymt hinu langdregna og villimannlega stríði gegn Víetnam, Kambódíu og Laos, hún hefur gleymt hernaði þeirra í Mið-Austurlöndum, íhlutunum þeirra í lýðveldum Mið-Ameríku o.s.frv. Hún hefur slegið

striki yfir allt þetta og kemst nú að þeirri niðurstöðu að búið sé að hemja bandarísku heimsvaldastefnuna! Hún gleymir því, að bandaríska heimsvaldastefnan hefur teygt klær sínar um víða veröld, að hún hefur sett upp herstöðvar út um allt og er að þróa þær og efla. Mao Tse-tung og Chou En-lai gleymdu þessu og kínverska endurskoðunarsinna-forystan gleymir þessu, þegar hún segir okkur að bandaríska heimsvaldastefnan hafi verið veikt og tamin og því megi gera bandalag við hana!

Að haga sér þannig er að reyna að uppræta baráttuna gegn heimsvaldastefnunni almennt séð, sérstaklega baráttuna gegn bandarísku heimsvaldastefnunni, en raunar einnig baráttuna gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni, sem Kína þykist berjast gegn af svo mikilli hörku.

Rétt er það að sovésku sósíalheimsvaldastefnuna þyrstir í útþenslu. Íhlutun hennar í Angóla og Eþíópíu, tilraunir hennar til að koma á fót herstöðvum við Miðjarðarhafið og ýmsum arabalöndum, til að koma höndum yfir sund Rauða Hafsins eða koma upp herstöðvum á Indlandshafi, allt eru þetta naktar heimsvaldaaðgerðir. En þessi aðstaða sovésku sósíalheimsvaldastefnunnar er ekki eins traust og efnahagsleg og hernaðarleg nýlendu-aðstaða bandarísku heimsvaldastefnunnar í öðrum löndum. Það er einmitt þetta ástand, sem kínverska forystan virðist vanmeta, en í raun viðurkennir hún það og styður.

Á sama tíma komast kínversku endurskoðunarsinnarnir ekki hjá því að sjá að þrátt fyrir móthverfurnar milli auðvaldsríkja Vestur-Evrópu og bandarísku heimsvaldastefnunnar eru þessir aðilar nátengdir hvor öðrum með pólitískum, hernaðarlegum og efnahagslegum bandalögum á borð við NATO, Efnahagsbandalag Evrópu o.s.frv. Kínverska forystan getur ekki litið fram hjá því að bandarískt auðmagn hefur troðið sér djúpt inn í efnahag landa Vestur-Evrópu og ekki aðeins þar

heldur einnig í Austur-Evrópu og Sovétríkjunum. Kínverska forystan veit fullvel, að Bandaríkin hafa fjárfest milljarða dollara og munu halda því áfram í ýmsum löndum heims. Hvað er það þá, sem hún væntir? Væntir hún þess, að vestrænu auðvaldslöndin muni, vegna móthverfa sinna við Bandaríkin, segja skilið við þau með það fyrir augum að veikja eigin herbúðir, að gefa upp á bátinn þann hernaðarlega styrk, þau efnahagslegu, félagslegu og menningarlegu tengsl sem þau hafa við Bandaríkin, og standa berskjölduð frammi fyrir sovésku sósíalheimsvaldastefnunni, í þágu Kína? Þetta er fáránleiki í kínversku utanríkisstefnunni.

Eins og við höfum þegar bent á, er ekki vafi á því að móthverfurnar milli stórveldanna tveggja og annarra heimsvalda- og auðvalds-endurskoðunarsinnalanda ber að nýta í þágu byltingar- og frelsis-afla og hópa, milli auðvalds-endurskoðunarsinnaríkjanna o.s.frv. getur aldrei verið sjálfstætt markmið fyrir verkalýðsstéttina og marxísku-lenínísku byltingarsinnana.

Að nýta móthverfurnar milli heimsvaldalandanna og risaveldanna tveggja þýðir að dýpka gjárnar á milli þeirra, að hvetja byltingar- og föðurlandssinnuð öfl þessara landa til andstöðu við bandarísku heimsvaldastefnuna og sovésku sósíalheimsvaldastefnuna, sem vilja undiroka þau efnahagslega, pólitískt og hernaðarlega, að arðræna þau og svipta þau þjóðlegum einkennum sínum o.s.frv.

En hvað gerir Kína?

Kínverska stefnan ráðleggur "heilagt bandalag" vestrænu auðvaldslandanna við Bandaríkin. Hún ráðleggur bandalag öreiganna í löndum Vestur-Evrópu við hina afturhaldssömu borgarastétt þessara landa. Hvar er hin byltingarsinnaða marxíska-lenínísk lína hér? Hvar er línan um að notfæra sér móthverfurnar? Halda kínversku leiðtogarnir að þeir geti eflt þessa blokk gegn

rússunum í samræmi við eigin óskir, með slíkri stefnu? Þetta er sú útópía, sem þá dreymir um, en þetta er frumspekileg afstaða af þeirra hálfu.

Bandaríkin, vestrænu auðvaldsríkin og með þeim Japan og Kanada, eru ekki eins vitlaus og kínversku leiðtogarnir halda, stefna þeirra er ekki eins barnaleg og kínverska stefnan. Fyrir sína parta vita þau ósköp vel hvernig hægt er að nota móthverfurnar milli Kína og Sovétríkjanna. Þau vita hvað skal gera og miða aðgerðir sínar við að veikja hið öfluga árásarveldi, Sovétríkin. Þau hafa um langt skeið keppt að þessum markmiðum og það er ekki hægt að segja að þeim hafi ekkert orðið ágengt. Bandaríkin og öll hin auðvaldsríkin örva móthverfurnar milli endurskoðunarsinnalandanna í austri og Kremlar.

Nú er Kína einnig farið að stunda þessa gömlu bandarísku stefnu. Heimsókn Hua Kuo-fengs til Rúmeníu og Júgóslavíu var í samræmi við hana. En hinn útbreiddi faðmur Kína gagnvart Evrópu, örvun þess á móthverfunum og sérstaklega tilraunir þess til að skapa sér hagstæðan starfsgrundvöll á Balkanskaganum, ekkert af þessu er gert í þágu alþýðunnar og byltingarinnar. Þetta er hluti af þeirri stefnu Kína að etja til ófriðar með það fyrir augum að alþýða Evrópu verði fallbyssufóður í heimsvaldastyrjöld.

"Pravda" hefur löngum deilt á Bandaríkin, auðvitað án árangurs, og sakað þau um hraðan vígbúnað. Markmið hennar er ekki að gagnrýna aðgerðir Bandaríkjanna, þar sem sovésku sósíalheimsvaldasinnarnir eru að gera það sama. Vandamálið er að efling hernaðarmáttar Bandaríkjanna veikir hlutfallslega hernaðarstyrk Sovétríkjanna og þvingar þau til að fylgja Bandaríkjunum skref fyrir skref, til að jafna metin hvað snertir hernaðarmátt og árásargetu. En eltingarleikurinn við bandarísku heimsvaldastefnuna í vígbúnaðarkapphlaupinu veikir efnahag Sovétríkjanna vegna þess að hann hefur í för með sér að geysi-

legt magn efnislegra gæða, fjármagns og mannafli eru flutt úr efnahagskerfinu til hersins. Þetta er það sem veldur Brésnef og félögum áhyggjum.

En það undarlega er, að í gegnum fréttablað sitt "Renmin Ribao" taka kínversku endurskoðunarsinnarnir skilyrðislausa afstöðu með Bandaríkjunum og birta grein eftir grein þar sem þeir hvetja Bandaríkin til að missa ekki forskot sitt í vígbúnaðarkapphlaupinu, heldur auka stöðugt hernaðarmátt sinn. Samkvæmt "Renmin Ribao" lítur því út fyrir að það séu ekki Bandaríkin sem vígbúist heldur aðeins Sovétríkin. Slíkan talsmann Bandaríkjanna, sem endurskoðunarsinnaða kínverska forystan er að verða, er ekki að finna í nokkru öðru landi. Borgarastéttin reynir að minnsta kosti að viðhalda einhverjum hlutföllum í gagnrýni sinni og túlkun á raunveruleikanum, að vega og meta þær aðstæður sem skapast, þótt auðvitað sé það á fölskum forsendum.

Þegar þeir hittust Teng Hsiao-ping og Vance, utanríkisráðherra Bandaríkjanna, útskýrði Vance það fyrir Teng að "Bandaríkin hefðu hernaðarlega yfirburði yfir Sovétríkin." En Teng Hsiao Ping sagði stórum hópi bandarískra blaðamanna, sem voru í heimsókn í Kína um þær mundir, að "Peking tryði ekki" yfirlýsingu Vance og að "Sovétríkin væru langtum fremri Bandaríkjunum." "Enginn er eins heyrnarlaus og sá sem ekki vill heyra," eins og sagt er.

Það er ekki hægt að fallast á þá kenningu kínverjanna, - marxíska að sögn - sem varpar fram efasemdum um þá staðreynd, að það er ekki annað heldur bæði heimsvalda-risaveldin, sem sækjast eftir enduruppskiptingu heimsins, eftir því að skapa nýjar nýlendur, að kúga alþýðuna og þenja út markaði sína.

Bara það að kasta fram þeirri spurningu hvort eitt heimsveldi sé öflugra og hitt veikara, að annað sé árásargjarnt en hitt hafi verið hamið, er ekki marxískt-lenínískt. Að bera spurninguna

fram á þennan hátt endurspeglar afturhaldssama afstöðu, sem leiðir kínversku endurskoðunarsinnana inn í bandalög með Bandaríkjunum, NATO og Efnahagsbandalagi Evrópu, með Spánarkonungi, keisaranum í Íran, Pinochet í Chile og öllum fasísku einræðisherrunum. Kínverska stefnan, sem er meinlaus fyrir bandarísku heimsvaldastefnuna, meinlaus fyrir veldi bankanna og voldugasta auðvalds okkar tíma, er algjörlega borgaraleg endurbótasinnuð sáttastefna og ákaflega heimskuleg.

Kínversku leiðtogarnir komast ekki hjá því að sjá að bandaríska fjármálaauðvaldið, hringarnir og einokunarfyrirtækin, draga ekki á nokkurn hátt úr fjárfestingum sínum erlendis, að þau hafa ekki gefið upp á bátinn þær ætlanir sínar að arðræna og kúga, heldur þvert á móti - þau eru að eflast og reyna að breyta valdahlutföllunum í heiminum sér í hag.

Sovésku sósíalheimsvaldasinnarnir gera slíkt hið sama. Markmið efnahagsstefnu þeirra, hinna stóru hringa, sem er að finna í Sovétríkjunum, er að mergsjúga fylgiríki sín og fleiri lönd með öllum tiltækum ráðum. Þeir hafa klæðst nýjum búningi og koma fram undir öðru nafni, um leið og þeir reyna einnig að breyta valdahlutföllunum sér í hag. Í fyrstu með samkomulagi og samningum, en einnig með valdi þegar því er að skipta, þ.e. með stríði.

Með röksemdafærslu sinni um að Bandaríkin "vilji status quo", að þau séu "á fallanda fæti" og að sovéska sósíalheimsvaldastefnan sé "hættulegri, árásargjarnari, herskárri," o.s.frv. reyna kínversku endurskoðunarsinnarnir að sýna fram á að Bandaríkin geti og eigi að gerast bandamenn Kína gegn Sovétríkjunum. Hin ýmsu tengsl, sem þeir eru að efla, og hinn opinskái stuðningur þeirra við aukin framlög til hernaðar og aukinn vígbúnað í Bandaríkjunum staðfesta þetta.

Kínversku endurskoðunarsinnarnir predika, að aðstæður séu nú slíkar, að marxístar-lenínistarn-

ir, byltingarsinnarnir og alþýðan geti gert tilslakanir gagnvart bandarísku heimsvaldastefnunni og treyst á hana. Flokkur okkar er mótfallinn hvers kyns málamiðlunum við hina villimannlegu bandarísku heimsvaldastefnu, því slíkt þjónar ekki hagsmunum byltingarinnar og frelsunar alþýðunnar. Við höfum háð, heyjum og munum heyja baráttu gegn bandarísku heimsvaldastefnunni þar til henni hefur algerlega verið komið fyrir kattarnef. Á sama hátt munum við berjast gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni þar til yfir lýkur.

Stuðningur Kína við bandarísku heimsvaldastefnuna er ekki á nokkurn hátt í þágu byltingarinnar og alþýðunnar heldur gagnbyltingarinnar. Með sinni afturhaldssömu pólitísku og hugmyndafræðilegu línu skilur kínverska forystan alþýðu heimsins eftir í klóm bandarísku heimsvaldastefnunnar. Kínverska forystan vill að alþýðan sé hlýðin, geri ekki uppreisn og jafnvel að hún sameinist bandarísku heimsvaldastefnunni gegn hinu risaveldinu, sem reynir að hrifsa frá Bandaríkjunum þau auðæfi, sem þau hafa rakað saman af svita og striti alþýðunnar. Kínverska forystan ráðleggur auðvaldslöndunum í Evrópu, sem eru í Efnahagsbandalagi Evrópu, að sameinast. Hún stillir alþýðunni einnig upp í auðvaldsbandalag Evrópu. Þessi afstaða þýðir: þegið þið, hættið að tala um byltinguna, hættið að tala um alræði öreiganna, en gangið í þjónustu hringanna, kapítalistanna og skapið með þeim enn sterkara efnahagslegt og hernaðarlegt afl til að fást við sovésku sósíalheimsvaldastefnuna.

Efnahagsbandalag Evrópu, sem Kína styður og styrkir efnahagslega, er ekki annað en tæki til að viðhalda hámarksgróða einokunarhringjanna í Vestur-Evrópu og sameina þróuðu iðnríkin, í hverjum efnastéttirnar, eins og Lenín segir, heimta geysilega skatta af Afríku, Asíu o.s.frv. Með því að styðja þessi auðvaldsríki eru kínversku leiðtogarnir í raun að styðja afætulíf

örfárra kapítalista á kostnað alþýðunnar í þessum löndum sem og þeirrar alþýðu er fallið hefur í hendur þeim.

Kenning kínversku endurskoðunarsinnanna um "heimana þrjá", sem þeir nota til að reyna að réttlæta gagnbyltingarsinnaða afstöðu sína, er ekki annað en hentistefnutilbrigði í röðum verkalýðshreyfingarinnar, sem auðveldar heimsvaldastefnunni að skapa markaði og hirða gróða á kostnað annarrar alþýðu til að hentistefnumennirnir geti einnig fengið nokkra mola af borðum kapítalistanna.

Það er ómótmælanleg staðreynd, að kínverska forystan ver auðvaldsöfl og -ríki í Evrópu og styður ekki byltingaröflin og öreigana til að rísa gegn og eyðileggja áætlanir bandarísku heimsvaldastefnunnar, sovésku sósíalheimsvaldastefnunnar, "Sameinaðrar Evrópu", Efnahagsbandalags Evrópu, Comecons, í stuttu máli: allar undirstöður heimsvaldakerfisins, sem líkt ógurlegu skrímsli mergsýgur alþýðuna.

Þótt kínverska endurskoðunarsinnaforystan telji þróuðu auðvaldsríkin, svo sem Vestur-Þýskaland, Bretland, Japan, Frakkland, Italíu o.s.frv. til "annars heimsins" og þrátt fyrir allt fræðilegt tal hennar um "tvöfalt" eðli þeirra, þá lítur hún ekki á þessi ríki sem óvini byltingarinnar. Þvert á móti hefur kínverjunum þótt henta að loka augunum fyrir þessu og gera opinskáar málamiðlanir við þau, að sögn til að nota gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni.

Kínverska forystan, sem er blinduð orðin af tækifærissinnaðri og andmarxískri stefnu sinni, "gleymir" að ríki á borð við Vestur-Þýskaland, Bretland, Japan, Frakkland, Italíu og fleiri þeim lík, hafa verið og eru heimsvaldaríki, að þrælkunar- og nýlendu-tilhneigingarnar, sem verið hafa hefðbundin einkenni á þeim, hafa ekki verið afmáð og ekki er hægt að afmá þau. Rétt er það, að eftir seinni heimsstyrjöldina hafa

þessi heimsvaldaöfl misst mátt, jafnvel stórlega, og fyrri stöðu þeirra hrakað til hagsbóta fyrir bandarísku heimsvaldastefnuna. Þrátt fyrir það hafa hvorki Bretland, Frakkland né nokkurt annað þessara ríkja hætt baráttunni til verndar mörkuðum sínum eða til að komast yfir nýja markaði í Afríku, Asíu og löndum Rómönsku Ameríku.

Meðal allra þessara auðvalds- og heimsvaldaríkja, sem ekki eru eins öflug og bandaríska heimsvaldastefnan, eru móthverfur, en um leið er einnig fyrir hendi tilhneigingin til að komast að samkomulagi innbyrðis.

Eftir seinni heimsstyrjöldina hjálpaði bandaríska heimsvaldastefnan fyrrum bandamönnum sínum í Evrópu við að koma undir sig fótunum á ný og bandarísku einokunarfyrirtækin bundust einokunarfyrirtækjum þessara fyrrum bandamanna í vef sameiginlegra hagsmuna. En móthverfur hafa alltaf verið uppi milli þeirra, þar sem hvert um sig vill hafa frjálsar hendur við að einoka markaði, flytja inn hráefni og flytja út iðnaðarvörur sínar. Einnig á þessu sviði staðfestir hinn alþjóðlegi raunveruleiki réttmæti kenningar Leníns um hinar tvær hlutlægu tilhneigingar auðvaldsins.

Það er einnig rétt, að þessi ríki eiga í móthverfum ekki aðeins við bandarísku heimsvaldastefnuna heldur líka sovésku sósíalheimsvaldastefnuna. Þá kemur upp spurningin: *hvernig á að notfæra sér þessar móthverfur?* Innbyrðis móthverfurnar milli heimsvaldasinnanna er alls ekki hægt að nota á þann hátt, sem kínversku endurskoðunarsinnarnir leggja til. Við marxistar-lenínistar getum ekki varið hina ýmsu afturhaldsseggi – klíkuna umhverfis Strauss eða Schmidt í Þýskalandi, leiðtoga Íhaldsflokksins eða Verkamannaflokksins í Bretlandi – einfaldlega vegna þess að þeir eigi í útistöðum við sovésku sósíalheimsvaldastefnuna. Ef við gerðum það og styddum predikanir kínverjanna þess efnis að "auðvaldsríki Evrópu ættu að sameinast í Efnahagsbandalag-

inu," styrkja bæri "Sameinaða Evrópu" til að hún gæti staðist sovésku sósíalheimsvaldastefnunni snúning, þá myndi það þýða að við samþykktum að fórna baráttu og tilraunum öreiga þessara landa til að brjóta þrælkunarhlekkina, að setja fótinn fyrir framtíð byltingarinnar í þessum löndum.

Með því að gera staðfestulausar málamiðlanir við bandarísku heimsvaldastefnuna hafa kínversku endurskoðunarsinnarnir svikið marxismann-lenínismann og byltinguna. Marxistar-lenínistar túlka kenningar Marx, Engels, Leníns og Stalíns um móthverfur og málamiðlanir í samræmi við raunverulegt innihald þeirra. Kínverjarnir túlka þessar kenningar í algjörri mótsögn við sannleikann.

Flokkur okkar, sem fylgir stefnu Leníns, er ekki á móti hvers kyns málamiðlunum, en hann er á móti sviksamlegum málamiðlunum. Málamiðlanir er hægt að gera þegar það er nauðsynlegt og þjónar hagsmunum stéttarinnar og byltingarinnar, en alltaf verður að hafa í huga að þær má ekki gera á kostnað stjórnlistar og trúmennsku við grundvallarreglur marxismans-lenínismans, að þær mega ekki skaða hagsmuni stéttarinnar og byltingarinnar.

Varðandi afstöðuna til málamiðlana segir Lenín meðal annars:

> "Leyfist baráttumönnum öreigabyltingarinnar að gera málamiðlanir við kapítalistana eða stétt þeirra?...að svara þessari spurningu neitandi almennt séð væri augljóslega út í hött. Auðvitað geta baráttumenn öreigabyltingarinnar gert málamiðlanir eða samninga við kapítalistana. Öllu máli skiptir hvers kyns samninga um er að ræða og við hvaða aðstæður þeir eru gerðir. Það er í þessu tilliti og aðeins þessu sem hægt er og verður að gera greinarmun á samningum sem eru leyfilegir frá sjónarhóli öreiga-

byltingarinnar og þeirra sem eru sviksamlegir og ótrúir (frá sama sjónarhóli.)."+

Og Lenín heldur áfram:
"Niðurstaðan er ljós: að afskrifa algerlega alla samninga og málamiðlanir við ræningjana er alveg eins fáránlegt og að réttlæta þátttöku í ráninu með þeirri afstæðu kenningu, að almennt talað sé stundum leyfilegt og nauðsynlegt að gera samninga við þjófa." ++

Lenín sagði einnig:
"Hlutverk raunverulegs byltingarflokks er ekki að lýsa því yfir, að það sé ómögulegt að gera hvers kyns málamiðlanir, heldur að vita hvernig eigi, þrátt fyrir þessar málamiðlanir, þar sem þær eru óhjákvæmilegar, að viðhalda trúmennsku sinni gagnvart eigin grundvallarreglum, eigin stétt, eigin byltingarhlutverki, gagnvart því hlutverki að undirbúa byltinguna og menntun alþýðufjöldans til að ná sigri í byltingunni." +++

Það er aðeins út frá þessum kenningum Lenins, sem málamiðlanir eru leyfilegar. En hvernig getur málamiðlun við bandarísku heimsvaldastefnuna eða sovésku sósíalheimsvaldastefnuna verið í þágu sósíalismans og heimsbyltingarinnar þegar vitað er að þessi tvö stórveldi eru verstu fjandmenn alþýðunnar og byltingarinnar? Slík málamiðlun er ekki aðeins ónauðsynleg heldur þvert á móti er hún hættuleg hagsmunum bylting-

---

\+ V.I.Lenín, ritsafn, bindi 30, bls.562-563 (alb.útg.)

++ V.I.Lenín: ritsafn, bindi 30, bls. 565 (alb. útg.)

+++ V.I. Lenín: ritsafn, bindi 25, bls. 359-360 (alb.útg.)

arinnar. Að slaka til eða brjóta grundvallarreglur í svo mikilvægum málum er að svíkja marxismann-lenínismann.

Ef Mao Tsetung og hinir kínversku leiðtogarnir hafa haft og hafa enn margt að segja um móthverfur "fræðilega", þá ættu þeir ekki aðeins að tala um að notfæra sér innbyrðis móthverfur meðal heimsvaldasinnanna og málamiðlanir við þá, heldur ættu þeir í fyrsta lagi að tala um grundvallarmóthverfu okkar tímabils, móthverfuna milli öreiganna og borgaranna, móthverfuna milli kúgaðrar alþýðu og landa annars vegar og risaveldanna tveggja og heimsvaldasinna alls heimsins hins vegar, móthverfurnar milli sósíalisma og kapítalisma. En kínversku leiðtogarnir eru þögulir um þessar móthverfur sem eru hlutlægur veruleiki og verða ekki útmáðar. Þeir tala aðeins um eina móthverfu, sem samkvæmt þeim er móthverfan milli alls heimsins og sovésku sósíalheimsvaldastefnunnar. Þannig reyna þeir að réttlæta staðfestulausar málamiðlanir sínar við bandarísku heimsvaldastefnuna og allt heimsauðvaldið.

Marxísk-lenínísk stéttagreining og staðreyndir sýna að tilvera móthverfa og klofnings meðal heimsvaldaaflanna- og hópa yfirskyggir ekki á nokkurn hátt né setur skör lægra að mikilvægi, móthverfunar milli launavinnu og auðmagns í auðvalds- og heimsvaldalöndunum né móthverfurnar milli kúgaðrar alþýðu og heimsvaldakúgara hennar. Nákvæmlega þessar móthverfur, milli sósíalisma og kapítalisma, eru djúptækustu móthverfurnar; þær eru stöðugar og ósættanlegar. Af þessu leiðir, að rétt er að notfæra sér móthverfur milli heimsvaldasinna innbyrðis eða móthverfur milli auðvalds- og endurskoðunarsinnaríkja, aðeins ef það hjálpar til að skapa sem hagstæðastar aðstæður fyrir öfluga þróun byltingar- og frelsishreyfingarinnar gegn borgarastéttinni, heimsvaldastefnunni og afturhaldinu. Þess vegna verður að nota þessar mót-

hverfur án þess að skapa tálsýnir meðal öreiganna og alþýðunnar um heimsvaldastefnuna og borgarastéttina. Það er nauðsynlegt að gera verkafólki og alþýðu ljósar kenningar Leníns, að gera þeim ljóst, að aðeins ósættanleg afstaða gagnvart kúgurunum og arðræningjunum, aðeins ákveðin barátta þeirra gegn heimsvaldastefnu og borgarastéttinni, muni tryggja þeim raunverulegan sósíalisma og þjóðfrelsi.

Að nota móthverfur meðal óvinanna getur ekki verið grundvallarhlutverk byltingarinnar og í andstöðu við baráttuna fyrir því að kollvarpa borgarastéttinni, afturhaldssömu og fasísku einræði og heimsvaldakúgurunum.

Afstaða marxista-lenínista í þessu máli er ljós. Þeir snúa sér til alþýðunnar, til öreiganna, hvetja fjöldann til að rísa upp og mölbrjóta yfirdrottnunar-, kúgunar-, árásar- og hernaðaráætlanir bandarísku heimsvaldasinnanna og sovésku sósíalheimsvaldasinnanna, að kollvarpa hinni afturhaldssömu borgarastétt og alræði hennar, bæði í austri og vestri.

Að því er varðar hið sósíalíska ríki okkar, þá hefur það alltaf notfært sér móthverfur í herbúðum óvinanna. Þegar flokkur okkar notfærir sér þessar móthverfur, gengur hann út frá réttu mati á eðli móthverfanna milli sósíalísks lands og heimsvalda- og borgara-endurskoðunarsinnalandanna og réttu mati á innbyrðis móthverfum meðal heimsvaldasinnanna.

Marxísminn-lenínisminn kennir okkur, að móthverfurnar milli sósíalísks ríkis og auðvalds- og endurskoðunarsinnalands, sem endurspegla móthverfur milli tveggja stétta með algjörlega andstæða hagsmuni, verkalýðsstéttarinnar og borgarastéttarinnar, eru stöðugar, grundvallarlegar og ósættanlegar. Þær ganga eins og rauður þráður gegnum allt hið sögulega breytingarskeið frá kapítalisma til sósíalisma á heimsmælikvarða. Á hinn bóginn eru móthverfurnar milli heimsvaldaaflanna túlkun á

móthverfum meðal kúgara, meðal stétta með sameiginlega grundvallarhagsmuni. Þess vegna er hættan á árásum heimsvaldastefnunnar eða hinna ýmsu hluta hennar gegn hinu sósíalíska landi stöðugt yfirvofandi, hversu alvarlegar sem móthverfurnar og árekstrarnir eru milli heimsvaldaaflanna. Klofningur meðal heimsvaldasinna, innbyrðis deilur þeirra og árekstrar geta í mesta lagi veikt eða frestað um stundarsakir hættunni á aðgerðum heimsvaldasinnanna gegn hinu sósíalíska landi. Þannig er það, að þótt það sé í hag þessu landi að notfæra sér móthverfurnar í liði óvinanna, þá er ekki hægt að uppræta hættuna.

Á þetta lagði Lenín mikla áherslu og sagði:

> "...tilvera Sovétlýðveldanna við hlið heimsvaldaríkja um lengri tíma er óhugsandi. Annar hvor hlýtur að sigra að lokum. Og áður en líður að þeim lyktum er óhjákvæmilegt að hræðilegir árekstrar verði milli Sovétlýðveldanna og borgaralegu ríkjanna."+

Þessar kenningar Leníns halda enn fullu gildi. Þær hafa vandlega verið staðfestar af röð sögulegra atburða," svo sem árásum fasista á Sovétríkin á árum seinni heimsstyrjaldarinnar, árás bandarísku heimsvaldastefnunnar á Kóreu og síðar á Víetnam, fjandsamlegum aðgerðum og ýmsum samsærum heimsvaldasinna og sósíalheimsvaldasinna gegn Albaníu o.s.frv. Þess vegna hefur flokkur okkar alltaf lagt áherslu á að allt vanmat á móthverfum milli sósíalísks ríkis og heimsvaldaafla og auðvalds-endurskoðunarsinnalanda, allt vanmat á hættunni á árásaraðgerðum hinna síðarnefndu gegn hinni sósíalísku Albaníu, hvers kyns slökun á árvekninni vegna þess að heimsvaldaöflin gætu ekki staðið að slíkum aðgerðum þar sem þau ættu

---

+ V.I. Lenín, ritsafn, bindi 29, bls. 160 (alb. útg.)

í mjög slítandi móthverfum innbyrðis - allt þetta hefði í för með sér ákaflega hættulegar afleiðingar.

Flokkur Vinnunnar í Albaníu gengur einnig út frá þeirri staðreynd að það séu aðeins byltingar-, frelsis-, og framsækin öfl sem geti verið raunverulegir og áreiðanlegir bandamenn lands okkar sem sósíalísks lands. Land okkar hefur stjórnmálasamband við ýmis lönd í auðvalds- og endurskoðunarsinnaheiminum, það nýtir móthverfurnar milli heimsvalda-, auðvalds- og endurskoðunarsinnaríkja og styður á sama tíma dyggilega byltingar- og frelsisbaráttu verkalýðsstéttarinnar, hinn vinnandi fjölda og alþýðuna í hverju landi, þar sem slík barátta er háð, og lítur á þennan stuðning sem eina af æðri skyldum sínum við alþjóðahyggjuna. Flokkur Vinnunnar í Albaníu hefur alltaf haldið þessari skoðun á lofti af staðfestu. Á 7. þingi sínu lagði hann enn einu sinni áherslu á að hann muni styðja öreigana og alþýðuna, marxísku-lenínísku flokkana, byltingarsinnana og framfarasinna, sem berjast gegn risaveldunum, auðvalds- og endurskoðunarsinnaborgarastéttinni og heimsafturhaldinu, fyrir þjóðfélagslegri og þjóðlegri frelsun.

Kommúnistaflokkur Kína hefur einnig áður fyrr vitnað í velþekktar marxískar-lenínískar grundvallarreglur varðandi móthverfurnar. Í þekktu skjali, sem gefið var út af miðstjórn Kommúnistaflokks Kína 1963 og ber nafnið "Tillaga varðandi almenna línu alþjóðahreyfingar kommúnista" segja kínverjarnir: "Hinar eða þessar nauðsynlegu málamiðlanir milli sósíalískra og heimsvaldaríkja gera það ekki nauðsynlegt að kúguð alþýða og þjóðir geri einnig málamiðlanir við heimsvaldastefnuna og hlaupatíkur hennar." Og þeir bættu við: "Enginn skyldi nokkurn tíma krefjast þess, með skírskotun til friðsamlegrar sambúðar, að kúguð alþýða og þjóðir afneiti byltingarbaráttunni." Þá talaði kínverska forystan svona,

vegna þess að það var krúséffska forystan sem vildi að alþýðan og kommúnistaflokkarnir samþykktu, að bandaríska heimsvaldastefnan og foringjar hennar væru orðin friðsamleg, og legðu lið þeirri sovésku stefnu að nálgast bandarísku heimsvaldastefnuna. Núna er það forysta Kommúnistaflokks Kína, sem predikar yfir alþýðunni, byltingarsinnunum, marxísku-lenínísku flokkunum um víða veröld, að þau eigi að ganga í bandalag við heimsvalda- og auðvaldsríkin og sameinast borgarastéttinni og öllum afturhaldsmönnum gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni. Og kínverjarnir bera þessar hugmyndir ekki fram í dulbúnum frösum heldur blátt áfram. Slíkur hringlandaháttur og 180 gráðu beygjur hafa ekkert að gera með staðfasta marxíska-lenínska stefnu. Þetta eru einkenni á þeirri tækifærisstefnu allra endurskoðunarsinna, sem setja borgaralega og heimsvaldasinnaða hagsmuni sína ofar grundvallarreglum.

Til að réttlæta staðfestulausar málamiðlanir sínar við bandarísku heimsvaldastefnuna og alþjóðlega borgarastétt mistúlka kínversku leiðtogarnir og allir talsmenn kenningarinnar um "þrjá heima" viljandi hinar sögulegu staðreyndir varðandi sovésk-þýska friðarsáttmálann 1939 og bandalag breta, sovétmanna og ameríkana í seinni heimsstyrjöldinni.

Í sovésk-þýska friðarsáttmálanum notaði Stalín á snilldarlegan hátt móthverfur meðal heimsvaldasinna. Á þeim tíma vofði yfir Sovétríkjunum árás Hitlerssinna. Þetta var á þeim tíma er Þýskaland nasismans hafði ráðist inn í Austurríki og Tékkóslóvakíu og Itölsku fasistarnir gert innrás í Albaníu, þegar MÜnchenar-samningurinn hefði verið gerður og þýska stríðsvélin var á hraðferð í austurátt. Sovétríkin gengu ekki í bandalag við Þýskaland heldur gerðu friðarsamning við það, eftir að Vesturveldin höfðu neitað að verða við beiðni Stalíns um

sameiginlegar aðgerðir þeirra og Sovétríkjanna til að halda í skefjum hinum nasi-fasísku árásarseggjum og þegar ljóst var orðið að Vesturveldin hvöttu Hitler að ráðast gegn Sovétríkjunum. Sovésk-þýski samningurinn brá fæti fyrir þessar ráðagerðir og gaf Sovétríkjunum tóm til að búast gegn árásum nasista.

Hvað varðar bandalag breta, sovétmanna og bandaríkjamanna, þá er vitað að það var myndað þegar Hitlers-Þýskaland gerði sínar villimannlegu árásir á Sovétríkin, eftir að hafa hernumið Frakkland og strítt gegn Bretlandi, þegar stríði gegn Möndulveldunum hafði tekið á sig ljósa og skýra mynd andfasísks frelsisstríðs. Það verður að hafa í huga að Stalín og Sovétríkin ráðlögðu ekki né hvöttu nokkurn tíma né nokkurs staðar til þess að öreigarnir og kommúnistaflokkarnir afskrifuðu byltinguna og sameinuðust hinni afturhaldssömu borgarastétt. Þvert á móti var það svo, að þegar Browder afneitaði stéttabaráttunni og ráðlagði stéttasamvinnu, vegna þess að hagsmunir bandalags breta, sovétmanna og bandaríkjamanna kref ðust þess, þá stimpluðu Stalín og kommúnistahreyfingin hann sem endurskoðunarsinna og liðhlaupa úr röðum byltingarinnar.

Eins og sjá má réttlætir ekkert hinar staðfestulausu málamiðlanir og bandalög kínverjanna við bandarísku heimsvaldastefnuna og hin ýmsu afturhaldsöfl. Sá sögulegi samanburður, sem kínverjarnir reyna að gera er fjarri því að halda vatni.

Í áróðri sínum reyna kínverjarnir að gefa í skyn að við albanir séum andsnúnir hvers kyns málamiðlunum og reynum ekki að nota móthverfurnar eins og við ættum. Auðvitað vita þeir, að í þessum málum tökum við marxíska-leníníska afstöðu, en þeir þráast við að reka þennan svikaáróður til að dylja frávik sitt frá hinni vísindalegu marxísku-lenínísku fræðikenningu og leið byltingarinnar. Þeir haga sér þannig til að

sverta rétta stefnu og afstöðu flokks og ríkis öreiganna. Ásakanir þeirra eru tilhæfulausar. Lítum á staðreyndir.

Flokkur okkar hefur alltaf stutt kröftuglega málstað alþýðu Arabalandanna, án undantekninga, og mun halda því áfram þar til yfir lýkur. Við styðjum baráttu Palestínuþjóðarinnar gegn Ísrael, sem er fyrir löngu orðið blint verkfæri, lögregla bandarísku heimsvaldastefnunnar í Mið-Austurlöndum. Ísrael hefur fengið það hlutverk að verja hinar auðugu olíulindir Arabalandanna fyrir stóru bandarísku einokunarfyrirtækin og að viðhalda status quo, eins og kínversku endurskoðunarsinnarnir kalla það.

Þrátt fyrir þá staðreynd, að Sadat forseti og stjórn hans væru áður í bandalagi við Sovétríkin, þá studdum við baráttu egypsku þjóðarinnar fyrir því að endurheimta landssvæði þau, sem hernumin höfðu verið af Israel. Samt sem áður afhjúpuðum við markmið Sovétríkjanna gagnvart Egyptalandi og starfsemi þeirra í Mið-Austurlöndum almennt séð. Aldrei nokkurn tíma höfum við þagað yfir nýlendumarkmiðum Sovétríkjanna gagnvart Egyptalandi. Sama ákveðna stuðning höfum við veitt egypsku þjóðinni í baráttu hennar gegn bandarísku heimsvaldastefnunni og Ísrael.

Um leið og flokkur okkar og þjóð verja hagsmuni egypsku þjóðarinnar og annarra arabaþjóða, afhjúpa þau einnig þær aðgerðir, sem bandaríska heimsvaldastefnan og Ísrael eru að fást við um þessar mundir. Við getum ekki fallist á neina stefnu, neina línu málamiðlana við hið árásargjarna Ísrael, á þeirri forsendu að slíkt sé í þágu egypsku þjóðarinnar.

Kínverska forystan afhjúpar ekki bandarísku heimsvaldastefnuna. Hún fagnar samningum Ísraels og Egyptalands og hvetur arabaþjóðirnar til að semja við og gera málamiðlanir við bandarísku heimsvaldastefnuna og Ísrael, sem eru höfuðóvinir þeirra. Slík afstaða er ekki marxísk-lenín-

ísk. Slík málamiðlun að hætti kínverjanna er ekki í þágu alþýðunnar. Sá kínverski fáránleiki er algerlega ótækur, sem heldur því fram að það að segja skilið við eitt heimsvaldaaflið til að kasta sér í fang annars sé "Í þágu þjóðfrelsis." Þessar dæmigerðu borgaralegu aðgerðir og leynimakk er ekki hægt að kalla marxískt-lenínískt athæfi, sem leiði til dýpkunar á móthverfunum milli heimsvaldasinnuðu risaveldanna tveggja.

Albanski flokkurinn og þjóðin eru andsnúin ránglörnum heimsvaldastríðum og styðja að fullu réttlát þjóðfrelsisstríð, sem eru og hljóta alltaf að vera til hagsbóta fyrir alþýðuna, í þágu byltingarinnar. Þau eru ekki á móti því að styðja jafnvel borgaraleg ríki, þegar þau sjá, að þeir sem stjórna viðkomandi ríki eru framsækið fólk sem berst í þágu frelsunar þjóðar sinnar undan heimsvaldadrottnun. En land okkar getur ekki fylkt liði með ríkjum - eða gert málamiðlanir við þau eins og kínverjarnir kalla það - sem stjórnað er af afturhaldsklíkum, sem ganga í bandalög við risaveldin til hagsbóta fyrir eigin stétt og skaða fyrir alþýðuna.

Á sama hátt er hin sósíalíska Albanía ekki á móti því að halda uppi venjulegum diplómatískum tengslum við ríki "þriðja heimsins" eða "annars heimsins." Hún er aðeins á móti slíkum tengslum við risaveldin og fasísk ríki. En þegar við þróum diplómatísk tengsl okkar þá vinnum við - alveg eins og þegar um er að ræða viðskipti, menningar- og önnur tengsl - eftir þeirri grundvallarreglu, að taka fyrst og fremst tillit til hagsmuna okkar eigin lands og byltingarinnar, sem við höfum aldrei unnið gegn og munum aldrei gera.

Við marxistar-lenínistar, sem höfum náð völdum, verðum að koma á diplómatískum tengslum við borgaraleg auðvaldsríki, því slík tengsl eru í okkar þágu og þeirra einnig. Þessir hagsmunir eru gagnkvæmir.

Marxistar-lenínistar ættu alltaf að muna eftir

grundvallarreglum. Þeir geta ekki traðkað á grundvallarreglum vegna aðstæðna, sem skapast á einu tímabili eða öðru. Við verðum að hafa í huga, að í þeim löndum sem stjórnað er af efri lögum borgarastéttarinnar, eru þau stöðugt í baráttu við alþýðuna, öreigana, fátæku bændurna og smáborgara borganna. Þess vegna verður sósíalískt ríki – bæði þegar það hefur stjórnmálatengsl við borgaraleg lönd og þegar slík tengsl eru ekki til staðar, að gera alþýðunni ljóst, að það styðji baráttu hennar, að það styðji ekki afturhaldssamar, and-alþýðlegar aðgerðir drottnara hennar.

Við marxistar-lenínistar verðum að viðurkenna og hafa í huga, ekki aðeins þær móthverfur, sem er að finna milli kúgaðra stétta og kúgara þeirra, heldur einnig móthverfur, sem rísa milli ríkja, milli stjórnvalda þessara ríkja og bandarísku heimsvaldastefnunnar, sovésku sósíalheimsvaldastefnunnar og annarra auðvaldslanda. Við verðum alltaf að hafa þá stefnu að við styðjum ekki afturhaldssama ríkisstjórn einfaldlega vegna þess að hún, vegna eigin hagsmuna og valdastéttanna, segi skilið við bandarísku heimsvaldastefnuna til að kasta sér í fang annarra heimsvaldasinna, t.d. breskra, sovéskra eða annarra. Við verðum að nota móthverfurnar milli þeirra í því skyni, að afstaða okkar efli styrk þeirrar baráttu, sem öreigar og kúgaður fjöldi viðkomandi lands heyja gegn afturhaldssamri ríkisstjórn. Ef móthverfur hafa risið milli afturhaldssamrar og kúgandi ríkisstjórnar lands í "öðrum" eða "þriðja" heiminum og stjórnar lands í "fyrsta" heiminum samkvæmt skiptingu kínverjanna, þá er ekki hægt að taka það sem gefið, að þessar móthverfur séu alltaf í þágu frelsunar alþýðunnar í þessu landi undan oki auðmagnsins, undan oki hinnar afturhaldssömu borgarastéttar, sem stjórnar þar. Í slíku tilfelli er aðallega um að ræða borgaralega stétt-

arhagsmuni, hagsmuni ríkisstjórnar, sem er fulltrúi fyrir arðránsstéttirnar, spurninguna um það, hver sé örlátari, hver verji best valdaaðstöðu þeirra og hver vilji sparka þeim burt til að koma að eigin mönnum.

Þegar um er að ræða baráttu öreiganna, þá má ekki rugla saman afstöðunni til borgarastéttarinnar og diplómatískum, viðskipta-, menningarlegum og vísindalegum tengslum milli sósíalíska landsins og ríkis með annars konar þjóðfélagskerfi. Þessi millirikjatengsl eru nauðsynleg og verður að þróa, en sósíalíska ríkið verður að gera sér ljóst markmiðin með því að koma þeim á fót. Hugmyndafræðilegt, pólitískt, siðfræðilegt og efnislegt líf sósíalíska landsins verður að vera spegill fyrir alþýðu þeirra landa, sem það hefur tengsl við, spegill, sem sýnir alþýðunni í viðkomandi landi, fyrir tilstilli þessara tengsla, yfirburði og gæði sósíalíska kerfisins. Það er auðvitað hennar mál, hvort hún fer leið sósíalismans, en það er skylda sósíalíska landsins að sýna gott fordæmi.

Um öll þessi pólitísku, fræðilegu og skipulagslegu vandamál tala kínversku leiðtogarnir óljóst. En það er ekki nóg með að þeir séu fjarri því að skýra hlutina; þeir sveipa þá þoku viljandi vegna þess, eins og Mao Tsetung segir, að við verðum að rugla hlutunum til að gera þá ljósa. Þessi kenning er ekki rétt. Þvert á móti verðum við að skýra hlutina fyrir fólki og sannfæra það um, að það eigi að framkvæma byltinguna, vegna þess, að ringulreiðin er þegar til staðar. Ef það á að rugla hlutunum, ruglum þeim þá enn meira fyrir heimsvaldastefnunni, sem er að gefa upp öndina, í stað þess að færa henni hækjur til að styðjast við. Við ættum að stytta lífdaga auðvaldsins, svo að alþýðan og öreigarnir megi öðlast frelsi og sósíalisminn og kommúnisminn færast nær.

Þetta er okkar byltingarsinnaða leið, leið marx-ismans-lenínismans. Það er engin önnur leið.

Áður fyrr töluðu kínversku leiðtogarnir um "auga fyrir auga" í baráttunni gegn bandarísku heimsvaldastefnunni, en þannig börðust þeir ekki þá og gera það alls ekki í dag. Þeir berjast ekki undir vígorðinu "auga fyrir auga", heldur eru þeir að nálgast bandarísku heimsvaldastefnuna og eru gengnir í bandalag við Bandaríkin.

Diplómatísk, viðskipta- og menningartengsl Kína við heimsvaldaríkin og önnur ríki heims eru reist á kapítalískum grunni. Markmið Kína með þessum tengslum er að styrkja efnahagslega og hernaðarlega stöðu sína með þeirri hjálp sem það ætlar að fá frá voldugu heimsvaldaríkjunum til að geta keppt við hin stórveldin tvö. Áróður Kína um útvarp og aðra miðla er hannaður til að skapa þá ímynd um víða veröld, að Kína sé ekki aðeins stórt og voldugt ríki með forna menningu, heldur einnig, að stefna Kína nú sé framsækin, raunverulega marxísk-lenínísk. Þessi starfsemi kínversku endurskoðunarsinnanna stendur samt ekki og getur ekki staðið sem fordæmi fyrir alþýðu heimsins til að fylgja í baráttu hennar fyrir að eyðileggja veldi auðvalds og heimsvaldastefnu.

## KÍNVERSKA AFSTAÐAN TIL EININGAR "ÞRIÐJA HEIMSINS" ER AFTURHALDSSÖM

Kínverska forystan sækist eftir einingu allra landa "þriðja heimsins", sem eru sundurleit, hvar sem á er litið: með tilliti til efnahagslegrar, þjóðfélagslegrar og menningarlegrar þróunar, tímans sem það tók og leiðarinnar, sem var farin til þess frelsis og sjálfstæðis, sem þau hafa í dag o.s.frv.

En hvernig ímyndar Kína sér þessa einingu, sem það predikar? Kínverska forystan skilur

þessa einingu ekki svo, að henni skuli náð eftir leiðum marxismans-lenínismans í þágu byltingarinnar og frelsunar alþýðunnar. Hún sér hana frá borgaralegum sjónarhóli, það er að segja einingu með samningum og sáttmálum, sem samþykktir eru og rift er af stjórnendum þessara landa, sem eru háð einu heimsvaldalandinu í dag, en kunna á morgun að segja upp gerðum samningum til að bindast öðru.

Kínverska endurskoðunarsinnaforystan gleymir, að einingu þessara þjóðríkja er aðeins hægt að tryggja með baráttu öreiganna og hins vinnandi fjölda í hverju landi fyrir sig, í fyrsta lagi gegn utanaðkomandi heimsvaldastefnu, sem hefur þröngvað sér inn í landið, en einnig gegn auðvaldi og afturhaldi innanlands. Aðeins á þessum grundvelli er hægt að ná fram einingu þessara landa. Aðeins á þessum grundvelli er hægt að koma á fót sameinaðri fylkingu gegn erlendri heimsvaldastefnu sem og gegn konungum, afturhaldssamri innlendri borgarastétt, lénsherrum og einræðisherrum.

I kapítalismanum er aðeins um að ræða einingu ofan frá, til að verja sigra borgarastéttarinnar og vernda hana fyrir byltingunni. Raunveruleg eining, eining alþýðunnar, næst þar á móti aðallega neðanfrá, með öreigana í broddi fylkingar.

Auðvitað er ekki hægt að kasta frá sér þeim baráttuaðferðum, sem öreigastétt í landi í hinum svokallaða þriðja heimi, eða öreigastétt allra þessara landa, getur notað til að sameinast öðrum pólitískum öflum gegn heimsvaldastefnunni. Ekki má heldur vanrækja einingu byltingaraflanna við jafnvel borgaralega forystu lands á einhverju því andartaki þegar upp koma djúpar móthverfur við erlenda heimsvaldastefnu eða við afturhaldssama forystu einhvers af löndum "þriðja heimsins".

Byltingaröflin verða að athuga og notfæra

sér öll þessi tækifæri og möguleika. Það er þessvegna sem Lenín segir, að aðstoð sósíalísks lands og alþjóðlegu öreigastéttarinnar eigi að vera mismunandi og skilyrðum háð.

Samt sem áður ráðleggja kínversku leiðtogarnir ekkert annað en skilyrðislaust bandalag meðal afturhaldssamra ríkisstjórna, að sögn til að mæta heimsvaldastefnunni. Og þegar þeir tala gegn heimsvaldastefnunni, meina þeir ekki heimsvaldastefnuna í heild, heldur aðeins sovésku sósíalheimsvaldastefnuna.

Hnignun heimsvaldastefnunnar og auðvaldsins er ráðandi tilhneiging í veraldarsögunni nú. Tilraunir ýmissa ríkja til að losna undan áhrifum heimsvaldastefnunnar, myndar einnig aðra tilhneigingu, sem leiðir til veikingar heimsvaldastefnunnar. En þessi tilhneiging, sem kínverska endurskoðunarsinnaforystan alhæfir, án þess að gera greinarmun milli landa, án þess að rannsaka almennar og sérstakar aðstæður, leiðir ekki til réttrar línu fyrir einingu alþýðunnar í baráttu fyrir eigin frelsun undan íhlutun og drottnun heimsvaldastefnunnar. Á sama hátt getur afstaða kínversku endurskoðunarsinnanna, sem líta á Evrópu sem heimsálfu landa "annars heimsins", sem þeir setja í bandalag við "þriðja heiminn", ekki leitt til réttrar stefnu heldur. Þessi sameining auðvaldsríkja getur aldrei leitt til almennrar veikingar heimsauðvaldsins. Að segja að slíku sé hægt að ná fram með aðstoð og samvinnu aðals-borgarastéttar Bretlands, hefndar-borgarastéttar Vestur-Þýskalands, blekkingaborgarastéttar Frakklands og hinna stóru auðvaldshópa, er grátlegur barnaskapur.

Stuðningsmenn kenningarinnar um "heimana þrjá" geta haldið því fram, að með því að reka áróður fyrir einingu þessara auðvaldsríkja, ætli þeir sér að veikja heimsvaldastefnuna. En hvaða heimsvaldastefnu mun þessi eining veikja? Þá heimsvaldastefnu, sem kenningin um "heimana þrjá"

hvetur til sameinaðrar fylkingar gegn sósíalheimsvaldastefnunni? Þá heimsvaldastefnu, sem auðvaldslönd í Evrópu eru í bandalagi með, þrátt fyrir móthverfur við hana? Það er augljóst, að með því að reka áróður fyrir eflingu þessa ríkjahóps, er verið að reka áróður fyrir styrkari stöðu bandarísku heimsvaldastefnunnar og auðvaldsríkja Vestur-Evrópu.

Á hinn bóginn, þegar kínverska forystan talar um myndun bandalags milli ríkja "annars heimsins og ríkja hins svokallaða "þriðja heims", þá á hún við bandalag milli valdahópa þessara landa. En að halda því fram, að þessi bandalög muni auðvelda frelsun alþýðunnar, er hughyggjuleg, frumspekileg og andmarxísk afstaða. Að blekkja hinn breiða fjölda alþýðunnar, sem leitar frelsunar, með slíkum endurskoðunarsinnakenningum, er glæpur gegn alþýðunni og byltingunni.

Kommúnistaflokkur Kína heldur, að heimsvaldastefnan þekki ekki, sjái ekki, skilji ekki og notfæri sér ekki þær móthverfur, sem eru meðal þeirra landa, sem hafa nýlega kastað af sér oki nýlendustefnunnar og lent í klóm ný-nýlendustefnunnar. Staðreyndir sýna, að heimsvaldastefnan notfærir sér daglega þessar móthverfur í eigin þágu. Hún etur þessum löndum og alþýðu þeirra hverju gegn öðru og hvetur til sundrungar og deilna og vinnur gegn einingu þeirra jafnvel um sérstök verkefni.

Heimsvaldastefnan berst upp á líf og dauða, reynir að lengja lífdaga sína og þegar hún sér að hún getur það ekki með venjulegum aðferðum, þá ræðst hún í opin stríð og árásir til að endurheimta yfirburði sína og drottnun.

Kínversku leiðtogarnir vilja sameina lönd "þriðja heimsins" - ekki bara innbyrðis - heldur einnig Bandaríkjunum gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni. Með öðrum orðum segja kínversku endurskoðunarsinnarnir opinskátt við alþýðu "þriðja heimsins", að sovéska sósíal-

heimsvaldastefnan sé höfuð-óvinur hennar og þessvegna megi ekki rísa gegn bandarísku heimsvaldastefnunni eða bandamanni hennar, þeirri afturhaldssömu borgarastétt, sem ríkir í landi hennar. Samkvæmt kínversku "kenningunni" eiga ríki "þriðja heimsins" ekki að berjast til að efla eigin frelsi, sjálfstæði og sjálfræði, ekki fyrir byltingunni, sem kollvarpi veldi borgarastéttarinnar, heldur fyrir status quo. Það er skiljanlegt, að með því að reka áróður fyrir samkomulagi við Bandaríkin, gagnstætt hagsmunum byltingarinnar og þjóðlegrar frelsunar, eru kínversku endurskoðunarsinnarnir að pressa þessi ríki til sviksamlegra málamiðlana.

Hinir raunverulegu marxísku-lenínísku flokkar hafa þá skyldu alþjóðahyggjunnar að hvetja og örva öreigana og alþýðuna í öllum þessum löndum til að gera byltingu, til að rísa gegn erlendri og innlendri kúgun og þrælkun, í hvaða mynd sem hún birtist. Flokkur okkar álítur, að þetta sé eina leiðin til að skapa þær aðstæður að alþýðan geti barist - bæði gegn heimsvaldastefnunni og sósíalheimsvaldastefnunni, sem eru tengdar auðvaldsborgarastétt flestra þessara landa á alla hugsanlega vegu.

En hvað gerir Kína? Kína styður Mobutu og klíkuna í kringum hann í Zaire. Með áróðri sínum reynir Kína að skapa þá hugmynd, að það sé að styðja alþýðu þessa lands gegn innrás málaliða Sovétríkjanna, en í raun styður Kína hina afturhaldssömu Mobutu-stjórn. Mobutu-klíkan er þjónn bandarísku heimsvaldastefnunnar, Með áróðri sínum og "Zaire-vinsamlegri" afstöðu, styður Kína bandalag Mobutus við bandarísku heimsvaldastefnuna, við ný-nýlendustefnuna, og reynir að koma í veg fyrir sérhverja breytingu á ástandinu í landinu. Skylda raunverulegra byltingarsinna er ekki að verja afturhaldssama drottnara, verkfæri heimsvaldastefnunnar, heldur að hvetja alþýðu Zaire til baráttu fyrir frelsi

sínu og sjálfræði gegn Mabutu, innlendu auðmagni og bandarískri, franskri, belgískri og annarri heimsvaldastefnu.

Á sama hátt og við erum á móti Mobutu í Zaire erum við einnig á móti Neto og hjálparkokkum hans í Angóla, vegna þess, að Sovétríkin og Neto eru að gera það sama í Angóla og Bandaríkin og Mobutu eru að gera í Zaire. Með því að skoða þróun ástandsins í fyrrnefndum tveimur ríkjum má ljóst vera hvernig ágreiningurinn milli risaveldanna um uppskiptingu nýlendna og markaða geisar þar. Við styðjum hvorki Neto né Sovétríkin, en í baráttunni við þá aðila getum við ekki stutt bandarísku heimsvaldastefnuna og málaliða hennar, andstæðinga angólsku alþýðunnar. Við sérhverjar kringumstæður og á sérhverjum tíma verðum við að styðja hina byltingarsinnuðu alþýðu og hvað varðar Zaire og Angóla, þá verðum við að einskorða okkur við að styðja alþýðu þessara landa í tilraunum hennar til að kasta af sér okinu, sem heimsvaldastefnan leggur á hana.

Hvað ber að ráðleggja byltingarsinnum í Zaire? Að gera málamiðlun við Mobutu svo að alþýða landsins verði enn kúgaðri af heimsvaldastefnunni eins og kínverjar ráðleggja? Nei, marxistar-lenínistar geta ekki ráðlagt alþýðu Zaire að gera slíka málamiðlun, né heldur alþýðu annarra landa.

Tökum sem dæmi stefnu Kína varðandi Pakistan. Pakistan, land furstanna, þar sem hin auðuga borgarastétt og landeigendur hafa alltaf ríkt, hefur að sögn verið bandamaður Kína. Aðstoð Kína við þetta land hefur ekki verið aðstoð í anda byltingarinnar. Kína hefur aðstoðað við að styrkja hina afturhaldssömu landeigenda-borgarastétt Pakistans, sem kúgar á villimannlegan hátt alþýðu landsins, alveg eins og klíkur Nehrus, Gandhis og hinna afturhaldssömu risanna kúgar indversku alþýðuna. Ríkisstjórn Zulfikar Ali Bhuttos var engin undantekning. Fyrst sagði Austur-Pakistan skilið

við Vestur-Pakistan. Indland kunni að notfæra sér hinar miklu móthverfur sem voru milli alþýðu Austur-Pakistans og hinnar afturhaldssömu borgarastéttar, sem stjórnaði í Vestur-Pakistan. Það kynti undir þessum móthverfum þar til alþýða Austur-Pakistans gerði uppreisn gegn Pakistan Ali Bhuttos. Í Austur-Pakistan, sem nefndi sig Bangladesh, var þá mynduð ríkisstjórn Mujibur Rahmans, sem sagðist berjast fyrir lýðræði og hagsmunum alþýðunnar. En dag einn var Mujibur Rahman myrtur af aðilum nátengdum bandarísku heimsvaldastefnunni. Nú hefur Ali Bhutto einnig verið steypt. Þannig hefur vini og bandamanni Kína, stærsta landeiganda og ríkasta manni Pakistans, verið steypt af öðrum afturhaldsmönnum í valdaráni.

En hver er þessi andstaða, sem kom til valda og hverjir eru þeir, sem taka þátt í henni? Þetta eru einnig afturhaldsöfl, sem samanstanda af hermönnum, kapítalistum og stórum landeigendum. Knúnir áfram af stéttarhagsmunum sínum og tengslum sínum við Bandaríkin, Sovétríkin eða Kína reyna þeir að halda hinu afturhaldssama valdi örugglega í höndum sér. Að tala við alþýðu Pakistans undir þessum kringumstæðum um náið bandalag og stuðning við eitt eða annað borgaralegt afl, að setja eina valdaklíku í stað annarrar, eins og kínversku leiðtogarnir gera, það er ekki að benda á hina réttu leið byltingarinnar. Hin rétta leið er að hvetja alþýðuna, sem er milli tveggja elda, milli Bhuttos og andstæðinga hans, til að tendra hinn kraftmikla eld byltingarinnar, að kæfa fyrri eldana tvo, að kollvarpa klíkunum tveimur í Pakistan, sem eru af sama toga spunnar. Í þessari baráttu sinni á báðar hendur verður alþýða Pakistans sjálf að vita hvernig ber að nota móthverfurnar.

Það sama á við um mörg önnur lönd hins s.k. þriðja heims eða óháða heimsins.

Þannig er kínverska forystan óheppin, ekki aðeins hvað varðar bandalög hennar og vinskap við

marxistana-lenínistana, heldur einnig í bandalögum sínum við borgaralegu auðvaldsríkin. En af hverju er hún svona óheppin? Vegna þess að stefna hennar er ekki marxísk-lenínísk, vegna þess að greiningar hennar og þær ályktanir sem hún dregur af þeim eru rangar. Hvaða traust getur alþýða "þriðja heimsins" haft við þessar aðstæður á Kína, sem stefnir að því að taka þessi lönd undir verndarvæng sinn?

Aðeins alræði öreiganna, aðeins marxísk-lenínísk hugmyndafræði, aðeins sósíalisminn geta skapað raunverulegan kærleika, nána vináttu og stálslegna einingu meðal alþýðunnar, með því að uppræta allt það sem sundrar henni. Til að skapa einingu og vináttu meðal alþýðunnar, til að leysa vandamál á þann hátt, sem þjónar best hagsmunum hennar, ætti aldrei að veita aðstoð úrkynjuðum borgurum á borð við Mobutu, Bhutto og Ghandi, undir því yfirskyni að verið sé að koma á pólitísku jafnvægi. Það er birtingarform fyrir þá óvísindalegu, andalþýðlegu og hentistefnusinnuðu kenningu um "jafnvægi", sem miðar að því að viðhalda status quo og þrælkun.

Við marxistar-lenínistar berjumst gegn nýnýlendustefnunni, gegn hinni kúgandi auðvaldsborgarastétt sérhvers lands, þ.e.a.s. gegn þeim sem kúga alþýðuna. Þessa baráttu er hægt að heyja ef hinir raunverulegu kommúnistaflokkar hvetja, skipuleggja og leiða öreigana og hinn vinnandi fjölda. Um sigursæla forystu flokksins fyrir öreigunum og fjöldanum getur aðeins verið að ræða þegar flokkurinn býr yfir byltingarsinnuðum anda og ekki tvíræðum anda með hundrað skoðanir, hundrað fána. Í aðgerðum sínum gengur hinn marxíski-leníníski flokkur hins raunverulega sósíalíska ríkis ekki aðeins út frá hagsmunum eigin ríkis heldur tekur hann alltaf tillit til hagsmuna heimsbyltingarinnar einnig.

KINVERSKA KENNINGIN UM "HEIMANA ÞRJÁ" OG JÚGÓSLAVNESKA KENNINGIN UM "ÓHÁÐA HEIMINN" GRAFA UNDAN BYLTINGARBARÁTTU ALÞÝÐUNNAR

Allir liðhlaupar frá marxismanum-lenínismanum, sovésku, títóísku, kínversku og aðrir nútíma endurskoðunarsinnar, gera sitt ítrasta til að berjast gegn marxismanum-lenínismanum, hinni sigursælu kenningu öreiganna. Afhjúpun flokks okkar á kenningunni um "þrjá heima" hefur sett kínversku endurskoðunarsinnana í erfiða aðstöðu, vegna þess að þeir eru ófærir um að svara andstöðu okkar og afhjúpun fræðilega, og það er ekki vegna þess að þeir séu hræddir við okkur, heldur af því að þeir hræðast skort sinn á rökum.

Mao Tsetung og Teng Hsiao-ping, sem settu fram eða tóku upp hugtakið "þriðji heimurinn" vildu ekki styðja þessa kenningu fræðilegum rökum, vegna þess að þeir gátu það ekki og það var ekki að ástæðulausu. Hvers vegna gerðu þeir það ekki? Þessi "yfirsjón" þeirra er herbragð og markmiðið er að blekkja fólk, að fá það til að meðtaka fáránlega kenningu án umræðna, bara vegna þess að Mao Tsetung hafi framreitt hana. Mao Tsetung gat ekki útskýrt hinn fræðilega grundvöll þessa "heimspekilega" eða "pólitíska" hugtaks, vegna þess að það er alls ekki hægt. Hann og fylgifiskar hans reka áróður fyrir hugmynd sinni um þrískiptingu heimsins einfaldlega með því að halda henni fram, en án þess að verja hana, vegna þess að þeir vita sjálfir, að þessi kenning er óverjandi.

"Þriðji heimur" kínverjanna og júgóslavneski "óháði heimurinn" eru næstum einn og sami hluturinn. Tilgangurinn með báðum þessum "heimum" er að skapa fræðilega réttlætingu fyrir því að að útiloka stéttarbaráttuna milli öreiganna og borgaranna og að aðstoða stóru heimsvalda- og auðvaldsöflin við að viðhalda og framlengja hið borgaralega kúgunar- og arðránskerfi.

Kenningin um "heimana þrjá", goðsögnin, sem kínversku endurskoðunarsinnarnir hafa skapað um hana, er fölsk og andmarxísk. Hún hefur engin áhrif, hvorki á hinn breiða fjölda öreiganna og hina þjáðu alþýðu í löndum "þriðja heimsins" né leiðtoga þessara landa. Þessir leiðtogar, sem kínverska forystan reynir að fylkja um sig, hafa sínar eigin ákveðnu skoðanir. Þeir hafa sína eigin hugmyndafræði og ákveðnu markmið og þess vegna orka kínversku ævintýrin ekki á þá. Teng Hsiao-ping og kumpánar hans halda að Kína með sín stóru landsvæði og mikla íbúafjölda geti verið fyrirmynd fyrir þessi lönd. Kínverska kenningin um "heimana þrjá" hentar bandarísku heimsvaldastefnunni að vissu marki og að svo miklu leyti sem hún stofnar ekki áætlunum hennar í hættu. Þessi kenning er uppspretta fyrir ruglingslegt ástand í heiminum, sem þjónar bæði bandarísku heimsvaldastefnunni og sovésku sósíalheimsvaldastefnunni í því markmiði að útvíkka drottnun sína, að tengja og gera fleiri bandalög og samninga við kapítalíska og borgaralega landeigendaforingja í löndum hins s.k. þriðja heims og binda þau fastari böndum. Þetta ástand þjónar einnig sósíalheimsvaldasinnuðum markmiðum kínversku endurskoðunarsinnanna.

Hvað varðar kenninguna um "óháða heiminn", þá hafa júgóslavnesku endurskoðunarsinnarnir gert hana að alyfirtækri kenningu, sem á að koma í staðinn fyrir marxísku-lenínísku kenninguna. Sú kenning er að þeirra áliti "úrelt" og ekki lengur "passandi" vegna þess að alþýðan og heimurinn hafi breyst. Þeir afneita marxismanum-lenínismanum ekki opinskátt, eins og Carillo, en þeir berjast gegn honum með því að verja kenninguna um "óháða heiminn". Samkvæmt júgóslavnesku endurskoðunarsinnunum þá eru þeir sem verja marxismannlenínismann alltaf að gera sömu "mistökin"; þeir samþykkja ekki að grundvallarregur og boð þessarar byltingarsinnuðu kennisetningar þurfi að leiðrétta og því eru þeir "síbrotamenn". Samkvæmt þeim er

Flokkur Vinnunnar í Albaníu (sem er skotspónn árásα þeirra) flokkur "síbrotamanna" vegna þess að hann reynir að nota vísindalegar grundvallarreglur, aðferðir og kennisetningar Marx, Engels, Leníns og Stalíns á "veröld, sem er gjörbreytt frá því sem var á þeirra tíma."

Afstaða títóistanna er algjörlega andmarxísk. Og sú greining, sem þeir gera á þróunarferli heimsins nú byggist á þessari afstöðu. Nútíma endurskoðunarstefnan alment séð, og sérstaklega júgóslavneska og kínverska endurskoðunarstefnan, eru á móti byltingunni. Júgóslavnesku og kínversku endurskoðunarsinnarnir líta á bandarísku heimsvaldastefnuna sem öflugt veldi, er geti tekið rökréttari stefnu og geti "hjálpað" heiminum í dag, sem samkvæmt þeim er að þróast og vill ekki vera háður. En kenning júgóslavanna er ófær um að skilgreina almennilega sjálft hugtakið "óháður". Frá hvaða sjónarhóli eru löndin, sem falla undir þennan heim, sem kenningin er málsvari fyrir, óháð? Pólitískt, hugmyndafræðilega, efnahagslega eða hernaðarlega? Júgóslavneska gervi-marxíska kenningin minnist ekki á þessa spurningu, vegna þess, að öll þessi lönd, sem reynt er að leiða í dularklæðum nýs heims, geta ekki losað sig úr hinum mörgu og margvíslegu formum ósjálfstæðis gagnvart bandarísku heimsvaldastefnunni eða sovésku sósíalheimsvaldastefnunni.

Júgóslavneska "kenningin" sviðsetur mikið leikrit í kringum þá staðreynd, að gamla nýlendustefnan hefur verið upprætt, almennt séð, en minnist ekki á að margar þjóðir hafa lent í klónum á nýju nýlendustefnunni. Við marxistar-lenínistar neitum ekki þeirri staðreynd, að nýlendustefnan í sínu gamla formi hefur verið upprætt, en við bendum á að í stað hennar hefur komið ný-nýlendustefnan. Nýlenduveldi gærdagsins eru enn í dag að kúga alþýðuna með efnahagslegu og hernaðarlegu afli sínu, og sundra henni pólitískt og hugmyndafræðilega með því að innleiða sinn úrkynjaða

lífsstíl. Títóistarnir kalla þetta ástand stórkostlegar umbreytingar heimsins og bæta því við að hvorki Marx né Lenín - hvað þá Stalín, sem þeir afneita algerlega - hafi gert sér grein fyrir slíkum möguleikum. Samkvæmt þeim eru þjóðirnar nú frjálsar og sjálfstæðar og sækjast aðeins eftir að verða óháðar og að auðæfum heimsins verði skipt á skynsamlegri og réttlátari hátt.

Til að þessi vilji megi ná fram að ganga biðja júgóslavnesku "fræðimennirnir" bandarísku heimsvaldasinnana og sovésku sósíalheimsvaldasinnana og þróuðu auðvaldsríkin að þau, af hjartagæsku sinni, og í gegnum alþjóðaráðstefnur, umræður og gjafir landa á milli, stuðli að umbreytingum á heiminum í dag, sem þeir segja að "hafi náð því stigi meðvitundar að vera fær um að ganga yfir í sósíalismann."

Það er þessi sósíalismi, sem títóísku endurskoðunarsinnarnir prédika. Þessa messu halda þeir til að afvegaleiða alþýðuna frá raunveruleikanum eins og mögulegt er. Þeir eru á móti byltingunni og með því að varðveita þjóðfélagsfriðinn svo að borgarastéttin og öreigastéttin geti náð samkomulagi um "að bæta lífsskilyrði hinna lægri stétta." Það er að segja, betla þeir af yfirstéttinni að hún gerist "örlát" og láti af hendi svolítið af gróða sínum til "vesalinganna á þessari jörð."

Tító vill breyta kenningunni um "óháða heiminn" í alyfirtæka "kennisetningu" sem að sögn þjónar "ástandinu í heiminum í dag" eins og við bentum á hér að framan. Alþýða heimsins hefur vaknað og vill lifa frjáls, en samkvæmt kenningu Títós er þetta "frelsi" enn ekki "algert" vegna tilveru blokkanna tveggja, Natóblokkarinnar og Varsjárbandalagsblokkarinnar.

Tító stillir sér upp sem leiðandi persónu og fánabera andblokkastefnunnar. Það er rétt að land hans er hvorki meðlimur í Nató né Varsjárbandalaginu, en það er tengt þessum hernaðar-

bandalögum á margan hátt. Efnahagur og stefna Júgóslavíu eru ekki sjálfstæð; þau eru háð þeirri aðstoð og lánum, sem þau þiggja af auðvaldslöndunum. Fyrst og fremst bandarísku heimsvaldastefnunni. Það er þess vegna sem hann treystir aðallega á þessa heimsvaldastefnu. Samt sem áður treystir Tító einnig á sovésku heimsvaldastefnuna og öll önnur stór auðvaldsríki. Svo Júgóslavía, sem segist vera óháð, er háð árásargjörnum samtökum stórveldanna, ef ekki í orði þá á borði.

I löndum heims eru margir leiðtogar eins og Tító, sem hann vill safna saman í hinn s.k."óháða heim". Þessar persónur eru , almennt séð, borgaralegar, kapítalistar, and-marxistar og margir svarnir fjandmenn byltingarinnar. Nöfnin sósíalisti, demókrati, sósíaldemókrati, repúblikani, sjálfstæður repúblikani o.s.frv., sem þessar persónur gefa sér, eru í flestum tilfellum til þess ætluð að blekkja öreigana og kúgaða alþýðuna til að halda þeim í fjötrum og spila pólitískt á þeirra kostnað.

Andmarxísk auðvalds-hugmyndafræði er ráðandi í "óháðu" ríkjunum. Mörg þessara ríkja eru samtvinnuð við stórveldin og öll þróuðu auðvaldsríkin á sama hátt og Júgóslavía Títós. Eini sameiginlegi grundvöllur "óháða heimsins" undir forystu Títós, sem hann mælir með fyrir öll lönd veraldar, er það markmið og sú starfsemi að kæfa byltinguna, að hindra öreigana og alþýðuna í því að gera uppreisn til að kollvarpa gamla auðvaldsþjóðfélaginu og setja á stofn nýja þjóðfélagið, sósíalismann.

Þetta er hugmyndin og helsta grundvallarreglan, sem Tító hefur að leiðarljósi við að safna þessum löndum saman. Hann lætur í veðri vaka, að honum hafi tekist að sameina þau og taka forystu fyrir þeim, en í raun og veru er ekki um neitt slíkt að ræða, því enginn álítur títóísku kenninguna um "óháða heiminn" eða kínversku kenninguna um "heimana þrjá" mikilvæga eins og fánaberar þeirra vænta og berjast fyrir. Hver og einn fer þá leið sem

færir honum mestan og hraðastan gróða.

Allt bendir til þess að bandaríska heimsvaldastefnan og heimsauðvaldið taki "óháða heim" Títós fram yfir hinn "þriðja heim" kínverjanna. Þrátt fyrir að bandaríska heimsvaldastefnan og þróuðu auðvaldslöndin styðji kínversku kenninguna um "þrjá heima", þá eru þau svolítið á varðbergi og hikandi, af því að efling Kína getur fætt af sér óæskilegt ástand og jafnvel orðið hættuleg bandaríkjamönnum sjálfum. Hinn "óháði heimur" Títós felur hinsvegar ekki í sér neina hættu fyrir Bandaríkin. Þess vegna var það, að þegar Tító var síðast í heimsókn í Bandaríkjunum, lofsöng Carter hlut hans í sköpun "óháða heimsins" og lýsti hreyfingu "óháðu landanna" sem "mjög mikilvægum þætti í lausn helstu vandamála líðandi stundar."

"Óháðu löndin", sem flest eru auðvaldslönd, hafa kastað teningnum. Þau kunna að haga sér pólitískt og þau stilla sér upp við hlið þeirra heimsvalda- og auðvaldsafla, sem veita þeim mesta aðstoð. Samkvæmt borgaralegum og auðvaldsviðhorfum er það, að taka þátt í pólitík, að beita bellibrögðum og snúa á hina eins illilega og oft og mögulegt er. Þessi stefna er vændisstefna, sem á vissum augnablikum og í samræmi við ríkjandi aðstæður, miðar að því að útvega að minnsta kosti svolítið af beinhörðu reiðufé frá voldugra ríki í þágu eigin stéttar, í þágu yfirmanna þessarar stéttar.

Títóisminn, með kenningu sína um "Óháða heiminn", predikar einmitt þessa stefnu. En hún hefur ekki sama markmið allsstaðar eins og Tító gerir sér grein fyrir. "Óháðu löndin" spyrja Tító ekki ráða varðandi það, hvað þau eigi að gera og hvernig þau skuli haga sér. Með fáum undantekningum eru stjórnendur þessarra ríkja að reyna að tryggja kapítalískt veldi sitt í sessi, að arðræna alþýðuna, að vera í vinfengi við stórt heimsvaldaríki, að koma í veg fyrir

eða bæla niður hverskyns uppreisn alþýðunnar, hvers kyns byltingu. Þetta er öll stefna hins títóíska "óháða heims".

Kínverska kenningin um "heimana þrjá" er einnig fylgjandi status quo. Markmiðið með hinum títóíska "óháða heimi" er að betla lán hjá bandarísku heimsvaldastefnunni og öðrum auðvaldslöndum til að auka ríkidæmi borgarastéttarinnar og halda henni við völd. Með kenningu sinni um "þrjá heima" vill Kína einnig auðgast, styrkjast efnahagslega og hernaðarlega með það fyrir augum að verða stórveldi, að drottna yfir heiminum. Markmið beggja þessarra "heima" er andmarxískt. Þau eru með auðvaldinu, með bandarísku heimsvaldastefnunni.

Eins og heimsókn Títós til Kína og Hua Kuofengs til Júgóslavíu sýna eru júgóslavnesku endurskoðunarsinnarnir önnum kafnir við að hlaða lofi og lævísu smjaðri á Kína. Þeir þekkja vel persónuleika kínversku endurskoðunarsinnanna og hafa í hyggju að tæla þá til fylgis við júgóslavnesku afstöðuna svo að kenningin um "óháða heiminn" mæti ekki aðeins skilningi í Peking, heldur einnig algjöru samþykki. Þótt kínversku endurskoðunarsinna-leiðtogarnir, með Hua Kuofeng og Teng Hsiao-ping í fararbroddi, hafi ekki yfirgefið kenningu sína um "þriðja heiminn" þá hafa þeir opinberlega stutt títóísku kenninguna um "óháða heiminn". Þeir hafa látið í ljós, að þeir vilji hafa nána samvinnu við júgóslavnesku endurskoðunarsinnana eftir sömu leiðum, á tveim samsíða línum, með það sameiginlega andmarxíska markmið að blekkja alþýðu "þriðja heimsins". Júgóslavnesku endurskoðunarsinnarnir vinna nú að þessum skoðunum til að verja Kína. En þótt þeir verji Kína, hafa þeir sett fram nokkur "rök", sem eru fjandsamleg Kína, vegna þess stórmennskubrjálæðis, sem hrjáir ríkið það. Títóistarnir styðja Kína og verja það gegn afhjúpun flokks okkar á kínversku forystunni,

með því að segja að núverandi stefna Kína sé raunsæ.

Kína, segja Júgóslavarnir, er stórt land, sem þarf eðlis síns vegna að þróast, þar sem það er enn vanþróað, þróunarland. Marxísku-lenínísku flokkarnir, svo sem Flokkur Vinnunnar í Albaníu, hafa rangt fyrir sér, segja títóistarnir, þegar þeir ráðast á Kína vegna réttlátrar sóknar þess til þróunar og sjálfstæðis, vegna þeirrar aðstoðar, sem það veitir þjóðlegum frelsisstríðum o.s.frv. Júgóslavía hefur áhuga á, að gera Kína að leppríki sínu. Fyrir júgóslavnesku endurskoðunarsinnana er það mikilvægt að Kína taki upp andmarxískar skoðanir þeirra vafningalaust.

Með kenningunni um "óháða heiminn" hefur Júgóslavía, með Tító í fararbroddi, alltaf þjónað bandarísku heimsvaldastefnunni dyggilega. Tító og hópur hans stunda þessa þjónustu einnig nú með því að reyna að þrýsta á Kína til að nálgast Bandaríkin og gera bandalag við þau. Þetta var aðalmarkmiðið með ferð Títós til Peking og viðræðum hans þar, sem leiddi til náinnar vináttu. Með heimsókn Hua Kuo-fengs til Júgóslavíu, hefur þessi vinátta tekið á sig form víðtækrar samvinnu, ekki aðeins milli ríkjanna tveggja, heldur einnig milli flokkanna. Meðan stóð á heimsókn Títós til Peking, viðurkenndu kínversku leiðtogarnir hálft í hvoru, að Samtök Kommúnista í Júgóslavíu væru marxískur-lenínískur flokkur og að verið væri að byggja upp raunverulegan sósíalísma í Júgóslavíu. Þegar Hua Kuo-feng fór til Belgrad, fullyrtu þeir þetta algjörlega opinberlega.

Með öðrum orðum hafa maóistarnir gert nákvæmlega það, sem Mikoyan og Krúséff gerðu á sínum tíma, þegar þeir veittu Tító fulla viðurkenningu sem "marxista" og lýstu því yfir, að "verið væri að byggja upp sósíalisma í Júgóslavíu" og að "Kommúnistaflokkur Júgóslavíu væri marxískur-lenínískur flokkur".

.Bandaríkin toga annað hvort í strenginn til Títós eða þá, sem liggja til Hua Kuo-fengs eða Teng Hsiao-pings, allt eftir hentugleikum. Þetta eru leikbrúður, sem koma ekki fram opinberlega á sviði barnaleikhússins, heldur eru í dularklæðum og þegar ráðist er á kenningar þeirra og þeir finna engar staðreyndir til að styðja með rök sín, þá lýsa þeir því yfir, að "þeir taki ekki þátt í deilum! " Hversvegna taka þeir ekki þátt í rökræðum við hina sósíalísku Albaníu, þegar hún og hinn marxíski-lenínískí Flokkur Vinnunnar afhjúpar þá miskunnarlaust frammi fyrir augliti heimsins? Eftir hverju eru þeir að bíða? Þeir taka ekki þátt í rökræðum, vegna þess að þeir hræðast að hin sviksamlega starfsemi þeirra gegn marxismanum-lenínismanum og byltingunni verði afhjúpuð. Þegar kínversku leiðtogarnir, gegnum Júgóslavana eða aðra,segja að Kína muni ekki svara röksemdum Albana, þá er það gert í þeim tilgangi að fela sannleikann.

Bandaríkin, Sovétríkin og önnur auðvaldslönd eru stöðugt að halda ýmsa millirikja- og fjölþjóðafundi, allskyns ráðstefnur, þing, gerandi samþykktir, haldandi ræður og blaðamannafundi, segjandi ýmsar lygar og breiðandi út falskar vonir, hótandi og notandi fjárkúgun. Allt er þetta gert til að komast út úr kreppunni sem þau eru fjötruð í, til að bæla niður hefndarlönguninа hjá hinni þjáðu og kúguðu alþýðu,til að snúa á hinn breiða vinnandi fjölda og öreigana og blekkja framsækna lýðræðissinna. Júgóslavnesku og kínversku endurskoðunarsinnarnir taka einnig þátt í þessum lævísa og viðbjóðslega leik.

Kenningin um "þróun heimsins" er eitt spilið í þessum leik, sem hefur sama andmarxíska markmiðið, að rugla fólkið í ríminu. Þessi kenning eyðir ekki orðum á pólitísk vandamál, því slíkt væri unnið fyrir gýg. Samkvæmt þessari kenningu finnast engin önnur vandamál en "efnahagsvanda-

málið" og "þróunarvandamálið" almennt séð. En hvers kyns þróun það er, sem kenningin um "þróun heimsins" leitar að, það skilgreinir enginn. Auðvitað leitast hin ýmsu lönd heims við að þróast á sviði efnahags, stjórnmála, menningar og víðar. Alþýða heimsins, með öreigana í fylkingarbrjósti vill kollvarpa hinum gamla, rotna, borgaralega auðvaldsheimi og byggja upp nýjan heim, sósíalismann, í hans stað. En kenningarnar um "óháða heiminn" og "þróun heimsins" minnast ekki á þann heim.

Þegar við marxistar-lenínistar tölum um hin ýmsu lönd, þá látum við einnig í ljós álit okkar á þeim, metum þróunarstig eins lands eða annars, möguleika hvers ríkis til að þróast í þessa átt. Við segjum að alþýða hvers lands verði að framkvæma byltinguna og byggja upp hið nýja þjóðfélag og hún verði að treysta á eigin krafta. Við segjum, að til þess að öðlast frelsi, sjálfstæði og sjálfræði, verði sérhvert ríki að byggja upp nýtt þjóðfélag, verði að berjast gegn og kollvarpa kúgurum sínum, gegn sérhverri heimsvaldastefnu, sem þrælkar það, verði að vinna og verja pólitískan, efnahagslegan og menningarlegan rétt sinn og byggja upp algjörlega frjálst, sjálfstætt föðurland, þar sem verkalýðsstéttin verður að stjórna í bandalagi við hinn vinnandi fjölda. Þetta er það sem við segjum og við verjum dyggilega kenningar Leníns um tvo heima. Við erum meðlimir hins nýja sósíalíska heims og við berjumst gegn hinum gamla auðvaldsheimi, þar til yfir lýkur.

Allar aðrar kenningar, sem skipta heiminum í "fyrsta heiminn", "annan heiminn", "þriðja heiminn", "óháða heiminn", "þróunarheiminn" eða einhvern annan "heim" og sem kunna að verða fundnar upp í framtíðinni, þjóna auðvaldinu, yfirráðum stórveldanna og því markmiði þeirra að halda alþýðunni í fjötrum. Það er þess vegna sem við berjumst gegn þessum andmarxísku kenningum

af öllu afli.

Allur heimurinn og sérstaklega lönd hins svokallaða "þriðja heims", "óháða heims" eða "þróunarheims", fylgist af samúð með baráttu flokks okkar. Kínversku, títóísku og sovésku endurskoðunarsinnakenningarnar og kenningar bandarísku heimsvaldastefnunnar o.s.frv. eru til þess ætlaðar að blekkja alþýðu þessara landa. En í marxískum-lenínískum skoðunum okkar, í hugmyndafræðilegri og pólitískri afstöðu flokks okkar, sér hún rétta afstöðu, sem samsvarar hinni réttu stefnu fyrir frelsun hennar undan kúgun og arðráni í eitt skipti fyrir öll.

Einmitt vegna þessa reyna óvinir marxismans-lenínismans og flokks okkar að bera okkur á brýn, að við séum einangrunarsinnar, öfgafullir vinstrisinnar, Blanquistar; að við gerum ekki rétta greiningu á alþjóðaástandinu, heldur höldum fast í einhverjar úreltar kreddur o.s.frv. Það er ljóst, að þeir eiga við byltingarsinnaða kennisetningu okkar, sem þeir kalla "marxíska-leníníska kreddukenningu", "stalíníska kreddukenningu" o.s.frv.

Þeir bera okkur á brýn, að við hvetjum þau lönd, sem hafa losnað undan arðráni gömlu nýlendustefnunnar og eru nú arðrænd í formi hinnar nýju nýlendustefnu, til að halda strax yfir í sósíalismann, að framkvæma öreigabyltinguna. Þeir halda að þeir séu að veita okkur högg með þessu, með því að lýsa okkur ævintýramenn. En flokkur okkar heldur tryggð við marxísku-lenínísku fræðikenninguna, þá fræðikenningu, sem hefur réttilega skilgreint leið byltingarinnar, þau skeið, sem þessi bylting verður að ganga í gegnum og þau skilyrði, sem uppfylla þarf til að hægt sé að framkvæma þessa byltingu farsællega, hvort sem hún er þjóðleg-lýðræðisleg og andheimsvaldasinnuð eða sósíalísk. Við héldum tryggð við þessa kenningu meðan stóð á hinu andfasíska frelsisstríði okkar, við höldum tryggð

við hana nú í uppbyggingu sósíalismans, við höldum tryggð við hana í hugmyndafræðibaráttu okkar og utanríkisstefnu. Greining okkar er rétt og henni geta engin falsrök hnekkt.

II

# ÁÆTLUN KÍNA UM AÐ VERÐA RISAVELDI

Í byrjun - þegar við skilgreindum alheimsstjórnlist bandarísku heimsvaldastefnunnar og sovésku sósíalheimsvaldastefnunnar til heimsyfirráða ásamt vöxt og þróun ýmissa tilbrigða nútímaendurskoðunarstefnu og baráttu allra þessara óvina marxismans-lenínismans og byltingarinnar - þá nefndum við einnig hlutverk og stjórnlist kínversku endurskoðunarstefnunnar.

Kína kallar stjórnmálastefnu sína marxíska-leníníska, en veruleikinn bendir til hins gagnstæða. Það er einmitt hið rétta eðli þessarar stefnu, sem við marxistar-lenínistar verðum að afhjúpa. Við megum ekki leyfa, að kínversku endurskoðunarstefnu-kenningarnar verði samþykktar sem marxismi-lenínismi og við megum ekki leyfa að Kína, með þá stefnu, sem þeir hafa tekið, komi fram sem baráttumenn fyrir byltingunni meðan þeir í raun og veru berjast gegn henni. Með þeirri stefnu sem Kína framkvæmir, verður það deginum ljósara að landið reynir að styrkja stöðu kapítalismans á heimaslóðum og öðlast heims-yfirráð, að verða heimsveldi og öðlast þá stöðu, "sem það á skilið" svo að segja.

Sagan sýnir að hvert stórt kapítalískt land ætlar sér að verða stórt heimsveldi, að ná og fara fram úr hinum stórveldunum og keppa við þau um heimsyfirráð. Til að verða heimsvaldaríki hafa

stóru borgaralegu ríkin farið mismunandi leiðir, allt eftir ákveðnum sögulegum og landfræðilegum aðstæðum, þróun framleiðsluaflanna o.s.frv. Bandaríkin fóru ekki sömu leið og gömlu evrópsku löndin t.d. Bretland, Frakkland og Þýskaland, sem urðu heimsveldi á grundvelli nýlendu-landvinninga sinna.

Eftir seinni heimsstyrjöldina stigu Bandaríkin fram sem stærsta kapítalíska veldið. Á grundvelli mikils efnahagslegs og hernaðarlegs styrks og með þróun ný-nýlendustefnunnar, breyttust Bandaríkin í heimsvalda-risaveldi. En stuttu seinna kom annað risaveldi fram á sjónarsviðið, nefnilega Sovétríkin, sem breyttist í heimsvaldasinnað risaveldi eftir dauða Stalíns og svik krúsjévsku leiðtoganna við marxismann-lenínismann. Sovétríkin notfærðu sér í þessu skyni hinn mikla efnahagslega-, tæknilega og hernaðarlega kraft, sem sósíalisminn hafði byggt upp.

Við erum nú vitni að tilraunum annars stórs ríkis, Kína nútímans, til að verða risaveldi um leið og það hraðar sér frameftir kapítalíska veginum. En Kína skortir bæði nýlendur og umsvifamikinn þróaðan iðnað. Það skortir sterkan efnahag og hefur ekki kjarnorkuvopnavald til jafns við hin tvö heimsvaldasinnuðu risaveldin.

Til að geta orðið risaveldi er það algjört skilyrði að hafa þróaðan efnahag og her útbúinn kjarnorkusprengjum, að geta tryggt sér markaði, áhrifasvæði og fjárfestingu í útlöndum, o.s.frv. Kína reynir að uppfylla þessi skilyrði eins fljótt og mögulegt er. Þetta sagði Chu En-lai í ræðu sinni á þinginu 1975 og var endurtekið á 11.þingi kínverska kommúnistaflokksins, þegar því var lýst yfir að Kína yrði voldugt nútímalegt land með það markmið fyrir augum að ná jafnlangt og Bandaríkin og Sovétríkin fyrir aldamót. Nú hefur öll þessi áætlun þróast og skýrst í það sem kallast stefna "hinna fjórþættu framfara".

En hvaða leið hefur Kína valið til þess að

verða eitt af risaveldunum? Eins og er, eru nýlendur og markaðir heimsins uppteknir af öðrum. Það er ómögulegt að koma á fót efnahagslegu og hernaðarlegu afli sem stendur jafnfætis Bandaríkjunum og Sovétríkjunum með eigin krafti innan 20 ára, eins og kínversku leiðtogarnir halda fram að þeir muni gera. Við þessi skilyrði mun Kína verða að ganga í gegnum tvö stig til þess að verða risaveldi: fyrst verður Kína að sækja um lán og fjárfestingar frá Bandaríska heimsveldinu og hinum þróuðu auðvaldslöndunum, síðan að kaupa nútíma tækni til að geta nýtt sín eigin náttúruauðæfi, sem munu að miklu leyti renna til lánadrottna þeirra. I öðru lagi mun Kína fjárfesta virðisaukann, sem aflast hefur á kostnað kínversku þjóðarinnar, í ýmsum löndum álfanna, nákvæmlega eins og bandarísku heimsvaldasinnarnir og sovésku sósíalheimsvaldasinnarnir gera nú.

Tilraunir Kína til að verða risaveldi grundvallast fyrst og fremst á vali þeirra á bandamönnum og á uppbyggingu bandalaga. Tvö risaveldi eru til í heiminum í dag, bandaríska heimsvaldastefnan og sovéska sósíalheimsvaldastefnan. Kínversku leiðtogarnir eru búnir að reikna út, að þeir verði að treysta á bandarísku heimsvaldastefnuna, sem þeir reikna með að fá hjálp frá á fjárhagslegu, viðskiptalegu, tæknilegu og skipulagslegu sviði og einnig á hernaðarlega sviðinu. Efnahagslegur og hernaðarlegur styrkur Bandaríkjanna er í reynd meiri en hjá Sovétríkjunum. Þetta vita kínversku endurskoðunarsinnarnir vel, þó þeir segi að Bandaríkin standi höllum fæti. Á þeirri braut, sem þeir hafa valið, vilja þeir ekki veikan félaga sem ekki getur veitt þeim svo mikið. Það er einungis vegna þess að Bandaríkin eru voldug að kínverjar hafa valið þau sem bandamann sinn.

Bandalagið við Bandaríkin og aðlögun kínversku stjórnmálastefnunnar að stefnu bandarísku heimsvaldastefnunnar þjóna einnig öðrum tilgangi. Það felur einnig í sér ógnun við sovésku sósíalheims-

valdastefnuna, sem kemur berlega fram í þeim háværa áróðri og æðisgengnum aðgerðum, sem kínversku leiðtogarnir hafa í frammi gegn Sovétríkjunum. Með þessari stefnu láta kínverjarnir hin endurskoðunarsinnuðu Sovétríki vita, að tengsl Kína við Bandaríkin myndi ósigrandi afl gegn Sovétríkjunum, ef nýtt heimsvaldastríð brytist út.

Kínversk stjórnmálastefna í dag hefur einnig þann tilgang að bindast vináttuböndum og bandalögum öllum hinum þróuðu kapítalísku löndum, sem Kína vill hagnast á pólitískt og efnahagslega. Kína óskar eftir og reynir að styrkja bandalög Bandaríkjanna við löndin í "öðrum heiminum", sem það kallar þau. Kína örvar til einingar eða réttara sagt til undirgefni þeirra gagnvart bandarísku heimsvaldastefnunni, sem Kína álítur sinn besta bandamann.

Þetta er skýringin á öllum þeim nánu samskiptum sem kínverska stjórnin vill stofna til við öll ríku kapítalísku ríkin Japan, V-Þýskaland, Bretland, Frakkland o.s.frv., þetta er skýringin á tíðum heimsóknum fjármála-,menningar- og vísindanefnda til Kína frá stjórnum Bandaríkjanna og allra hinna þróuðu kapítalísku landanna, hvort sem þau eru lýðveldi eða konungsríki, og eins á heimsóknum kínverskra nefnda til þessara sömu landa. Þetta er einnig skýringin á , hvers vegna Kína undantekningarlaust styður Bandaríkin og hin kapítalísku löndin, með því að reyna að beina athyglinni að öllu því, sem er skrifað, sagt og gert í þessum ríkjum gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni.

Þessi stjórnmálastefna kínversku leiðtoganna, dregur óhjákvæmilega að sér athygli og stuðning Bandaríkjanna. Eins og kunnugt er, voru til tvær álmur í kínverskum stjórnmálum í bandaríska utanríkisráðuneytinu rétt fyrir síðari heimsstyrjöldina: önnur hélt með Chiang Kai-shek og hin hélt með Mao Tsetung. Á þeim tíma sigraði auðvitað armur Chiang Kai-shek í bandaríska utanríkisráðu-

neytinu og á þinginu, en armur Mao Tsetungs sigraði á meginlandi Kína. Meðal forsprakka þessa arms voru Marshall og Vandemeyer, Edgar Snow og fleiri, sem urðu vinir og ráðgjafar Kínverja og örvuðu og glæddu alls kyns samtök í nýja Kína.

I dag eru þessi samtök endurvakin, styrkt, efld og skýrð enn frekar. Nú sjá allir að Kína og Bandaríkin nálgast sífellt meir. Fyrir nokkru reit eitt af best upplýstu bandarísku blöðunum, "Washington Post": "Nú er til bandarísk samstaða sem er meira að segja studd af hægri öflunum, m.a. af þeim sem enga samúð hafa með Peking. Þrátt fyrir það, sem áður hefur gerst, er engin ástæða fyrir Bandaríkin að líta á Kína sem ógnun að áliti þessarar samstöðu. Fyrir utan Taiwan er það fátt, sem stjórnirnar tvær ekki eru sammála um. Bæði ríkin eru sammála um að ýta Taiwan-spurningunni til hliðar í þeim tilgangi að komast áfram á öðrum sviðum."

Spurningin um Taiwan, sem varð til í sambandinu milli Kína og Bandaríkjanna, er orðin að hreinu formsatriði. I augnablikinu telur Kína þetta ekki vera sitt mál. Kína hefur ekki minnstu áhyggjur af Hong-Kong eða af að Macao er ennþá undir stjórn portúgala. Kínverska stjórnin tekur ekki tilboði nýju portúgölsku stjórnarinnar um að skila aftur þessari nýlendu til Kína og segir að "maður taki ekki aftur gjöf". Tilvera þessara nýlendna er tímaskekkja, en það veldur kínversku leiðtogunum engum áhyggjum í afskiptasamri stjórnun sinni. Af hverju ætti ekki Taiwan að halda áfram að vera nýlenda á meðan Hong-Kong og Macao eru nýlendur? Auðsætt er að Kína hefur mikinn áhuga á að staða Taiwan haldist óbreytt, einnig í framtíðinni. Fyrir utan þau sambönd sem haldið er við opinberlega, hefur Kína einnig áhuga á að stunda leyniverslun við bandarísku heimsvaldasinnana, þá bresku, japönsku og hina heimsvaldasinnana gegnum þessar þrjár opnu dyr. Þessvegna er kjaftæðið í Teng Hsiao-ping og Li Hsien-nien um að kín-

versk-bandarísku tengslin séu komin undir afstöðu Bandaríkjanna til Taiwan ekkert annað en rykský til að hylja biðilsbuxurnar, sem Kína er á gagnvart Bandaríkjunum til þess að verða risaveldi.

Carter hefur lýst yfir að Bandaríkin muni stofna til millirîkjasambands við Kína. Hvað varðar Taiwan, munu Bandaríkin taka sér stöðu Japans þ.e.a.s. slíta stjórnmálalegu sambandi sínu við eyjuna án þess þó að slíta fjárhagslegu og menningarlegu sambandi og í skjóli þessa halda hernaðarlegu sambandi. Það er í raun hagsmunir Kína að Bandaríkin haldi hernaðarlegu sambandi við Taiwan. Kína vill að Bandaríkin haldi hersveitum á Taiwan, í Japan, Suður-Kóreu og á Indlandshafi, þar sem þetta er kostur fyrir kínverja því þetta verður mótvægi við Sovétríkin.

Afstaðan til allra þessara hluta eru tengdir stefnu þeirri, sem kínverska stjórnin hefur valið til að Kína geti orðið risaveldi með því að reyna að þróa hagkerfi sitt og auka hernaðarmátt sinn með lánsfé og fjárfestingum frá Bandaríkjunum og öðrum stórum kapítalískum löndum. Stjórnvöld Kína réttlæta þessa stefnu með því að halda fram að Kína fylgi réttri stjórnmálastefnu - hinni marxísku stefnu Mao Tsetung - en samkvæmt henni "verður Kína að notfæra sér framfarir, uppfinningar og tæknivæðingu heimsins og láta það útlenda þjóna innri framförum landsins" o.s.frv. Greinarnar í "Dagblaði fólksins" og ræður kínversku leiðtoganna eru fullar af slíkum slagorðum. Samkvæmt kínverskum skilningi er það að nýta sér uppfinningar annarra ríkja og framfarir í iðnaði að fá lán og samþykkja fjárfestingar frá Bandaríkjunum, Japan, Vestur-Þýskalandi, Frakklandi, Bretlandi og öllum hinum kapítalísku löndunum, sem Kína eys smjaðri yfir. Kínversku leiðtogarnir hafa tileinkað sér þær endurskoðunarsinnuðu kenningar að stór lönd eins og Kína, sem eiga mikil náttúruauðæfi, geti tekið lán hjá bandarísku heimsvaldastefnunni eða hvaða ríki, auðhring

eða stórum kapítalískum banka sem er, af því að þeir ættu að geta endurgreitt lánin. Júgóslavnesku endurskoðunarsinnarnir hafa stutt þessa skoðun. Með því að auglýsa reynslu sína af "uppbyggingu þessa sérstaka sósíalisma" með aðstoð fjármálafáveldis heimsins og þá sérstaklega bandaríska auðvaldsins, gefa þeir Kína fordæmi og hvatningu til að fylgja þessari braut án þess að hika.

Stóru löndin geta borgað aftur þau lán, sem þau taka, en þær heimsvaldasinnuðu fjárfestingar, sem gerðar eru í þessum stóru ríkjum, eins og í hinum endurskoðunarsinnuðu Sovétríkjum, Kína eða annarsstaðar hafa óhjákvæmilega í för með sér alvarlegar afleiðingar í ný-nýlendumálum. Auðæfi og þrældómur alþýðunnar eru einnig gjörnýtt í þágu erlendu kapítalistasamsteypanna og einokunarinnar. Bandarísku heimsvaldasinnarnir, og þróuðu kapítalísku ríkin í V-Evrópu eða Japan, sem fjárfesta í Kína og hinum endurskoðunarsinnuðu löndunum ætla sér að setjast að þar og vefa saman samsteypur landa sinna í náinni samvinnu við auðhringana og mikilvægustu iðnaðargreinarnar í þessum löndum.

Spurningin um fjárfestingar heimsvaldaríkja í Kína er ekki eins einföld og endurskoðunarsinnarnir vilja vera láta, þegar þeir kalla þennan átroðning fjármagns í löndum sínum hættulausan undir því yfirskyni að fjármagnið komi ekki inn í landið fyrir tilstilli millirríkjasambanda, heldur gegnum einka-banka og fyrirtæki, án þess að stjórnmál eða stjórnmála-hagsmunir komi þar nærri (samt hafa háttsettir kínverskir leiðtogar lýst því yfir nýlega að þeir muni samþykkja stjórnalán frá útlöndum). Hvert einasta land, stórt eða smátt, sem verður skuldugt öðru heimsvaldaríkinu, stofnar frelsi sínu, sjálfstæði og sjálfsstjórn í hættu. Þetta gildir sérstaklega um lönd sem standa fjárhagslega höllum fæti eins og t.d. Kína. Sann-sósíalískt land hefur enga

þörf fyrir slík lán. Það finnur uppsprettur efnahagsþróunar sinnar heimafyrir, í náttúruauðæfum, í innlendum orkulindum, og í sköpunarkrafti þjóðarinnar. Dæmið um Albaníu, lítið land, sýnir mjög skýrt hvaða aðferðir, auðæfi og ótæmandi getu sósíalískt land hefur til yfirráða í þróun sinni. Stórt land, sem hefur yfir að ráða enn fleiri tækjum og auðæfum, getur nýtt þau margfalt betur ef það fylgir marxísku-lenínísku línunni hiklaust.

Þegar kínverski markaðurinn var opnaður fyrir bandarísku heimsvaldastefnunni og stóru bandarísku og vestrænu fyrirtækjunum, var því fagnað taumlaust af bandarísku heimsvaldasinnunum og borgarastéttinni um allan heim. Fjölþjóðafyrirtækin og iðnrekendur Bandaríkjanna þekkja vel efnahag Kína og náttúruauðæfi þess og gera þessvegna sitt ýtrasta til að vefa sitt efnahagslega net þar, búa til samsteypufyrirtæki og græða sem mest. Það eru ekki bara stóru bandarísku fyrirtækin, sem vinna á þennan hátt í Kína, heldur einnig fyrirtæki Japan, V-Þýskalands og hinna háþróuðu kapítalísku landanna gera það sama.

Kína hefur þegar gert samning við Japan um afgreiðslu á allt að 10 milljónum tonna af olíu á ári hverju. Stór hópur fulltrúa frá ítalska fyrirtækinu ENI fóru til Kína til að bjóða einkaleyfi á olíurannsóknartækni, en hittu þar fyrir stóra hópa frá bandarísku olíufyrirtækjunum, sem þegar höfðu samið við kínversk yfirvöld um sameiginlega borun og nýtingu á olíunni. Kína vinnur á sama hátt með vinnslu fleiri efna úr jörð svo sem járns og annarra dýrmætra málma, en gnægð er af slíku í Kína. Þýsku kolarisarnir eru nú í Kína og hafa gert samninga upp á fleiri tugi milljarða marka. Kínverskir ráðherrar ferðast fram og aftur milli Japan, Bandaríkjanna og Evrópu til að biðja um lán og panta nútíma tækniútbúnað, kaupa nútíma vopn, gera tæknilega og vísindalega samninga o.s.frv. Dyrnar að öllum

kínverskum stofnunum og fyrirtækjum hafa verið opnaðar fyrir verslunarmönnum frá Tokyo, Wall Street og EG og þeir þreyja kapphlaup um hver muni verða fyrstur til Peking og hreppa þau miklu tæknivæðingarverkefni, sem kínverska stjórnin býður út. Á þennan hátt dregst Kína einnig inn í hringiðu heimsvalda-samsteypunnar, inn í heimsvaldasinnaða græðgina eftir neðanjarðarauðæfum og hráefnum Kína og inn í féflettingu kínverskra verkamanna.

Það er velþekkt staðreynd að kapítalistinn hjálpar engum án þess að vega fyrst og meta sína eigin efnahagslegu, pólitísku og hugmyndafræðilegu hagsmuni. Það er ekki bara spurning um þann hagnaðarhluta, sem hann öðlast. Um leið og kapítalískt land veitir lán, fylgir einnig með láninu lífsvenjur og kapítalískur hugsunarháttur í því landi, sem lánið fær, það setur á fót herstöðvar og breiðir úr sér hljóðlega eins og olíublettur, það stækkar köngulóarvefinn með köngulóna í miðjunni, sem tilbúin er að sjúga blóðið úr öllum þeim flugum, sem festast í netinu, eins og skeði í Júgóslavíu og eins og er nú að ske í Sovétríkjunum. Sama mun einnig ske í Kína.

Þessvegna mun Kína einnig gefast upp, eins og það hefur nú þegar gert, í pólitískum og hugmyndafræðilegum efnum og kínverski markaðurinn mun verða mjög mikilvægur markaður fyrir bandarísku heimsvaldastefnuna og hin iðnvæddu kapítalísku ríkin.

Það fer ekki hjá því að bandarísku, v-þýsku og japönsku lánin og fjárfestingarnar skerði sjálfstæði og fullveldi Kína að miklu leyti. Svona lán gera hvert móttökuríki háð lánslandinu, þar sem lánadrottinninn neyðir eigin stjórnmálum upp á lántakann. Hvert ríki, stórt eða smátt, sem lendir í snöru heimsvaldastefnunnar, glatar að hluta til eða algjörlega stjórnmálafrelsi sínu, sjálfstæði og fullveldi. Meira að segja Sovétríkin hafa ánetjast þessu ástandi og eru nú ó-

fullkomið fullveldi, þó þau hafi verið efnahagslega og hernaðarlega miklu voldugri en Kína, þegar þau gengust inn á viðreisn kapítalismans.

Þegar harðnar í ári hjá heimsvaldastefnunni, missa litlu löndin auðvitað frelsi sitt og sjálfstæði miklu fyrr en stóru löndin eins og Kína og Sovétríkin, ekki bara vegna þess að þau síðarnefndu hafa meiri hernaðarlegan og efnahagslegan styrk, heldur einnig vegna þess að stóru löndin berjast fyrir vörn sinna markaða og fyrir að vinna nýja markaði, í skjóli þessa styrks. Þau berjast fyrir útvíkkun áhrifasvæðis síns og fyrir að vinna ný áhrifasvæði til þess að þjarma hvert að öðru og þegar ekki eru til aðrar leiðir, þá er jafnvel farið í stríð. En þetta bjargar þeim þó ekki frá hlekkjum lánanna og fjárfestinganna, sem eru þeim um hendur og fætur. Lánin verður að borga aftur með vöxtum. En þegar ekki er hægt að borga þau, eru ný lán tekin. Skuldirnar hrannast upp, kapítalisitinn krefst borgunar og þegar ekki er hægt að borga, er gengið hart á lántakann. Bandarísku einokunarfyrirtækin ráða t.d. öllu um stjórnmálastefnu stjórnarinnar, neyða hana til að vernda fjármagn þeirra með öllum ráðum, meira að segja með stríðsyfirlýsingum, ef þurfa þykir.

Þegar litið er á þann ákafa, sem kínversku leiðtogarnir sýna í tilraunum sínum við að styðja sig við bandarísku heimsvaldastefnuna, við kapítalista Bandaríkjanna, til að þróa efnahag lands síns, falla allar þeirra háværu staðhæfingar um að kapítalismanum fari hrakandi, um sig sjálfar. Yfirlýsingar þeirra um hnignun bandarísku heimsvaldastefnunnar eru bara blekking, alveg eins og yfirlýsingar þeirra um að treysta á eigin mátt. Kínversku endurskoðunarsinnarnir tala sér þvert um geð, eins og allir geta séð af gjörðum þeirra.

Opinberir kínverskir fjölmiðlar lýsa oft yfir óróleika sínum vegna lána þeirra sem sósíalheimsvaldasinnuðu Sovétríkin fá frá bandarískum,

v-þýskum, japönskum og öðrum bönkum. Þeir hvetja Bandaríkin og hin kapítalísku löndin til að fara varlega því Sovétríkin noti tækniaðstoð og lán sem þau fá til að þróa og styrkja efnahag sinn og her og þessi aðstoð og lán auki þá hættu, sem felst í sósíalheimsvaldastefnunni, en hún skipar nú sama sess og þriðja ríkið gerði, að sögn kínversku leiðtoganna. Þess vegna hvetja þeir til þess að lánveitingar verði stöðvaðar þegar í stað. Kínversku fjölmiðlarnir nota sama málflutning og Strauss, sá velþekkti vestur-þýski nasisti og hefndarsinni.

Það er ekki erfitt að skilja hræðsluna sem kínversku leiðtogarnir eru helteknir af gagnvart lánunum sem Sovétríkin fá. Þeir hafa engar áhyggjur af kapítalísku eðli þessara lána, eða af þeirri hættu sem fullveldi Sovétríkjanna stafar af þeim. Það sem þeir sjá ofsjónum yfir er að bandarísku auðjöfrarnir, stjórn Bandaríkjanna og aðrar kapítalískar stjórnir heimsvaldasinnaðra landa, skuli veita þessa hjálp til Sovétríkjanna, en ekki til Kína, því það telja þeir enga hættu fyrir sig heldur eingöngu hagsbætur.

Þetta er önnur hliðin á áætlun Kína um að verða risaveldi. Hin hliðin er tilraun til yfirráða yfir minna þróuðum löndum heimsins, til að verða leiðtogi yfir því sem Kína kallar "þriðja heiminn".

Hópurinn sem ræður ríkjum í Kína í dag leggur þunga áherslu á "þriðja heiminn", sem m.a. - og það hvorki fyrir tilviljun né að ástæðulausu - felur í sér Kína. Þriðji heimur kínversku endurskoðunarsinnanna á sér augljósan pólitískan tilgang. Hann er hluti af stjórnlist sem stefnir að því að breyta Kína í risaveldi eins skjótt og unnt er. Kína ætlar að safna kringum sig öllum löndum "þriðja heimsins" - eða "bandalagalausu" löndunum eða "þróunarlöndunum" - til að mynda afl, sem ekki aðeins eykur styrk Kína almennt, heldur mun hjálpa Kína í baráttunni við hin risa-

veldin, USA og Sovétríkin, þannig að Kína sé þyngra á metunum í samningunum um skiptingu heimsins í markaði og áhrifasvæði og geti öðlast raunverulega stöðu heimsvaldasinnaðs risaveldis. Kína reynir að framkvæma áætlun sína um að safna saman eins mörgum af ríkjum heimsins og mögulegt er undir slagorðunum um stuðning við frelsun þjóðanna frá ný-nýlendustefnunni til sósíalismans með baráttunni gegn heimsvaldastefnunni. Kína talar um þessa heimsvaldastefnu á ansi óhlutlægan hátt, en heldur fram að sovéska heimsvaldastefnan sé sú hættulegasta.

Kína hefur fundið upp þessi lýðskrums-slagorð sem eru gersneydd öllu fræðilegu innihaldi, í von um að þau muni hjálpa Kína til að framkvæma einræðisáætlanir. Í byrjun ætlar Kína að stofna kínversk yfirráð í s.k. þriðja heiminum og síðan stjórna þessum "heimi" til hagsbóta fyrir heimsvaldasinnaða hagsmuni sína. Í augnablikinu reynir Kína að fela þetta bakvið orðróminn um að það sé sósíalískt land. Landið notfærir sér þá staðreynd að sósíalískt land geti ekki haft þann tilgang að binda aðrar þjóðir í hlekki þrælsins, fara illa með önnur lönd eða berjast gegn, kúga eða arðræna þau. Kína notar þessi slagorð og styður þau með þeirri staðreynd að Kommúnistaflokkur Kína, sem hinn "mikli" Mao Tsetung stofnaði, er álitinn marx-lenínískur flokkur sem sé trúr kenningum Marx og Lenín, kenningum sem eru á móti allri illsku í kapítalíska hagkerfinu, nýlendu-arðráninu o.s.frv.

Með því að dyljast bak við þessa fölsku grímu og fela sig bak við hugtakið "þriðji heimurinn" og telja sig sjálft til þessa "heims" án nokkurrar stéttarákvörðunar eða stéttarskilyrða, heldur Kína að það nái auðveldar stjórnlistarlegu takmarki sínu - að ná einráðum í þessum "heimi". Sovétríkin hafa framið sömu svik gagnvart öðrum löndum. Allir krúsjeff-endurskoðunarsinnarnir tala dag og nótt um að þeir séu kommúnistar og að

flokkar þeirra séu "ekta marx-lenínískir flokkar." Sovésku endurskoðunarsinnarnir reyna einnig að ná yfirráðum í heiminum í samskonar dulargervi. Þar af leiðandi getum við sagt með réttu að ekki sé neinn verulegur munur á aðgerðum kínverjanna og sovésku sósíalheimsvaldasinnanna.

Öll þessi þróun kínversku stjórnmálanna og framkvæmdanna sannar að fullu þá lýsingu sem marxisminn-lenínisminn gefur á heimsvaldastefnunni sem fjármálaauðvaldi, sem stofnar einræði sitt hvívetna. Á þennan hátt reynir Kína líka að troða sér upp á önnur lönd "þriðja heimsins" og "festa rætur" þar. En þá "rótfestu" er einungis hægt að öðlast með miklum fórnum.

Til að komast inn í þriðja heiminn og ná undir sig mörkuðum þarf fjármagn. Ríkjandi stéttir, sem sitja í valdastóli í löndum þriðja heimsins, vilja fjárfestingar, lán og "hjálp". Kína getur þó ekki hjálpað þeim í stórum stíl, því það hefur ekki nauðsynlegan efnahagslegan styrk. Kínverjar eru einmitt að reyna að byggja upp þesskonar styrk með hjálp bandarísku heimsvaldastefnunnar. Við þessar kringumstæður veit borgarastétt "þriðja heimsins" vel, að hún getur ekki haft svo mikið gagn af Kína nú sem stendur, hvorki efnahagslega, tæknilega eða hernaðarlega. Borgarastéttin hefur meira upp úr bandarísku heimsvaldastefnunni og sovésku sósíalheimsvaldastefnunni, sem eru auðugar að efnahag, tækni og herstyrk.

Kína berst, eins og öll lönd sem stefna að heimsvöldum, og mun berjast ákafar til að auka áhrif sín og völd í heiminum. Þessar áætlanir eru nú þegar augljósar. Kína opnar banka, ekki bara í Hong Kong, þar sem landið hefur löngum átt banka, heldur líka í Evrópu og á öðrum stöðum. Þeir munu sérstaklega sækjast eftir að opna banka og flytja út fjármagn til landa "þriðja heimsins". Um þessar mundir eru kínverjar aðgerðarlitlir á þessu sviði. "Hjálp" Kína takmarkast af byggingu sementverksmiðju, lagningu á

járnbraut eða byggingu sjúkrahúss, því möguleikar þeirra eru takmarkaðir. Það verður ekki fyrr en bandarískar, japanskar og aðrar fjárfestingar í Kína fara að bera tilætlaðan ávöxt, þ.e.a.s. þegar efnahagur, verslun og hernaðartækni eru orðin þróuð, að kínversk útþensla, efnahagsleg og hernaðarleg byrjar í raun. En til að slíkt geti orðið þarf tíma.

Þangað til mun Kína fá að skipa málum á þann hátt, sem það hefur þegar byrjað á, með því að "hjálpa" og veita vaxtalaus lán eða lán með mjög lágum vöxtum, um leið og rússarnir og bandaríkjamennirnir krefjast mjög hárra vaxta. Meðan kínverskir fjármunir flæða ekki úr landi, munu endurskoðunarsinnuðu kínversku leiðtogarnir einbeita sér að áhrifum áróðursgildis þeirrar litlu hjálpar og lána, sem þeir veita "þróunarlöndunum" með því að lofprísa alþjóðlegt eðli og óeigingjarnan tilgang þeirra og undirleikurinn er svo slagorðin um sjálfstraust til frelsunar og uppbyggingar landsins.

Því meir sem Kína þróast efnahagslega og hernaðarlega, þeim mun ákafari verða þeir í að troðast upp á og ráða yfir minni og vanþróaðri löndum með fjármagnsútflutningi sínum og þá munu þeir ekki lengur vilja fá 1-2% vexti af lánum sínum, heldur haga sér eins og hinir gera.

En allar þessar áætlanir og tilraunir eru ekki auðveldar í framkvæmd. Þróuðu heimsvalda- og kapítalista-löndin, sem hafa áhrif á löndin í þriðja heiminum, munu ekki leyfa Kína að taka svo auðveldlega þá markaði, sem þeir lögðu undir sig fyrir löngu með ræningjaaðferðum. Þeir verja ekki einungis svæði sem þeir hafa haft lengi, þeir reyna einnig með öllum ráðum að ná undir sig nýjum svæðum, og leyfa Kína ekki að leggja þessi landssvæði undir sig.

Heimsvaldastefnan er miskunnarlaus við alla sem eru í félagi við hana, hvort sem hún á í erfiðleikum eða blómstrar. Stundum gerir hún

undantekningar af illri nauðsyn eða í gróðaskyni, en oftast reynir hún að herða taumana, ekki bara á máttlitlum löndum, heldur líka á þróuðum löndum eins og iðnþróuðu kapítalísku löndunum. Bandaríkin hafa t.d. alltaf haft þessa stefnu gagnvart kapítalískum bandamönnum sínum þegar þeir hafa lent í erfiðleikum í heimsvaldastríðunum, sem brotist hafa út milli þeirra. En jafnvel eftir þessi stríð, þegar bandamennirnir hafa reynt að jafna sig, hefur bandaríska heimsvaldastefnan gert það sem í hennar valdi hefur staðið til að koma í veg fyrir að þau þrengi sér inn í þau lönd í heiminum þar sem bandaríska heimsvaldastefnan hefur þegar hreiðrað um sig.

Eftir aðra heimsstyrjöldina þrengdi bandaríska heimsvaldastefnan sér inn á markaði pundsins, frankans o.fl. gjaldmiðla, undir því yfirskini að aðstoða England, og Frakkland, sem höfðu veikst verulega í stríðinu. Bandaríska einokunin og bandarísku samsteypurnar í málmiðnaðinum, efnaiðnaðinum, flutningakerfinu og mörgum öðrum greinum, sem hafa lífsnauðsynlega þýðingu fyrir þróun kapítalismans, þrengdu sér inní einokun og samsteypur Englands, Frakklands og fleiri landa og gleyptu þær næstum og beygðu þessi lönd síðan undir bandarísku heimsvaldastefnuna. Þessi grimma og óseðjandi heimsvaldastefna, eins og aðrar heimsvaldastefnur, getur ekki heldur hegðað sér öðruvísi gagnvart Kína.

Þar sem Kína veit vel um erfiðleikana sem eru því samfara að þrengja sér efnahagslega og hernaðarlega inn í lönd "þriðja heimsins" heldur Kína að það geti náð alræði yfir þeim með því að ná stjórnmálalegri og hugmyndafræðilegri fótfestu þar. Kína heldur að þetta verði hægt með því að vinna þríþætt: Í fyrsta lagi með því að láta vera að berjast gegn bandarísku heimsvaldastefnunni og ríkjandi klíkum í kapítalísku löndunum og í stað þess að ganga í bandalag við heimsvaldastefnu þessa og klíkur hennar. Í öðru lagi með því að berjast gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni, sem býr við landamæri landsins í þeim tilgangi

að veikja og eyðileggja herstöðvar þeirra í Asíu, Afríku og S-Ameríku. Í þriðja lagi með því að svíkja öreigana og illa farnar þjóðir þessara heimsálfa með lýðskrumi, falsbyltingarsinnuðum og falssósíalískum aðgerðum, um leið og grafið er undan hverri byltingarsinnaðri frelsishreyfingu.

Bandaríska heimsvaldastefnan og hin heimsvaldaríkin, ásamt sósíalheimsvaldastefnunni, vita vel um þessar áætlanir Kína. Löndin í "þriðja heiminum" vita einnig um þær og verða æ sannfærðari um, að Kína reyni að plata þau, að tilgangur þess sé ekki að styðja og hjálpa þeim, heldur að verða risaveldi sjálft. Flestir af leiðtogunum, sem við völd eru í "þriðja heiminum" hafa lengi verið tengdir bandarísku heimsvaldastefnunni eða þróuðu kapítalísku auðvaldslöndunum eins og Bretlandi, Frakklandi, Þýskalandi, Belgíu, Japan o.s.frv. Þessvegna hafa þróuðu heimsvalda- og kapítalísku ríkin ekki minnstu áhyggjur af daðri Kína við "þriðja heiminn".

Tilraunir Kína til að tengjast "þriðja heiminum" með stjórnmálum sínum og hugmyndafræði - hinni s.k. "hugsun Mao Tsetungs" - getur heldur ekki heppnast af annarri ástæðu - hugmyndafræði og stjórnmálastefna kínverja er ruglingsleg. Stjórnmálastefna Kína er sundurlaus. Hún er reikul og breytist eftir kringumstæðum og stundarhagsmunum. Ríkjandi stéttir í "þriðja heiminum" eru ekki hræddar við þessa hugmyndafræði, því þær skilja að hún er ekki fylgjandi byltingunni og raunverulegri þjóðfrelsun. Til að auðvelda sér kúgun og arðrán þjóðanna, hefur borgarastéttin í þessum löndum skapað sína eigin flokka með allskyns nöfnum. Þessir flokkar, sem eru nátengdir erlenda auðmagninu, sem fjárfest er í löndum "þriðja heimsins", fara létt með að berjast gegn og afhjúpa kínversku stefnuna. Þess vegna hafa kínversku endurskoðunarsinnuðu leiðtogarnir valið baráttuaðferð með yndisþýðum brosum gagnvart flokkum þessara landa og reyna að vera "sykursætir" hvar og hvenær sem er.

Með áætlunum sínum um að ná völdum í "þriðja

heiminum", gerir Kína það sem það getur til að virkja í sína bágu samtök hins vinnandi fjölda í þeim "heimi". Í dag eru þó kúguðu þjóðirnar með öreigana í broddi fylkingar ekki í sömu aðstöðu og þær voru í lok 19.aldar og byrjun þeirrar 20. Þær eru á móti öllum einræðis- og kúgunarstjórnmálastefnum frá hinum miklu heimsvaldaríkjum, gömlum sem nýjum, bandarískum, rússneskum eða kínverskum. Í dag hafa þjóðirnar almennt vaknað og með baráttu sinni hefur þeim tekist, á einn eða annan hátt, að öðlast meðvitund um að þær verði að verja efnahagslegan og pólitískan rétt. Það fer ekki hjá því að þjóðir "þriðja heimsins" sjái, að Kína vinnur ekki að því að færa þeim hugmyndir byltingarinnar og þjóðfrelsis, heldur að því að eyðileggja byltinguna, sem kemur í veg fyrir að kínversk áhrif ryðji sér til rúms. Kínverska stefnan í bandalagi við Bandaríkin og hin ný-nýlendulöndin, flettir einnig ofan af kínversku sósíalheimsvaldastefnunni í augum þjóðanna.

Kína getur ekki útbreitt jákvæðan og byltingarsinnaðan áróður í löndum "þriðja heimsins", þar sem Kína myndi þá komast uppá kant við risaveldið, sem það vonast til að fá bæði fjárfestingar og fullkomna tæknivæðingu frá. Kína getur heldur ekki rekið slíkan áróður, þar sem byltingin mundi steypa af stóli þeim afturhaldsklíkum, sem ríkja í sumum löndum "þriðja heimsins", klíkum sem Kína styður og stuðlar að að haldi völdum.

Mikill áhugi kínversku leiðtoganna á að breyta landi sínu í risaveldi svo fljótt sem auðið er og koma á drottnunarvaldi sínu allsstaðar, sérstaklega í "þriðja heiminum", hefur rekið þá til að grundvalla hernaðarlist sína og utanríkisstefnu á því að það verði heimsvaldasinnað stríð. Æðsta ósk Kína er að sjá Bandaríkin og Sovétríkin ljósta saman í Evrópu meðan Kína gæti hlýjað sér í hæfilegri fjarlægð á kjarnavopnabálinu, sem myndi gjöreyða þessum tveimur keppinautum og þar með yrði Kína alvaldur í heiminum.

Á meðan Kína finnst það ekki vera nægilega sterkt til að keppa við hin risaveldin og á meðan það hefur

ekki öðlast það sæti, sem "það á skilið" sem risaveldi mun Kína sækjast eftir friði fyrir sig og stríði fyrir hina. Í tengslum við núverandi friðarþörf Kínverja, fara þeir þannig að, að meðan þeir reyna að koma á stríði milli Bandaríkjanna og Sovétríkjanna með augljósum stjórnkænsku-brögðum, halda þeir sjálfum sér utan við og halda áfram með nútíma tæknivæðingu sína. Yfirlýsing Teng Hsíaping um að það verði ekki stríð næstu 20 árin er engin tilviljun. Með því á hann við að risaveldin og hin heimsvaldalöndin þurfi ekki að hræðast Kína í þessi 20 ár. Um leið eru kínversku leiðtogarnir að kynda undir stríð milli risaveldanna í Evrópu, langt frá Kína og án allrar hættu á að það blandist inn í stríðið. Hitt er svo annað mál, hvort þetta er framkvæmanlegt, en staðreyndin er, að kínversku leiðtogarnir vinna að þessu, því þeir eru illilega þurfandi fyrir frið á því tímabili, sem þeir telja sig þurfa til að framkvæma áætlanir sínar - að breyta Kína í risaveldi.

Kína boðar hástöfum styrkingu "evrópsku einingarinnar",þ.e. "einingarinnar milli þróaðra kapítalískra landa Evrópu". Það styður þessa einingu í öllum málum og vogar sér að "kenna" gömlu úlfunum og refunum, hvernig þeir eigi að styrkja hernaðar- og efnahagseiningu sína, skipulagslega og ríkiseiningu o.s. frv., gagnvart hættunni, sem stafar frá sovésku sósíalheimsvaldastefnunni. En þeir hafa enga þörf fyrir neina kennslu frá Kína, því þeir skilja og vita mjög vel hvaðan hættan kemur. Þróuðu vesturveldin eru ekki svo einföld að þau taki kínversku ráðin og óskirnar bókstaflega. Þau styrkja sig til að vinna á væntanlegri hættu frá Sovétríkjunum, en um leið reyna þau mikið til þess að sambandið við þetta land verði ekki verra, að ekki verði gengið of langt í því að ergja "rússneska björninn". Þetta er Kína auðvitað þvert um geð.

Örvun Kína á andstæðunum milli þess og Sovétríkjanna gleður kapítlísk ríki Evrópu og Bandaríkin, þar sem þetta auðveldar þeim að segja óbeint við Sovétríkin: "Aðalóvinurinn er Kína, en við hinsveg-

ar ásamt ykkur, viljum afvopnun og friðsama sambúð, óháð því, sem Kína segir".

Þessi ríki lýsa því yfir í aðra röndina að þau vilji frið um leið og þau vígbúast til að styrkja annars vegar sitt eigið drottnunarvald og hins vegar hervald sitt gegn höfuðóvininum - byltingunni. Þetta er tilgangurinn með öllum fundunum í Helsingfors og Belgrad og víðar, sem virðast óendanlegir og minna ískyggilega á Vínarfundinn eftir ósigur Napóleons, en hann er þekktur sem fundur dansleikjanna og kvöldboðanna.

Eins og Teng Hsíaoping lýsti yfir opinberlega í viðtali við forstjóra AFP(franska fréttastofan), hvetja kínversku leiðtogarnir til stofnunar "breiðrar fylkingar, sem felur í sér þriðja heiminn, annan heiminn og Bandaríkin", til að berjast gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni.

Baráttuaðferð hinna endurskoðunarsinnuðu kínversku leiðtoga, sem leitast við að æsa bandarísku heimsvaldastefnuna, vesturevrópsku heimsvaldastefnuna o.s.frv. upp í stríð gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni, ber miklu fremur í skauti sér hættuna á stríði milli Kína og Sovétríkjanna heldur en stríði milli Sovétríkjanna og Bandaríkjanna og Nato-bandamanna þeirra.

Á sama hátt og Kína æsir hin löndin til ófriðar, æsa bandarísku heimsvaldasinnarnir, þróuðu kapítalísku löndin og öll þau lönd, þar sem borgaralegar kapítalískar klíkur eru við völd, Sovétríkin og Kína upp hvort á móti öðru. Þess vegna er það sennilegt að stjórnmálastefna Bandaríkjanna og röng hernaðarlist Kína muni neyða Sovétríkin til að auka hernaðarlegan styrk sinn enn meira og að þau muni fyrst ráðast á Kína, þar sem þau eru heimsvaldasinnað veldi.

Kína, að sínu leyti, áætlar að ráðast á Sovétríkin, þegar það er orðið nógu sterkt, því það gerir tilkall til stórra landssvæða í Síberíu og annarra svæða í austurlöndum fjær. Kína gerði tilkall til þessara svæða fyrir löngu, en mun herða kröfurnar

verulega þegar það er tilbúið og hefur komið sér upp her, sem útbúinn er alls kyns vopnum. Þetta er innihaldið í því, sem Hua Kuofeng sagði við fyrrverandi íhalds-forsætisráðherra Bretlands, Heath: "Við vonumst til að eiga eftir að sjá volduga, sameinaða Evrópu; við höldum einnig að Evrópa vonist eftir að fá að kynnast voldugu Kína." Í stuttu máli. Hua Kuofeng segir við borgarastétt Evrópu: "Byggið ykkur upp að styrk og ráðist á Sovétríkin úr vestri, meðan við kínverjar styrkjum okkur og gerum árás úr austri."

Kínverska stjórnmálastefnan hefur rutt breiðan og mjög frjóan veg fyrir Bandaríkin, veg, sem upphaflega var ruddur af Mao Tsetung, Chu Enlai og Nixon. Margar brýr voru lagðar milli Bandaríkjanna og Kína, dulbúnar brýr, virkar og frjósamar brýr. Nixon sagði: "Við verðum að reisa brú, sem er nógu löng til að ná milli San Fransisco og Peking." Heimboðið, sem Mao Tsetung og Chu Enlai sendu Nixon eftir Watergate-hneykslið, og heimsókn Nixons til Mao Tsetungs, átti sér orsakir og tilgang. Þetta þýddi að vináttan við Bandaríkin var ekki bara tilviljunarkennd vinátta milli manna, heldur vinátta milli landa, milli Kína og Bandaríkjanna, þó forsetinn sem fyrstur ruddi þá braut hefði verið rekinn úr starfi fyrir spilltar aðgerðir.

Nú, þegar Carter er kominn til valda, eru vináttuböndin milli Kína og Bandaríkjanna styrkt. Bandaríkin hafa mikinn áhuga á núverandi afstöðu Kína og Carter hvetur stjórnlist þess á margan hátt.

Bandaríkin hafa verulegan áhuga á að veita Kína töluverða aðstoð, stjórnmálalega, hernaðarlega og efnahagslega til að æsa það gegn Sovétríkjunum. Þau hafa látið Kína í té kjarnorkuvopnaleyndarmál. Þetta er nú orðið lýðum ljóst. Bandaríkin hafa einnig útvegað Kína nýjustu tölvur sem hægt er að nota í kjarnorkustríði, Kína hefur fengið allar upplýsingar, þannig að það getur byggt sína eigin kjarnorkukafbáta. Nú er talað hreinskilningslega og opinberlega um það í Washington, að láta Kína hafa nútíma vopn. Allar

þessar "blessanir", sem Bandaríkin bjóða Kína, eru auðvitað ekki til þess að gera það að stórveldi til lands og sjávar, sem geti ógnað Bandaríkjunum, eins og Japan gerði í síðustu heimsstyrjöld. Nei, Bandaríska heimsvaldastefnan hefur ákveðinn tilgang með þeirri s.k. "hjálp", sem þeir veita hinum og þessum, sérstaklega Kína. Eftirsókn Kína í að verða risaveld og stórkostlegt brambolt þeirra við að reyna að ná bæði Bandaríkjunum og Sovétríkjunum, leiða óhjákvæmilega til spennu, eldsvoða og styrjalda, sem get annað hvort orðið stríð á heimavelli eða heimsstyrjöld.

Öll kenningin um "þrjá heima", öll sú hernaðarlist, bandalög og "víglínur", sem hún krefst og þau takmörk, sem hún setur sér, æsir til heimsvaldasinnaðrar heimsstyrjaldar.

Nikita Krústév og nútíma endurskoðunarsinnarnir sömdu hina alræmdu krúsévsku kenningu um "friðsamlega sambúð", sem krafðist "félagslegs friðar", "friðsamlegrar samkeppni" og "heims án vopna og styrjalda" og "friðsamlega leið" byltingarinnar. Hún var til þess gerð að veikja stéttabaráttuna með því að dylja og breiða yfir grundvallar andstæðurnar á þessu skeiði sögunnar. Sérstaklega varð Krústév tíðrætt um að andstæðurnar milli Sovétríkjanna og bandarísku heimsvaldastefnunnar, og andstæðurnar milli sósíalíska kerfisins og þess kapítalíska ættu að hverfa. Hann var þeirrar skoðunar að eftir þær breytingar, sem höfðu átt sér stað í heiminum á þessum tíma, væri hægt að leysa sögulegar andstæður sósíalisma og kapítalisma með friðsamlegri samkeppni milli aðilanna á sviðum efnahags, hugmyndafræði, stjórnmála, menningar o.s.frv.

"Látum tímann leiða í ljós hver hefur rétt fyrir sér", sagði Krústév, og í þessari samkeppni áttu þjóðirnar að fá að kjósa heppilegustu stjórnvöldin" í heilögum friði. Árangurinn af þessari "friðsamlegu samkeppni" varð sá að Nikita Krústév ráðlagði þjóðunum að selja auðævi sín til risaveldanna og bíða með að tryggja sér frelsi,sjálfstæði og eigin

velferð. Auðvitað var flett ofan af þessari andmarxísku stjórnmálastefnu, og það var flokkur okkar, sem varð fyrstur til þess að ráðast á hana.

Kommúnistaflokkur Kína hafði svipaða stjórnmálastefnu og Krústév á tímum Maos. Þessi stefna hvetur bæði öreigana og borgarastéttina, þjóðirnar jafnt og drottnarana að hætta stéttabaráttunni og sameinast í baráttunni gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni og gleyma þeirri bandarísku.

Kenningin um "heimana þrjá" er jafn afturhaldssöm kenning og kenning Krústévs um "friðsamlega sambúð". En Krústév og fylgismenn hans, talsmenn nútíma endurskoðunarstefnu, virtust friðarsinnar á yfirborðinu, meðan Mao Tsetung, Teng Hsiaoping og Hua Kuofeng o.fl. leyndu því ekkert að þeir vildu stríð. Þeir vilja láta í það skína, að heimsvaldasinnaða, kapítalíska einingin, sem þeir tilheyra sjálfir, sé vettvangur byltingarbaráttu, sem stefnir að sigri öreiganna og frelsun þjóðanna. Kenning Mao Tsetung og Kommúnistaflokks Kína um "heimana þrjá" hvetur nú samt ekki til byltingar, heldur í raun og veru til heimsvaldasinnaðrar styrjaldar.

Andstæðurnar, sem verða stöðugt ljósari og harðnandi samkeppni milli heimsvaldasinnaðra ríkja og eininga, leiða af sér hættuna á vopnuðum deilum og ránsstyrjöldum, sem munu hneppa þjóðir í þrældóm. Þetta er velþekkt marxísk-lenínísk kenning, sem sagan hefur sannað fullkomlega. Alheimsþróunin á okkar tímum sýnir einnig sannleiksgildi hennar.

Flokkur Vinnunnar í Albaníu hefur oft hækkað róminn til að yfirgnæfa háværan friðarsinnaðan áróður, sem risaveldin hafa í frammi af ásettu ráði til að svæfa þjóðirnar og friðelskandi lönd, trufla starfsemi þeirra og gera þau rugluð af öllum falsvonum og til að koma þeim á óvart. Oftar en einu sinni hefur flokkurinn beint athyglinni að þeirri staðreynd að bandaríska heimsvaldastefnan og rússneska sósíalheimsvaldastefnan er að ýta heiminum útí nýja heimsstyrjöld og að hættan á að slík styrjöld hefjist sé raunveruleg og á engan hátt ímynduð. Þessi ógnun má

aldrei falla í gleymsku hjá verkalýðnum, friðelskandi öflum og löndum, marxistum-lenínistum og framfarasinnuðu fólki í öllum heiminum, sem geta ekki setið aðgerðalaus með hendur í skauti gagnvart hættunni. En hvað skal gera til að stöðva heimsvaldasinnaða stríðsæsingamennina?

Það er alla vega ekki hægt með því að gefast upp og beygja sig undir vilja stríðsæsingamanna eða með því að láta baráttuna gegn þeim lognast útaf. Staðreyndirnar hafa sýnt að þær reikulu málamiðlanir og undanslátttur, sem Krútsév-endurskoðunarsinnarnir hafa gert, hafa ekki mildað bandarísku heimsvaldastefnuna, gert hana betri eða friðsamari - þvert á móti - hún hefur orðið ágengari og gráðugri. En marxistarnir-lenínistarnir eru ekki fylgjandi því að æsa upp heimsvaldasinnuðu löndin gegn hvert öðru, þeir óska heldur ekki eftir heimsvaldastríði, því það eru þjóðirnar, sem munu þjást í því. Lenín benti á, að stefna okkar hafi ekki það markmið að koma stríði af stað, heldur að koma í veg fyrir að heimsvaldasinnarnir sameinist gegn hinu sósíalíska landi.

> "...ef við í raun og veru vildum koma verkalýð og bændum í stríð", sagði hann, "væri það glæpur. En öll okkar stjórnmálastefna og áróður beinist að því að hætta stríðinu og á engan hátt að því að etja þjóðunum útí stríð. Reynslan hefur sýnt mjög ljóslega, að sósíalíska byltingin er eina leiðin út úr þessum eilífa stríðsrekstri." +

Eina rétta leiðin er þess vegna að verkalýðsstéttin rísi upp, vinnandi fólk og þjóðir stöðvi heimsvaldasinnaða stríðsæsingamenn með byltingarsinnuðum aðgerðum í heimalöndum sínum. Marxistar-lenínistarnir hafa alltaf verið og munu alltaf verða ákföfustu andstæðingar óréttlátra styrjalda.

Lenín kenndi byltingarsinnuðu kommúnistunum að það væri skylda þeirra að eyðileggja áætlanir heims-

---

+ V.I.Lenín, safn verka bindi 31,bls 540 (alb.útg.)

valdasinnuðu stríðsæsingamannanna og koma í veg fyrir að stríðið hefjist. Ef það reynist ómögulegt þá verði að virkja verkalýðsstéttina og alþýðuna og breyta heimsvaldastyrjöldinni í byltingarsinnaða frelsisstyrjöld.

Heimsvaldasinnarnir og sósíalheimsvaldasinnarnir hafa árásarstríð í blóðinu. Rembingur þeirra við að binda heiminn í þrældómshlekki leiðir þá til styrjaldar. En þó að það séu heimsvaldasinnarnir, sem stofna til heimsvaldasinnaðs ófriðar í heiminum, eru það samt öreigarnir, þjóðirnar, byltingarsinnarnir og allt framsækið fólk, sem fórnar blóði sínu. Þess vegna eru marx-lenínistarnir, öreigarnir og þjóðir heimsins á móti heimsvaldastríði og berjast þrotlaust til að eyðileggja áætlanir heimsvaldasinnanna um að draga heiminn enn einu sinni útí blóðbað.

Þess vegna má ekki halda fram heimsvaldastríði eins og kínversku endurskoðunarsinnarnir gera,heldur verður að berjast gegn því.

Það er skylda marx-lenínistanna að gera öreigunum og þjóðum heimsins það mögulegt að rísa upp í baráttu gegn kúgurunum til að svipta þá völdunum og forréttindunum og stofna alræði öreiganna. Þetta gerir Kína ekki og Kommúnistaflokkur Kína stefnir ekki að því. Með endurskoðunarsinnaðri kenningu sinni veikir og tefur þessi flokkur byltinguna og sundrar framvarðarsveit öreiganna, marxísku-lenínísku flokkunum, sem eiga að skipuleggja og leiða þessa byltingu.

Leiðin, sem kínversku leiðtogarnir mæla með, er sviksamleg. Það er leið, sem ekki samrýmist kenningu okkar, marxismanum-lenínismanum. Kínverska endurskoðunarstefnan veikir og heftir öreigana og þjóðir heimsins, heldur aftur af þeim með ógnunum um blóðuga styrjöld, heimsvaldasinnaðs glæpsamlegs stríðs, sem öreigarnir og alþýðan hefur megnustu óbeit á.

Þetta er enn ein ástæða fyrir því, að kenning Mao Tsetungs um "heimana þrjá" og stjórnmálastarfsemi Kínverska Kommúnistaflokksins og ríkisins getur

ekki kallast marxísk-lenínísk og byltingarsinnuð.

Þegar Krústév vildi vinna að samstarfi milli sósíalismans og heimsvaldastefnunnar, hugmyndafræðilega og efnahagslega, sögðust kínversku leiðtogarnir vera andvígir þessari stefnu og sögðu að ef friðsamleg sambúð ætti að verða að raunveruleika, þyrfti að berjast gegn heimsvaldastefnunni, því "sambúðin" gæti ekki stuðlað að endalokum heimsvaldastefnunnar og sigri byltingarinnar og frelsun þjóðanna.

En þessar yfirlýsingar urðu aldrei annað en orð á pappír. Í raun og veru hefur m.a. stjórn Kommúnistaflokks Kína verið og er enn hlynnt friðsamlegri sambúð samkvæmt fyrirmynd Krústévs. Í skjölum þeim, sem við vísuðum í, "Hugmynd varðandi stefnu alþjóðahreyfingar kommúnista", stendur meðal annars: "Stefna, sem byggð er á meginreglum er eina rétta stefnan...Hvað er átt við með stefnu sem byggð er á meginreglu? - Það er, að þegar við ákveðum og vinnum samkvæmt stefnu, hvers kyns, sem hún nú er, verðum við að vera öreigasinnuð, miða við grundvallarhagsmuni öreiganna og hafa að leiðarljósi kenningu marxismans-lenínismans og grundvallar lærdóm hans." Þetta ákvað Kommúnistaflokkur Kína, en hvað hefur hann gert og hvað er hann að gera núna? Hann hefur unnið og vinnur ennþá þveröfugt við eigin yfirlýsingar.

Í riti því, sem er nefnt hér að ofan og víðar, hefur Kommúnistaflokkur Kína útskýrt, að "fletta verði ofan af bandarísku heimsvaldastefnunni, því hún sé versti óvinur byltingarinnar, sósíalismans og þjóða heimsins." M.a. hefur því verið bætt við að "ekki megi styðja sig við bandarísku heimsvaldastefnuna eða nokkra aðra heimsvaldastefnu og ekki eigi að treysta á afturhaldssinna". En Kommúnistaflokkur Kína hefur ekki farið eftir þessum kenningum. Flokkur Vinnunnar í Albaníu, sem styðst ófrávíkjanlega við grundvallarreglur marxismans-lenínismans, heldur ákveðinn áfram baráttunni gegn heimsvaldastefnunni og sósíalheimsvaldastefnunni. Það er einmitt á þessu sviði, sem Flokkur Vinnunnar í Albaníu er í andstöðu við Kommúnistaflokk Kína. Kínversku

leiðtogarnir ásaka okkur Albani fyrir að gera ekki "marxíska-lenínska skilgreiningu á alþjóðaástandinu og andstæðunum", og að við þessvegna fylgjum ekki kínversku stefnunni, sem hvetur til "sameinaðrar Evrópu", Efnahagsbandalags og að öreigar heimsins sameinist Bandaríkjamönnum gegn Rússum. Niðurstaða þeirra er, að við fylgjum sovésku sósíalheimsvaldastefnunni, þar sem við styðjum ekki bandarísku heimsvaldastefnuna, "sameinaða Evrópu" o.s.frv.

Þessi afstaða þeirra er ekki einungis endurskoðunarsinnuð, hulin and-endurskoðunarsinnaðri huliðsskikkju, hún er einnig fjandsamleg hinni sósíalísku Albaníu og baknagar hana. Bandaríska heimsvaldastefnan er árásargjörn, stríðsóð og blóðþyrst. Bandaríkin láta sér ekki nægja óbreytt ástand, eins og Kínverjar halda fram. Þeir vilja breiða úr sér. Annars væri engin ástæða fyrir því að þeir væru andstæðingar Sovétríkjanna. Mao-tilvitnunin, sem þeir vitna í, sem segir að Bandaríkin séu orðin eins og rotta, sem allir elti og hrópi: "drepum'ana, drepum'ana", er tilraun til að sýna að það séu bara Sovétríkin sem vilji stríð, ekki Bandaríkin. Í vinsemd sinni gagnvart Bandaríkjunum, reyna Kínverjarnir að hindra allar árásir á það ríki, sem er nú orðið að aumri rottu, en er engu að síður að verða bandamaður Kína. Þetta er hin and-marxíska stjórnlist "marxistans" Mao.

Kínverska hernaðarlistin, sem grundvallast á skilgreiningu, sem styðst við kenninguna um "þrjá heima" hefur "loksins" útskýrt það, að "samkeppni milli risaveldanna beggja beinist að Evrópu". Einkennilegt. En af hverju endilega Evrópu en ekki einhverjum öðrum heimshluta, t.d. Asíu, Afríku, Ástralíu eða S-Ameríku, þar sem Sovétríkin eru að reyna að breiða úr sér?

Kínversku "kennimennirnir" útskýra það ekki. Þeir "styðja" mál sitt þannig: Sovétríkin eru mesti keppinautur Bandaríkjanna. Þessi tvö risaveldi, þar sem annað vill óbreytt ástand en hitt útþenslu, munu hefja styrjöldina í Evrópu, eins og á tímum Hitlers.

Hann sóttist einnig eftir útþenslu og heimsyfirráðum, en til þess að öðlast slíkt, varð hann að sigrast á Frakklandi, Bretlandi og Sovétríkjunum. Af þessum orsökum hóf Hitler stríðið í Evrópu og hvergi annarsstaðar. Ef Stalín treysti á Bretland og Bandaríkin, segja kínversku endurskoðunarsinnarnir, hvers vegna ættum við þá ekki að treysta á Bandaríkin einnig? En eins og við útskýrðum hér áður, gleyma þeir, að Sovétríkin sameinuðust Bretlandi og Bandaríkjunum eftir að Þýskaland réðst á Sovétríkin en ekki áður.

Þegar Þýskaland réðst á Frakkland og Bretland undir stjórn Wilhelms II mæltu leiðtogar Annars alþjóðasambandsins með "vörn fósturjarðarinnar". Bæði þýsku og frönsku sósíalistarnir tóku þessa stefnu. Það er alþekkt, hvernig Lenín fordæmdi þessa stefnu og hvernig hann fordæmdi heimsvaldasinnuðu styrjaldirnar.

Þegar kínversku endurskoðunarsinnarnir prédika núna sameiningu evrópsku þjóðanna og heimsvaldastefnunnar, undir því yfirskyni að verja þjóðfrelsið, eru þeir að gera nákvæmlega það sama og fylgjendur Annars alþjóðasambandsins. Þrátt fyrir þekkingu Leníns, eru þeir að hvetja til væntanlegrar kjarnorkustyrjaldar, sem bæði risaveldin eru að reyna að hefja, og þeir höfða til "föðurlandsástar" þjóðanna og öreiganna í Vestur-Evrópu og hvetja þær til að "gleyma" þessum "smá"- skoðanaágreiningi milli alþýðunnar og borgarastéttarinnar, sem fjallar um kúgun, sult, morð og atvinnuleysi. Þeir hvetja til þess að það sé ekki verið að ráðast á ríkisvald þjóðanna en sameinast heldur Nató,"sameinaðri Evrópu", Efnahagsbandalagi borgaranna og evrópsku auðhringjanna og beina kröftum sínum gegn Sovétríkjunum og verða agaðir hermenn borgarastéttarinnar. Annað alþjóðasambandið hefði ekki getað gert þetta betur.

En hvaða ráð geta kínversku leiðtogarnir þá gefið þjóðum Sovétríkjanna og hinna endurskoðunarsinnuðu landanna í Warsjárbandalaginu og Comecon? Engin! Þeir tala hljóðlega um þau mál og taka ekkert tillit

til þessara þjóða. Af og til hvetja þeir þær endurskoðunarsinnuðu klíkur, sem eru við völd í þessum löndum, að slíta sig úr tengslum við Sovétríkin og sameinast Bandaríkjunum. Þeir segja við þessar þjóðir: Verið rólegar, látið kúga ykkur og gerist fallbyssufóður handa blóðþyrstu Kreml-klíkunni. Þessi stefna endurskoðunarsinnuðu kínversku leiðtoganna er öreiga-fjandsamleg og stríðshvetjandi.

Allt þetta sýnir að kínversku leiðtogarnir flækja alþjóðlega ástandið af ásettu ráði. Þeir skoða heimsástandið út frá sjónarhóli eigin hagsmuna, að gera Kína að risaveldi, en ekki út frá hagsmunum byltingarinnar. Þeir líta á ástandið með það í huga að kæfa byltinguna í eigin landi og byltingarnar í öðrum löndum en ekki með það í huga að skipuleggja og herða baráttu öreiganna og þjóðanna gegn risaveldunum tveim og borgaralegu kapítalísku kúgurunum í öðrum löndum. Þeir líta á ástandið með það í huga að koma á stað heimsvaldasinnaðri heimsstyrjöld en ekki berjast gegn henni.

Aðferð Kína til að verða risaveldi mun fyrst og fremst koma niður á Kína sjálfu og kínversku þjóðinni. Marxísk-lenínísk skilgreining á kínverksu stjórnmálastefnunni leiðir til þeirrar ályktunar að kínversku leiðtogarnir leiði Kína inn í blindgötu. Með því að þjóna bandarísku h imsvaldastefnunni og heimskapítalismanum reikna þeir með ákveðnum gróða í sinn hlut, en sá gróði er óöruggur og mun verða Kína dýrkeyptur. Hann mun leiða landið í ógöngur og mun auðvitað hafa ófyrirsjáanlegar afleiðingar fyrir önnur lönd.

Það hefur verið flett ofan af stefnu Kína að verða risaveldi, stefnu, sem hefur að leiðarljósi andmarxíska hugmyndafræði. Það mun verða flett enn betur ofan af henni í augum fólks - sérstaklega hjá þjóðum hins s.k. "þriðja heims". Þjóðir heimsins skilja tilgang stjórnmála hvers ríkis, hvers kyns sem þau eru, sósíalísk, endurskoðunarsinnuð, kapítalísk eða heimsvaldasinnuð. Þær sjá og skilja, að Kína berst ekki fyrir sömu hagsmunum og þjóðir "þriðja heimsins", þó að þeir láti í það skína að

þeir séu hluti af "þriðja heiminum". Þær sjá að Kína hefur sósíalheimsvaldasinnaða stefnu. Þess vegna er það skiljanlegt að þessi óvinsæla stefna, sem hvetur til félagslegrar og þjóðlegrar kúgunar, eigi ekki upp á pallborðið hjá þjóðunum. Þetta er stjórnmálastefna sem gætir einungis hagsmuna afturhaldsklíkanna, þeirra, sem ráða yfir og kúga þjóðirnar.

Kína styður og flytur vopn til Sómalíu, sem er í stríði við Eþíópíu, að tilstuðlan Bandaríkjanna. Um leið er Eþíópía studd af Sovétríkjunum til að hún geti lagt Sómalíu undir sig. Þetta er einnig að ske í Eritreu. Þannig styður Kína annan aðilann og Sovétríkin hinn. Ef Kína er velséð í Sómalíu, þá er það af þeim, sem hafa völdin en ekki af þjóðinni í þessu landi, sem verið er að myrða. Ekki er Kína heldur sérlega vel séð í Eþíópíu, hvorki af stjónvöldum þar sem eru studd af Sovétríkjunum, eða af þjóðinni, sem er æst er upp gegn Sómalíu, sem sagt er að vilji leggja undir sig Eþíópíu. Sem sagt, Kínverjar hafa engin áhrif, hvorki í Eþíópíu né Sómalíu. Ekki eru Kínverjar heldur vinsælir í Alsír. Alsír styður Pólísarío-hreyfinguna, en Kínverjar styðja hins vegar Máritaníu og Marokkó, það er að segja bandarísku heimsvaldastefnuna. Í utanríkismálum er stefna Kína sú að styðja arabísku þjóðirnar, að því er þeir segja. En sú stefna felst einungis í því að sameina arabísku þjóðirnar gegn sovésku heimsvaldastefnunni. Þannig er það augljóst að Kína styður hvern vináttuvott af hálfu Araba, gagnvart hverjum sem er en, þó sérstaklega gagnvart Bandaríkjunum.

Kínversku leiðtogarnir hafa ýmislegt út á Israel að setja. En í aðgerðum sínum eru þeir í raun og veru með Israels-mönnum. Arabísku þjóðirnar og þá sérstaklega palestínska þjóðin, hafa séð í gegn um þetta og sjá það betur dag frá degi.

Í löndum Asíu getum við sagt með sanni að Kína hafi hvorki áþreifanleg né varanleg áhrif.

Kína hefur ekkert heiðarlegt eða náið vináttusamband við nágrannalönd sín og enn síður við önnur lönd, sem eru fjær landfræðilega. Stefna Kína er

ekki og getur ekki verið rétt, meðan hún er ekki marxísk-lenínísk. Með slíka stjórnmálastefnu getur Kína ekki verið vinur Víetnam, Kóreu, Kambódíu, Laos, Thailands eða annarra ríkja. Kína segist vilja vera í vináttusambandi við þessi lönd, en í rauninni eru deilur milli Kína og þessara landa um stjórnmálastefnur, landssvæði og efnahagsmál.

Kína hefur nú lent í opnum deilum við Víetnam út af stjórnmálastefnu sinni. Alvarlegir árekstrar hafa orðið á landamærum þessara landa. Kínversku sósíalheimsvaldasinnarnir hafa skipt sér af innanríkismálum Víetnam í alvöru og kynda undir deilur milli Kambódíu og Víetnam o.fl. til að maka sinn eiginn útþenslu-krók. Fyrst kínversku leiðtogarnir haga sér svona gagnvart Víetnam, sem þeir sögðu síðast í gær að væri bróðir þeirra og kær vinur, hvað mega þá lönd Asíu halda um kínversku stjórnmálastefnuna? Geta þau treyst henni?

Það væri að eyða púðrinu til einskis að fara að tala um áhrif Kína í löndum S-Ameríku. Kína hefur varla nokkur áhrif þar, hvorki stjórnmálaleg, hugmyndafræðileg eða efnahagsleg. Áhrif Kína takmarkast við vináttu þeirra við vissan Pínochet, sem er óður fasista-böðull. Þessi afstaða Kína hefur komið illa við - ekki bara þjóðir S-Ameríku - heldur almenningsálitið í öllum heiminum. Fólk sér að kínversku leiðtogarnir eru fylgjandi kúgunaröflum, harðstjórum og herforingjum, sem ráðskast með þjóðirnar og bandarísku heimsvaldastefnunni, sem hefur tekið þjóðir þessa heimshluta kverkataki. Þannig getum við sagt að áhrif Kína í þessum löndum S-Ameríku séu óveruleg, án styrks eða þýðingar.

Stjórnmálastefna kínversku leiðtoganna nýtur ekki stuðnings eða samúðar þjóðanna, en mun hafa í för með sér miklu meiri einangrun Kína frá framfarasinnuðum ríkjum og öreigum heimsins. Engin þjóð, enginn öreigi og enginn byltingarsinni getur stutt stefnu Kína, þegar þeir sjá fyrrverandi þýska nasistaherforingja, japanska herforingja og aðmírála, portúgalska fasistaherforingja o.s.frv.

standa við hlið kínversku leiðtoganna á Torgi hins Himneska Friðar, en það átti sér stað á þjóðhátíðardegi Kínverja 1.október 1977.

Kína getur ekki haldið áfram á braut sinni í átt til risaveldis án þess að auka arðránið á verkafólkinu í landinu. Bandaríkin og hin kapítalísku ríkin munu reyna að tryggja sér aukagróða af fjármagninu, sem þau ætla að fjárfesta þar. Þau munu einnig beita þrýstingi til að flýta fyrir alhliða breytingum í átt til kapítalisma bæði í grundvelli og yfirbyggingu kínverska samfélagsins. Þegar kínverska borgarastéttin eykur arðránið á hinum vinnandi fjölda til að geta haldið uppi risavöxnu skrifræðinu og til að geta staðið við afborganir af lánum og vöxtum til útlensku kapítalistanna, þá mun þetta verða upphaf að miklum andstæðum milli kínverskra öreiga og bænda annar vegar og borgaralegu endurskoðunarsinnuðu herranna hins vegar. Þetta verður til þess að setja þá síðarnefndu í andstöðu við verkalýðinn í þeirra eigin landi, sem mun síðan leiða til skarpra andstæðna og byltingarsinnaðra uppreisna í Kína.

III

## "HUGSUN MAOS TSETUNG" - AND-MARXISK KENNING

Staða sú, sem komin er upp í Kommúnistaflokki Kína, þ.e. hvikulleiki, tækifærismennska og tíðar breytingar á baráttuaðferðum, ásamt þeirri stefnu kínversku leiðtoganna, að gera Kína að stórveldi, leiðir hugann að því, hvert sé hlutverk Maós og hugmynda hans, hinnar s.k. "Hugsunar Maós Tsetung", í kínversku byltingunni.

"Hugsun Maós Tsetung" er "kenning" sneydd einkennum marx-lenínisma. Allir kínverskir leiðtogar, bæði þeir, sem áður réðu og þeir, sem nú hafa náð völdum, hafa gert sér mikinn mat úr "Hugsun Maó Tsetungs", við skipulagningu og aðgerðir, í daglegri baráttu og við setningu markmiða, í þeim tilgangi að koma gagnbyltingaráformum sínum í framkvæmd. Við albanskir kommmúnistar höfum fylgst náið með þessum vafasömu aðgerðum, þessum hvikulleika og síbreytilegri afstöðu Kínverja. Við höfum tekið eftir sýndarmennsku þeirra, hvernig stefna þeirra inn á við jafnt sem út á við, er byggð á sýndarmati í stað fræðilegrar hugsunar og hversu sneydd stefna þeirra er marx-lenínisma, þrátt fyrir huliðshjálm róttækra slagorða. Smám saman höfum við myndað okkur skoðun á "Hugsun Maós Tsetung" og fyllst vissu um þá hættu, sem af þeirri "hugsun" stafar.

Á tímum frelsisstríðsins þegar flokkur okkar var stofnaður, og eins fyrst eftir frelsunina, þekkti þjóð okkar lítið til Kína. Við, sem og

aðrir byltingarsinnar, höfðum gert okkur þá hugmynd að í Kína væru jákvæð öfl að verki: "Kína er mikið meginland. Kína berst. Þar ólgar bylting gegn erlendri heimsvaldastefnu." Við kunnum nokkur deili á Sun Jatsen og gerðum hans og tengslum Sovétríkjanna og Leníns við hann. Við þekktum til Kominterns og vissum um stríð kínversku þjóðarinnar við Japani Við vissum einnig um tilveru kínverska Kommúnistaflokksins, voldugs flokks undir forystu marx-lenínistans Maós Tsetung. Annað vissum við ekki.

Það var ekki fyrr en eftir 1956, að flokkur okkar komst í náin tengsl við kínverska flokkinn. Vegna baráttu flokks okkar við nýendurskoðunarstefnu krústévistanna jukust tengslin við Kína jafnt og þétt. Um þetta leyti varð samband okkar við Kommúnistaflokk Kína, eða öllu heldur við ýmsa frammámenn þess flokks, all náið, tiltakanlega eftir að Kommúnistaflokkur Kína fór að eiga í opinberum deilum við Krústév og fylgismenn hans. Engu að síður verðum við að viðurkenna, að þó svo að fundir okkar með hinum kínversku leiðtogum væru á margan hátt góðir og gagnkvæm vinátta og traust ríkjandi, var Kína, Maó Tsetung og Kommúnistaflokkur Kína okkur ætíð hulin ráðgáta.

Hví var þetta svo? Það var vegna þess, að viðhorf hinna kínversku leiðtoga, bæði almenn og persónuleg, til ýmissa mikilsverðra mála, pólitískra, hugmyndafræðilegra, herfræðilegra og skipulagslegra, voru sífellt á reiki. Stundum til hægri og í annan tíma til vinstri. Stundum voru viðhorfin markviss, en stundum stefnulaus. Það kom fyrir að þeir héldu fram réttri stefnu, en hitt var þó miklu algengara, að tækifærismennskan réði ferðinni. Allan þann tíma, sem Maó var við stjórnvölinn, var kínversk stefna reikul. Hún tók sífelldum breytingum eftir ytri aðstæðum, og var án hins rauða þráðar marx-lenínismans. Jafnvel um meiriháttar pólitísk mál héldu þeir fram andstæðum skoðunum frá degi til dags. Það var ógerningur að finna nokkra samfellda línu í stefnu

Kínverjanna. Vitaskuld beindist athygli okkar að þessum sífelldu breytingum. Við vorum þeim ósammála og fannst slíkt háttalag ámælisvert. Við héldum samt sem áður áfram athugunum okkar á kínversku stjórnmálalífi og byggðum þar á því, sem við vissum um gerðir Maós Tsetung og þeirri almennu skoðun, að hann væri marx-lenínisti.

Við höfðum okkar eigin athuganir og marx-lenínísku skoðanir á mörgum þemum Maós. Má þar nefna, hvernig fara beri með andstæður, sem upp koma milli öreiga og borgara, en þar heldur Maó því fram að þær skuli leysa á samvinnugrundvelli. Þar er einnig þemað um andstæður meðal fólksins undir sósíalískri stjórn og þemað um að "landsbyggðin skuli umlykja borgirnar", sem gerir hlutverk bændastéttarinnar í byltingunni hið eina og allsráðandi. Þessum skoðunum okkar lýstum við fyrir kínversku leiðtogunum við sérhvert tækifæri.

Við litum aftur á móti á ýmislegt annað í stjórnmálaviðhorfi og stefnu Maós og hins kínverska Kommúnistaflokks, sem ekki gat samrýmst marx-lenínískum skoðunum okkar flokks, sem skammtíma ráðstafanir stórs ríkis, nauðsynlegar vegna sérstakra aðstæðna. En eftir því sem tímar liðu, varð æ ljósara, að svo var ekki.

Með nákvæmri greiningu staðreynda, komst flokkur okkar að ýmsum sérstæðum og almennum niðurstöðum, sem gerðu hann varkáran í samskiptum við Kína. Flokkurinn forðaðist þó deilur við Kommúnistaflokk Kína og leiðtoga hans, ekki vegna þess að hann væri hræddur við deilur, heldur vegna hins, að þessar staðreyndir, sem vísuðu á ranga og andmarxíska braut Kommúnistaflokks Kína og Maós sjálfs, voru ekki nægjanlega margar og ljósar til þess, að hægt væri að draga af þeim endanlegar ályktanir. Til dæmis stóð Kommúnistaflokkur Kína um tíma gegn heimsvalda- og afturhaldsstefnu Bandaríkjanna. Hann stóð einnig gegn endurskoðunarstefnu krústévistanna, þó nú sé ljóst, að þessi andstaða gegn Sovétríkjunum var ekki reist á réttum marx-lenín-

ískum grunni.

Ennfremur má nefna, að við höfðum ekki fulla þekkingu á ýmsum kínverskum innanríkismálum, s.s. stjórnmálum, efnahags-, menningar- og félagsmálum o.s.frv. Skipulag flokks og ríkis í Kína hefur alltaf verið lokuð bók. Kommúnistaflokkur Kína leyfði okkur aldrei að rannsaka það. Við albanskir kommúnistar þekktum aðeins megindrættina í skipulagi kínverska ríkisins. Okkur var meinað að tileinka okkur reynslu kínverska Kommúnistaflokksins, sjá hvernig hann vann, hvernig hann var skipulagður hvert þróunin beindist á mismunandi sviðum og hver einkenni þessarar þróunar væru.

Kínversku leiðtogarnir hafa verið fláráðir, þeir hafa ekki opinber ýmis þau gögn, sem nauðsynleg eru til þess að unnt sé að öðlast þekkingu á starfsemi flokks og ríkis. Þeir hafa alltaf farið sér gætilega við að birta skjöl og skýrslur um eigin málefni og þau fáu gögn, sem við höfum aðgang að, eru mjög í brotum. Í þeim fjórum bindum af verkum Maós Tsetung, sem hægt er að líta á sem opinber, er enginn kafli skrifaður síðar en 1949 og enn fremur er þeim á þann veg fyrir komið, að þeir sýna hvergi nákvæma mynd þess, sem gerðist og er að gerast í Kína.

Pólitísk og fræðileg meðferð umræðuefna í kínverskum blöðum, svo ekki sé nú minnst á umfjöllun í bókmenntum, sem er í megnustu óreiðu, var einungis áróður, án allrar dýpri köfunar. Greinar voru fullar af dæmigerðum kínverskum tvíhyggjulíkingum, settum fram á stærðfræðilegan hátt, svo sem "hinir þrír góðu og hinir fimm illu","hinir fjórir gömlu og fjórir nýju","það tvennt sem geymist og fimm atriði sjálfstjórnar,"þrjú atriði sönn og sjö login" o.s.frv. Það reyndist okkur erfitt að komast að fræðilegum tilgangi þessara stærðfræðitákna sökum þess að við erum vanir að hugsa, skrifa og vinna í samræmi við hefðbundna marx-lenínískа kenningu og hugsun.

Sendinefnd frá flokki okkar var aldrei boðið

til Kína til þess að læra af reynslu þeirra. Þegar nefndir hafa farið þangað, að beiðni okkar, hafa Kínverjar hellt yfir þær áróðri og farið með þær hingað og þangað í heimsóknir í kommúnur og verksmiðjur, í stað þess að veita skýringar og miðla þekkingu og reynslu um starf flokksins. Og hverjum var sýnt þetta einkennilega viðhorf? Okkur Albönum, vinum þeirra, sem höfðum varið þá á hverju sem gekk. Þetta var okkur óskiljanlegt, en einnig merki þess að Kommúnistaflokkur Kína hafði ekki í hyggju að gefa okkur skýra mynd af því, sem var að gerast. Það sem mest dró að sér athygli flokks okkar, var Menningarbyltingin, sem kallaði fram ótal spurningar í hugum okkar.

I Menningarbyltingunni komu í ljós furðulegar stjórnmála-, hugmyndafræði- og skipulagslegar skoðanir, runnar undan rifjum Maós Tsetung. Þessar hugmyndir, sem birtust í verkum Kommúnistaflokks Kína og kínverska ríkisins voru ekki byggðar á kenningum Marx, Engels, Leníns og Stalíns. Ýmislegt vafasamt í fyrri gerðum Kínverja, svo og margt það, sem átti sér stað í Menningarbyltingunni, og ekki síður það, sem á eftir hefur farið, skyndivöld og fall hinna og þessara klíka, einn daginn Lin Piaó klíkan, næsta dag klíka Teng Sjápings, Húa Kúófengs o.s.frv., hver klíka á sínum palli, andsnúin öllum hinum, allt þetta hvatti flokk okkar til að grafa dýpra niður í skoðanir og verk Maós Tsetung og Kommúnistaflokks Kína, að öðlast meiri og nákvæmari þekkingu á "Hugsun Maós Tsetung". Þegar við sáum, að flokkurinn var ekki leiðandi afl í Menningarbyltingunni, heldur að hún einungis var ruglingsleg viðbrögð við kalli Maós Tsetung, fannst okkur sem hér gæti ekki verið um sanna byltingu að ræða. Það var vald Maó Tsetungs í Kína, sem fékk milljónir óskipulagðra unglinga, stúdenta og skólanema til að rísa upp og þramma til Peking og til að ráðast gegn og tvístra nefndum flokks og ríkis. Því var haldið fram, að þessir unglingar kæmu fram sem "boðberar hugmyndafræði öreiganna"

í Kína og myndu vísa flokknum og öreigastéttinni hina "réttu leið".

Þessi svokallaða bylting, sem bar áberandi stjórnmálaeinkenni, var kölluð Menningarbylting. Að mati flokks okkar var nafngift þessi röng. Þar eð sú hreyfing, sem orðið hafði í Kína var stjórnmálalegs eðlis en ekki menningarlegs. En kjarni málsins er sá, að í forystu þessarar miklu "byltingar öreiganna" var hvorki að finna flokkinn né öreigastéttina. Þetta á rætur sínar að rekja til gamals and-marxísks skilnings og vanmats á leiðandi hlutverki öreigastéttarinnar í byltingunni. Maó reit: "Hvert hefur hlutverk kínverskrar æsku verið síðan í 4.maí-hreyfingunni? Á vissan hátt tók hún sér stöðu í fylkingarbrjósti - staðreynd, sem allir viðurkenna aðrir en örgustu afturhaldssinnar. Og hvað þýðir það að taka sér stöðu í fylkingarbrjósti? Það þýðir það að taka forystu..."+

Á þennan hátt var verkalýðsstéttinni ýtt til hliðar. Hún lenti og oft í andstöðu við rauðliðana og barðist jafnvel við þá. Félagar okkar, sem þá voru í Kína, sáu með eigin augum, hvar verksmiðjuverkamenn börðust við æskuna. Flokkurinn molnaði í sundur. Hann var drepinn og kommúnistarnir og öreigastéttin hundsuð. Þetta var mjög alvarlegt ástand. Flokkur okkar studdi Menningarbyltinguna sökum þess að sigrar kínversku byltingarinnar voru í hættu. Maó sagði okkur sjálfur, að liðhlaupaflokkur Líu Shao-shi og Teng Hsiao-ping hefði rænt völdum í flokki og ríki og að sigrar kínversku byltingarinnar hefðu því verið í hættu. Þegar svo var komið, án tillits til hverra væri sökin, studdi flokkur okkar menningarbyltinguna. Við vörðum kínverska meðbræður okkar og málstað byltingar og sósíalisma í Kína, en ekki erjur and-marxískra klíka, sem slógust innbyrðis um

---

+ Maó-Tsetung: Úrvalsverk, 3.bindi, bls.19. (Alb.útg.)

völdin og beittu jafnvel við það byssum.

Þróun mála sýndi, að hin mikla Menningarbylting öreigastéttarinnar, var engin bylting, né heldur mikil eða menningarleg og sérdeilis ekki bylting öreigastéttarinnar. Hún var hallarbylting, sem náði til alls Kína og var beint gegn handfylli afturhaldssinna, sem rænt höfðu völdum.

Vitaskuld var Menningarbyltingin hreinn sýndarleikur. Hún gekk bæði að skipulagi fjöldans og kínverska Kommúnistaflokknum dauðum og fleytti Kína inn í ólgu og iðu á ný. Ýmis and-marxísk öfl voru leiðandi í þessari byltingu. Þessum öflum hefur síðar verið fyrir komið í öðru hervaldaráni undir forystu annarra and-marxískra og fasískra afla.

Blöð okkar hafa lýst Maó Tsetung sem miklum marx-lenínista en okkur hafa aldrei þótt réttar og við því aldrei notað kínversku áróðursskilgreiningarnar, sem lýstu Maó sem meginafli í marx-lenínisma og "hugsun Maós" sem þriðja og æðsta stigi marx-lenínismans.

Við höfum litið svo á að hin geysilega dýrkun á Maó Tsetung í Kína sé ósamræmanleg marx-lenínisma.

Hin ruglingslega þróun Menningarbyltingarinnar og það, sem hún leiddi til, hefur rennt enn frekari stoðum undir þá skoðun, þó enn sé hún ekki fullmótuð, að marx-lenínismi hafi ekki verið þekktur og því ekki beitt í Kína. Sérstaklega varðaði þetta kommúnistaflokkinn og að Maó Tsetung hafi ekki verið á marx-lenínískri skoðun, þrátt fyrir þá grímu og þau slagorð, sem þeir notuðu, þ.e. "öreigastéttin, alræði hennar og bandalag við hina fátæku bændastétt" og fleira af því tagi.

Í ljósi alls þessa fórum við að leita dýpra að orsökum þessa tvískinnungs og hviks, sem nokkuð hafði borið á í stefnu kínversku leiðtoganna gagnvart krústévistaafturhaldinu. T.d. atburðina 1962, þegar Kínverjar leituðu sátta við Sovétríkin í nafni sameiginlegrar baráttu gegn bandarískri heimsvaldastefnu. Einnig 1964, er Sjú Enlai fór til Moskvu

til að hitta Brésnevklíkuna (sem þá var nýtekin við völdum) í því skyni að leita sátta við Sovétríkin. Þessi tvískinningur var ekki tilviljun. Hann endurspeglaði þverbresti í innri gerð byltingarinnar og skoðunum hennar.

Þegar Nixon var boðið til Kína og kínversku leiðtogarnir undir forsæti Maós Tsetung lýstu yfir að náin vinátta hefði á ný tekist með Kína og hinni bandarísku heimsvaldastefnu varð ljóst, að kínversk stefna og markmið voru algerlega andstæð marx-lenínisma og alþjóðahyggju öreiganna. Eftir þennan atburð varð skrum og valdafíkn kínversku forystunnar æ ljósari. Kínverska forystan hóf að standa gegn byltingu og frelsisbaráttu þjóða, öreigastéttar heimsins og gegn sönnum marx-lenínískum hreyfingum. Hún birti hina s.k. kenningu um "heimana þrjá" og reyndi að svíkja þá kenningu inn á hina marx-lenínísku hreyfingu með það fyrir augum að gera þann boðskap að leiðarstjörnu marx-lenínismans.

Vegna áhuga okkar á byltingu og sósíalisma, og þar eð við vorum á þeirri skoðun að þau mistök, sem við sáum í gerðum Kommúnistaflokks Kína, ættu rót sína að rekja til rangs mats á aðstæðum og rangs skilnings á eðli ýmissa vandamála, hefur Flokkur Vinnunnar í Albaníu margsinnis reynt að aðstoða kínversku forystuna við að leiðrétta þennan misskilning og vinna bug á erfiðleikum þeim, sem að hafa steðjað. Við höfum lýst skoðunum okkar fyrir Maó Tsetung og öðrum kínverskum leiðtogum, sem sannir og trúir félagar. Margt það í gerðum Kínverja, sem hefur haft bein áhrif á hina almennu þróun marx-lenínískrar hreyfingar og hagsmuni þjóða og byltingar, hefur Flokkur Vinnunnar í Albaníu gert athugasemdir við og kunngert þær miðstjórn Kommúnistafloks Kína, bæði í ræðu og riti.

Hinir kínversku leiðtogar hafa aldrei virt hina nákvæmu gagnrýni okkar byggða á grundvallarhugtökum marx-lenínismans. Þeir hafa aldrei svarað henni og ekki einu sinni fallist á að ræða hana.

Í stað þess urðu hinar andmarxísku gerðir kín-

versku forystunnar, bæði heima og erlendis, æ ljósari og svívirðilegri. Þetta neyddi okkur, sem og alla marx-lenínista, til að endurmeta stefnu Kommúnistaflokks Kína, þann pólitíska og hugmyndafræðilega grunn, sem hann byggir á, verk flokksins og afleiðingar þeirra. Augu okkar opnuðust fyrir því að "Hugsun Maós Tsetung", sem hafði verið og er leiðarljós kínverska Kommúnistaflokksins, er ekkert annað en hættulegt afbrigði nútíma endurskoðunarstefnu. Gegn þessari endurskoðunarstefnu verður að beita öllum kröftum hinnar pólitísku og fræðilegu baráttu.

"Hugsun Maós Tsetung" er afbrigði endurskoðunarstefnu, sem fyrst bryddi á fyrir síðari heimsstyrjöldina. Sérstaklega eftir 1935 er Maó Tsetung komst til valda. Um það leyti hóf hann og fylgismenn hans "fræðilega" baráttu undir slagorðunum um baráttu gegn "kreddufestu","fyrirfram gerðu munstri" "erlendri eftiröpun" o.s.frv. og reyndu um leið að skapa þjóðernislegan marxisma. Með því afneituðu þeir alþjóðaeinkennum marx-lenínismans.
Í staðinn prédikaði Maó Tsetung hina "kínversku leið" til lausnar aðsteðjandi erfiðleikum og hina kínversku aðferð, "nýja og ferska, aðlaðandi augum og eyrum hinnar kínversku alþýðu " + og rak þar með áróður fyrir þeirri endurskoðunarkenningu, að hvert land hefði sinn eigin marxisma.

"Hugsun Maós Tsetung" var lýst sem æðsta stigi marx-lenínisma vorra tíma. Kínverskir leiðtogar hafa lýst því yfir, að "Maó Tsetung hafi komið meiru til leiðar en Marx, Engels og Lenín..."
Í stjórnarskrá Kommúnistaflokks Kína, samþykktri á 9.flokksþinginu, sem haldið var undir forystu Maós Tsetung segir: "Hugsun Maós Tsetung er marxismi og lenínismi nútímans..." og ennfremur að Maó Tsetung "...hefur tekið kenningu Marx og Leníns í arf, varið hana og aukið við hana og lyft henni á algerlega

---

\+ Maó Tsetung, Úrvalsrit, 4.bindi, bls.84. (Alb. útg.)

nýtt og hærra stig." +

Með því að byggja starf flokksins á "Hugsun Maós Tsetung" í stað grunnkennisetninga og héfða marx-lenínisma, opnuðust leiðir til tækifærismennsku og klíkubaráttu innan Kínverska Kommúnistaflokksins.

"Hugsun Maós Tsetung" er sambræðingur hugmynda, þar sem hugsjónir og kenningar marxismans eru blandaðar ýmsum kennisetningum hugsjónamanna, raunsæismanna og endurskoðunarsinna ýmissa annarra heimspekikenninga.

Rætur "Hugsunar Maós Tsetung" liggja í fornri kínverskri heimspeki og í pólitískri og hugmyndafræðilegri fortíð hins gamla kínverska ríkis og hernaðaranda þess.

Allir hinir kínversku leiðtogar, bæði þeir, sem eru nú við völd sem og hinir, sem fallnir eru af stalli en hafa þó náð að koma gagnbyltingaráformum sínum í framkvæmd - allir hafa þeir haft "Hugsun Maós Tsetung" sem hugmyndafræðilegan grunn. Maó hefur sjálfur viðurkennt, að allir geti hagnýtt sér hugsanir hans, bæði þeir sem standa yst til vinstri og þeir sem standa til hægri, eins og hann nefnir þá mörgu hópa, sem standa að forystu Kína. Í bréfi sem hann skrifaði Siang Sing 8. júlí 1966, játar Maó, að "hinir hægri sinnuðu, sem með völdin fara, geta notað orð mín til að styrkja völd sín um tíma, en önnur orða minna geta hinir vinstri sinnuðu notað við eigin skipulagningu og við að velta hinum hægri sinnuðu úr sessi."++ Þetta sýnir, að Maó var ekki marx-lenínisti, að skoðanir hans fóru eftir því, hvernig úr orðum hans var valið. Þetta er augljóst í öllum fræðilegum verkum Maós, sem ekkert eiga skylt við marx-lenínisma, þó svo reynt sé, að villa á þeim

---

+ Gögn frá 9.þingi Kommúnistaflokks Kína, bls.79-80, Tirana 1969.(Alb. útg.)

++ Le Monde, 2. des. 1972.

heimildir með hulu "byltingarsinnaðra" slagorða og kennisetninga.

Séu rit Maós skoðuð af gagnrýni og nákvæmni, jafnvel þó aðeins sé um lítið brot þeirra að ræða, og athygli beint að því, á hvern hátt hann fjallar um grunnkennisetningar svo sem varðandi hlutverk Kommúnistaflokksins, byltingarinnar, uppbyggingu sósíalisma o.s.frv., verður fyllilega ljós sá reginmunur, sem er á "Hugsun Maós" annars vegar og marx-lenínisma hins vegar.

Lítum fyrst á skipulagningu flokksins og leiðandi hlutverk hans. Maó þóttist vera þeirrar skoðunar, að byggja á kennisetningum lenínismans í flokksstarfi, en ef hugmyndir hans um flokkinn og þá sérstaklega þær um daglegt starf hans eru skilgreindar nákvæmlega, verður ljóst, að í stað grundvallaratriða og hefða lenínismans eru komnar kenningar endurskoðunarsinna.

Maó hefur ekki skipulagt Kommúnistaflokk Kína á grunnhugmyndum Marx, Engels, Leníns og Stalíns. Hann hefur ekki unnið að því, að gera flokkinn að kommúnískum flokki, bolsévíkum. Maó var ekki fylgjandi því, að flokkur hans væri flokkur öreigastéttarinnar heldur væri hann flokkur án stéttatakmörkunar. Hann hefur notað slagorð þar, sem flokkurinn er gerður að fjöldahreyfingu, í þeim tilgangi að má út aðgreiningu flokks og stéttar. Árangur þess er sá, að hver sem er getur gengið í flokkinn eða úr honum, þá honum líkar best sjálfum. Í þessu tilliti á "Hugsun Maós" samleið með endurskoðunarsinnunum í Júgóslavíu og fylgjendum "evrópukommúnismans".

Þar að auki hefur Maó búið svo um hnútana, að innri gerð flokksins, grunnkennisetningar og hefðir, er háð pólitískri stöðu og áhuga Maós sjálfs, háð tækifærismennsku hans og ævintýrapólitík, stundum með hægri sveiflu og stundum vinstri, háð klíkubaráttu o.s.frv.....

Kommúnistaflokkur Kína hefur hvorki í hugsun né starfi sýnt af sér sannan marx-lenínisma.

Klíkudeilur, sem hafa verið til staðar frá upphafi, hafa valdið því að flokkurinn hefur aldrei fundið sér réttan marx-lenínískan farveg, og hefur aldrei notið stuðnings marx-lenínískrar hugsunar. Margs konar tilhneigingar hafa gert vart við sig meðal helstu leiðtoga flokksins. Stundum vinstri sinnaðar, stundum hægri tækifærismennska, miðjuhreyfingar og jafnvel hreinn anarkismi og þjóðrembingstilhneigingar ásamt einkennum kynþáttafordóma. Allan þann tíma sem Maó og hópurinn utan um hann var við völd, voru þessar tilhneigingar meðal ljósustu einkenna Kommúnistaflokks Kína. Maó hélt sjálfur fram nauðsyn tilveru "tveggja lína" í flokknum. Samkvæmt honum er tilvera og barátta tveggja stefna eitthvað eðlislægt, opinberun um einingu andstæðnanna, sveigjanleg stjórnstefna, sem sameinar tryggð við grundvallaratriði og möguleika á málamiðlun. "Með þessu móti" skrifar hann, "höfum við tvær hendur til að takast á við félaga, sem hefur gert mistök. Aðra til þess, að kljást við hann og hina til að sameinast honum. Markmið baráttunnar er að viðhalda grundvallar kennisetningum marxismans, sem þýðir það að vera bókstafnum trúr. Það er önnur hlið málsins. Hin hliðin er að sameinast hinu afvegaleidda. Þar er markmiðið að bjóða honum undankomuleið, að ná við hann samkomulagi."+

Þau viðhorf sem þarna birtast ganga þvert á kenningu Leníns um kommúnistaflokk sem skipulagða sveit í broddi fylkingar. Innan hans verður að ríkja fullkomin eining í orðum og athöfnum.

Stéttabarátta innan flokksins, sem spegilmynd þeirrar baráttu sem á sér stað utan hans, á ekkert sameiginlegt með kenningu Maós um "línurnar tvær" í flokknum. Flokkurinn er ekki leiksvið stéttanna og baráttu fjandsamlegra stétta, hann er ekki sam-

---

+ Maó Tsetung, Úrvalsrit, bindi 5, bls. 560, Peking 1977 (Fr. útg.)

koma fólks með andstæðar skoðanir. Sannur marxískur flokkur er eingöngu flokkur verkalýðsstéttarinnar og miðar allt starf sitt við hagsmuni hennar einnar. Þetta er það, sem er afgerandi til framgangs og sigurs byltingarinnar og myndunar sósíalisma. Á þetta leggur Stalín áherslu, er hann er að verja hin lenínísku sjónarmið um flokkinn, sem leyfa ekki tilveru margra stefna eða andstæðra tilhneiginga innan hans:

> "...kommúnistaflokkurinn er alfarið og einungis flokkur öreigastéttarinnar, en alls ekki samsafn ýmiskonar eininga úr ólíkum stéttum."+

Maó lítur á flokkinn sem samband stétta með andstæða hagsmuni, sem skipulagsheild með tveim meginöflum, öreigastéttinni og borgarastéttinni, sem verða að eiga fulltrúa sína á öllum stigum kerfisins, allt frá hinum lægstu embættum til hinna æðstu, svo þær geti snúist hvor gegn annari og deilt hvor við aðra. Árið 1956 sóttist Maó eftir því, að kosnir yrðu í miðstjórn Kommúnistaflokks Kína, fulltrúar beggja arma, og flytja með því einfeldningslegar og fáránlegar deilur alla leið inn í miðstjórnina. "Allt landið", segir hann, "allur heimurinn veit, að þeir hafa gert mistök, og sú staðreynd, að þeir eru alþekktir, er nákvæmlega það sem veldur kjöri þeirra. Hvað getur þú gert við því? Þeir eru þekktir, en þeim sem aldrei hefur orðið neitt á, eða aðeins gert smávægileg mistök, af þeim fer ekki eins mikið orð. Í landi eins og okkar, með geysistóra smáborgarastétt, eru tvennskonar viðmiðanir gildar."++

---

+ J.V. Stalín, Ritsafn, 11. bindi, bls. 280 (alb. útg.)

++ Maó Tsetung, Úrvalsrit, 5. bindi, bls. 348, Peking 1977 (fr. útg.)

Á sama tíma og Maó afneitar átökum um grundvallar atriði innan flokksins, leikur hann leik klíkanna, leitar málamiðlunar við sumar þeirra til að snúast gegn öðrum og styrkja á þann hátt eigin stöðu.

Með því að byggja á slíkum og þvílíkum grunni gat kínverski Kommúnistaflokkurinn aldrei orðið, og hefur aldrei verið, marx-lenínískur flokkur. Innan hans voru grundvallar atriði marx-lenínismans ekki virt. Flokksþingið, æðsta eining flokksins, hefur ekki verið kallað saman reglulega. Til dæmis liðu 11 ár milli 7. og 8. flokksþingsins og eftir stríðið liðu 13 ár milli 8. og 9. flokksþingsins. Þar að auki voru þau flokksþing, sem haldin voru, ákaflega formföst. Fremur glæsisýningar en vinnufundir. Fulltrúarnir voru ekki kosnir samkvæmt marx-lenínískum reglum í flokksstarfi, heldur voru þeir tilnefndir af leiðtogum og voru ævifulltrúar.

Nýlega birti "Renmin Ribao" grein eftir svokallaðan "fræðilegan" hóp "framkvæmdastjórnar" miðstjórnar Kommúnistaflokks Kína. +
Í þessari grein segir, að Maó Tsetung hafi, í nafni framkvæmdanefndarinnar, komið upp umhverfis sig sérstöku flokksapparati, sem hafi stöðugt eftirlit með stjórnmálanefnd miðstjórnar flokksins og með fastastarfsliði ríkis, hers, leynilögreglu og öðrum stofnunum. Öllum utanaðkomandi var meinaður aðgangur að þessu framkvæmdaráði og upplýsingum um starfsemi þess var haldið leyndum, jafnvel fyrir miðstjórnarráðinu og stjórnmálanefndinni (political bureau). Í þessu ráði voru lögð á ráðin um sundrungu og útrýmingu hinna og þessara klíka innan Kommúnistaflokks Kína. Menn þessa ráðs voru allsstaðar nálægir, lágu á hleri og á gægjum og gáfu síðan skýrslu hver fyrir sig um það, sem þeir sáu og heyrðu. Allt þetta var gert án eftirlits flokksins

Þetta framkvæmdaráð hafði einnig yfirráð yfir

---

+ "Berið ávallt í huga kenningu Maós formanns." R.R. 8.september 1977.

vopnaðri sérdeild hermanna, falinni undir nafninu "Varðlið Maós formanns". Þessir "Lífverðir Keisarans", yfir 50.000 vopnaðir hermenn, réðust til atlögu hvenær sem formaðurinn óskaði þess að "slá í einu höggi", sem svo oft hefur gerst í sögu Kommúnistaflokks Kína. Það gerðist og nú nýlega, er Hua Kuo-feng lét handtaka fjórmenningana og stuðningsmenn þeirra.

Undir yfirskyni þess, að halda tengslum við fjöldann, kom Maó Tsetung á neti uppljóstrunarmanna vítt og breitt með þjóðinni. Höfðu þeir það hlutverk að hafa eftirlit með hinum almennu starfsmönnum í neðri lögum kerfisins og leita upplýsinga um hugsanir og sálarástand fólksins, án þess nokkur yrði þess var. Þessir uppljóstrarar gáfu persónulegar skýrslur til Maós sjálfs, en hann hafði skorið á öll tengsl við fjöldann og sá umheiminn aðeins með augum og eyrum njósnara sinna í framkvæmdaráðinu. Maó Tsetung sagði: "Um sjálfan mig segi ég: ég hlusta ekki á útvarp, hvorki hið kínverska né erlendar stöðvar, ég sendi aðeins frá mér". Hann sagði einnig: "Ég hef lýst því opinberlega yfir, að ég muni ekki framar lesa dagblaðið "Renmin Ribao". Ég sagði við aðalritstjóra þess: ég les ekki blað yðar". +

Greinin í "Renmin Ribao" veitir nýjar upplýsingar, sem gera enn ljósari and-marxíska stefnu Maó Tsetungs og eigin vald hans í kínverska flokknum og ríkinu. Maó Tsetung bar ekki minnstu virðingu fyrir miðstjórn eða flokksþingi flokksins svo ekki sé nú minnst á flokkinn sjálfan og nefndir hans vítt og breitt. Flokksnefndirnar, starfsmenn flokksins og sjálf miðstjórnin fékk fyrirskipanir í stóru sem smáu frá "framkvæmdastjórninni", þessu "kjarnaliði", sem einungis var ábyrgt gagnvart Maó Tsetung og engum öðrum. Ráð flokksins, kosnar eindir hans, höfðu alls engin

+ Úr samtölum Maó Tsetung við félaga úr Flokki okkar 3. febrúar 1967. Skjalasafn Flokks Vinnunnar í Albaníu (FVA).

völd. Í greininni í "Renmin Ribao" stendur: "Ekkert símskeyti var sent, ekkert bréf skrifað, ekkert skjal birt, engin boð send, án þess að fara fyrst um hendur Maó Tsetung og hljóta samþykki hans". Í ljós kemur, að jafnvel árið 1953 hefur Maó Tsetung gefið út nákvæma fyrirskipun svohljóðandi: "Héðan í frá er ekki leyfilegt að birta nein skjöl miðstjórnar og miðstjórn er ekki heimilt að senda út nein skeyti í eigin nafni, fyrr en ég hef farið yfir þau. Að öðrum kosti hafa hin birtu gögn ekkert gildi." +
Við slík skilyrði er ekki unnt að tala um sameiginlega forystu, lýðræði innan flokksins eða lenínískar hefðir.

Ótakmarkað vald Maós Tsetung náði svo langt, að hann tilnefndi jafnvel erfingja sína.

Um tíma var Líú Sjaósí tilnefndur sem eftirmaður Maós Tsetung. Síðar lýsti Maó því yfir, að erfingi sinn að ríki og flokk að honum látnum skyldi vera Lin Píaó. Þetta, sem var áður óþekkt meðal marx-lenínískra flokka, var jafnvel staðfest í stefnuskrá flokksins. Því næst útnefndi Maó Húa Kúofeng til að verða formaður flokksins eftir sinn dag. Þar eð allt vald var í höndum Maós, var það hann sem gagnrýndi, dæmdi og refsaði forystumönnum flokksins og ríkisins, og veitti þeim síðan uppreisn æru. Svo var gert, jafnvel þegar Teng Sjáping átti í hlut. Hann sagði í hinni s.k. sjálfsgagnrýni 23.október 1966: "Ég og Líú Sjaósí erum hreinræktaðir einveldissinnar. Megin mistök mín felast í því að ég hef enga trú á fjöldanum. Ég styð ekki hinn byltingarsinnaða fjölda, heldur er ég andsnúinn honum. Ég hef fylgt stefnu endurskoðunarsinna til að bæla niður byltinguna. Í stéttarbaráttunni hef ég ekki staðið í fylkingu öreiganna heldur borgara... Þetta ber allt þess vitni... að ég er óhæfur til að gegna ábyrgðar-

---

+ Maó Tsetung: Úrvalsverk, 5.bindi, bls. 96. Peking (Frönsk útg.)

stöðu".+ Og þrátt fyrir þessa glæpi, sem þessi rótgróni endurskoðunarsinni hafði framið, fékk hann sitt fyrra embætti á ný.

Hið and-marxíska eðli "hugsunar Maós Tsetung" um flokkinn og hlutverk hans, verður einnig augljóst þegar skoðað er hvernig tengslum milli flokks og hers er fyrir komið í kenningunni og hvernig þau eru í raun.

Þrátt fyrir slagorð sín um að "flokkurinn sé hernum æðri" og "stjórnmál byssunni æðri" o.s.frv., o.s.frv., var svo í raun, að Maó Tsetung fól hernum aðalhlutverkið í stjórnmálum þjóðarinnar. Á stríðsárunum sagði hann: "Sérhver hermaður á að vera fær um að vera leiðtogi verkalýðsins og að hafa forystu fyrir verkalýðsfélögunum. Hann skal og vera fær um að hvetja æskuna og skipuleggja starf hennar, leikinn við að laga sig að íbúum hinna nýfrjálsu svæða og þjálfa þar nýja félaga. Hæfur til að stjórna iðnaði og verslun, skólum, dagblöðum, fréttastofum og útvarpi. Hann skal einnig kunna skil á erlendum stjórnmálum og geta fengist við vanda þann, sem upp kann að koma innan skipulegra hreyfinga fólksins og lýðræðislegra flokka þess. Hann á að vera leiðandi í samræmingu sjónarmiða dreifbýlis og þéttbýlis, sjá um að öflun fæðu, kola og annarra daglegra nauðsynja gangi sem best. Hann skal hafa kunnáttu og getu til að fara með fé og sjá fram úr fjárhagsmálum."++

Þannig var herinn æðri flokki, æðri ríki, æðri öllu öðru. Því verður ljóst, að orð Maós um hlutverk flokksins, sem leiðandi og ákvarðandi afls innan byltingarinnar og uppbyggingar sósíalismans, eru aðeins slagorð. Bæði á tímum frelsisstríðsins og eftir stofnun Kínverska Alþýðulýðveldisins, hefur herinn verið hið ákvarðandi afl í öllum þeim

---

\+ Úr sjálfsgagnrýni Teng Sjápings, FVA

++ Maó Tsetung, Ritsafn, 4. bindi, bls. 355, Peking 1962 (frönsk útg.).

óendanlegu smáerjum, sem klíkurnar hafa háð um völdin.

Herinn hafði einnig aðalhlutverkið með höndum á meðan á Menningarbyltingunni stóð. Hann var lokavígi Maós. Maó sagði 1967: "Við treystum á styrk hersins... Í Peking voru aðeins tvær herdeildir, en í maí voru tvær herdeildir til viðbótar kallaðar þangað í þeim tilgangi að jafna reikningana við Flokksráðið fyrrverandi í Peking." +

Maó Tsetung hefur ávallt notað sér herinn til að ganga á milli bols og höfuðs á hugmyndafræðilegum andstæðingum sínum. Hann beitti hernum, undir stjórn Lin Píaós, gegn klíkum þeirra Líu Sjaósí og Teng Sjápings. Síðar notuðu hann og Sjú Enlai herinn gegn Lin Píaó. Herinn hefur haldið áfram að leika þetta hlutverk eftir lát Maós, þökk sé "hugsun Maós Tsetung". Sem og allir aðrir, sem komist hafa til valda í Kína, treysti Húa Kúafeng á herinn og beitti honum fyrir sig. Strax að Maó látnum kvaddi hann herinn til og í samvinnu við Je Tsíenjing, Wang Tungsjin og aðra leiðtoga hersins framdi hann valdarán og handtók andstæðinga sína.

Völdin í Kína eru enn í höndum hersins en flokkurinn fer í skjóli hans. Þetta er einkenni þeirra landa, þar sem endurskoðunarstefnan situr að völdum. Sönn sósíalísk ríki styrkja herinn sem öflugt vopn í baráttunni fyrir alræði öreiganna, svo hann geti malað óvini sósíalismans mélinu smærra, reyni þeir að rísa gegn byltingunni. Máttugur her er og nauðsynlegur til varnar sósílalísku landi, ef ske kynni að fylgjendur heimsvaldastefnu og erlends afturhalds réðust gegn því. En samkvæmt marx-lenínisma verður herinn ávallt að vera undir stjórn flokksins en ekki öfugt.

Nú fara öflugustu deildir hersins og þær sem harðast ganga fram í endurskoðunarstefnunni með öll völd í Kína.

---

+ Úr samræðum Maó Tsetungs við vináttunefnd frá Alþýðulýðveldinu Albaníu,18.desember 1967.Skjalasafn Flokks Vinnunnar í Albaníu.

Hlutur hersins í stjórnun Kína mun fara stöðugt vaxandi samfara breytingunni yfir í heimsvaldasinnað stórveldi. Herinn mun verða styrktur til átaka og búinn bestu drápstólum svo hann megi gegna sem best hlutverki lífvarðar hinnar kapítalísku stjórnar og efnahagskerfis, sem nú ríkir í Kína. Herinn mun verða verkfæri hins borgaralega kapítalíska einræðis, sem getur jafnvel tekið á sig fasíska mynd, verði andstaða þjóðarinnar gegn því öflug.

Með því að prédika nauðsyn á mörgum "flokkum" við stjórn landsins, hina s.k. pólitísku fjölhyggju, lendir "hugsun Maós Tsetung" í beinni andstöðu við *marx-lenínismann* og kenningar hans um hið ódeilanlega hlutverk kommúnistaflokks í byltingunni og við uppbyggingu sósíalisma. Svo sem Maó lýsti yfir í samtali við Edgar Svow, leit hann á það fyrirkomulag, að margir flokkar séu í forystu þjóðar að bandarískri fyrirmynd, sem æðsta stig lýðræðis. "Hvort er betra, þegar grannt er skoðað, að aðeins einn flokkur stjórni eða margir?" spurði Maó. Og hann svaraði: "Eins *og nú er háttað* málum er ef til vill betra að hafa marga flokka. Það hefur verið rétt að hafa það svo og það kann vel að vera að svo muni og verða. Slíkt leiðir til langtíma samveru og sameiginlegrar stjórnunar." + Mao leit á þátttöku borgaralegra flokka í stjórnun landsins, með sömu réttindum og Kommúnistaflokkur Kína hefur, sem nauðsyn. Og ekki bara nú, heldur eiga þessir "sögulegu" flokkar *borgarastéttarinnar* ekki að hverfa af sjónarsviðinu fyrr en á sama tíma og Kommúnistaflokkur Kína. Það er að segja, borgaraflokkarnir og kommúnistaflokkurinn eiga að vera til og haldast í hendur eða *stríða* sín á milli allt til þess er hinum fullkomna Kommúnisma er náð.

Samkvæmt "Hugsun Maós Tsetung" er einungis hægt að byggja sósíalisma og nýtt lýðræði á grunni samvinnu allra stétta og allra *flokka. Þvílíkur* skilningur á sósíalísku lýðræði, á sósíalísku stjórn-

---

+ Maó Tsetung, Ritsafn, 5. bindi, bls. 319, Peking 1977 (frönsk útg.)

kerfi, að sósíalisminn skuli vera eitt með öðrum flokkum og að þar sitji allir flokkar við sama borð við yfirstjórn landsins, skilningur, sem um margt er líkur þeim, sem nú á vinsældum að fagna meðal ítalskra, franskra og spænskra endurskoðunarsinna, en bein neitun á óumdeilanlegu og ódeilanlegu forystuhlutverki hins marx-lenínísku flokks í byltingunni og við sköpun sósíalisma.

Sagan hefur sannað, að alræði öreiganna fær ekki staðist ef ekki er hægt að koma á eða viðhalda sósíalisma án óskertrar forystu marx-lenínísks flokks.

> "...alræði öreiganna verður þá aðeins fullkomið að það sé undir forystu eins flokks, flokks kommúnista, sem deilir ekki forystunni með neinum, og á ekki að deila forystunni með neinum." +

Endurskoðunarstefna Maós Tsetung byggir á þeirri samvinnu og bandalagi við borgarastéttina, sem Kommúnistaflokkur Kína hefur ávallt aðhyllst. Þessi samvinna er og rót þeirrar andmarxísku og and-lenínísku stefnu, sem birtist í setningunni: "Lát hundrað blóm blómstra og hundrað skóla deila," sem er bein lýsing samtíma tilveru andstæðra kenninga.

Samkvæmt Maó Tsetung verður, í sósíalísku samfélagi að heimila, við hlið hugmyndafræði öreigastéttarinnar, efnishyggju og andtrúarstefnu, tilveru hugmyndafræði borgarastéttarinnar, hugsjónastefnu og trú. Við hlið "hinna ilmandi blóma," skal "hinu eitraða illgresi" leyft að vaxa. Slík stefna sem þessi er sögð vera nauðsynleg fyrir framþróun marxismans, svo halda megi opinni leið skoðanaskipta og frjálsrar hugsunar. Hin raunverulega ástæða þessarar kenningar Maó Tsetungs er aftur á móti sú, að hann er á þennan hátt að reyna að gera fræðilegan grunn að stefnu sinni um samvinnu við borgarastéttina og þess, að leyfa samtíma tilveru tvennskonar hugmynda-

+ J.V.Stalín: Rit, 10.hefti, bls.97 (Alb.útg.)

fræði, borgaralegrar og sósíalískrar. Maó segir: "...það er hættuleg stefna að varna fólki þess að komast í snertingu við hið ranga, hið illa og hið fjandsamlega, hugsjónastefnu og frumspeki, við Konfúsíusarspeki, hugmyndir Lao Tse og Siang Kai-sék. Slíkt leiðir til menningarúrkynjunar, einstefnuhugsunar og hræðslu við að horfast í augu við umheiminn..." +

Af þessu dregur Maó Tsetung þá ályktun, að hugsjónastefna, frumspeki og hugmyndafræði borgarastéttarinnar séu eilífar og því rangt að banna þær. Og ekki aðeins það, heldur verður að gefa þeim tækifæri til að blómstra og berjast opinberlega um fylgi við kenningu sósíalismans. Þessi sáttfýsi gagnvart öllu því, sem heyrir til endurskoðunarstefnu, gengur jafnvel svo langt, að hann segir ókyrrð í sósíalísku samfélagi óhjákvæmilega og bann við starfsemi óvinarins mistök. Maó segir: "Mér finnst, að hver sá, sem langar til að efna til vandræða, megi gera það svo lengi sem hann vill og sé einn mánuður ekki nægjanlegur er honum fyllilega heimilt að halda áfram í tvo mánuði. Í stuttu máli, ekki er ástæða til að hann hætti að stofna til vandræða fyrr en hann hefur fengið fullnægingu sinna þarfa á því sviði. Ef harkalega er brugðist við þeim, er stofna til illinda og illindin kæfð, munu þau brjótast út að nýju, fyrr eða síðar."++

Allt þetta , sem rakið hefur verið, er ekki fræðilegt tillegg í "vísindalega " umræðu um sósíalisma, heldur tækifærissinnuð gagnbyltingarstefna sem beint er gegn marx-lenínismanum og komið hefur á óreiðu innan Kommúnistaflokks Kína. Í þeim flokki eru hundruð skoðana á ferli og nú eru í raun hundrað skólar þar að deila. Þetta hefur gert hinum

---

+ Maó Tsetung. Úrvalsrit, 5.bindi, bls.397.Peking 1977.(Frönsk útgáfa).

++ Mao Tsetung. Úrvalsrit, 5.bindi,bls 405-406,Peking 1977 (frönsk útgáfa).

borgaralegu vespum mögulegt að fljúga frjálsum meðal "hinna hundrað blóma" og stinga þau eiturbroddum sínum að vild.

Þessi tækifærismennska gagnvart hugmyndafræðilegum atriðum á meðal annars rætur sínar að rekja til þeirrar staðreyndar, að alla tíð frá stofnun Kommúnistaflokks Kína og til þess að hann náði að frelsa landið og enn allt til okkar tíma, hefur flokkurinn aldrei reynt að ná fram hugmyndafræðilegri einingu, aldrei reynt að fá félaga sína til að meðtaka kenningu Marx, Engels, Leníns og Stalíns og gera hana að sinni, hefur aldrei reynt að ná valdi á marx-lenínískri hugmyndafræði og beita henni meðvitað og stöðugt, skref fyrir skref, á ríkjandi aðstæður í Kína.

"Hugsun Maó Tsetungs" er andstæð hinni marx-lenínísku kenningu um byltinguna.

I skrifum sínum minnist Maó oft á hlutverk byltingarinnar við þróun samfélags, en í eðli sínu aðhyllist hann þróunarkenningar frumspekinnar. Gagnstætt díalektískri efnishyggju, sem líkir framþróun við spíral, þá prédikar Maó að þróun sé sem hringur, fari í hring, að þróun sé sem flóð og fjara, sem hverfur frá jafnvægi til ójafnvægis og aftur til jafnvægis á ný, frá hreyfingu til kyrrstöðu og aftur til breytingar á ný, að hún rísi og hnígi, fari ýmist áfram eða aftur á bak. Maó blæs lífi í forna heimspeki um hreinsandi hlutverk eldsins og skrifar: "Nauðsyn er á að "gera nýjan eld" með jöfnu millibili. Hve oft? Einu sinni á ári, eða á þriggja ára fresti? Eða eftir því, hvað hver og einn kýs? Ég er þeirrar skoðunar, að nýjan eld beri að gera tvisvar á hverjum fimm árum, á sama hátt og tunglhlaupár er einu sinni á hverjum þrem árum eða tvisvar á hverjum fimm." +
Af tunglárinu leiðir Maó, líkt og stjörnuspekingar fornaldar, lögmálið um lotubundna kyndingu eldsins,

+ Maó Tsetung, Úrval verka, 5.bindi, bls 499.Peking 1977 (frönsk útgáfa).

lögmálið um þróun, sem fer frá "hinu mikla jafnvægi" til "hinnar fullkomnu óreiðu" og á ný til "hins fullkomna jafnvægis". Þannig endurtekur sig sífellt hin lotubundna hringrás.. Á þennan hátt snýst "hugsun Maós Tsetung" öndverð gegn kenningu díalektískrar efnishyggju um þróun. Lenín segir að kenning díalektískrar efnishyggju

> "...veiti okkur skilning á "sjálfshreyfingu alls sem er ...veiti okkur skilning á stökkum, rofi stöðugrar þróunar, ummyndun einingar í andstæðu sína, afnám hins gamla og uppkomu hins nýja." +

Gegn efnishyggjunni beitir Maó Tsetung hinum frumspekilega skilningi, sem er bæði "líflaus, fölur og þurr."

Andstaða Maós Tsetung við díalektíska efnishyggju er jafnvel enn ljósari þegar skoðað er, hvernig hann leggur til að farið sé með andstæður, sem upp kunna að koma. Samkvæmt kínverskum áróðri hefur Maó Tsetung lagt mikið af mörkum á þessu sviði og þróað díalektíska efnishyggju enn frekar.

Rétt er það, að í verkum sínum ræðir Maó Tsetung oft um andstæður og sameiningu þeirra og notar jafnvel við það marx-lenínískar tilvitnanir og setningar. Engu að síður er hann langt frá skilningi díalektískrar efnishyggju þessara mála. Er hann ræðir um meðhöndlun andstæðnanna, gengur hann ekki út frá marxískri kenningu. Í staðinn leggur hann til grundvallar kenningar gamalla kínverskra heimspekinga og lítur á andstæðurnar á stærðfræðilegan hátt, sem ytra fyrirbrigði. Hann ímyndar sér, að umsköpun andstæðnanna sé einungis það að láta þær hafa hlutverkaskipti.

Með því að vinna með nokkrar ytri andstæður, fengnum úr fornri heimspeki, svo sem yfir og

---

V.I.Lenín. Safnrit, 38.bindi, bls.396 (Alb.útg.)

undir, hægri og vinstri, þungt og létt o.s.frv., gerir Maó Tsetung vísvitandi lítið úr ósköpuðum innri andstæðum hluta og fyrirbæra og gerir þróun að einfaldri endurtekningu, að keðju óbreytanlegra hlekkja, þar sem sömu og óbreytanlegu andstæðurnar eru til staðar og samspil þeirra hið sama um alla eilífð. Maó segir, að hin gagnkvæma ummyndun andstæðnanna hvor í aðra, þar sem aðeins sé um einfalda hlutverkaskiptingu að ræða, ekki uppleysing hins ósættanlega ásamt eðlislægum breytingum þess, sem inniheldur andstæðurnar, sé það form sem allar andstæður lagi sig eftir. Maó gengur svo langt að lýsa því yfir að "þegar kreddufesta ummyndast í andstæðu sína verður hún annað tveggja marxismi eða endurskoðunarstefna". + Frumspekin ummyndast í rökhyggju og rökhyggjan í frumspeki o.s.frv. Að baki þessarar fjarstæðukenndu staðhæfingar og þessa falska rökleiks með andstæður, leynist tækifærismennska og andbyltingarstefna Maós. Af þessum sökum lítur hann ekki á sósíalíska byltingu sem eðlislæga breytingu þjóðfélags, þar sem andstæðar stéttir, kúgun og arðrán manns á manni er afnumið, heldur sem einföld hlutverkaskipti borgarastéttar og öreigastéttar. Til að sanna þessa "uppgötvun" skrifar Maó: "Ef borgarastéttin og öreigastéttin geta ekki ummyndast hvor í aðra, hvernig má það þá vera, að við byltingu verður öreigastéttin hin ráðandi stétt og borgarastéttin hin undirokaða stétt? ... Við erum á öndverðum meiði við Sjang Kaisjekk og hreyfingu hans, Kuomintang. Afleiðing sameiginlegrar baráttu og eyðing hinna tveggja andstæðu þátta okkar og Kuomintang, varð sú, að við höfðum hlutverkaskipti..."++ Þessi sama rökfræði hefur og leitt Mao til að endurskoða marx-leníníska kenningu um tvö stig kommúnísks samfélags. "Samkvæmt díalektíkinni er

---

+ Maó Tsetung, Úrval verka, 5.bindi, bls 479, Peking 1977 (frönsk útgáfa).

++ Sama, bls399-400,

jafnvíst og að líf manns tekur enda, þá mun sósíalisminn eiga sitt skapadægur og þá mun hið kommúníska samfélag rísa upp. Ef samtímis er gert ráð fyrir því, að hið sósíalíska kerfi og hið sósíalíska samband framleiðslu og yfirstjórnar muni ekki deyja út, hvers konar marxíska kenningu erum við þá með? Er hún ekki orðin að heilagri játningu eða guðfræði, sem prédikar ævarandi Guð? " +

Hér heldur Mao Tsetung því hiklaust fram, að sósíalismi sé á öndverðum meiði við kommúnisma. Þetta er hrein endurskoðun á marx-lenínískum skilningi á sósíalisma og kommúnisma. Hér er aðeins um tvö stig sömu gerðar að ræða, sem greinast aðeins að, af mismunandi stigi og þroska efnahagslífs.

Af þvílíkum frumspeki- og andmarxískum hugmyndum leiðir það hvernig Maó Tsetung meðhöndlar byltinguna. Hann lítur á hana sem óendanlegt ferli lotubundinna endurtekninga svo lengi sem menn lifa, sem eilíft ferli frá ósigri til sigurs, frá sigri til ósigurs og frá ósigri til sigurs á ný. Þannig rennur byltingin hringferil sinn út í hið óendanlega. Andmarxískar hugmyndir Maós Tsetung um byltinguna, annað slagið þróunarsinnaðar og hitt slagið stjórnleysissinnaðar, eru jafnvel enn ljósari þegar hann fjallar um kínversku byltinguna.

Svo sem í ljós kemur af skrifum Maós Tsetung, þá leggur hann ekki marx-leníníska hugmyndafræði til grundvallar skilgreiningum sínum á þörfum byltingarinnar né heldur við ákvörðun viðfangsefna hennar. Í ræðu, sem hann hélt á verkamannaþingi, sem miðstjórn Kommúnistaflokks Kína kallaði saman í janúar 1962, viðurkennir Maó að "öll þessi ár, sem við höfum verið að vinna að byltingunni, höfum við unnið í blindni, óafvitandi um hvernig byltingin skuli gerð og gegn hverjum spjótum hennar skuli beint, án hugmynda um stig hennar, hverjum skyldi velta fyrst úr sessi og hverjum síðar o.s.frv. " Þetta hefur gert Kommúnistaflokk Kína óhæfan til

---

+ Mao Tsetung, Úrval verka, 5.bindi, bls 409 Peking 1977 (frönsk útgáfa).

að hafa örugglega á hendi forystu öreigastéttarinnar í Kína í hinni lýðræðislegu byltingu og til að breyta þeirri byltingu í sósíalíska byltingu. Öll þróun kínversku byltingarinnar ber stefnuleysi Kommúnistaflokks Kína vitni. Hún ber þess og vitni að kommúnistaflokkurinn hafi ekki notið leiðsagnar marx-lenínískra lögmála. I stað þeirra komu andmarxískar hugmyndir "hugsunar Maós Tsetung" um eðli byltingarinnar, stig hennar, hreyfiafl ofl.

Maó var aldrei fær um að skilja né útskýra hið nána samband milli lýðræðisbyltingar öreigastéttarinnar og öreigabyltingarinnar. Gagnstætt marx-lenínískri kenningu, sem sannað hefur á vísindalegan hátt að það er enginn Kínamúr milli þessara tveggja byltinga, að milli þeirra þurfi alls ekki að líða langur tími, staðhæfir Maó: "Ummyndun okkar byltingar í sósíalíska byltingu er verk framtíðarinnar...Um það hvenær slíkt muni verða...þangað til kann að líða langur tími. Við skulum ekki knýja á um þessa ummyndun fyrr en öllum nauðsynlegum pólitískum og efnahagslegum undirbúningi er lokið og ummyndunin því orðin hagstæð, en ekki skaðleg, miklum meirihluta þjóðarinnar." +

Mao Tsetung heldur fast við þennan andmarxíska skilning, sem stendur gegn ummyndun lýðræðisbyltingar borgarastéttarinnar í sósíalíska byltingu á meðan allt tímabil byltingarinnar stendur og jafnvel eftir frelsunina. Því segir Maó Tsetung árið 1940: "Hin kínverska bylting verður að eiga leið um... stig nýs lýðræðis og því næst stig sósíalisma. Hið fyrra stigið mun þurfa að standa nokkuð lengi..." ++ I mars árið 1949 sagði Mao Tsetung í almennum umræðum miðstjórnar flokksins, þar sem hann lagði fram áætlunina um þróun Kína eftir frelsunina: "Þá verður að leyfa tilveru allra þátta kapítalismans, jafnt í borgum sem í sveit." Þessi viðhorf og kenningar komu því til leiðar að Komm-

---

+ Maó Tsetung, Úrval verka, 1.bindi,bls.210 (alb.útg.)

++ Mao Tsetung, Úrval verka, 3.bindi,bls169(alb.útg.)

únistaflokkur Kína og Mao Tsetung börðust ekki fyrir ummyndun lýðræðisbyltingarinnar í Kína í sósíalíska byltingu, heldur gáfu borgarastéttinni lausan tauminn og leyfðu tengsl kapítalisma og sósíalisma.

Í afstöðu sinni til tengsla lýðræðisbyltingar borgarastéttarinnar og sósíalískrar byltingar er Maó sömu skoðunar og leiðtogar Annars Alþjóðasambandsins, sem réðust gegn og afskræmdu hina marx-lenínísku kenningu um uppkomu byltingarinnar og settu fram fullyrðingar um að milli lýðræðisbyltingar borgarastéttarinnar og hinnar sósíalísku byltingar þurfi að líða langur tími. Á þeim tíma þrói borgarastéttin kapítalisma og skapi þannig möguleika á byltingu öreiganna. Þeir litu á beina ummyndun lýðræðisbyltingarinnar í sósíalíska byltingu, án hlés og án þess að leyfa kapítalismanum að ná tökum, sem eitthvað ógjörlegt, álíka og að hlaupa yfir hlekk í keðju. Mao Tsetung staðfestir einnig fyllilega þennan skilning er hann segir: "Það eru hreinir draumórar að láta sér detta í hug að byggja sósíalismann á rústum *nýlendu, hálf-nýlendu* eða lénsskipulagi, án þess að upp hafi komið heilstætt lýðræðisríki... án þróunar einkakapítalisma... " +

Andmarxískar hugmyndir Maós Tsetung koma einnig vel í ljós, þegar litið er á, hvernig hann meðhöndlar aflvaka byltingarinnar. Hann viðurkennir ekki hið leiðandi hlutverk öreigastéttarinnar. Lenín sagði, að í sérhverri byltingu, jafnt á heimsvaldastigi borgaralegrar byltingar, byltingu þjóðfrelsisafla gegn heimsvaldastefnu og í hinni sósíalísku byltingu, verði öreigastéttin að hafa forystuhlutverkið á hendi. Jafnvel þó Maó Tsetung talaði um hlutverk öreigastéttarinnar, þá vanmat hann forystuhlutverk hennar þegar til kastanna kom og upphóf í staðinn hlutverk bændastéttarinnar. Hann sagði:"...andstaðan gegn japanska hernámsliðinu er fyrst og fremst

---

+ Mao Tsetung,Úrval verka, 4.bindi,bls 366(alb.útg.)

andstaða bænda. Því hlýtur það að vera hlutverk Hins Nýja Lýðræðis að færa bændum völdin." +

Maó lét þessar smáborgaralegur kenningar sínar í ljós í ritgerð sinni um að "sveitirnar verði að umlykja borgirnar." Hann skrifaði: "þorp undir byltingarstjórn geta umlukt borgirnar...vinna í sveitum landsins á að vera höfuðverkefni byltingarhreyfingarinnar í Kína, borgirnar bíða betri tíma".++ Þetta kom einnig fram hjá Maó Tsetung er hann skrifaði um hlutverk bændastéttarinnar innan ríkisins. Hann hefur haldið því fram, að allar pólitískar hreyfingar og flokkar verði að lúta bændastéttinni og sjónarmiðum hennar."...milljónir bænda munu rísa upp sem óveður, kraftur svo mikill og skjótur, að ekkert afl, hversu öflugt sem það annars kann að vera, megnar að halda aftur af þeim...þeir munu reyna hvern flokk og hóp byltingarmanna, sérhvern byltingarmann og annað tveggja samþykkja skoðanir þeirra eða hafna þeim."+++ Því er það, að samkvæmt Maó er það bændastéttin en ekki verkalýðsstéttin, sem leiðir byltinguna.

Þessa kenningu prédikaði Maó einnig sem hina sönnu leið heimsbyltingarinnar. Hér birtist kjarni þeirra andmarxísku hugmynda, sem fjalla um þriðja heiminn svo nefnda, eða "sveitir heimsins", eins og Kínverjar nefna hann,"aflvaki ummyndunar nútímans". Samkvæmt kínverskum skólum er öreigastéttin annars stigs aflvaki, sem getur ekki haft forystu þá á hendi, er Marx og Lenín boðuðu, í baráttunni gegn kapítalisma og fyrir sigri byltingarinnar, í bandalagi við öll þau öfl, sem kapítalisminn kúgar.

---

\+ Maó Tsetung, Ritsafn, 3.bindi, bls. 177-178 (Alb.útg.)

++ Maó Tsetung, Ritsafn, 4.bindi, bls. 257 og 259 (Alb.útg.)

+++ Maó Tsetung, Ritsafn, 1.bindi, bls.27-28 (Alb.útg.)

I kínversku byltingunni hafa smáborgarar og vel stæðir borgarar ráðið ferðinni. Hin fjölmenna stétt smáborgara hefur haft sín áhrif á alla þróun Kína.

Maó grundvallaði ekki skoðanir sínar á marx-lenínískri kenningu, sem segir okkur að bændastéttin og smáborgarastéttin yfirleitt, sé hverfandi. Vitaskuld hafa hinir fátæku og miðstéttabændur mikilvægt hlutverk á hendi í byltingunni og verða að vera nánir bandamenn öreigastéttarinnar. En bændastéttin og smáborgarastéttin geta ekki farið fyrir öreigastéttinni í byltingu. Að hugsa og prédika hið gagnstæða er að vera andsnúinn marx-lenínisma. Þetta er meginrót andmarxískra skoðana Maós Tsetung, sem hafa haft mjög neikvæð áhrif á kínversku byltinguna.

Kommúnistaflokki Kína hefur ekki verið fræðilega ljós sú grundvallarregla byltinga að öreigastéttin hafi þar forystu á hendi og því ekki beitt þeirri reglu á réttan og við hlítandi hátt. Reynslan sýnir, að bændastéttin getur þá einungis leikið sitt hlutverk í byltingunni að hún njóti samvinnu og leiðsagnar öreigastéttarinnar. Þetta reyndist svo hér í landi á dögum frelsisstríðsins. Albanska bændastéttin var meginafl byltingarinnnar hér, en engu að síður var það verkalýðsstéttin, þó fáliðuð væri, sem leiddi bændastéttina. Svo var, vegna þess að hugmyndafræði marx-lenínismans, hugmyndafræði öreigastéttarinnar, var hugmyndafræði Kommúnistaflokksins, sem nú nefnist Flokkur Vinnunnar og er brjóstvörn verkalýðsstéttarinnar og leiðarljós byltingarinnar. Því unnum við ekki einungis sigur í frelsisstríðinu heldur reistum og sósíalískt ríki.

Þrátt fyrir óteljandi erfiðleika unnum við hvern sigurinn á fætur öðrum. Þessir sigrar unnust fyrst og fremst vegna þess, að flokkurinn hafði fullt vald á kjarnanum í kenningum Marx og Leníns, skildu fullkomlega hvað bylting var, hverjir gerðu hana og hverjir yrðu að leiða hana, skildu, að verkalýðsstéttin og bandalag hennar við bændastéttina varð að vera undir forystu marx-lenínísks

flokks. Kommúnistarnir gerðu sér þess fulla grein að þessi flokkur mætti ekki einungis bera nafn kommúnisma, heldur varð hann að vera flokkur, sem hagnýtti sér marx-lenínísku kenningu um byltingu og flokk við þær aðstæður, sem í landinu ríktu. Flokkur, sem skapaði nýtt sósíalískt samfélag að fyrirmynd Sovétríkjanna á tímum Leníns og Stalíns. Þessi afstaða færði flokki okkar sigur og landinu þann pólitíska, efnahagslega og hernaðarlega styrk sem það hefur nú. Hefðum við breytt á sama hátt, hefðum við ekki beitt í sífellu kenningu þessara miklu fræða, hefðum við ekki getað reist úr rústum sósíalískt ríki í jafn litlu landi og jafn umsetnu óvinum og land okkar er. Jafnvel þó okkur hefði tekist að ná völdum skamma stund, mundi borgarastéttin hafa hrifsað þau til sín á ný, svo sem gerðist í Grikklandi. Þar fór svo, að eftir að sigur hafði verið unninn, færði gríski Kommúnistaflokkurinn vopn sín í uppgjöf, innlendri afturhaldsstétt borgaranna og bresku heimsveldi.

Því er það, að forysta fyrir byltingu er ákaflega mikilvægt grundvallaratriði, þar eð stefna og þróun byltingar veltur á því, hver leiðir hana.

"Afneitun hugmyndarinnar um forystuhlutverkið er grófasta mynd endurskoðunarstefnunnar." +

Afneitun "Hugsunar Maós Tsetung" á forystu öreigastéttarinnar var nákvæmlega það, sem gerði það að verkum, að kínverska byltingin hélst borgaraleg lýðræðisbylting en þróaðist ekki yfir í sósíalíska byltingu.

Í grein sinni "Nýtt lýðræði" heldur Maó Tsetung því fram, að eftir sigur byltingarinnar í Kína, muni hefjast til valda stjórn, sem styðst við bandalag "hinna lýðræðislegu stétta", en þar á hann við, auk bændastéttar og öreigastéttar, smáborgarastétt bæja og borga og þjóðlegu borgarana. "Brauðinu skal útdeila að jöfnu og enginn vera þar öðrum æðri. Því skal ekki heldur ríkja

---

+ V.I.Lenín, Ritsafn, 17.útg. bls.252 (Alb.útg.)

einokun eins hóps, flokks eða stéttar til valda." +
Táknmynd þessa má sjá á fána Kínverska Alþýðu-
lýðveldisins. Stjörnurnar fjórar eru tákn hinna
fjögurra stétta, verkalýðsstéttarinnar, bænda-
stéttarinnar, smáborgaranna og þjóðlegur borgaranna.

Byltingin í Kína, sem frelsaði landið og skapaði sjálfstætt kínverskt ríki, var mikill sigur fyrir hina kínversku þjóð og einnig sigur lýðræðisaflanna og andstæðinga heimsvaldastefnu. Eftir frelsun Kína urðu þar margar jákvæðar breytingar, yfirráð erlendrar heimsvaldastefnu og innlendra gósssherra voru upprætt, barist var gegn fátækt og atvinnuleysi, endurbætur gerðar á almenningsþjónustu til hagsbóta fyrir hinn vinnandi fjölda, menntun var bætt og barist var gegn ómenningu, hraðað var endurbyggingu landsins, sem var allt í sárum að stríðslokum og ýmislegt var fært í átt til sósíalisma. Þar sem áður féllu milljónir úr hungri höfðu nú allir nóg til hnífs og skeiðar. Þetta eru allt óhrekjanlegar staðreyndir og mikilvægir sigrar fyrir kínverska alþýðu.

Af þessu og því, að kommúnistaflokkurinn komst til valda, virtist svo, sem Kína væri á hraðri leið til sósíalisma. En slíkt varð ekki. Með "Hugsanir Maós" sem grundvöll gerða sinna, reyndist Kommúnistaflokkur Kína, sem hefði átt að leiða byltinguna áfram af varfærni og ákveðni, vera frjálslyndur og "lýðræðislegur", tækifærissinnaður og því óhæfur til að leiða Kína hina réttu leið til sósíalisma.

Skoðanir Maós, andmarxískar, geistlegar og fullar af hinum og þessum borgaralegum viðhorfum, urðu til þess að yfirstjórn Kína varð óstöðug, skipulag ríkisins í hreinni óreiðu og fjármálin í ólestri. Röð og regla hefur aldrei komist á í Kína. Óskipulagið varð svo mikið, að jaðraði við stjórnleysi. Maó hvatti til þessa með slagorðinu "til að skýra hlutina verður fyrst að róta upp í þeim."

---

+ Maó Tsetung, Úrvalsrit, 3.bindi, bls.235.(Alb.útg.)

Sjú Enlai lék mikilvægt hlutverk í hinu nýja Kína. Hann var mjög fær hagfræðingur og skipuleggjandi, en hann var aldrei marx-lenínískur stjórnmálamaður. Sem dæmigerður raunsæismaður, kunni hann að setja fram og aðlaga andmarxískar skoðanir sínar fullkomlega hverri þeirri klíku, sem völdum náði í Kína. Hann var poussah+ sem ávallt tókst að halda sér á réttum kili. Hann rásaði frá miðju til hægri, en aldrei til vinstri.

Sjú Enlai var snillingur í að ná samkomulagi og komast um leið hjá grundvallaratriðunum. Hann hefur bæði stutt og bannsungið Sjang Kaisjek, Kao Gang, Líu Sjósi, Teng Sjáping, Mao Tsetung, Lin Piao og Fjórmenningaklíkuna, en hefur aldrei stutt Lenín, Stalín eða marx-lenínisma.

Ein afleiðing viðhorfa Maós var sú, að eftir frelsunina létu Sjú Enlai og aðrir þeir, sem hvörfluðu til ýmissa átta, mjög á sér bera í stjórnmálaumræðu flokksins. Þeirri hneigð, að hvarfla til allra átta var við haldið í flokknum mest fyrir þá sök að "Hugsun Maós" hélt því til streitu, að tímabil hinnar borgaralegu lýðræðisbyltingar hlyti og yrði að vera langt. Maó lagði áherslu á, að á þessu tímabili myndaðist sósíalisminn samfara þróun kapítalismans, sem hann gaf forgang. Tengd þessu er setningin um samtíma tilveru sósíalisma og borgarastéttar um langt skeið. Setningin er þannig sett fram, að þetta ástand á að vera báðum hagstætt, sósíalismanum og borgarastéttinni. Maó svarar þeim, sem gagnrýna fullyrðingar af þessu tagi og nefna þar til reynsluna, sem Októberbyltingin fól í sér, svofelldum orðum: "Borgarastéttin í Rússlandi var gagnbyltingarsinnuð stétt. Hún hafnaði ríkiskapítalisma, skipulagði hægagangsverkföll og skemmdarverk og greip jafnvel til vopna. Rússneska öreigastéttin átti ekki annars úrkosta en að ganga milli bols og höfuðs á henni.

+ Franska. Nafn á vinsælum brúðum í Kína, sem þyngdar eru að neðan og reisa sig upp jafnóðum og þær eru slegnar niður.

Þetta skóp reiðiöldu í borgarastéttum annarra landa og hún varð illyrt í garð byltingarinnar. Hér í Kína höfum við farið tiltölulega vel að okkar borgarastétt, sem við það líður tiltölulega vel og trúir því, að hún kunni einnig að hafa nokkurn hag af byltingunni." + Samkvæmt Maó hefur slík stefna aukið hróður Kína meðal hinnar alþjóðlegu borgarastéttar, en í raun og veru hefur hún aðeins skaðað stórlega sósíalismann í Kína.

Mao Tsetung hefur sett þetta tækifærissinnaða viðhorf fram gagnvart borgarastéttinni, sem það væri fullkomnun kenninga Leníns um hina Nýju Efnahagsstefnu. En það er regindjúp milli kenninga Leníns og boðskaps Maós um að leyfa óheftan kapítalisma og að halda uppi borgaralegum samskiptum í sósíalísku hagkerfi. Lenín viðurkennir að Nýja Efnahagsstefnan hafi verið skref aftur á bak, sem leyfði tímabundna myndun kapítalískra þátta, en hann leggur áherslu á, að:

> "... það er ekkert við þetta, sem er ríki öreiganna hættulegt, svo lengi sem öreigastéttin heldur stjórninni örugglega í sínum höndum, svo lengi sem hún hefur fulla stjórn á flutningum og stóriðju." ++

Í Kína var það svo þegar Maó gerðist málsvari fyrrnefndar endurskoðunar, bæði 1949 og 1956, að öreigastéttin fór hvorki með stjórnmálavaldið né réð yfir stóriðjunni.

Ennfremur má minna á að Lenín leit á Nýju Efnahagspólitíkina sem skammtíma aðgerð sem varð að beita vegna sérstakra aðstæðna í Rússlandi, sem var eitt flakandi sár eftir borgarastyrjöldina. Lenín leit aldrei á hana sem eitthvað almennt lögmál við uppbyggingu sósíalisma. Það er og stað-

---

+ Maó Tsetung, Úrval verka, 5.bindi,bls 338, Peking 1977 (frönsk útgáfa).

++ V.I. Lenín, Ritsafn, 32. bindi, bls. 434 (alb. útg.).

reynd, að ári eftir tilkomu hinnar Nýju Efnahagsstefnu, lýsti hann því yfir að undanhaldinu væri lokið, hratt af stað nýrri sókn gegn einkafjármagni í efnahagslífinu. Í Kína var hinum kapítalísku framleiðsluháttum ætlað að ríkja nær til eilífðar. Samkvæmt skoðunum Maós varð að koma á borgaralegu lýðræði eftir frelsun Kína, en kommúnistaflokkurinn yrði aðeins við völd að nafninu til. Þannig er "Hugsun Maós Tsetung".

Það er einungis hægt að ummynda borgaralega lýðræðisbyltingu yfir í sósíalíska byltingu með því móti, að öreigastéttin svipti borgarastéttina óhikað völdum og taki eignir hennar eignarnámi. Svo lengi sem hin vinnandi stétt Kína deilir völdum með borgarastéttinni og svo lengi sem borgarastéttin heldur forréttindum sínum, getur það ríki, sem komið var á fót í Kína aldrei orðið ríki öreiganna, og því getur hin kínverska bylting ekki orðið sósíalísk bylting.

Kommúnistaflokkur Kína hefur haldið góðgjörnum og tækifærissinnuðum viðhorfum sínum gagnvart hinum arðrænandi stéttum og Maó Tsetung hefur opinberlega mælt með, að farið verði að kapítalismanum á friðsamlegan hátt og reynt að láta hann renna saman við sósíalismann. Hann segir: "Það er svo, að hinir allra afturhaldssömustu hér í heimi eru allra manna afturhaldssamastir. Þeir eru svo í dag og þeir munu verða svo á morgun og þarnæsta dag. En svo munu þeir ekki vera allt til dánardægurs. Að lokum munu þeir taka stakkaskiptum... Merguriinn málsins er sá, að hinir allra afturhaldssömustu eru fastir á sinni skoðun, en engu að síður er hún ekki óbreytanleg... Svo kann að fara, að þeir breyti skoðunum sínum til batnaðar... að þeir fái komið auga á villu síns vegar og víki því á rétta leið. Í stuttu máli, hinir allra afturhaldssömustu taka breytingum." +

Í þörf sinni til að skapa þessu tækifæris-

---

+ Mao Tsetung, Úrval verka, 3.bindi,bls 239 (alb.útg.

sinnaða viðhorfi sínu fræðilegan grunn og með því að bregða á leik með "ummyndun andstæðnanna", segir Maó, að með umræðu, gagnrýni og ummyndun, er fjandsamlegum viðhorfum breytt í samstæðar skoðanir. Hinar arðrænandi stéttir og hin borgaralega menntamannastétt, geta horfið í andhverfu sína þ.e. orðið byltingarsinnaðar. 1956 skrifaði Maó: "Ef tekið er tillit til aðstæðna hér í landi, munu flestir gagnbyltingarsinnar breyta afstöðu sinni að meira eða minna leyti. Þetta má þakka þeirri stefnu, sem við höfum fram haldið gagnvart þeim. Margir þeirra standa ekki lengur gegn byltingunni og þeir eru til sem hafa náð svo langt að gera henni gagn." +

Þessar andmarxísku hugmyndir um að stéttaróvinur muni með tímanum snúast á sveif með verkalýðsstéttinni, verða síðan til þess að Maó mælir með stéttasamvinnu og að leyfa borgarastéttinni að halda áfram að auka auð sinn, að arðræna, reka áróður og vinna gegn byltingunni af öllum mætti fyrir opnum tjöldum. Til varnar þessari uppgjöf gagnvart stéttaróvininum skrifar Maó: "Okkar bíða ótal verk. Það er ógerningur að snúast gegn hverjum og einum þeirra og berja á honum næstu fimmtíu árin. Þeir eru til, sem neita algerlega að snúa af villu síns vegar. Slíkir geta tekið með sér villu sína í gröfina er þeir halda til fundar við konung Helvítis." ++ Í verki varð þessi uppgjafarstefna gagnvart óvininum til þess, að stjórnun kínverska ríkisins hélst í höndum hinna gömlu embættismanna. Það gerðist jafnvel, að hershöfðingjar úr her Sjang Kaisjeks voru gerðir að ráðherrum. Jafnvel Pu Jí, keisari yfir Mansjú-Kuo, strengbrúða japanska hernámsliðsins, var hlíft og hann gerður að sýningargrip svo sendinefndir gætu komið og rætt við hann og meðtekið á hvern hátt slíkir menn væru endur-

---

+ Mao Tsetung, Úrval verka, 5.bindi, bls. 321, Peking 1977 (frönsk útg.)

++ Sama bls. 512

menntaðir í hinu sósíalíska Kína. Markmiðið með því að auglýsa jafn mikið og raun bar vitni meðferðina á þessum dúkkukeisara, var meðal annars það að lægja ótta konunga, þjóðhöfðingja og afturhaldsskrípa annarra landa og læða að þeim þeirri hugmynd, að "sósíalismi" Maós væri hreint ágætur og engin ástæða til að óttast hann.

Í Kína hefur og verið beitt aðferðum, sem í engu minna á stéttabaráttu, gagnvart lénsherrum og kapítalistum, sem hafa framið óteljandi glæpi gegn kínverskri alþýðu. Maó gerði þessar aðferðir að fræðikenningu og tók gagnbyltingarmenn opinberlega undir sinn verndarvæng. Hann lýsti yfir:"...enginn skal deyddur og fáir teknir höndum... Hin opinbera öryggislögregla á ekki að handtaka neinn, og þeir, sem handteknir eru, skulu ekki saksóttir af hinu opinbera né dæmdir af dómstólum. Meira en níutíu hundraðshlutar þeirra gagnbyltingarsinna, sem handteknir eru skulu meðhöndlaðir á þennan hátt".+ Sem réttur og sléttur þrætubókarlistamaður segir Maó Tsetung, að aftaka gagnbyltingarmanna sé ekki til góðs, slíkt hindri framleiðslu, kemur niður á vísindastarfi í landinu, svertir okkur í augum annarra o.s.frv. Maó Tsetung segir ennfremur, að ef einn gagnbyltingarmaður er tekinn af lífi, þá "verðum við að bera hans mál saman við mál þess næsta, þess þriðja og svo koll af kolli og þá munu mörg höfuð fjúka...og þegar höfuð hefur verið höggvið af, þá verður það ekki grætt á nýjan leik, né heldur grær nýtt í þess stað eins og gerist með graslauk, þá hann er skorinn." ++

Afleiðing þessara and-marxísku hugmynda um andstæður, um stéttir og hlutverk þeirra í byltingunni, sem "Hugsun Maós" býður, var sú, að Kína hélt aldrei fram hinn sanna veg til sósíalisma. Það eru

---

+ Maó Tsetung, Úrvalsrit, 5.bindi, bls.323.Peking 1977 (Fr.útg.)

++ Maó Tsetung, Úrvalsrit, 5.bindi, bls.323, Peking 1977 (Frönsk útg.)

ekki aðeins leifar hins liðna, efnahagslegar, pólitískar, hugmyndafræðilegar og félagslegar, sem lifað hafa af byltinguna og eru enn til staðar í Kína. Hinar arðrænandi stéttir eru þar enn sem stéttir og eru enn við völd. Borgarastéttin er ekki aðeins til, heldur eykur hún sífellt auð sinn að þeim eignum sem hún átti áður og á enn. Kapítalískir vextir hafa ekki verið afnumdir með lagaboði í Kína, því hin kínverska forysta hefur breytt eftir þeirri stefnu, sem Maó setti hinni lýðræðislegu borgarabyltingu árið 1935. Hann sagði þá: "Lög Alþýðulýðveldisins... munu ekki hindra borgarastéttina í að taka til sín gróða..."+ Samkvæmt reglunni um "jafnan rétt til lands" hefur kúlakkastéttin, í því formi sem hún er í Kína, náð mjög bættri aðstöðu og auknum hagnaði. Maó gaf fyrirskipun þess efnis, að ekki mætti snerta kúlakkana, því það gæti vakið óánægju innan borgarastéttarinnar, en við hana hafði Kommúnistaflokkur Kína tengst bræðraböndum í sameiginlegri baráttu á sviði stjórn- og efnahagsmála.++

Allt þetta sýnir, að "Hugsun Maós Tsetung" hvorki gat né vildi leiða Kína hina réttu braut til sósíalisma. Sjú Enlai lýsti því reyndar yfir árið 1949, en hann var þá að reyna að fá bandarísku stjórnina til að aðstoða Kína, að hvorki Maó né helstu stuðningsmenn hans fýsti að koma á sósíalisma. Sjú Enlai skrifaði: "Enn er Kína ekki orðið kommúnískt land og ef stjórnkerfi Maós er framfylgt á réttan hátt, mun svo ekki verða um langa framtíð." +++

Með lýðskrumi hafa Maó Tsetung og Kommúnistaflokkur Kína ýtt til hliðar öllum sínum fyrri yfirlýsingum um uppbyggingu sósíalísks og kommúnísks samfélags, og tekið upp í staðinn kyrrstöðustefnu.

---

\+ Mao Tsetung, Úrval verka, 1.bindi,bls 209 (albönsk útg.)

++ Mao Tsetung, Úrval verka, 5.bindi,bls 22, Peking 1977 (frönsk útg.)

+++ International Herald Tribune, 14. ágúst 1978.

Á árum "Stökksins mikla" köstuðu þeir ryki í augu fólksins, sem var í anda byltingarinnar mjög hlynnt sósíalisma, með því að lýsa því yfir, að eftir tvær til þrjár fimm ára áætlanir, mundi hinu mikla lokatakmarki, kommúnisma, vera náð. Síðar, þegar þeim reyndist nauðsyn á, að þessar yfirlýsingar fyrntust, þar eð ekki örlaði á kommúnisma og eins til að hylja mistakaslóð sína, komu leiðtogarnir fram með kenninguna um að þúsundir ára þyrftu til, svo fullur sigur sósíalismans næði fram að ganga.

Vissulega kallar Kommúnistaflokkur Kína sig kommúnískan flokk, en hann hefur síður en svo þróast í þá átt. Hann hefur sótt til ringulreiðar-frjálslyndis-og tækifærismennsku og er þess alls ófær að leiða þjóðina fram til sósíalisma. Það hefur orðið æ ljósara og einkum nú eftir fráfall Maós Tsetung, að flokkurinn stefnir alls ekki til sósíalisma, heldur rennur hann fram hinn breiða veg í átt til borgaralegs heimsveldis.

"Hugsun Maós Tsetung" hefur, sem and-marxísk kenning, breytt alþjóðahyggju öreigastéttarinnar í þjóðernisgorgeir.

Allt frá upphafi hefur Kommúnistaflokkur Kína sýnt af sér einkenni þjóðernishyggju og jafnvel þjóðrembings, sem, eins og staðreyndir vitna um, reyndist jafnvel ekki unnt að uppræta á velgengnisárunum. Einn stofnenda Kommúnistaflokks Kína, Li Ta-tjaó, sagði: "Evrópubúar halda, að heimurinn tilheyri hvíta manninum einum og að hinn hvíti maður sé æðri öðrum kynstofnum. Hin kínverska alþýða verður að vera við því búin að heyja stéttastríð gegn öðrum kynþáttum heimsins. Þar munu þeir enn einu sinni státa sig af sérstökum þjóðarkostum sínum." Kommúnistaflokkur Kína var gegnsýrður slíkum viðhorfum frá byrjun.

Jafnvel Maó Tsetung reyndist ekki unnt að komast hjá kynþátta- og þjóðernissjónarmiðum af þessu

tagi, svo ekki sé nú minnst á Liu og Teng. Maó segir í skýrslu, sem hann gaf miðstjórn flokksins árið 1938: "Það Kína, sem nú er, er runnið frá Kína fortíðarinnar... Vér skyldum safna í eitt sögu vorri frá Konfúsíusi til Sun Yat-sen...og tileinka oss þann dýrmæta arf. Það er mikilvægt til leiðsagnar hinni miklu hreyfingu, sem vér höfum af stað hrundið". +

Vitaskuld heldur sérhver marx-lenínískur flokkur því fram, að hann verði að byggja á arfi frá gengnum kynslóðum, en einnig verður að hafa í huga að ekki er allt gott þó gamalt sé. Velja verður það úr, sem jákvætt er og framsækið. Kommúnistar hafna afturhaldssömum hugmyndum, hvaðan sem þær koma. Kínverjar hafa verið ákaflega íhaldssamir, allt að því ofstækisfullir, í viðhorfi sínu til gamalla hátta, hefða og hugmynda. Þeir varðveita hið gamla sem dýrmætan fjársjóð. Af þeim viðræðum, sem við áttum við þá, komumst við að raun um, að Kínverjar meta lítils alla byltingarreynslu heimsins. Fyrir þeim hefur ekkert annað gildi, en þeirra eigin aðferðir, barátta þeirra gegn Sjang Kaisjek, Gangan mikla og kenning Maós Tsetung. Hið jákvæða og framsækna hjá öðrum þjóðum töldu Kínverjar lítils virði. Þeir gáfu sér ekki einu sinni tíma til að skoða það. Mao lýsti því yfir að "Kínverjar skyldu varpa frá sér formúlum, sem erlendir menn hefðu gert". Hann nefnir ekki nákvæmlega við hverja hann á. Hann bannfærði allar þær "klisjur og kreddur, sem að láni hafa verið fengnar erlendis frá." Hér verður staldrað við og spurt: Er kenningin um hinn vísindalega sósíalisma, sem Kínverjar settu sannarlega ekki fram sjálfir, hluti af þessum "klisjum" og "kreddum" sem forboðnar eru í Kína?

Forysta Kommúnistaflokks Kína leit á marx-lenínisma, sem einkaeign Sovétríkjanna, eins og eitthvað sem Sovétríkin hefðu helgað sér, en til þeirra ólu Maó og félagar með sér afbrýðisemi,

---

\+ Mao Tsetung, Úrval verka, 2.bindi,bls 250-251, (albönsk útg.)

sem nærðist á eigin þjóðrembingi og borgaralegum stórveldisdraumum. Þeir litu ekki á Sovétríki Leníns og Stalíns, sem hið mikla föðurland öreigastéttarinnar um allan heim, land sem öreigastéttin varð að treysta á til framvindu byltingarinnar og verja af öllum mætti sínum gegn ofsafengnum árásum borgarastéttarinnar og heimsvaldastefnunnar.

Fyrir áratugum snérust aðalleiðtogarnir tveir í kínverska kommúnistaflokknum, Maó Tsetung og Sjú Enlai, bæði í orði og verki gegn Sovétríkjunum, sem þá voru undir forystu Stalíns. Þeir töluðu jafnvel gegn Stalín sjálfum. Maó sakaði Stalín um yfirborðsmennsku og að hann hafi "ekki séð sambandið milli baráttu andstæðnanna og samruna þeirra" + að hann hafi "framið ótal afglöp í samskiptum við Kína. Vinstri ævintýramennskan, sem Wang Ming stundaði seinni hluta annars borgarastríðsins og hægri tækifærismennska hans í upphafi andspyrnunnar gegn Japan, er hvoru tveggja runnið undan rifjum Stalíns." ++ Ennfremur hafi afstaða Stalíns til Júgóslavíu og Títós verið röng o.s.frv.

Svona rétt fyrir kurteisis sakir talaði Maó svo annað veifið til að verja Stalín. Hann sagði að Stalín væri aðeins illur að einum þriðja, en engu að síður lét Maó sér nægja að nefna það sem honum þótti vera afglöp. Yfirlýsingar Maós á Moskvufundi kommúnista- og verkalýðsflokka árið 1957, eru engin tilviljun: I nærveru Stalíns leið mér sem nemanda fyrir framan kennara sinn, en nú er við hittum Krústév erum við sem félagar, við erum ekki á nálum". Þarna er hann að hylla opinberlega róg Krústévs um Stalín og lýsa yfir viðurkenningu á stefnu Krústévs.

Rétt sem aðrir endurskoðunarsinnar, þá hefur Maó notað gagnrýni sína gegn Stalín, til að réttlæta fráhvarf sitt frá marx-lenínismanum, sem

---

+ Mao Tsetung Úrval verka, 5.bindi, bls400, Peking 1977 (frönsk útg.)

++ Sama, bls 328.

Stalín varði af árvekni og auðgaði með þrotlausu starfi. Með árásum sínum á Stalín hugðust hinir kínversku endurskoðunarsinnar niðra verk hans, en hefja vald Maós og gera hann að heimsleiðtoga, leiðtoga marx-lenínismans, sem ávallt héldi fram hinni hárréttu og óbrigðulu línu. Þessi gagnrýni sýndi einnig samsafnaða óvild þeirra í garð Stalíns, vegna þeirrar gagnrýni, sem hann og Komintern settu fram á forystu Kommúnistaflokks Kína og Maó Tsetung, því þeir létu hjá líða að beita án afláts grundvallarreglum marx-lenínismans um forystuhlutverk öreigastéttarinnar í byltingunni, um alþjóðahyggju öreiganna, um það á hvern hátt barátta byltingarinnar skuli háð o.s.frv. Maó lét þessa óánægju í ljós, er hann sagði: "Stalín hélt að sigur okkar væri samskonar sigur og Tító hafði unnið og árin 1949 og 1950 var þrýstingur hans á okkur verulegur". + Á sama hátt mæltist Sjú Enlai, í viðræðum hans við okkur hér í Tírana: "Stalín hélt okkur vera Bandaríkjasinnaða, eða jafnvel á sömu leið og Júgóslava". Tíminn hefur leitt í ljós að Stalín hafði fullkomlega rétt fyrir sér. Spár hans um kínversku byltinguna og þær hugmyndir, sem leiddu hana, reyndust hárréttar.

Þær andstæður, sem fram komu milli Kommúnistaflokks Kína undir forystu Maó Tsetungs og Kommúnistaflokks Sovétríkjanna undir forystu Stalíns ásamt þeim, sem fram komu milli Kommúnistaflokks Kína og Komintern, áttu rót sína að rekja til ólíkrar afstöðu til grundvallaratriða marx-lenínisma, um leið byltingarinnar og baráttuaðferða. Til dæmis leiddi miðstjórn Kommúnistaflokks Kína hjá sér greinargerðir Komintern um rétta og stöðuga þróun byltingarinnar í Kína, um það, hvernig skyldi stilla saman aðgerðum verkalýðshreyfingar og frelsishersins og um eðli og stig kínversku byltingarinnar. Maó Tsetung sem og aðrir leiðtogar Kommúnistaflokks Kína hefur ávallt

---

+ Maó Tsetung, Úrval verka, 5.bindi, bls.328 Peking 1977 (frönsk útg.)

talað með óvirðingu um sendinefndir Komintern til Kína og nefnt meðlimi þeirra heimska fáráðlinga, sem þekktu ekki til þess, sem þar væri að gerast. Þar eð Maó Tsetung leit á hvert land sem sjálfstæðan heim út af fyrir sig, lokaðan öðrum, áleit hann þá aðstoð, sem nefndir Komintern buðu, ónauðsynlega eða einfaldlega ónýta. Í ræðu sinni á Hinni Auknu Vinnuráðstefnu miðstjórnar Kommúnistaflokks Kína í janúar 1962 sagði Maó: "Kína er sjálfstæður heimur. Við Kínverjar þekkjum hann en félagar okkar frá Komintern þekktu hann ekki. Þeir áttu fullt í fangi með að reyna að átta sig á þeim gátum, sem við þeim blöstu. Þessir félagar okkar frá Komintern vissu lítið sem ekkert um kínverskt samfélag, kínversku þjóðina eða kínversku byltinguna. Því skyldum við þá, hér og nú, vitna til þessara erlendu félaga?"

Þegar Maó Tsetung talar um það, sem vel hefur tekist, minnist hann aldrei á Komintern. En þar, sem eitthvað hefur farið úrskeiðis hjá Kommúnistaflokki Kína og þegar flokkurinn hefur misskilið þróun mála þar í landi og dregið af þeim rangar ályktanir, varpar hann sökinni á Komintern og fulltrúa þess í Kína. Hann og aðrir leiðtogar í Kína saka Komintern um að hafa hindrað þá í baráttunni við að ná völdum og flækt hlutina fyrir þeim við uppbyggingu sósíalismans. En staðreyndirnar tala sínu máli um það, sem gerst hefur og ekki síður um það, sem nú er að gerast í Kína. Þær staðfesta, að ábendingar og ákvarðanir Komintern varðandi Kína voru yfirleitt hárréttar og að Kommúnistaflokkur Kína byggði hvorki gjörðir sínar né hugsanir á marx-lenínískri hugmyndafræði.

Afleiðingar hinnar þröngsýnu þjóðernishyggju og stórveldispólitík, sem einkenna "Hugsun Maós" og er leiðarljós Kommúnistaflokks Kína, kom einnig vel í ljós í viðhorfum þess flokks til alþjóðahreyfingar kommúnista og gerðum hans innan þeirrar hreyfingar.

Þetta er sérstaklega áberandi, þegar skoðuð

er afstaða Kommúnistaflokks Kína til nýrra marx-lenínískra flokka, sem stofnaðir hafa verið síðan krústévistarnir svikust undan merkjum. Kínverska forystan hefur aldrei borið nokkurt minnsta traust til þeirra. Keng Piao, en hann er sá maður í miðstjórn kínverska Kommúnistaflokksins sem tekur ákvarðanir um málefni er snerta alþjóðahreyfingu kommúnista, lýsti þessu vantrausti Kínverja opinberlega yfir. Hann sagði: "Kína er ekki fylgjandi stofnun marx-lenínískra flokka og æskir þess ekki að fulltrúar þessara flokka komi til Kína. Koma þeirra er okkur til leiðinda, en við því er ekkert að gera, því við getum varla rekið þá frá okkur. Við látum okkur lynda vera þeirra hér á sama hátt og við viðurkennum veru fulltrúa borgaralegra flokka hér." + Slíkri stefnu, sem á ekkert sameiginlegt með alþjóðahyggju öreigastéttarinnar, var fram haldið meðan Maó var enn í fullu fjöri og fær um að stjórna, og var því með fullu samþykki hans.

Þegar þessir nýju marx-lenínísku flokkar uxu að styrk, þvert ofan í vonir Kínverja, breyttu þeir algerlega um viðhorf. Nú viðurkenndu þeir án undantekninga sérhvern nýjan flokk eða hóp og gerðu í engu upp á milli þeirra, svo fremi þeir kölluðu sig "marx-leníníska flokka","byltingarflokka", "rauða varðliða" o.s.frv. Flokkur Vinnunnar í Albaníu hefur gagnrýnt þetta viðhorf og háttalag Kommúnistaflokks Kína. Aðrir sannir marx-lenínískir flokkar hafa gert hið sama. Engu að síður hefur hin endurskoðunarsinnaða forysta Kína haldið áfram á sömu braut.

Síðar tóku Kínverjar upp á því, að gera upp á milli þessara flokka og miðuðu þá einungis við eigin hagsmuni. Þeir kölluðu sanna marx-lenínísku flokka óvini sína, en þeir hópar, sem stóðu gegn þessum flokkum, voru Kínverjum mjög kærir. Nú er

---

+ Frá viðræðum flokksfélaga okkar í Peking við Keng Piao, 16. apríl 1973. Skjalasafn Flokksins.

svo komið, að hinir kínversku endurskoðunarsinnar láta ekki við það eitt sitja, að halda sambandi við þessa andmarxísku flokka og hópa, sem hefja "Hugsun Maós Tsetung" til skýjanna, heldur bjóða þeir og fulltrúum þeirra til Peking, þar sem þeir taka þá til meðferðar, veita þeim fjárhagsaðstoð og pólitískar og hugmyndafræðilegar fyrirskipanir og leggja niður fyrir þeim á hvern hátt þeir skuli vinna gegn Flokki Vinnunnar í Albaníu og öðrum sönnum marx-lenínískum flokkum. Þeir krefjast þess, að þessir flokkar breiði út "Hugsun Maós Tsetung ","þriggja heima kenninguna" og yfirleitt alla utanríkisstefnu Kínverja, koma á dýrkun á Hua Kuofeng og Teng Sjáping og fordæmi "fjórmenningaklíkunnar". Þeir flokkar, sem fullnægja þessum skilyrðum,eru að dómi kínversku endurskoðunarsinnanna, marx-lenínískir, en þeir flokkar sem mótmæla þessu eru lýstir andmarxískir, ævintýramenn o.s.frv.

Allt þetta sýnir, að í samskiptum sínum við marx-lenínísku flokka, hefur hin endurskoðunarsinnaða forysta Kínverja ekki hagað sér í samræmi við þær grundvallarreglur lenínisma og hefðir, sem ríkja um samskipti sannra kommúnistaflokka. Rétt sem endurskoðunarsinnar krústévismans, leggja þeir út af hinu andmarxíska hugtaki um "móðurflokkinn" og fara samkvæmt því að skipa fyrir verkum, beita þrýstingi og skipta sér af einkamálum annarra flokka, en hafa sjálfir aldrei þegið uppástungur né ráðleggingar annarra bróðurflokka. Þeir hafa staðið gegn fjöldafundum marx-lenínískra flokka, þar sem allir eru jafn rétthάir, til að ræða þá erfiðleika, sem fram kunna að koma við undirbúning og sigur byltingarinnar, til að ræða baráttuna gegn nútíma endurskoðunarstefnu og til varnar marx-lenínismanum, til að skiptast á reynslu og samræma aðgerðir o.s.frv. Ástæðan fyrir þessari afstöðu Kínverja er meðal annars sú, að þeir eru hræddir við að standa frammi fyrir sönnum marx-lenínistum á fjölmennum fundi jafningja, því þar yrðu andmarxískar endurskoðunarkenningar þeirra í þjónustu heimsauðmagnsins og þess að gera Kína að

risaveldi, leiddar fram og afhjúpaðar.

Þau sambönd, sem Kommúnistaflokkur Kína hefur haft og hefur enn, við margskonar fasíska-, endurskoðunarsinnaða- og ýmsa aðra flokka, er enn ein ábending um andmarxískt eðli "Hugsunar Maós Tsetung". Nú er Kommúnistaflokkur Kína að reyna af öllum mætti að undirbúa jarðveginn til þess að soga til sín eða koma á nánum sambö ndum við gamla endurskoðunarflokka í ýmsum löndum. Má þar nefna Italíu Frakkland, Spán og önnur Evrópulönd, S-Ameríku o. s.frv. Hinir kínversku endurskoðunarsinnar leggja æ meiri áherslu á þessi tengsl, því hugmyndafræðilega eru flokkar þessara landa á sömu línu og Kommúnistaflokkur Kína. Ólíkar baráttuaðferðir þeirra skipta hér ekki máli. Þær ráðast af eðli, styrk og valdi auðhyggjunnar í hverju landi fyrir sig.

Bönd Kínverska Kommúnistaflokksins við þessa hefðbundnu endurskoðunarflokka munu smám saman styrkjast og aðgerðir þeirra munu verða samhæfðari. Jafnframt mun Kommúnistaflokkur Kína halda áfram að nota sér smáa hópa, sem kalla sig marx-lenínista og fylgja kínversku línunni til að berjast gegn og spilla þeim sönnu marx-lenínísku flokkum, sem nú eru til. Þeir munu þó standa óhaggaðir og svo munu aðrir marx-lenínískir flokkar gera, sem nú er verið að stofna eða munu verða stofnaðir. Með þessum gerðum sínum aðstoða Kínverjar ódulið aðra endurskoðunarsinna, kapítalista og sósíaldemókratíska flokka og fremja skemmdarverk gegn upprisu og sigri byltingarinnar. Sérstaklega beita þeir sér þó gegn byltingarundirbúningi hugans, hinum marx-lenínísku flokkum, sem munu leiða byltinguna fram til sigurs.

Kommúnistaflokkur Kína notaði þessa sömu aðferð í samskiptum við hið svokallaða kommúnistabandalag í Júgóslavíu, sem hefur beitt öllum mætti sínum til þess að kljúfa alþjóðahreyfingu kommúnista og hefur verið óþreytandi í baráttu sinni gegn sósíalisma og marx-lenínisma. Þeir, sem nú eru við völd í Kína vilja helst ganga

hönd í hönd með júgóslavnesku endurskoðunarsinnunum og samhæfa gerðir sínar þeirra gerðum í baráttunni gegn marx-lenínisma og öllum marx-lenínískum flokkum, gegn byltingu, sósíalisma og kommúnisma.

Það hafa verið miklar sveiflur í viðhorfum Maó Tsetung og Kommúnistaflokks Kína til júgóslavnesku endurskoðunarstefnunnar og afstöðu til Tító og títóisma. Í fyrstu sagði Maó Tsetung, að Tító hefði ekki rangt fyrir sér, heldur hefði Stalín skjátlast um Tító. Hinn sami Maó líkir síðar Tító við Hitler og Sjang Kai-sjek og segir að: "ekki sé hægt að fá einstaklinga eins og Tító, Hitler, Sjang Kai-sjek og zarinn til að víkja af villu síns vegar, slíka menn verði að drepa." Þrátt fyrir þetta breytti Maó enn um afstöðu og lýsti nú mikilli löngun sinni til að hitta Tító. Tító lýsti sjálfur yfir nýlega: "Mér var boðið til Kína, þegar Maó var á lífi. Það var á meðan heimsókn Djemal Biyedich til Kína stóð yfir, að Maó lét í ljósi ósk sína um, að ég skyldi heimsækja Kína. Hua Kuo-feng formaður sagði mér einnig, að fyrir fimm árum hefði Maó sagt, að hann hefði átt að bjóða mér í heimsókn og lagði þá jafnframt áherslu á, að árið 1948 hefði Júgóslavía verið á réttri leið, nokkuð sem hann (Maó) hefði þá þegar lýst yfir innan þröngs hóps. Það var einungis vegna þeirra samskipta, sem þá voru milli Sovétríkjanna og Kína, að þetta var ekki gert að opinberri yfirlýsingu." +

Hin endurskoðunarsinnaða forysta Kína er nú af samviskusemi að fullnægja þessum "hinstu óskum" Maós Tsetung. Hua Kuo-feng notaði tækifærið, þegar Tító kom til Kína og þá ekki síður, er Hua var sjálfur í Júgóslavíu, til að lofa Tító og lýsa honum sem æruverðugum marx-lenínista, "miklum leiðtoga", ekki aðeins Júgóslavíu, heldur einnig alþjóðahreyfingar kommúnista. Með þessu móti

---

+ Úr ræðu Títós á fundi Aktivista sovétlýðveldisins Slovenínu 8. september 1978.

staðfesti kínverska forystan opinberlega allar árásir títóistanna á Stalín og Bolshevikaflokkinn, á Flokk Vinnunnar í Albaníu, alþjóðahreyfingu kommúnista og marx-lenínisma.

Hinn náni pólitíski og hugmyndafræðilegi skyldleiki kínversku endurskoðunarsinnanna við títóistana, "evrópukommúnistana" svo sem Carillo og félaga og stuðningur þeirra við and-marxískar, trotskýískar, anarkískar og sósíaldemókratískar hreyfingar og flokka, sýnir,að kínversku leiðtogarnir, innblásnir af "Hugsun Maós" eru, í samvinnu við liðhlaupa marx-lenínisma, að mynda sameiginlega hugmyndafræðilega víglínu gegn byltingunni og gegn hagsmunum frelsisbaráttu þjóðanna. Sú er ástæðan til þess, að allir óvinir kommúnista gleðjast yfir hinum kínversku "kenningum". Þeir hafa nefnilega séð, að "Hugsun Maós" að kínverskri stefnu er beint gegn byltingu og sósíalisma.

Það, sem hér hefur verið rætt, nær ekki til alls þess and-marxíska og and-leníníska við "Hugsun Maós". Engu að síður er hér nóg að gert til þess að leyfilegt sé að draga þá ályktun, að Maó Tsetung hafi ekki verið marx-lenínisti, heldur framfarasinnaður lýðræðisbyltingar-maður, sem var lengi í forystu fyrir Kínverska Kommúnistaflokknum og lék mikilvægt hlutverk í sigri Kínversku Lýðræðisbyltingarinnar á heimsvaldastefnunni í Kína. Innan Kommúnistaflokks Kína og meðal almennings, bæði innan og utan Kína, hefur hann gert sér far um að skapa sér orð sem mikill marx-lenínisti og sjálfur komið fram í hlutverki kommúnista og marx-lenínísks díalektíkers. En þar sigldi hann undir fölsku flaggi. Í raun og veru valdi hann og týndi saman hina og þessa þætti úr díalektík marxismans, hugsjónastefnu, borgaralegum hugmyndum og hugmyndum endurskoðunarsinnanna og jafnvel úr gamalli kínverskri heimsspeki og grautaði þessu saman í eitt. Því er ekki einungis hægt að taka til rannsóknar viðhorf Maó Tsetungs í þeirri

röð, sem þau koma fyrir í verkum hans, heldur verður að líta á kennisetningar hans sem eina heild og skoða jafnframt, á hvern hátt þeim hefur verið beitt og þá einnig þær afleiðingar, sem þeim hefur fylgt í verki.

Þegar "Hugsun Maós Tsetung" er metin, er einnig mikilvægt að hafa í huga þær sögulegu aðstæður, er sköpu hana. Hugmyndir Maós voru í mótun um það leyti, sem kapítalisminn var á hnignunarskeiði,þ. e.a.s. á þeim tíma, er öreigabyltingarnar eru komnar á dagskrá og fordæmi hinnar miklu Októberbyltingar ásamt kenningum Marx, Engels, Leníns og Stalíns, eru orðnar óhvikult leiðarljós öreigastéttarinnar og byltingarsinnaðra þjóða um víða veröld. Kenning Maós Tsetung,"Hugsun Maós Tsetung ", sem fæddist inn í þennan nýja heim, varð að hasla sér þar völl, sem hún og gerði, búin huliðshjálmi marx-lenínískrar kenningar. "Hugsun Maós Tsetung" var þó í raun "kenning" andsnúin málstað öreigabyltingarinnar og kom heimsvaldastefnunni til bjargar á örlagastundu. Því held ég því fram, að Maó Tsetung hafi staðið gegn marxisma og að "Hugsun Maós Tsetung" sé andmarxísk.

Þegar talað er um "Hugsun Maós Tsetung" er erfitt að greina eina einustu hreina línu í henni, þar eð, eins og nefnt hefur verið, hún er sambræðingur heimspekikerfa allt frá anarkisma til marxisma. I þessum bræðingi má einnig finna gamlar hugmyndir ættaðar frá Konfúsíusi, Mensíusi og öðrum kínverskum heimspekingum, sem hafa haft bein áhrif á mótun hugmynda Maós Tsetung , bæði menningarlega og fræðilega og hann gerir mjög hátt undir höfði.

Jafnvel þeir þættir hugmyndafræði Maós Tsetung, sem birtast sem einskonar afvegaleiddur marxlenínismi, ber greinileg merki einskonar "Asíukommúnisma", sem er mjög hlaðinn þjóðernishyggju, ofnæmi gegn öllu erlendu og jafnvel Búddatrú. Það gat ekki hjá því farið, að hugmyndafræði af þessu

tagi lenti í beinni andstöðu við marx-lenínisma.

Endurskoðunarklíka sú, sem Hua Kuo-feng og Teng Hsiao-ping leiða og nú fer með völd í Kína, hefur "Hugsun Maó Tsetung" að leiðarljósi sínu og hún er og grundvöllur að hugmyndafræði klíkunnar, afturhaldsstefnu hennar og gerðum.

Með það fyrir augum að styrkja ótrygga stöðu sína, hefur klíkan umhverfis Hua Kuo-feng og Yeh Tsien-yi borið merki Maó Tsetungs hátt. Undir þessu merki fordæmdi klíkan Tien An Menfundinn og gekk frá Teng Hsiao-ping, sem þeir kölluðu réttilega endurskoðunarsinna. Undir merki þessu hrifsaði þessi klíka völdin og braut "fjórmenningaklíkuna" á bak aftur. En óreiða, sem hefur ávallt verið einkenni Kína, jókst enn frekar. Þetta ókyrra ástand fleytti Teng Hsiao-ping fram í sviðsljósið á ný og kom honum á sviksamlegan hátt til valda. Þar tók hann þegar upp þráðinn við að koma fram hægri öfgastefnu sinni með fasískum aðferðum.

Takmark Tengs var að styrkja stöðu sinnar eigin klíku og að fylgja fram ógrímuklæddu bandalagi sínu við bandaríska heimsvaldastefnu og afturhald borgarastéttarinnar.

Teng Hsiao-ping kom fram með áætlunina um "endurbæturnar fjórar", stöðvaði menningarbyltinguna og gekk milli bols og höfuðs á öllum þeim liðsmönnum flokksins, sem komist höfðu til valda í ríkiskerfinu, hernum eða flokknum fyrir tilstuðlan þessarar byltingar og setti í stað þeirra svörtustu afturhaldsmenn, sem áður höfði verið flett ofan af og dæmdir fyrir glæpi sína.

Nú erum við vitni að tímabili, sem einkennist af risastórum veggspjöldum gegn Maó Tsetung, sem stuðningsmenn Teng Hsiao-ping skreyta með veggi Peking. Nú er tími hefndarinnar og beinist hún einkum gegn tvennu: í fyrsta lagi að ganga frá "hylli" Maós og þeirri hindrun, sem Húa Kuofeng er og í öðru lagi að gera Teng Hsiaoping að alvaldi og fasískum einræðisherra og endurreisa Líú Sjaósí.

Af þessum baksviðshreyfingum afturhaldsins í Kína eru þeir til þar í landi jafnt og erlendis, sem þykjast sjá líkingu milli baráttu Tengs gegn Maó, sem aldrei var marx-lenínisti, og glæpa Krústévs, sem kastaði skít í Stalín, þann mann, sem var og mun ætíð vera mikill marx-lenínisti. Enginn, sama hve mikill hálfviti hann er, getur fallist á réttmæti slíks samanburðar.

Sá samanburður, sem næst kemst raunveruleikanum er sá, að rétt eins og Brésnef og endurskoðunarklíkan í kringum hann steypti Krústév, er hinn kínverski Brésnef, Teng Sjaóping, nú að velta úr sessi hinum kínverska Krústév, Maó Tsetung, af goðstalli sínum.

Allt það,sem rakið hefur verið, lýsir aðalleik endurskoðunarsinna, valdabaráttu. Þannig hefur það alltaf verið í Kína. Slíkt á alls ekki neitt skylt við marxisma. Það er aðeins verkalýðsstétt Kína og sannur marx-lenínískur flokkur, algerlega hreinsaður af "Hugsun Maó Tsetungs", "hugsun Tengs" og öllum öðrum samskonar andmarxískum, endurskoðunarsinnuðum, borgaralegum hugsunum, sem getur komið réttu lagi á það ástand,sem nú ríkir í Kína. Það eina, sem getur bjargað Kína, eru hugmyndir Marx, Engels, Leníns og Stalíns ásamt sannri öreigabyltingu, sem sækir festu sína og styrk til þessara hugmynda.

Eitt er víst, að sá dagur mun koma, að marxlenínisminn og hin kínverska öreigabylting mun vinna sigur í Kína og óvinir kínversku öreigastéttarinnar, kínversku þjóðarinnar, munu verða sigraðir. Slíkt verður þó ekki án baráttu og blóðsúthellinga, því það mun ekki hafast í fyrstu atrennu, að mynda marx-lenínískan byltingarflokk í Kína. Þann flokk, sem óhjákvæmilega verður að hafa forystu fyrir byltingunni, svo henni megi auðnast að sigra svikarana og koma á sósíalisma.

Þess erum við fullvissir, að bræðraþjóð okkar, Kínverjar, hinir sönnu kínversku byltingarmenn, munu rífa sig lausa frá hugvillum og goðsögnum. Með hjálp réttrar hugmyndafræði mun þeim skiljast,

að í forystu Kommúnistaflokks Kína er enga marx-lenínísku byltingarmenn að finna, heldur einungis fulltrúa borgarastéttarinnar, kapítalismans, sem halda fram stefnu, sem ekkert á skylt við sósíalisma og kommúnisma. En svo fjöldinn jafnt sem þeir, er í eldlínu byltingarinnar standa megi skilja þetta, er nauðsynlegt að allir geri sér ljóst að "Hugsun Maós Tsetung" er ekki marx-lenínismi og Maó Tsetung var aldrei marx-lenínisti. Ennfremur verður það að vera fullkomlega ljóst, að sú gagnrýni, sem við marx-lenínistar höfum í frammi á "Hugsun Maós Tsetung", á ekkert sameiginlegt með þeim árásum, sem klíkan í kringum Teng Sjaóping beinir gegn Maó í valdabaráttu sinni.

Með því að tala opinskátt og hispurslaust um þessi mál, erum við albanskir kommúnistar að gera skyldu okkar til varnar marx-lenínisma, og í anda alþjóðahyggju, erum við um leið að hjálpa kínversku þjóðinni, kínversku byltingarsinnunum á rétta leið í þeim erfiðleikum, sem þeir eiga nú við að etja.

## AÐ VERJA MARXISMANN-LENINISMANN ÆÐSTA SKYLDA ALLRA SANNRA BYLTINGARSINNA

Alþjóðaástandið í dag er stormasamt, kreppan í kapítalísku- og endurskoðunarlöndunum versnar með degi hverjum og ógnanirnar frá árásargjarnri stefnu risaveldanna í garð frelsisog sjálfstæðis þjóðanna og friðarins verður æ meiri. Í þeim tilgangi að eyða sósíalismanum og kæfa byltinguna notar heimsvaldastefnan og nútíma-endurskoðunarstefnan kenningar krústévistanna, títóistanna og evrópukommúnista, sem eru borgaralegar og endurskoðunarsinnaðar, í miklum mæli. Við þessi skilyrði er mikilvægasta verkefni flokks okkar og allra sannra marx-lenínista að verja marx-lenínismann og grundvallarreglur alþjóðahyggju öreiganna, óhvikul byltingarhyggja gagnvart mikilvægustu heimsmálunum.

Réttlát barátta okkar verður að styrkja traust þjóðanna og þeirra róttæku á að byltingin, sósíalisminn og frelsun þjóðanna muni sigra. Flokkur okkar er á réttri leið og mun sigra, vegna þess að byltingarsinnar og þjóðir heimsins standa með honum, því hinn marx-leníníski sannleikur er hans megin.

Marx-lenínistarnir og byltingarsinnarnir um allan heim sjá, að Flokkur Vinnunnar í Albaníu ver marx-lenínismann, þegar aðrir ráðast á hann og hann ver alþjóðahyggju öreiganna, meðan hinir ýmsu endurskoðunarsinnar hafa kastað þessum grundvallarreglum fyrir róða. Þeir sjá, að afstaða

Flokks Vinnunnar í Albaníu er ekki bara að gæta hagsmuna síns eigins lands, heldur einnig að tjá sig um mikilvæga hagsmuni, sem eru sameiginlegir og mikilvægir öllum öreigum. Þetta eru hagsmunir hins sanna sósíalisma, hagsmunir allra þeirra, sem hafa marx-lenínismann sem grundvöll og leiðarljós í byltingarsinnaðri breytingu á heiminum.

Og um leið er það eftirtektarvert, að sú stjórnmálastefna, sem Kína hefur gagnvart bandarísku heimsvaldastefnunni og einnig gagnvart sovésku sósíalheimsvaldastefnunni vekur tortryggni, óánægju og stöðuga gagnrýni allsstaðar, sérstaklega þó í löndum hins s.k. þriðja heims. Þetta er eðlilegt, því heiðarlega fólkið í þessum löndum skilur að stefna Kínverja er röng - að hún er stefna, sem styður heimsvaldastefnuna, sem kúgar það og að margt af því, sem kínversku leiðtogarnir lýsa yfir, er í ósamræmi við gerðir þeirra og veruleikann sjálfan. Fólk sér, að Kína rekur sósíalheimsvaldasinnaða stefnu, sem ógnar hagsmunum þeirra.

Einnig á þessu sviði leggur flokkur okkar fram sinn hógværa skerf. Fólk treystir honum, vegna þess að hann segir satt og sannleikurinn er sprottinn upp úr kenningum Marx og Leníns, sem er framkvæmd í raun í Albaníu. Þróun lands okkar, frelsisstríð þess og félagsleg, fjárhagsleg, pólitísk og andleg skilyrði fyrr á tímum, er sameiginleg þróun margra landa í heiminum, sem þurfa að þola eða hafa orðið að þola grimmdarlega kúgun, sem innlendir og útlendir heimsvaldasinnaðir stjórnendur hafa beitt þau. Sú reynsla, sem flokkur okkar hefur öðlast við valdatöku þjóðarinnar og við stofnun alræðis öreiganna og uppbyggingu sósíalismans, gefur raunverulegt fordæmi og er þessu fólki hjálp. Þeir sigrar og framfarir, sem við höfuð öðlast í Sósíalíska Alþýðulýðveldinu Albaníu, eru grundvallaðir á marx-lenínismanum, sem Flokkur Vinnunnar í Albaníu glæðist af og notar í reyndinni.

Ef litið er framhjá handbendum heimsvaldasinn-

anna og erkiafturhaldinu, þá er enginn, sem í rauninni ver þessa kenningu Kínverjanna - sem farin er á hausinn - um "þrjá heima". Þessi stjórnmálastefna, sem felur í sér sameiningu Kínverjanna og bandarísku heimsvaldastefnunnar, blæs nýju lífi í drauga heimsvaldastyrjaldanna, sem enginn vill sjá, gerir hið óþolandi nýlendu og ný-nýlendumyrkur enn svartara og styður kapítalíska arðránið, sem við viljum öll vera laus við.

Flokkur Vinnunnar í Albaníu hefur barist og mun alltaf berjast ákveðið til varnar hreinleika marxísku-lenínísku hugmyndanna. Hann er og mun alltaf vera á móti öllum þeim, sem nota alla krafta sína til að snúa útúr kenningum þessum og taka í stað þeirra upp borgaralegar, endurskoðunarsinnaðar og andbyltingarsinnaðar hugmyndir. Flokkur okkar er öreigasinnaður flokkur, marx-lenínískur flokkur, sem tekur virkan þátt í heimsbyltingunni og er tilbúinn til hverskyns fórna í þágu sigurs hennar, eins og hann hefur gert hingaðtil. Það er ekki til það afl, sem getur fengið flokk okkar til að breyta stefnu sinni, sem er alþjóðleg og heiðarleg. Ekkert afl getur hrætt hann eða knésett hann. Flokkur okkar getur ekki haft samvinnu um hentistefnu af neinu tagi eða um neinskonar frávik eða útúrsnúninga á marxlenínismanum. Hann mun einnig berjast gegn kínversku endurskoðunarstefnunni með sömu festu og hann berst gegn hvaða mynd endurskoðunarstefnunnar sem er.

Flokkur okkar er marx-lenínískur flokkur og af því megum við aldrei hika við að segja sannleikann hreinskilnislega. Eins og land okkar, er flokkur okkar einnig lítill að höfðatölu, en hann er flokkur, sem herst hefur í mörgum styrjöldum. Hann hefur alltaf haft kjark til að segja skoðun sína í þeim tilgangi að verja hreinleika marxlenínismans, byltinguna og sósíalismann. Staðreyndir sýna, að baráttan, sem við heyjum gegn kínversku endurskoðunarstefnunni er rétt og nauðsynleg og að það er þessvegna, sem hún hefur fylgi

og er studd af sönnum marx-lenínistum og byltingarsinnum.

Sannur byltingarflokkur sem þessi, stendur við grundvallarskoðanir sínar hvenær sem er. Við stöndum óhræddir og teljum það vera dyggð, þó aðrir telji það vera hroka. Flokkurinn hefur ekki menntað meðlimi sína til þess að þeir verði hrokafullir, en hann hefur kennt þeim að vera ævinlega ákveðnir, réttlátir og harðir gegn stéttaróvininum. Í þeim málum er ekki pláss fyrir umræður um, hvort flokkurinn sé stór eða lítill.

Kommúnistarnir, hinir sönnu byltingarmenn og marx-lenínistar verða að skilja þróun atburðarásarinnar í heiminum í dag til fullnustu. Þróunin fer ekki eftir fyrirfram ákveðnum brautum. Einungis með því að læra, skilja og tileinka sér kenningar Marx, Engels, Leníns og Stalíns, reynslu öreiga heimsins í byltingarbaráttunni og reynsluna, sem hinir raunverulegu marx-lenínísku flokkar hafa, er hægt að skilja þessa þróun atburðanna og leggja sitt af mörkum til byltingarinnar.

Við, albanskir kommúnistar, verðum að skilja að það er nauðsynlegt að tileinka sér marx-lenínismann. Við megum aldrei vanmeta þá staðreynd að við erum umkringdir af kapítalistum og endurskoðunarsinnum og þeim þrýstingi, sem við verðum fyrir frá þeim. Við megum ekki verða kjánalega sjálfsöruggir í mati okkar á þessum vandamálum eða verða hrokafullir í því stríði, sem við verðum að heyja gegn þeim óvinum, sem eru umhverfis okkur.

Byltingin hefur rekist á og rekst enn á hindranir á leið sinni. Þær verður að sprengja burt. Sumar hindranir verður að sprengja burt strax, undan öðrum verður að grafa og enn aðrar verður að umkringja, áður en þær fá náðarstunguna. Þetta er það sem kallað er að skilja stríðslist og baráttuaðferð byltingarinnar. Til að sannfæra fólk um að byltingin muni sigra, er nauðsynlegt að skipuleggja alþýðuna og glæða meðvitund öreiganna um hve óskeikul forysta sannur marx-lenínískur flokkur er,

því annars er hætta á að maður lendi í vandræðum og komi málstað byltingarinnar í klandur. Kommúnistarnir og kúguð alþýðan verður að skilja, að heimsvaldastefnan og heimskapítalisminn hafa mikla reynslu í því að kúga alþýðuna og skipuleggja gagnbyltingar. Þess vegna verðum við að skilja aðferðir og stjórnlist óvinarins og geta staðist þær, jafnvel þó hugmyndafræði okkar, stjórnlist og baráttuaðferðir séu voldugri en nokkur óvinur, vegna þess að þær þjóna réttlætinu - Kommúnismanum.

Hvað varðar flokk okkar eins og alla marx-lenínínska flokka í heiminum, þá verður hann að leggja mesta áherslu á baráttuna gegn kínversku endurskoðunarstefnunni. Þetta er mikilvægt, en það þýðir þó ekki að við leyfum okkur að gleyma sovésku endurskoðunarstefnunni, títóísku endurskoðunarstefnunni eða evrópukommúnismanum, sem eru mjög hættuleg afbrigði af nútíma endurskoðunarsterfnu. Þrátt fyrir mismuninn í baráttuaðferðum þeirra, eru allir þessir andmarxísku straumar á leið í sömu átt, þeir hafa sama takmark og berjast fyrir sama málstað, hvað varðar baráttuaðferðir og stjórnlist þeirra.

Vegna alls þessa, megum við aldrei missa sjónar á þeirri baráttu, sem verður að heyja gegn bandarísku heimsvaldastefnunni og allri afturhaldssömu kapítalísku borgarastéttinni í heiminum, en einnig gegn sovésku endurskoðunarstefnunni, júgóslavnesku endurskoðunarstefnunni, kínversku endurskoðunarstefnunni o.fl. Þrátt fyrir mismuninn á þessum stefnum, sameinast allir þessir óvinir í sambandi við einn hlut - baráttuna gegn byltingunni, gegn marx-lenínísku flokkunum og einingu þeirra, gegn almennri skipulagningu öreiganna og gegn því, að hin vinnandi alþýða rísi undan okinu.

Baráttan gegn nútíma endurskoðunarstefnu og sérstaklega gegn sovésku, títóísku og kínversku endurskoðunarstefnunni, er ekki auðvelt verkefni. Þvert á móti - þessi barátta er erfið og mun taka langan tíma. Til að hægt verði að ná góðum árangri í henni, til að sigur verði mögulegur, verða

kommúnistar, ríkisstarfsmenn, menntamenn og vinnandi alþýða í landi okkar að tendrast af hugmyndafræði Marx, Engels, Leníns og Stalíns og kynna sér auðuga reynslu flokks okkar í baráttunni gegn nútíma endurskoðunarstefnu. Aðeins á þennan hátt getum við sigrast á erfiðleikunum, án þess að rispa okkur á þyrnunum í þessum stóra fjandsamlega skógi.

Flokkur Vinnunnar í Albaníu verður, eins og hann hefur alltaf gert, að hafa ljósa, ákveðna og djarfa afstöðu samkvæmt réttri marx-lenínískri stefnu. Þessi stefna flokks okkar, með ákveðnum markmiðum sínum, mun leggja sitt af mörkum til að fletta ofanaf bandarísku heimsvaldastefnunni jafnt og kínversku heimsvaldastefnunni og sovésku heimsvaldastefnunni og til þess að heyja vægðarlausa baráttu gegn þeim.

Verkefni Flokks okkar og allra sannra kommúnista í heiminum er að verja af einlægni marx-lenínísku kenningu okkar og hreinsa hana af öllum rangfærslum, sem borgarastéttin, nútíma endurskoðunarsinnarnir og allir hentistefnumenn og svikarar hafa beitt hana.

Marx-lenínisminn er sú hugmyndafræði, sem mun sigra. Sá, sem ver hana og þróar, er hluti af heiðruðum her byltingarinnar - þessum ekta, voldugа og ósigrandi her kommúnistanna, sem mun leiða öreigana og alla kúgaða í baráttunni fyrir breyttum heimi, baráttunni til eyðingar kapítalismanum og til að byggja nýjan heim: heim sósíalismans.

---

EFNISYFIRLIT

bls.:
FORMÁLI AÐ FYRSTU ÚTGÁFUNNI..................... 3

ATHUGASEMD VIÐ AÐRA ÚTGÁFU...................... 6

Fyrri hluti

I

STJÓRNLIST HEIMSVALDASTEFNUNNAR OG
NÚTÍMA ENDURSKOÐUNARSTEFNU..................... 7
- Stjórnlist heimsvaldastefnunnar......... 16
- Stjórnlist sovésku
sósíalheimsvaldastefnunnar............... 24
- Stjórnlist kínversku
sósíalheimsvaldastefnunnar............... 28
- Hlutverk títóismans og annarra endur-
skoðunarsinnaðra stefna í alheims-
stjórnlist heimsvaldastefnunnar og
sósíalheimsvaldastefnunnar............... 37
- Byltingin - eina vopnið til að sigrast á
stjórnlist óvina öreiganna og alþýðunnar 47

II

LENINISKA FRÆÐIKENNINGIN UM HEIMSVALDASTEFN-
UNA HELDUR FULLU GILDI......................... 51

III

BYLTINGIN OG ÞJÓÐIRNAR........................ 104
- Við verðum að verja og beita marx-lenínísku fræðikenningunni um byltinguna..... 107
- Frelsisbarátta þjóðanna - snar þáttur í heimsbyltingunni.......................... 125
- Sannir byltingarsinnar hvetja öreigana og þjóðirnar til baráttu fyrir nýjum heimi, sósíalískum heimi................ 150

Síðari hluti

I

KENNINGIN UM "HEIMANA ÞRJÁ"
- GAGNBYLTINGARSINNUÐ ÞJÓÐREMBINGSKENNING.... 178
- Hugmyndin um "heimana þrjá" - afneitun marx-lenínismans......................... 179
- Afstaða kínversku endurskoðunarsinnanna til móthverfa er byggð á hughyggju, endurskoðunarstefnu og uppgjafarstefnu..... 196
- Kínverska afstaðan til einingar "þriðja heimsins"er afturhaldssöm................ 223
- Kínverska kenningin um "þriðja heiminn" og júgóslavneska kenningin um "óháða heiminn" grafa undan byltingarbaráttu alþýðunnar............................... 231

II

ÁÆTLUN KÍNA UM AÐ VERÐA RISAVELDI............ 243

III

"HUGSUN MAOS TSETUNG" - AND-MARXÍSK KENNING.. 274

AÐ VERJA MARXISMANN-LENINISMANN
- ÆÐSTA SKYLDA ALLRA SANNRA BYLTINGARSINNA... 325

Heimsvaldastefnan og **BYLTINGIN** eftir Enver Hoxha, leiðtoga Flokks Vinnunnar í Albaníu, var fyrst gefin út innan flokksins í apríl 1978, en opinberlega í desember sama ár.

Þetta er marx-lenínísk skilgreining á þróun heimsmála frá lokum seinni heimsstyrjaldar og fram á okkar daga, en sérstök áhersla er lögð á að afhjúpa kínversku kenningarnar um "Heimana þrjá".



Enver Hoxha er fæddur 16.október 1908. Hann hefur verið leiðtogi Flokks Vinnunnar í Albaníu frá árinu 1941 og er nátengdur baráttu þjóðarinnar fyrir þjóðfrelsi, uppbyggingu sósíalismans og baráttu gegn yfirgangi stórveldanna. Hann hefur skrifað um stjórnmál og nú á seinni árum hefur hann skrifað um sérstaka sögulega atburði, persónur og stefnur, svo sem kynni sín af Stalín, dagbækur um samskiptin við Kínverja, Evrópukommúnismann, um valdatöku krústévistanna í Sovétríkjunum og öðrum A-Evrópuríkjum, títóistana, afskipti Bretlands og Bandaríkjanna af Albaníu á stríðsárunum o.s.frv.

Allar þessar bækur má fá hjá MAI, ýmist á norðurlandamálum eða ensku.

Útgefandi: Menningartengsl Albaníu og Íslands, MAÍ.